Verð: 60 aur.

Íslendinga sögur.

14.

# Ljósvetninga saga.

Búið hefir til prentunar

**Valdimar Ásmundarson.**

Reykjavík.

Kostnaðarmaður: Sigurður Kristjánsson.

1896.

# LJÓSVETNINGA SAGA.

---

BÚIÐ HEFIR TIL PRENTUNAR
VALD. ÁSMUNDARSON.



REYKJAVÍK.
KOSTNAÐARMAÐUR: *SIGURÐUR KRISTJÁNSSON.*
1896.

# FORMÁLI.

Ljósvetninga saga er hér út gefin eftir útgáfu Bókmentafélagsins í „Íslendingasögum“, Khöfn 1880. Enn þá útgáfu hefir Guðmundr Þorláksson búið til prentunar eftir ýmsum handritum í safni Árna Magnússonar. Af skinnhandritum sögunnar eru að eins til tvö brot, enn pappírshandrit eru mörg og sagan mjög aflöguð í þeim. Þessi skinnhandritabrot eru talin annað frá lokum 14. aldar, enn hitt frá 15. öld.

Annað þetta skinnhandritabrot er prentað hér aftan við söguna, og virðist meðferð sögunnar þar einna fornlegust.

Ekki hefir samt tekizt að ná sögunni heilli, því niðrlagið vantar. Það niðrlag, sem hér er haft á sögunni, er búið til af Dr. Hallgrími Scheving, og sömuleiðis nokkrar línur í 5. kap., sem hvorttveggja er hér prentað með skáletri, og er því ekki reiður á þessu að henda í sögulegu tilliti.

Gizkað er á að Ljósvetninga saga sé færð í letr á 12. öld, og er hún þannig með hinum elztu sögum.

# TÍMATAL.

| | | |
|---|---|---|
| Deilur Þorgeirs goða og sona hans | um | 990—994. |
| Kvánfang Sörla Brodd-Helgasonar | — | 1000. |
| Heimsóknir Guðmundar ríka og Ófeigs | um | 1001—1002. |
| Deilur Guðmundar ríka og Krossvíkinga | — | 1002—1004. |
| Bardagi á Ljósvetningaleið | — | 1008. |
| Deilur Þóris Helgasonar og Guðmundar ríka | — | 1014. |
| Víg Þorkels háks | — | 1015. |
| Dauði Guðmundar ríka | | 1025. |
| Víg Koðráns og deilur Eyfirðinga og Ljósvetninga | — | 1050—1060. |
| Víg Halls Ótryggssonar | | 1065. |



# Ljósvetninga saga.

Þorgeirr goði bjó at Ljósavatni, höfðingi mikill. Forni hét maðr, er bjó í Haga í Reykjadal, góðr bóndi. Þá bjó Arnórr í Reykjahlíð, faðir Þorfinns, kappi mikill. Þeir váru þingmenn ok vinir Þorgeirs goða. Þat er ok sagt, at þeir Þorfinnr ok Grettir fundust, ok réð þar hvárrgi á annan, ok má á því marka, hvílíkr kappi Þorfinnr var. — Í þann tíma bjó Ófeigr Járngerðarson í Skörðum, höfðingi mikill ok garpr. Ölvér hét maðr, er bjó at Reykjum, búandi góðr. Þeir bræðr Sölmundr, Eyjólfr ok Söxólfr bjoggu at Gnúpum, Viðars synir, garpar miklir ok ójafnaðarmenn, ok bjoggu fyrir austan ána í dalnum, ok váru óeirðarmenn miklir um kvennafar, ok höfðu því svá mikinn yfirgang, at fáir treystust at ganga í móti þeira vilja. Ærit váru þeir frægir, ok þó at illu.

Sölmundr var fyrir þeim. Hann venr kvámur sínar til Ölvés at hitta dóttur hans, ok í mót vilja frænda hennar, ok fekst þó engi forstaða af lítilmensku föður hennar. Þat er at segja, at Ófeigr átti för inn í herað, ok hitti Ölvér hann ok bað at hann kæmi þar, er hann færi heim aftr, ok sagði honum ósæmd þeira Viðarssona. Ófeigr mælti: „Illa mun sjatna ofsi þeira bræðra, enn koma mun ek hér, er ek fer heim". Ölvér þakkar Ófeigi góð orð. Ölvér hafði átján þræla. Ófeigr kom þar um kveldit. — Nú er at segja frá þeim Viðarssonum, at þeir fara heiman til Ölvés. Þá mælti Sölmundr: „Þit bræðr skuluð standa í dyrum ok horfa út, ok vætti ek at rýr verði þræla ættin fyrir oss". Sölmundr sótti inn eftir konunni ok hafði hana á brott. Þá mæltu þrælarnir: „Hvat gerðu vér nú átján, er þeir Viðarssynir kómu at þrír"? Enn Ófeigr spratt upp ok tók vápn sín ok gekk út eftir þeim, ok váru þeir þá komnir at túngarðinum. Ok í því er Sölmundr vill taka við henni ok hefja út af garðinum, kom Ófeigr at ok grípr til hennar, ok kippir henni inn af garðinum. „Hvar til ætlar þú, Sölmundr", segir Ófeigr, „um þína ósæmd, er þú gerir eftir bóndadætrum, ok máttu svá til ætla, at menn munu eigi þola þér - ok sæk hana nú þangat í Skörð, ok reynum við með okkr". Sölmundr mælti: „Ekki munu

vit þetta til þrautar leggja". Ok skildust at því, at þeir fóru í brott; ok tókst svá af fíflingar ok ósæmd af tilkvámu Ófeigs. Sat Ölvér í friði síðan.

Litlu síðar kom Hallvarðr út Arnórsson í Húsavík. Sigurðr hét maðr, er skip átti með honum, norrænn maðr. Þeir austmennirnir vistuðust þar um vetrinn, ok var Sigurðr með Forna í Haga. Hann seldi varning sinn um vetrinn, ok sagði Forni hvar skuldarstaðir váru beztir. Austmaðr fór; ok bar svá til, at hann fór fyrir neðan garðinn at Sölmundar, ok lá hestr hans í keldu. Sölmundr sá þat, ok fór til ok bauð honum til sín ok tók við honum vel, ok falaði varning at honum ok hét verði fyrir. Austmaðr fór heim, ok sagði Forna at hann hafði selt Sölmundi varninginn; enn Forni lét illa yfir, ok sagði at hann mundi illa gjalda. Var nú kyrt um vetrinn. Um várit fór austmaðrinn at heimta varnings-verðit, enn Sölmundr svaraði illa ok kvað fúinn vera varninginn, ok vildi ekki gjalda. Austmaðrinn fór heim; enn bráðlega eftir þat fóru þeir stefnuför til Sölmundar, Forni ok Arnórr. Þeir váru fimtán saman. Þeir bræðr váru þrír heima, ok hlýddu til um hríð. Síðan mælti Sölmundr, at einsætt væri at þola slíkt eigi; ok þá hljóp Söxólfr til ok þreif spjót sitt, ok skaut til austmannsins; ok fekk hann þegar bana. Þeir fóru

við þat í brott. Arnórr flutti hann upp í Reykjahlíð. Þeir bjoggu málit til þings. Þeir fóru nú á þingit, ok var leitat um sættir, ok kom þar, at Söxólfr skyldi utan fara ok koma eigi út, enn Sölmundr vera utan þrjá vetr. Ok fóru þeir utan. Sölmundr lagðist í víking, ok þeir bræðr.

2. Í þann tíma var Hákon jarl yfir Noregi; ok fór Sölmundr til hans, þá er honum leiddist í víkingu at vera, ok mat jarl hann mikils. Hann fýstist út um sumarit, enn jarl kvað þat óráðlegt, slíkt sem hann átti hér um at vera. — Hann hafði þá verit tvá vetr í Noregi. — Jarl kvaðst fyrr mundu senda út skip ok gripi, ok hlynna fyrir honum. Hann sendi út hatt girzkan ok taparöxi þeim Guðmundi ok Þorgeiri goða til traustz. Ok eftir þat fór hann út, ok hittir þá ok sagði þeim vingan jarls ok orð, enn afhendi þeim gjafirnar ok gripi þá, sem jarl hafði sent þeim. Þeir tóku við honum, ok váru honum fengnir fjórir menn til fylgdar. — Þorgeirr mælti til Sölmundar: „Guðmundi vartu sendr, því at hann er handgenginn“. Guðmundr mælti: „Þér váru gripirnir sendir, ok sæki hann at þitt traust; enn ef þú vill eigi þat, þá verum allir samt ok veitumst at málum þessum“. Þorgeirr svarar: „Ek er vant við kominn, er þingmenn mínir eigu í hlut; enn þó mun ek at styðja“, segir Þorgeirr, „enn þú ver fyrir

málinu". Guðmundr mælti: „Eigi kann ek í móti því at mæla, er þú hefir lögin í þínu valdi". Þorgeirr mælti: „Sé ek ráðit til — at koma honum á þrjár leiðir, Eyfirðinga-leið ok Reykdæla-leið ok Ljósvetningaleið, ok höldum saman leiðir allar, þó at norðr sé meir mínir þingmenn, ok mun þá maðrinn vera friðhelgaðr, ef svá gengr".

Þorgeirr átti fjóra sonu, Tjörva, Höskuld, Finna ok Þorkel. Þorfinnr var þá utan, ór Reykjahlíð; enn Arnórr faðir hans hittir Þorgeir, ok biðr hann veita sonum sínum. Þorgeirr svarar: „Eigi mun ek Guðmundi í móti vera". Arnórr mælti: „Eigi veit ek, hvat í slíku er fólgit — ok gakk þú eigi í móti sonum þínum, er málinu vilja fylgja". Þorgeirr svarar: „Mér þykkir þú ilt ráð hafa upp tekit, at leggja sæmd sína í virðing við eins manns mál útlends, ok sé sá þó látinn nú — ok mun ek Guðmundi veita". Arnórr mælti: „Kynleg veizla, ok at illu mun verða". — Arnórr ríðr á Vagla; þar bjó Höskuldr Þorgeirsson. Hann hittir þá bræðr ok segir, hver efni hann ætlar í vera um samband þeira höfðingjanna. „Þat þykkir mér ráð", sagði hann, „at þér bræðr hittið Þórð föðurbróður yðvarn, vitran mann ok yðr vel viljaðan", — ok svá gera þeir. Nú líðr á sumarit, ok setja til njósnir í lið þeira höfðingjanna, ok verða þess varir, at þeir ætla

at koma manninum á þrjár leiðir, svá at þeir mætti eigi vita. Guðmundr ok Þorgeirr ætla nú at fjölmenna. Þeir bræðr samna nú liði; ok er þeir eiga skamt til leiðmótsins, þá segir Finni Þorgeirsson, at þeir munu ríða í móti liði þeira höfðingjanna. Ok svá gera þeir, ok stíga af baki hestum sínum hjá sauðahúsinu, ok láta hesta sína á húsbaki; enn þeir ganga inn í húsit. Svá var háttat húsinu, at tvau váru vindaugu á hlöðunni, enn vegr þeira Guðmundar lá fyrir dyrnar. Nú berr þá at brátt. Finni Þorgeirsson var maðr skygn — „þat ræð ek, ef yðr er hugr á at banna Sölmundi leiðina, þá missið eigi klyfjahestsins, er milli þeira höfðingjanna er rekinn fram“. Höskuldr mælti: „Ek skal þat annast“. Ok er þá berr þar fyrir dyrnar, þá skýtr Höskuldr spjóti ok keyrði fyrir brjóst Sölmundi, þar sem þeir fóru með hann. Enn þeir bræðr hlupu út ór húsinu ok til hesta sinna, ok ríða til liðs síns. Enn þeir Guðmundr ok Þorgeirr bregða við skjótt, þegar er þeir vissu, hverir at ollu, ok ríða eftir þeim. Ok þegar er þeir finnast, þá slær þar í bardaga með þeim. Þar fellr Arnórr ór Hlíð af liði þeira Þorgeirssona; þar fell ok húskarl Guðmundar ok einn maðr af þeim bræðrum; ok ná þeir Guðmundr nú eigi leiðinni. Þórðr bróðir Þorgeirs gekk þar mest í millum manna, ok kvað Þorgeiri mjök missýnast, er hann gekk í

mót sonum sínum í orrostu. Þeir skilja nú at sinni.

3. Eftir fundinn var Þorgeiri sagt, at Höskuldr son hans var sárr mjök, ok báðu menn hann skiljast við mál þessi ok vera eigi á móti sonum sínum. — Þorgeirr mælti til Guðmundar, at ilt hlyti af málum þessum — „ok mun ek við skiljast“, segir Þorgeirr; ok svá gerir hann. Guðmundr segir: „Þat er nú ráð, at við safnim saman liði okkru“. „Ekki mun nú af því verða“, segir Þorgeirr; ok nú ferr hann heim. — Enn frá Höskuldi er þat at segja, at hann var ekki sárr; enn höfðu þetta því til bragðs tekit, at þeir vildu at Þorgeirr skildit við sem var. Enn þeir bræðr váru allir saman, ok óhelguðu Sölmund; þeir lögðu nú í fjandskap við Guðmund, sem lengi helzt síðan. — Þeir bræðr sátu nú einir yfir sæmdum, ok áttu fund um várit ok bundu þat saman, at skiljast eigi við málit, ok búa til vígsmálit eftir Arnór ok fjörráð við sik. Guðmundr átti annan fund við sína menn. Þeir bræðr hitta Ófeig, ok báðu hann fara til leiðar til liðveizlu við sik, ok kölluðust réttu at fylgja, þótt þeir hefði þann óhelgat, er fyrstr fór með vélræði, ok kom fyrr út enn mælt var. Ófeigr hafði áðr setit hjá málum þessum, ok latti hann ok kvað ófallit at deila við föður sinn, — „enn mér þykkir enn eigi með öllu ráðit, hvárt hann skilst

við málin eða eigi, ok vilda ek at þú sættist á málin með jafnaði, ok er sá baztr; ok mun ek ríða til með þér“. Höskuldr kveðzt lítit erendi haft hafa á hans fund — „ok ertu kallaðr drengr góðr ok garpr mikill, enn eigi má ek því hæla“. Ófeigr mælti: „Mikit tekr þú af þessu, enn leita mun ek um sættir fyrst með yðr, enn skiljast þó eigi við þik í þraut; enn þat ræð ek, at þér farið vægilega með yðru máli, enn takið eigi fyrr sætt enn vér komum“. — Enn hálfum mánuði fyrir þing reið Tjörvi í Goðdali, fyrir því at hann var þar mægðr, ok þaðan reið hann til þings. Guðmundr hittir Þorgeir ok spyrr um afla þeira sona hans. Þorgeirr kveðst ætla, at þeir munu hafa fjölmenni. „Er þat satt“, segir Guðmundr, „at til sé búit vígsmálit ok Sölmundr óhelgaðr“? Þorgeirr mælti: „Þat er vegr, ok munu vit hafa fjölmenni í móti þeim“. Ok fara nú allir til þings, hverr með sínu liði.

4. Arnsteinn hét maðr, er bjó í Öxarfirði at Ærlæk. Hann átti þriðjung í goðorði við Þorgeir, enn synir hans enn þriðja þriðjung. Kominn var Ófeigr til þings með fimm tigu manna; þeir Tjörvi vestan með hundrað manna, ok váru á þingi nótt eina. Þá gengu þeir á fund Arnsteins, Tjörvi ok Höskuldr, ok kölluðu hann til máls við sik; hann bað þá inni við talast; þeir báðu hann út ganga, ok svá gerði hann.

Þá mælti Höskuldr: „Hér horfist til málaferla, ok horfir mjök í móti með oss frændum; er þér vandi á báðar hendr, ok kalla þeir oss ómæta í kviðinum. Nú höfum vér þriðjung goðorðs, enn faðir várr annan, enn þú ræðr, hvar þú snýr at, ok þeir hafa meira hlut, er þú vill fylgja". Arnsteinn mælti: „Þat er mér vandi mikill; mér er vel við Þorgeir, ok þykki mér þat ráð, at þér leggið á hans vald". Höskuldr mælti: „Ekki standa svá málaefni til". Höskuldr stóð úti fyrir búðardyrunum, enn Tjörvi í búðinni, enn Arnsteinn á milli þeira. Tjörvi mælti: „Engi sæmd er boðin fyrir Arnór vin várn". Höskuldr mælti: „Þat hæfir nú betr, at þú gerir eftir várum vilja, enn þó er nú ekki lengr at draga fyrir þér, — ger sem vér biðjum, eða reyn ella, hvárt öxin bítr". Tjörvi mælti: „Með óhöppum hefir hafizt, ok svá mun slitna. Tak af enn vildra hlut, ok er svá þetta upp hafit, at eigi mun niðr falla". Hann tekr þat ráð, sem þeir vildu, ok skildust at því, ok skyldi hann fara á fund þeira um morgininn eftir. Þeir taka við mönnum hans ok tjalda búð hans, ok ætla til dóma at ganga. Guðmundr mælti til Þorgeirs: „Synir þínir ganga nú fast fram, enn þú eldist, eða hvárt er raunar, at þú vill eigi í móti þeim ganga, ok þeir hafa alt málit undir sér ok dómendr?" Þorgeirr mælti: „Alt mun koma fyrir eitt, bjarg-

at mun málinu verða at lögum". Guðmundr mælti: „Þat er nú sem tekst til við þá, sem um er at eiga, ef þeir koma til alþingis; þar munu þeir fram koma, þó at eigi komi þeir hér fram, eða hafi eigi til fjölmenni". Síðan mælti Höskuldr: „Hví seti þér eigi dómendr niðr?" „Þat má vera", sagði Tjörvi, „at þeir sé aflaminni, enn þeir ætluðu". Höskuldr mælti: „Ilt er þat, ef föður minn þrýtr drengskapinn — ok göngum nú at þeim Guðmundi". Ófeigr mælti: „Eigi hæfir þat, leitum heldr um sættir. Enn ef þetta kemr til alþingis, munu eigur yðrar upp ganga hér til; megi þér þá eigi haldast í öðrum kostum enn sættast — ok geri Þorgeirr um mál þessi". Höskuldr mælti: „Eigi mun þat, ef nökkurr er annarr til". Ófeigr svarar: „Sættast munu vér Þorgeirr, þó at Guðmundr vili eigi sættast, því at þeir eru enn afla-miklir". Þeir kváðust fúsastir bræðr, at þeir reyndi með sér; enn Höskuldr kvaðst mundu bera kviðinn í móti þeim at öðrum kosti — „ok mun þá fram ganga". Ófeigr mælti: „Lítit ráð, ok er ilt at gera þingsafglöpun". „Þorgeirr setr eigi niðr dómendr sína, ok má stefna honum af goðorði sínu", segir Höskuldr. Ófeigr mælti: „Hverr mun þat gera? — þar sé ek eigi mann til". Höskuldr mælti: „Ek skal stefna honum af goðorðinu". Ófeigr mælti: „Þá mun atgangr takast". Höskuldr mælti: „Vér skul-

um rjóða oss í goðablóði at fornum sið" — ok hjó hrút einn, ok kallaði sér goðorð Arnsteins ok rauð hendrnar í blóði hrútsins. Arnsteinn nefndi sér vátta, enn vildi eigi nefna sér dóma, því at hann vildi eigi berr verða í málum þessum. Síðan gekk Höskuldr í þingbrekku, ok stefndi Þorgeiri af goðorðinu, ok nefndi vátta þar at, ok síðan dóma. Þeir áttu þá þing í Fjósatungu út frá Illugastöðum, því at þeir kómu eigi fram á várþingi; ok riðu ofan á þingit at finna Þorgeir, ok létu standa dóminn á meðan; ok horfðist þá til atgöngu. Ok þá gekk at með fjölmenni Snorri Hlíðarmannagoði ok mælti: „Óvæns efnis horfist hér til; nú eru tveir kostir fyrir hendi — at láta þá Höskuld dæma mál sín, ok kann vera at þeir komi því fram með sínum afla, at Þorgeirr missi goðorðsins; hinn er annarr — at sættast, ok eru vér þess fúsari, því at með kappi váru málin upp tekin, ok kann vera at þeim aukist vandræðin; er þat nú einráðit at sættast". Ok var nú þat ráð tekit, ok gerðu þeir þat mest fyrir bænastað vina ok frænda, ok váru handsöluð mál í dóm ok menn til gerðar nefndir. Höfðu þeir Höskuldr virðingarhlut af málum þessum. Sölmundr fell óheilagr. Mikil váru fégjöld eftir Arnór, ok þó eigi ákveðin. — Arnsteinn fekk eigi aftr goðorð sitt.

5. Þat er sagt, at Guðmundr enn ríki var

mjök fyrir öðrum mönnum um rausn. Hann hafði hundrað hjóna ok hundrað kúa. Þat var ok siðr hans, at láta löngum vera með sér göfugra manna sonu, ok setti þá svá ágætlega, at þeir skyldi öngvan hlut eiga at iðja, enn vera ávalt í samsæti með honum; enn þat var þó þá siðr þeira, er þeir váru heima, at þeir unnu, þó at þeir væri af göfgum ættum. — Þá bjó Einarr at Þverá. — Þat var eitt sumar, at af þingi fór með Guðmundi Sörli, sonr brodd-Helga, enn siðmannlegasti maðr, ok var með honum í góðu yfirlæti. Þá var heima þar með Guðmundi Þórdís dóttir hans, er þá þótti vera enn bezti kostr, ok þat var mál manna, at tal þeira Sörla bæri saman oft; kom þat fyrir Guðmund ok kvaðst hann ætla, at eigi þyrfti orð á því at gera. Enn þá er hann fann at eigi varð við sét, lagði hann þó aldri eitt orð í við Sörla, enn lét fylgja ofan til Þverár Þórdísi til Einars. Þat varð enn svá, at þangat bar kvámur Sörla. Ok einn dag, er Þórdís gekk út til lérefta sinna, var sólskin ok sunnanvindr ok veðr gott; þá getr hon at líta at maðr reið í garðinn, mikill. Hon mælti, er hon kendi manninn: „Nú er mikit um sólskin ok sunnanvind — ok ríðr Sörli í garð“. Þetta bar saman. Ok líða nú fram stundir; ok fór svá fram til þings um sumarit, ok ætlaði Sörli aftr til frænda sinna. Ok á þinginu gekk hann einn dag til

Einars Þveræings ok heimti hann á tal við sik, ok segir svá: „Ek vilda hafa liðsinni þitt til at vekja bónorð við Guðmund bróður þinn til Þórdísar dóttur hans“. „Ek skal þat gera“, segir Einarr, „enn oft virðir Guðmundr annarra manna orð eigi minna enn mín“. Síðan gekk hann til búðar Guðmundar, ok hittust þeir bræðr ok settust á tal. Þá mælti Einarr: „Hversu virðist þér Sörli?“ Guðmundr mælti: „Vel, því at slíkir menn eru vel mannaðir fyrir hvervetna sakir“. Einarr mælti: „Hversu er þá? eigi skortir hann ættina góða ok mannvirðing ok auð fjár“? „Satt er þat“, segir Guðmundr. Einarr mælti: „Koma mun ek orðum þeim, er Sörli lagði fyrir mik, sem er, at biðja Þórdísar dóttur þinnar“. Hann svarar: „Ek ætla þat fyrir margs sakir vel fallit, enn þó fyrir orðs sakir annarra manna, er á hefir leikit, mun eigi af því verða“. Síðan hittir Einarr Sörla, ok segir honum at fast var fyrir, ok þat með, hvat til var fundit, er við bar. Hann svarar: „Heldr þykki mér þunglega horfa svá búit“.

Þá mælti Einarr: „Nú mun ek leggja ráð fyrir þik. Maðr heitir Þórarinn tóki Nefjólfsson, vitr maðr; hann er vinr mikill Guðmundar; far þú á fund hans ok bið hann at leggja ráð á með þér“. Ok svá gerði Sörli; kom norðr á fund Þórarins, heimti hann á tal við

sik, ok mælti: „Sá hlutr er um at væla, er mér þykkir miklu máli skifta, at þú vildir í ráðast at fara með orðum mínum til Guðmundar Eyjólfssonar, ok biðja Þórdísar dóttur hans mér til handa“. Hann svarar: „Hví leitar þú þessa við mik“? Hann segir honum þá hvar komit er, at menn hafa til orðit at tala um, enn eigi lágu svörin laus fyrir. Þórarinn mælti: „Þat ræð ek nú, at þú farir heim, enn ek mun forvitnast, ok senda þér orð, ef nökkut vinnst, því at ek sé at þér þykkir þetta miklu varða“. Hann lét sér þat vel líka. Síðan skildu þeir. Fór Þórarinn á fund Guðmundar, ok fekk hann þar góðar viðtökur: síðan gengu þeir á tal. Þá mælti Þórarinn: „Hvárt er svá, sem komit er fyrir mik, at Sörli brodd-Helgason hafi beðit Þórdísar dóttur þinnar“? „Satt er þat“, segir Guðmundr. Þórarinn mælti: „Hverju léztu svarat verða“? „Eigi sýndist mér þat“, kvað hann. „Hvat kom til þess, hefir hann eigi ættina til, eða er hann eigi svá vel mannaðr sem þú vilt“? Guðmundr mælti: „Eigi skortir hann þá hluti, ok gengr þat meir til, at ek vil eigi gefa honum Þórdísi, er orð hefir áðr á leikit um hag þeira“. Þórarinn mælti: „Einskis er þat vert; annat berr til, at þú ant honum eigi ráðsins, ok veit ek þat, þóttu látir á þessu brjóta“. Guðmundr mælti: „Eigi er þat satt“. Þórarinn mælti: „Eigi muntu mega leynast

fyrir mér, ok veit ek hvat í býr skapinu". Guðmundr mælti: „Eigi kann ek nú hlut í at eiga, ef þú veizt þetta gerr enn ek". Þórarinn mælti: „Far þú svá með þá". Guðmundr mælti: „Forvitni er mér á, hvat þú ætlar mér í skapi búa". Þórarinn mælti: „Eigi mundir þú mik til spara at kveða þat upp, er þér þykkir". Guðmundr mælti: „Þar er nú komit, at ek ætla, at ek vili þat". Þórarinn mælti: „Svá skal ok vera — því viltu eigi, at þú sér fyrir landsbygðinni, at eigi verði sá maðrinn fæddr, at hann sé dótturson þinn, er maðrinn ert ríkastr, ok ætlar þú, at landsbygðin megi eigi bera ríki þess manns hér á landi, er svá göfugra manna er". Guðmundr mælti ok brosti at: „Hví munu vér nú eigi gera þetta þá at álitamálum"? — Síðan váru Sörla orð send; ok kom hann til mála þessa, ok gekk at eiga Þórdísi. Þau áttu tvá sonu, Einarr ok Brodda, ok váru hvárirtveggju ágætir menn. — Nú er því frá þessu sagt, at Guðmundi þótti gott lofit, enn hinn sýndi eftirleitun vitrlega ok gat nærri skapi mannsins. — *Þau Sörli áttu tvá sonu, Einar ok Brodda, ok eina dóttur er Guðríðr hét; hana átti Kolbeinn Flosason lögmaðr.* — Dætr þrjár átti Kolbeinn ok Guðríðr. Eina dóttur Guðrúnu átti Sæmundr enn fróði, ok tvær dætr hans áttu tveir bræðr Sæmundar. — Kol-

beinn Flosason var grafinn í Fljótshverfi, enn hon færði hann til Rauðalækjar.

6. Í þann tíma er Guðmundr enn ríki bjó á Möðruvöllum í Eyjafirði, þá bjó á Þverá Einarr bróðir hans. Guðmundr var bæði ríkr ok fjölmennr; hann var því vanr, at fara norðr um heruð á várit, ok hitta þingmenn sína ok ræða um heraðsstjórn, ok skipa málum með mönnum; ok stóð þeim af því hallæri mikit, enn höfðu lítt áðr skipat til búa sinna. Hann reið oft með þrjá tigu manna, ok sat víða sjau nætr ok hafði jafnmarga hesta. — Þorbjörn hét maðr, er bjó at Reykjum í Reykjahverfi; hann var mikill maðr ok sterkr, vinsæll ok auðigr. Þá bjó Ófeigr Járngerðarson í Skörðum. Önundr hét faðir hans . . . . . Hrólfs sonar Helga sonar ens magra. Ófeigr réð mestu áðr norðr þar; hann var vinr þeira bræðra, Guðmundar ok Einars. Eitt haust var fundr fjölmennr í Skörðum at tala um hreppaskil ok ómegðir manna, ok var því skift at lögum; enn hallæri mikit var norðr þangat. Þá mælti Þorbjörn: „Þik kveð ek at þessu, Ófeigr, ok mæli ek fyrir margra hönd, því at mikil er óöld á mönnum norðr hingat; enn þú veizt siðvenju Guðmundar ens ríka, höfðingja várs, at hann ferr norðr hingat á várit, ok sitr í sumum stöðum lengi. Nú kynnim vér því vel, ef hann færi við tíunda mann — enn þetta er oss ofrefli“. Ófeigr

svarar: „Þar sé ek gott ráð til. Guðmundr enn ríki skal sitja hjá mér hálfan mánuð með öllu liði sínu, ok skulu þér færa honum þangat gjafir þær, er þér gefið honum, ok leysa hann þaðan á brott“. Þorbjörn svarar: „Reyndr ertu at stórmensku ok stórlyndi, enn þó viljum vér þenna kost eigi“. Ófeigr svarar: „Þá mun vandast taka, svá at eigi mun öllum vel líka. Nú skulu þér setja inn hesta yðra, einum fátt í þrjá tigu, ok alla feita; þeir skulu allir vera graðir; enn sækið hey til mín, ef þér þurfið“. Þeir kváðust þetta vilja, ok skilja at svá mæltu.

Líðr nú svá, at kemr efsta vika langaföstu. Þá kemr svá, at Ófeigr lætr senda eftir þeim, sem hestana hafa; ok kvámu þeir í Skörð með hestana, ok tekr Ófeigr við þeim vel. Fimtadaginn bað Ófeigr þá leggja söðla á hesta sína, ok svá gerðu þeir. Enn er þeir váru albúnir, var út leiddr hestr Ófeigs ok lagðr á söðull; var hann bæði mikill ok feitr – ok var graðr. Ófeigr stígr á bak honum, ok var maðrinn enn skörulegasti. Þá ríða þeir ór garði; þá mælti Ófeigr: „Þér munuð þykkjast fara mjök at óvísu ráði — enn ek mun sjá ráð fyrir oss“. Þeir játuðu því allir. Þeir ríða upp eftir heraði til Reykjadals, ok svá til Ljósavatns, ok svá til Fnjóskadals, ok svá til Vöðluheiðar, ok kvámu til Þverár um kveldit til Einars. Hann

tók við þeim vel, ok bauð þeim þar at vera fram yfir páska. Ófeigr þakkar honum boðit, enn kvaðst ríða mundu upp á Möðruvöllu á laugardaginn. „Þat vil ek“, sagði Einarr, „at þú komir hér, er þú kemr aftr, ok segir mér tal ykkart Guðmundar bróður míns“. Ófeigr kvaðst svá gera skyldu. — Ríða þeir nú upp á Möðruvöllu á laugardaginn; ok er þeir nálgast bæinn, gekk út húskarl einn ok inn aftr, ok sagði Guðmundi at menn riðu at bænum eigi allfáir. Guðmundr kvað þat enga nýlundu þar í Eyjafirði, þótt menn ríði þar um herað. „Nú er eitt til marks, hvárt þetta eru hér heraðsmenn, at þessir menn munu ríða þar í hlið, sem þeir koma at, enn ef lengra eru at komnir, þá munu þeir ríða í þjóðhlið, ef nökkurir eru merkismenn í förinni“. Húskarl kom inn í annat sinn, ok sagði svá: „Eigi er til efs, at þessir menn ríða at grindhliði, ok ríðr þar fyrir einn maðr í blári kápu“. Ok er þeir kvámu út, mælti Guðmundr: „Vera kann at þeir eigi hingat nökkut erendi Reykdælarnir eða nýtt (mun) um at vera norðr þar, er kappinn þeira er hér kominn Ófeigr“.

7. Guðmundr fagnar vel Ófeigi ok þeim félögum hans, ok býðr þeim þar at vera svá lengi sem þeir vildi. Ófeigr kvað þá þat þiggja mundu — „enn vandhæfi mun þér þykkja á vera at láta geyma hesta várra, því at þeir eru

allir graðir, ok má engi við annan eiga; enn vér erum at þeim vandir mjök, því at þetta eru stóðhestar várir töðu-aldir“. Guðmundr kvaðst ætla, at húskörlum mundi eigi vel hlýða at geyma eigi svá hesta, at dygði allvel, ok sagði endast mundu hús á Möðruvöllum — „því at heldr skal leysa út nautin ór fjósinu, ok búa þar um hestana“. Þeir Ófeigr sátu þar fram um páska. Enn fjórða dag páska, er Ófeigr var upp risinn, kom at honum einn förunautr hans ok spurði: „Hversu lengi ætlar þú at vér skulum hér sitja“? Ófeigr svarar: „Fram um páskaviku“. Sjá svarar: „Þat kemr lítt við — því at nú var farit at kaupa bæði hey ok mat“. Ófeigr mælti: „Sitjum nú sem fastast, ok vilda ek gjarna at þú segðir satt“.

Mánadaginn eftir páskaviku bjoggust þeir í braut; enn Guðmundr bað þá enn sitja lengr ok skemta sér — „ok er enn mart vantalat“. Ófeigr kveðst nú mundu ríða. Guðmundr lét taka hest sinn, ok ríðr á veg með þeim. Þeir koma at stakkgarði einum. Guðmundr mælti: „Hér munu vér af baki stíga ok æja; eigi vil ek at Einarr bróðir minn eigi at hlæja at því í kveld, at hestar yðrir sé svangir“. Ok svá gera þeir. Guðmundr mælti: „Þú hefir verit með oss, Ófeigr, um hríð, ok vitu vér eigi erendi þitt — nú vildu vér vita hver þau væri“. Ófeigr svarar: „Þat er vel, at þú hefir at spurt,

Guðmundr, ok beið ek þess at — enn þat er erendi mitt, at færa þér heim sanninn, því at þeim norðr þar þykkir þú hafa of lítinn áðr. Nú veiztu at þat er vandi þinn, at fara á hendr þingmönnum þínum norðr um sveitir á várit með þrjá tigu manna, ok setjast at eins bónda sjau nætr. Nú er þat lítil vægð við þá, sem lítil fé eigu ok eigi hafa betr enn skipat til búa sinna á haustit; ok verðr þeim slíkt mikil yfirskipan. Nú höfum vér eigi svá lengi hér verit, ok þótti mér sem þú þyrftir bæði at kaupa hey ok mat — ok áttir alt nógt ok ert höfðingi yfir mönnum. Ek hygg, at þú værir aldri minni höfðingi, þóttu færir til vina við tíunda mann; myndi allir því kunna vel". Guðmundr mælti: „Þetta er harðla vel talat, sem ván er at þér; er þat ok mest ván, at ek hafi þetta gert; enn athuga er vert, at þú munir vera í móti mér, er mín sæmd liggr við — ok er þat víst". Ófeigr mælti: „Eigi varði mik slíkra orða af þér, ok eigi hefir mér þat í huga verit hér til" Varð Ófeigr fár við þetta, ok varð eigi mart um kveðjur með þeim Ófeigi ok Guðmundi at skilnaði; ok þótti Guðmundi hvárgi betr sannrinn, enn Ófeigi þótti um grununina Guðmundar — Skildu þeir við þetta, ok reið Ófeigr til Þverár um kveldit; tók Einarr við þeim ágæta vel, ok sagði Ófeigr honum alt tal þeira Guðmundar. Þá mælti Einarr: „Mann-

leg er orðin ferð þín; enn eigi veit ek hversu yðr ferr Reykdælum — enn eftir ganga oss Eyfirðingum spár Guðmundar bróður míns". Um morguninn eftir ríðr Ófeigr norðr ok heim.

Enn um várit fór Guðmundr heiman norðr með tíunda mann, ok sat þar nú tvær nætr, er fyrr sat hann sjau. Hann gisti at Ófeigs í Skörðum, ok var þar tekit við honum forkunnar vel; sat hann þar viku. Enn at skilnaði gaf Ófeigr honum tvá oxa rauða, sjau vetra gamla, ok váru þat enir beztu gripir. Guðmundr mælti: „Þetta er vel gefit, enn ek á aðra tvá oxa alsvarta, er at engu eru verri — ok vil ek gefa þér hváratveggju til þess at þú leggir eigi í móti mér, þá er mín sæmd liggr við". Ófeigr mælti: „Þiggja máttu gjöfina af því, at eigi fylgir undirhyggja við þik". Guðmundr kveðst eigi vita, hvat bætast mundi í því, þó at hann þægi eigi. Síðan fór hann, ok þótti Ófeigr mjök hafa vaxit af þessum viðskiftum þeira Guðmundar.

8. Þorkell hét maðr, er bjó á Mýri; hann var góðr bóndi. Brandr hét son hans; hann var mikill maðr ok sterkr, ok var kallaðr vöðu-Brandr. Hann var maðr ódæll ok illr viðreignar, ok heldr óvæginn, svá at trautt mátti faðir hans halda vinnuhjón fyrir honum.

Eitt sumar kom skip af hafi norðr við Tjörnes. Þat áttu þrænzkir menn; hét annarr Þórðr enn

annarr Sigurðr. — Þat var þá siðr, at hásetar vistuðust fyrr enn stýrimenn. — Einn dag reið vöðu-Brandr til skips, ok fann stýrimenn. Þeir spurðu, hvat manna hann væri; hann kvaðst vera bóndason. Þeir spurðu, ef faðir hans myndi vilja taka við vistarmönnum; enn hann kvað þar eigi útlendra manna vist — „er þar fáment ok dauflegt, enn þó er annarr meiri annmarki á“. Þeir spyrja, hverr sá væri. Hann svarar: „Sá, at engi má við mik skapi koma“. Þeir kváðust á þat mundu hætta. Brandr svarar: „Þá mun ek þetta mál tala við föður minn“. Hann ríðr heim, ok segir föður sínum, at hann hefir tekit við stýrimönnum. Þorkell kvað þat vera hættu-ráð — „enn vel þætti mér, ef þér yrði sæmd at“. Enn hann kvað föður sinn einan ráða skyldu — „enn betra þætti mér, at vit hefðim eigi svikit þá“. Þorkell bað hann fyrir ráða — „enn þó kemr mest til þín“. Síðan fór hann til móts við austmennina, ok sagði, at þeim væri kostr vistarinnar; þeir kváðust þat þiggja mundu, ok fara þeir heim með honum. Þat töluðu margir menn, at þeim hefði kynlega um sétst. Síðan var heim borinn varningr þeira stýrimanna, ok reið Brandr með hann norðr til Fnjóskadals, ok seldi hann þar. Þat töluðu þar margir menn, at Brandr myndi enn hafa vana þann, at hann myndi illa við þá lúka, sem við alla aðra; enn

stýrimenn gáfu at því engan gaum, hvat sem hverr talaði. — Brandr fór alt til Eyjafjarðar með varninginn, áðr enn hann gat selt allan. Eigi gat hann um fyrir stýrimönnum, hvar hann hafði selt varning þeira, þá er hann kom heim. — Enn um várit fór hann at heimta saman fé austmanna, ok sýndist engum at halda fyrir honum réttri skuld; ok heimti hann hverja alin, þá er hann átti at heimta. Enn er hann kom heim, sýndi hann stýrimönnum, ok virtist þeim vel, ok báðu hann sjálfan kjósa sér laun fyrir; enn hann kvaðst vildu fara utan með þeim. Þeir sögðu þat til reiðu skyldu, ok báðu hann vera skapvaran — „eða hvat er til fararefna“? Hann kvað þat mjök undir föður sínum vera. Þeir tóku nú tal við Þorkel; hann kvaðst hyggja, at þeir myndi vera góðir drengir — „ok mun ek láta til við þik fimtán hundruð, ok er mér þó grunr á, at ykkr kosti meira, ef þit vilið honum nökkura ásjá veita“. Þeir kváðust á þat hætta mundu. — Fóru þeir nú utan um sumarit, ok líkar þeim vel við Brand, því at hann var bæði knár ok liðvaskr. Þeir váru úti lengi, ok kvámu at norðr við Þrándheim; buðu þeir bræðr Brandi til sín; ok þat þiggr hann. Þar áttu menn gleði saman, ok var þar fjölmenni mikit; þeir bræðr buðu Brandi með sér at vera, enn sögðu vant at vera í stórum samdrykkjum. Hann kvaðst eigi mundu

leita á aðra fyrri — „enn eigi veit ek hversu mér bregðr við, ef aðrir leita á mik". Þeir kvámu til þess manns, er Hárekr hét; hann var ættstórr ok mjök áleitinn, ok hafði sveit manna um sik við sitt skaplyndi. Enn er hann sá Íslending, tók hann til ok spottaði hann á marga vegu. Nú fór svá fram um hríð, at þeir ortust á vísur, ok varð Brandr hlutdrjúgari, ok fekk Hárekr ór verra. Hárekr kvað Brand eigi hafa beðit sik bygðarleyfis, enn fylkismenn sögðu, at þeir bræðr ætti heimila sveitarvist þeim sem þeir vildi. Hárekr var enn mesti vígamaðr, ok bætti engan mann fé.

Einn dag gekk Hárekr fyrir Brand með horn mikit, ok bað hann drekka til hálfs við sik. Enn Brandr kvaðst eigi drekka til móts við hann — „hefi ek vit eigi of mikit, þótt ek drekki þat eigi frá mér, sem ek hefi áðr; muntu ok þurfa vit þitt alt, at því er mér lízt á þik". Hárekr drekkr af til hálfs, ok bauð Brandi at drekka hálft; enn hann vildi eigi við taka. Hárekr kvað hann skyldu verða at þjóna honum, ok lýstr horninu í höfuð honum; enn drykkrinn slæst niðr á Brand. Síðan gekk Hárekr til rúms síns, ok slær nú til spotts við Brand. Enn Brandr gerði sik eigi óðan, ok sló í gaman. Hárekr kvað honum svá við þetta verða, sem hann hefði oft barðr verit. — Enn um morguninn, er menn váru komnir í sæti, gekk Brandr

fyrir Hárek ok keyrði öx í höfuð honum, ok vá hann. Nú spretta upp hvárirtveggju, ok varð þröng mikil. Þeir bræðr gátu Brandi í brott skotit, ok buðu boð fyrir hann frændum Háreks. Enn með því at hann var óvinsæll, þá tóku þeir fébætr; gekk þá upp fé þat alt, er Brandr hafði haft af Íslandi, ok meira annat. Síðan spurðu þeir bræðr, hvat Brandr vildi ráða sinna; hann kvaðst vilja fara til Íslands, þótt nú væri eigi sýn fararefni. Sigurðr kvaðst eigi við fleirum mönnum tekit hafa af Íslandi enn svá, at hann skyldi hafa penninga slíka, sem hann hefði til hans haft — „ok eru hér nú fimtán hundruð þín, ok varit í norrænan eyri“. Síðan fylgdu þeir bræðr honum til skips, ok skildu eigi við hann fyrr enn hann lét í haf; þakkaði Brandr þeim sína liðveizlu, ok skildust vinir. Skipi því byrjaði lítt, ok tóku þeir Reyðarfjörð at áliðnu sumri. Snemma tók at hausta, ok gerði færðir þungar sökum snjóva.

9. Þorkell Geitisson bjó þá í Krossavík í Vápnafirði. Þá var á vist með honum sá maðr, er Einarr hét; hann var reykdælskr. Enn er hann frétti, at vöðu-Brandr var út kominn, þá bjó hann sik. Þorkell spurði, hvárt hann ætlaði. Hann kvaðst á braut ætla — „því at ek hefi spurt, at vöðu-Brandr er út kominn; enn ek veit risnu þína, at þú munt taka við honum — enn til hans má engi maðr sæma“.

Þorkell svarar: „Snemt er þér at kvíða við honum; enn ef hann kemr hér niðr, skal ek sjá ráð fyrir þér, ef þér er eigi við vært. Enn ef þat er, at Brandr er hér ok leitar hann eigi á þik, þá er þér marglæti at bregða vist þinni“. Hann lét nú setjast. Fám nóttum síðar kom vöðu-Brandr í Krossavík, ok var þar vel við honum tekit. Enn er hann hafði verit þar þrjár nætr, þá talar hann við Þorkel bónda, ok sagði at hann vildi at hann tæki við honum um vetrinn. Þorkell svarar: „Gera mun ek þér kost á því. Þú ert ódæll ok óeirinn — nú vil ek taka við lögheimili þínu, því at mér þykkir þat óvandast, enn þú skalt fá varning þinn í mitt vald, hvat sem at borði kann bresta“. „Þenna kost vil ek“, kvað Brandr, „því at mér er leitt at rekast í ófærðum, enn ilt til heyja“.

Enn fyrsta hálfan mánuð, er Brandr var í Krossavík, var hann svá fylgisamr Þorkatli, at hann gekk út ok inn með honum, hvert sem hann fór; enn annan hálfan mánuð brá nökkut hætti hans; þá var hann eftir í stofu á kveldum, er Þorkell gekk at sofa, ok hefir frammi margskonar ertingar; ok þat hafa menn sagt, at hann hafi fyrstr fundit Syrpuþingslög. Menn kómu víða af bæjum, ok gerðist þar af þyss mikill. Þorkell sat at drykkju við annan mann. Nú er getit um fyrir Þorkatli, at konum þykki

ríkt bornir kviðirnir, er þær kómu eigi fram búsýslu, ok eigi réði þær ferðum sínum sjálfar. Þorkell heimtir nú Brand á tal við sik, ok mælti: „Eigi hefi ek hlutsamr verit um hagi þína ok háttu hér til, enn þat kemr fyrir mik, at konur ráði varla ferðum sínum fyrir þér ok sveitungum þínum, enn þér hæfir þat varla. Er hér því líkast sem nýr höfðingi sé kominn í sveit, ok gangi menn af hendi þeim sem áðr er fyrir; ek geng fram við annan mann, enn þú ert eftir við alla sveitina — ok nú vil ek at láta gera“. Brandr kvað betr mundu á ráðast. Ok um kveldit fór Brandr til rekkju; enn þingmenn kómu at vanda sínum, ok mátti þá eigi þingit heyja, er formaðrinn var engi; var þá farit eftir honum, ok fór hann eigi at heldr. Þá kómu þingmenn annan aftan, ok fór enn sem fyrr; tók þá af kvámur manna, enn Brandi kom aldri orð frá munni á hálfum mánuði. Þá mælti Þorkell til Brands: „Örskiftamaðr ertu mikill, Brandr; nú tak þú aftr gleði þína hæfilega“. Hann kvaðst eigi kunna ok eigi vita, hvernig hann skyldi með fara, er engan veg líkaði — „ok er engum manni hjá þér vært, ok skal ek í brott fara“. Þorkell mælti: „Þú ert minn heimamaðr, ok þat þykki mér þú gera mér til svívirðingar, er þú hleypr á brott ór vist þinni“. Brandr reið nú á braut eigi at síðr vestr til föður síns. Þar tókust upp leikar.

Þorbjörn var þar knástr maðr frá Reykjum. Þeir lékust við Brandr; báðu menn þá at Þorbjörn skyldi leika af öllu afli, ok sýna þat at hann var sterkr. Hann kvað þat vel mundu mega. Ok einn dag er leikr var keyrði Þorbjörn niðr Brand fall mikit; ok leikr nú eftir megni, ok hafði Brandr eigi við; líkaði honum nú illa. Ok at skilnaði veitti Brandr honum mikinn áverka. Þar var þröng mikil; þar var kominn Ófeigr ór Skörðum. Brandr ferr nú heim til föður síns, ok segir honum hvar komit var. Þorkell svarar: „Þú hefir stýrt oss í mikit vandræði, ok var þat mjök ófyrirsynju, er þú fórt í brott frá Þorkatli; nú er þat mitt ráð, at þú farir aftr á hans fund“. Brandr kveðst þess ófúss vera; ok þó fór hann austr, ok segir Þorkatli þessi tíðendi. Enn hann kvað betra, at hann hefði kyrr verit — „enn þó mun ek við þér taka, því at ek man eigi, at ek hafi heimamann minn fyrir róða látit“.

10. Síðan fór Þorkell á fund Guðmundar ens ríka ok bauð fé fyrir manninn — „ok vil ek at þú gerir sjálfr um“. Guðmundr kvaðst eigi vilja taka fé fyrir sekjan óeirðarmann, er hlaupa vill í höfuð saklausum mönnum — „ok er landhreinsun at slíkir menn sé af ráðnir at lögum“. Fekk Þorkell ekki af. Enn Guðmundr fór norðr í Reykjahverfi, ok tók mál af Þorbirni, ok bjó til várþings. Enn Þorkell fór

austr í Álftafjörð nökkuru síðar á fund Þorsteins Síðu-Hallssonar, vinar síns, ok tók hann vel við honum. Þorkell mælti: „Svá hefir borit til í vetr, at Brandr, mikill ónytjungr, hefir unnit á einum bónda, enn hann er nú heimamaðr minn. Enn Guðmundr enn ríki hefir búit mál til Vöðlaþings; enn vera kann at hann hafi eigi þat hugat, at hann er eigi þar í fjórðungi, ok hefi ek handsalat honum löggrið, ok kemr mér í hug, at oss muni veita mál til laga; ok vilda ek þitt liðsinni þiggja ok sækja til þings ok verja málit með kappi fyrir Guðmundi, ef hann skal þó eigi fébótum fyrir koma — enn reyna skal, hvárt ek sé annarrar handar maðr hans, sem hann svaraði Bjarna brodd-Helgasyni frænda mínum um sumarit á alþingi“. Þorsteinn kvaðst sjá, at vörn var í málinu, — „enn þó mun þá þykkja með kappi at gengit, ok fara mun ek með þér“.

Um sumarit búast þeir austan með sex tigu manna hvárir, ok ríða til Jökulsár. — Enn þá váru góð vöð víða á ánni. — Þá mælti Þorkell: „Nú munu vér skifta liði váru; skal Þorsteinn ok vér fimm saman fara almannaveg vestr til þings, enn flokkrinn allr annarr skal ríða fyrir ofan Mývatn til Króksdals ok Bleiksmýrardals, ok fyrir neðan heiði“. — Ok var þar víða skógi vaxit. — Ok ríða þeir ofan eftir Fnjóskadal; enn þeir Þorkell fóru á Akreyri,

því at þeir höfðu tjöld samlit við skóga; þeir finnast þar sem ákveðit var; varð ok engi maðr varr við ferð þeira. Þeir Þorkell ok Þorsteinn skyldu ríða á þing drottinsdaginn og þeir fimm saman. Þorkell bað menn sína skynja, ef hann þyrfti liðs við; kvaðst hann þá mundu ganga á hól þann, er var á milli þings ok þeira — „ok mun ek þá hafa í hendi handöxi mína ena reknu ok veifa henni yfir höfuð mér“. Síðan ríða þeir á þingit til búðar Ófeigs Járngerðarsonar, fimm saman; hann bauð þeim þar búðarvist. Maðr kom inn í búð Guðmundar ens ríka. „Furðu fámennir ríða þeir Þorkell á þingit“, segir sá. „Hversu þá“? segir Guðmundr. „Þeir váru með fimta mann“, segir hann. Guðmundr kvað marga menn ríða mundu með meira flokki á völlinn, ef þeir ætlaði at eyða málum fyrir honum — „enn þat kemr mér í hug, at vanhugat mun í máli váru; þeir Þorkell munu kalla hann sinn heimamann, enn þó er ólíklegt, at Þorkell eyði málum fyrir oss við fimta mann; enn vera má, at hann búi um brögð við oss nökkur, ok hafi þeir fleiri saman verit“. Sendir hann þá menn þegar at spyrja at gistingarstöðum þeira, ok kann engi þat at segja, þar sem þeir hafa gist, at þeir hafi fleiri saman verit enn fimm. Þá mælti Guðmundr: „Vera kann at þá megi hlýða, ef þeir hafa eigi fleiri aust-

an riðit; ok munu vér þá eigi senda eftir fleira liði at þeim, og ganga mál þessi sem auðnar".

11. Guðmundr enn ríki sækir nú málit í Norðlendingadóm, ok setr dóminn ok býðr til varnar. Þá mælti Þorkell Geitisson: „Þat vilda ek, Guðmundr, at þú tækir sættir ok sjálfdæmi, sakalaust". Guðmundr svarar: „Þat munda ek þiggja, ef þú ættir eftir dugandi mann at bjóða; enn nú nenni ek eigi um vanmennu þá, er ek hefi þó starfa fyrir haft". Þá mælti Þorkell ok nefndi sér vátta, ok setti þeim lýritti, ok fyrirbauð þeim at dæma. Enn Guðmundr kveðr hann nú með kappi at ganga at verja, ok segir hann skulu þar engum sínum málum fram koma. Þá mælti Þorkell: „Enn munu vér þetta handsala fyrir manninn, ef þú vill sjálfdæmi taka". Guðmundr kvaðst mundu sækja manninn í þeira sveit, ef þeir vildi eyða þar málum fyrir honum — „ok skal at vísu maðrinn sekr verða". Þá gekk Þorkell upp á hólinn ok brá upp öxi sinni; dynja þeir þá fram á þingit, ok hleypa upp dóminum; ok kom þetta á alla óvara. Ok nefndi Guðmundr sér vátta, ok stefndi Þorkatli um þingsafglöpun; enn Þorkell stefndi Guðmundi um rangan mála-tilbúnað, ok stefndu báðir til alþingis um sumarit, ok fjölmentu mjök. Var þar Bjarni bródd-Helgason, ok hafði hann mikinn flokk; ok vissu menn eigi, hvar hann myndi

at snúa um liðveizlu. Þorkell ok Þorsteinn váru fjölmennir, enn þó var Guðmundr miklu fjölmennari. Þorkell átti búð uppi við Fangabrekku. Var nú leitat um sættir, ok var fast fyrir.

Einn dag snemma gekk Þorsteinn Síðu-Hallsson til búðar Ófeigs Járngerðarsonar, ok talar við hann. Þorsteinn spyrr: „Hversu segir þér hugr um sættir manna“? Ófeigr kvað sér þungt um segja ok þunglega áhorfast. Þorsteinn mælti: „Þat vil ek þér kunnigt gera, þar sem þér eruð vin hvárratveggju, at hér munu vandræði áðr af gerast, ef eigi er sæzt á málit. Þeir ætla at bjóða Guðmundi einvígi, ok vill hann heldr hafa bana, enn svívirðing of mikla. Nú væri þat ráðlegra, at menn leiti um sættir, ok hættum á við Einar bróður hans, at hann eigi þar í hlut þann er vér eigum allir; hefir Þorkell þat mjök við orð, at biðja Jórunnar, dóttur Einars at Þverá. Nú vil ek at vit hittum Einar“. Ófeigr svarar: „Vel þykki mér þeira mála leitanda við Einar, enn hin mála-leitan sýnist mér óvitrleg“. Síðan hitta þeir Einar, ok ganga nú á tal allir saman. Ófeigr mælti: „Svá er sem þú veizt, Einarr bóndi, at hér horfir til stórra vandræða með mönnum, og eigu þeir menn í hlut, er vitmenni eru báðir ok þó kappsfullir; enn vér erum beggja vinir, ok skyldir til at ganga vel á

milli — þá vill Þorsteinn hafa þat mál uppi við þik, að biðja til handa Þorkatli Geitissyni Jórunnar dóttur þinnar". Einarr kvað þessa vel leitat — „enn þó mun Guðmundr hér mestu um ráða, þá er vér finnum hann". Þeir kváðust ætla, at hann mundi vera réttr lögráðandi fyrir dóttur sinni, þó at eigi væri Guðmundr at fundinn; máttu á þat líta, at Guðmundr heldr þér lengstum lítt til metnaðar eða virðingar". Einarr mælti: „Er Þorkell eigi félítill? enn dóttir mín hefir mikit fé". Ófeigr svarar: „Hverr er stórlyndari enn Þorkell, því at hann geldr fé fyrir menn á þingum, eða hvers þeira bú stendr með meira blóma? hvat er þá undir um penninginn, er hvárki verðr honum gjald at né öðrum — ok sitr hann yfir virðingu allra Austfirðinga". „Allvel er nú flutt, Ófeigr, enda hefir Guðmundr góðs spáð Jórunni dóttur minni, ok ganga jafnan eftir spár hans — ok má nú ok vel tala um þetta mál, ef sýnist, ok vili Þorkell hingat ganga". Þorsteinn kvað þat eigi mundu at bila.

12. Nú gekk Þorsteinn þegar til búðar Þorkels; enn hann heilsar honum vel, ok spurði hvat hann árnar. Þorsteinn svarar: „Eigi veit ek nú at hverju verða vill, enn konu hefi ek beðit í morgun til handa þér". Þorkell mælti: „Mikit er um liðveizlu þína, er þú gerir þat ekki síðr, er ek býð þér um eigi; hver er sjá

kona“? Þorsteinn svarar: „Sjá mær heitir Jórunn, ok er dóttir Einars frá Þverá“. Þorkell mælti: „Þá mey vilda ek ok helzt eiga á Íslandi“. Þorsteinn mælti: „Þá er nú ráð at ganga til festarmálanna“.

Síðan finnast þeir Einarr, ok tala nú um málit; ok urðu á alt sáttir, ok ákveðin brullaups-stefna. Síðan fóru festar fram; skyldi brullaup vera at Þverá hálfum mánuði eftir þing. Siðan gekk Þorsteinn þar nær, sem Guðmundr enn ríki var, ok þótti honum vel at tal þeira bæri saman; ok svá varð. Guðmundr mælti: „Göngult verðr þér, Þorsteinn, um þingit, ok munu þér mikit afreka“. Þorsteinn svarar: „Eigi síðr mun þér þat þykkja, ef þú veizt gerla“. Guðmundr spyrr: „Hvat er nýrra tíðenda“? Þorsteinn svarar: „Smá ein tíðendi hefi ek at segja, enn þó þat helzt, at Þorkell Geitisson festi sér konu“. Guðmundr svarar: „Sú kona er vel gefin, er honum er, því at hann er enn mesti hreystimaðr, þótt nú sé með okkr fátt — eða hver er sú kona“? Þorsteinn svarar: „Jórunn bróðurdóttir þín“. Guðmundr mælti: „Eigi var Einari þat í hug áðan, er vit skildum“. Þorsteinn mælti: „Nú rétt gekk ek frá festarmálunum, ok var ek váttrinn ok Ófeigr Járngerðarson“. Guðmundr mælti: „Satt muntu segja, ok þar mun hugrinn minn mest hafa fyrir borizt — enn þessu mun mest hafa

ráðit Ófeigr Járngerðarson". Síðan var um sættir leitat, ok gekk nú mest at Einarr ok Ófeigr Járngerðarson. Þá mælti Guðmundr: „Nú er þat fram komit, Ófeigr, er ek spáða þér um várit, at mín virðing mundi hallast af þínu tilstilli". Ófeigr svarar: „Eigi hefi ek hallat virðingu þinni at heldr, þó at ek hafi fengit þér mága betri ok fleiri enn áðr". Þorkell mælti: „Enn vil ek bjóða þér, Guðmundr, at þau en sömu boð haldist, er þú gerir um sjálfr fyrir áverkann; enn ek geri fyrir málatilbúnaðinn, er ek hefi haft við þik". Guðmundr sá nú, at sér gerði eigi annat, ok tók þetta boð; ok gerði svá at báðum hugnaði vel; enn þó eldi hér lengi af með þeim bræðrum, enn Þorkell sat yfir sæmdinni allri. — Ok einn dag á þinginu fundust þeir Guðmundr enn ríki ok Bjarni brodd-Helgason. Þá mælti Bjarni: „Svá sýnist mér, Guðmundr, sem þú hafir þurft báðar hendr við Þorkel frænda minn, ok hafi þó ekki af veitt um; ok man ek enn þat, Guðmundr, er ek bað þik at þú skyldir sætta okkr Þorkel, ok svaraði engi ódrengilegar enn þú, ok sagðir hann eigi vera mundu meira enn annarrar handar mann gilds manns, ok kvað hann hafa hálfþynnu eina í hendi, enn mik höggspjót gilt á hávu skafti. Enn em ek nú minni höfðingi enn þú, ok sýnist mér sem

hann muni eigi þar lengi gengit hafa skaftamuninn“.

Síðan fóru menn af þingi, ok var brullaup at Þverá; ok gaf Þorkell upp Guðmundi mál þat, er hann hafði rangt til búit, er hann sótti í Norðlendinga-fjórðung, þá er hann átti í Austfirðingadóm að sækja. Síðan fór Þorkell heim með konu sína, ok þótti hann mjök vaxit hafa af þessi ferð. Enn Jórunn var enn mesti kvenskörungr, sem ætt hennar var til. Hon kom ok því til leiðar, sem engi hafði áðr komit, at þeir sættust frændrnir, Þorkell Geitisson ok Bjarni brodd-Helgason, ok heldu þá sætt vel ok drengilega síðan. Þorkell bjó í Krossavík til elli, ok þótti ávalt enn mesti garpr, þar sem hann kemr við sögur. — Vöðu-Brandr fór austan, ok bjó á föðurleifð sinni, ok samdist mikit ok þótti góðr bóndi; ok þóttist aldri full-launat geta Þorkatli Geitissyni sína liðveizlu ok góðvilja. — Ok lýkr þar þessum þætti af vöðu-Brandi Þorkelssyni.

13. Guðmundr enn ríki átti Þórlaugu, dóttur Atla ens ramma. Herdís hét móðir Þórlaugar, dóttir Þórðar frá Höfða. Þar óx upp sá maðr með Guðmundi, er Þorsteinn hét ok gerðist verkstjóri; ekki var hann stórrar ættar, enn mannaðist vel. — Þá bjó Þórir Helga son, Valþjófs sonar, Helga sonar ens magra, at Laugalandi í Hörgárdal. Hann var goðorðsmaðr ok

garpr mikill. Geirlaug hét kona hans; hon var skörungr mikill ok vel ment. Einarr bjó þá at Þverá, spekingr mikill ok vinr Þóris Helgasonar. Þeir veittust at öllum málum. Fátt var með þeim bræðrum, Einari ok Guðmundi, því at Guðmundr sat mjök yfir metorðum manna norðr þar. Þorkell hákr, son Þorgeirs lögsögumanns, bjó þá at Öxará í Ljósavatnsskarði. Hann var einlyndr ok hetja mikil; hann hafði fátt hjóna, ok átti þó sökótt. Brúni hét maðr, er bjó í Gnúpufelli. Eilífr hét bróðir hans, ok var kallaðr skyti, mikill ok vaskr maðr. Þeir höfðu goðorð, ok váru komnir frá Helga enum magra. — Þat er frá sagt, at Þorsteinn kom at máli við Guðmund, ok mælti: „Svá er mál með vexti, at ek hefi hér upp sezt at þér ok tekit hér þrifnað — nú vilda ek leita mér kvánfangs ok hafa þar til yðvart liðsinni". Guðmundr mælti: „Þú munt þetta áðr hugsat hafa, hvar niðr skal koma, enn heimil munu þar til vár orð". Hann svarar: „Rétt getr þú; hugfest hefi ek þetta. Kona heitir Guðrún, ok er frændkona bóndans at Bægisá, ok er þar matselja fyrir búi; hennar vilda ek at þú bæðir mér til handa; þín orð munu þar meira metin fá, enn mín mörg". Guðmundr svarar: „Ek kalla þat jafnlegt ok vel leitat, enn lítit er mér um at fara í sveit Þóris Helgasonar, ok at hann eigi meira afla enn ek. Enn er hesta-

þing er á Oddeyri í Hörgárdal, þá mun ek vekja til, enn gera eigi at því ferðir mínar einvirðulega". — Síðan var hestaþingit, ok kom þar mart manna. Þar kom ok Guðmundr, ok brá bónda þegar á eintal frá Bægisá ok mælti: „Þorsteinn heitir maðr, er upp hefir fæðst með oss, ok höfum vér hann at góðu reynt; hann vill mæla til ráðahags við Guðrúnu frændkonu þína; viljum vér flytja mál mannsins". Bóndi svarar: „Allvel er maðrinn til fenginn at flytja hans mál, ok munu vér mikils meta þín orð". Síðan hitti hann konuna, ok spurði, hversu henni var um gefit; enn hon bað hann gera sem hann vildi. Síðan er ákveðit um brullaups-stefnu, ok skal vera at Bægisá. Þorsteinn mælti þá: „Nú er ætlat, at ek muni fara til brullaups míns, enn ek vil biðja þik til ferðar með mér, því at mér er mestr sómi at þér". Hann svarar: „Þetta em ek ófúss at veita þér, ok fær þú ærna menn til þessa". Þorsteinn svarar: „Meiri sæmd er at þér einum enn at mörgum öðrum, ok mun dælt við mik þykkja, ef þú ert eigi í för". Guðmundr mælti: „Ek mun ok fara, enn fyrir þykki mér".

Guðmundr sat í öndvegi, enn Þórir Helgason gagnvert honum; enn konur sátu á palli. Ljós brunnu björt, ok váru borð fram sett. Brúðr sat á miðjan pall, ok Þórlaug á aðra hönd, enn Geirlaug á aðra. Kona fór með vatn

fyrir pallinn ok hafði dúk á öxl, ok fór fyrir Geirlaugu, því at hon hafði verit með henni enn fyrra vetrinn. Geirlaug tók til orða: „Þú ferr með góðum vilja, enn eigi með nógum álitum — færðu Þórlaugu fyrr vatnit; svá á at vera“. Hon gerði nú svá. Þórlaug drap við hendi öfugri, ok mælti: „Bjóð eigi beinann, Geirlaug; því at sjá kona gerir rétt; eigi býr þat í mínu skapi, at mér leiki á þessu öfund; er sýnt, at önnur sé konan göfugri enn þú í heraðinu“? sagði hon. Geirlaug mælti: „Greiðr er beininn, Þórlaug, enn hefir þú metnað til at vera mest metin, hefi ek engan hlut til jafns við þik, nema gjaforð“. Þórlaug svarar: „Víst hygg ek þik vel gefna — nú er þar komit fyrir því at ek veit eigi aðra framar gifta enn mik“. Geirlaug svarar: „Þá værir þú vel gefin, ef þar væri einmælt um, at bóndi þinn væri vel hugaðr eða snjallr“. Þórlaug svarar: „Þetta er illa mælt, ok muntu fyrst mæla“. Hon svarar: „Satt er þat, fyrir því at fleiri mæla; enn Þórkell hákr mælti fyrst ok Þórir bóndi minn, ok hverr maðr mælir þat, sá er tungu hrærir“. Þórlaug mælti: „Ber hingat vatnit, kona, ok hættum tali þessu“. Síðan hneig hon upp at þilinu ok mataðist ekki. Enn er menn váru at boðinu í fyrstu, þá hvíldu hvárir sér, konur ok karlar; ok um morgininn risu menn upp ok fóru til kirkju; ok er at

messum kom, sá Guðmundr at Þórlaug var eigi í kvennaliðinu. Hann spurði konu eina, hverju þat sætti; hon kvað hana hafa tekit sótt. Guðmundr mælti: „Siti þér hér eftir, enn einnhverr gangi með mér“. Hann gekk at rúminu. „Ertu sjúk, Þórlaug“? segir hann. Hon kvað at ósýnt væri um heilsuna — „enn þó vilda ek í brott í dag ok leggjast eigi hér“. Guðmundr mælti: „Þetta er mér mikill skaði, enn fúsari væra ek at kyrt væri, meðan boð þetta stæði“. Hon svarar: „Engi hlutr má mér í hald koma, ef ek em hér — ok hafi ek nökkut vel til þín gert, þá lát þú þetta eftir mér“. Guðmundr mælti: „Mikils krefr þú nú, hvat sem þér í brjósti býr“ — ok gekk i brott. Ok er tíðum var lokit ok dagverði, þá mælti Guðmundr: „Nú skal taka hesta vára, ok vil ek heim fara, því at Þórlaug er sjúk“. Þorsteinn brúðgumi mælti: „Ger eigi þat, Guðmundr, at þú farir heim þegar“. Hann svarar: „Bið þú nú eigi framar enn ek vil veita þér, því at þat mun eigi stoða“. Síðan ríða þau á brott, ok er þau koma í skógana hjá Laugalandi, þá veik Guðmundr hestinum aftr, ok mælti við þann mann, er fylgdi hesti Þórlaugar: „Ríð þú nú fyrr, enn ek mun fylgja Þórlaugu“. Ok svá var. Síðan mælti Guðmundr: „Við þik vil ek tala; ek sé at þú ert eigi sjúk, ok seg mér hverju þat gegnir“. Hon svarar: „Ek mun

svá gera; enn sjaldan hefi ek þat mælt fyrir þér, er þér megi þat verr líka enn áðr; enn nú eru þau efni í, er ek má eigi leyna þik". Síðan sagði hon honum hvat þær höfðu talat, ok fjandmæli manna við hann. Guðmundr mælti: „Nú þætti mér ek betr ráðit hafa, ef vit hefðim hvergi farit, ok væri þá óhættara við orðum manna; enn af verðr at ráða nökkut ór hverju vandræði, ok heim munu vit fara; ok skaltu nú fyrst liggja viku, ok lát þér þá enn batna hógt; at jöfnu skal ek við þik tala, enn eigi þykki mér þat ráðit, hvárt oss verðr þetta at engu". — Þaðan riðu þau ok kómu heim, ok fór sem Guðmundr gerði ráð fyrir.

Síðan ríðr Guðmundr norðr í Reykjadal á fund Einars Konálssonar, fóstra síns ok ens bezta vinar. Einarr var spekingr mikill. Síðan mælti Guðmundr: „Svá er mál með vexti, at ek vil segja þér fjandmæli þau, er menn hafa í frammi við mik, Þorkell hákr ok Þórir Helgason; vissa ek eigi óvingan þeira til mín". Einarr mælti: „Illa er slíkt gert við göfga menn; enn ek vil biðja þik, at þú hafir þrótt við, ok verði því meiri hefndin sem lengr er". Guðmundr svarar: „Eigi er þess at leita; hefna skal, hvárt sem þat verðr fyrr eða síðar". Einarr mælti: „Þá vil ek til hlutast með þér. Ek vil svá ráð setja, at þú takir sök hverja, er þú fær, á hönd þingmönnum Þóris Helgasonar, ok

mun þat fé brátt safnast". Guðmundr þakkar honum þessi ráð ok fleiri önnur, ok ferr síðan á brott. Líða nú eigi langar stundir, áðr Guðmundr hendir sakar á þingmönnum Þóris.

Þórir hét maðr, ok var kallaðr akra-karl, ok var þingmaðr Þóris Helgasonar, auðigr ok eigi vinsæll, ok slægr í kaupum við menn. Skip kom í Eyjafjörð, ok átti sá maðr, er Helgi hét ok var Arnsteinsson, farmaðr mikill; ok var ávalt með Guðmundi, er hann var út hér, mikils virðr. Guðmundr reið til skips ok mælti: „Þat er mitt erendi, Helgi, at bjóða þér heim hvert sinn, er þú ert hér á Íslandi". Hann svarar: „Þat mun ek þiggja, Guðmundr, ok kunna þér þökk fyrir". Hann var með Guðmundi um vetrinn, ok fór með þeim vingjarnlega. Þeir akra-Þórir kómu til skips ok hitta Helga, ok kváðust vilja kaupa við hann. Helgi lét þat vel mega ok tók upp varning; ok váru þar mældir fyrir vararfeldir ok skilit, hversu þykkröggvaðir vera skyldi. Helgi bjó skip sitt um várit. Enn er hann var albúinn, ríðr hann á Möðruvöllu at hitta Guðmund. Síðan mælti hann við Guðmund: „Nú er hér á at líta vistarlaunin, þó at minni sé, enn þú værir verðr". Þat var skikkja, ok pell dregin yfir skinnin ok gullbönd á tuglum, ok var en mesta gersimi. Guðmundr mælti: „Haf þökk fyrir, ok hefi ek eigi betra grip þegit". Ok skildust þeir góðir

vinir. Síðan fór Helgi til skips, ok heldu þeir mjök til flýtis; ok var mjök borit á skip. Þórir hafði eigi ofan komit. Ok einn dag sjá þeir at maðr reið af landi ofan til skips; þat var akra-Þórir. Hann hitti Helga ok bað hann taka við gjaldinu; enn Helgi kastaði inn í tjaldit, því at honum var ant, ok leysti eigi til; ok kvað hann síð komit hafa. Þórir kvaðst fleira eiga at sýsla enn sjá upp á kaupmenn, ok fór í brott. Þeir drógu upp segl, ok fóru út til Hríseyjar; þá tók af vindinn; þeir lægðu þá seglit. Þá leysti Helgi baggann ok fann þar í feld; ok var illr ok margar raufar á honum. Þá mælti Helgi: „Þetta eru mikil svik, ok skal honum at illu verða“. Hann reri þaðan til lands, ok fekk sér hest ok reið á Möðruvöllu; hann kom þar snemma, ok heimti Guðmund á tal við sik. Hann fagnaði honum vel — „eða hvat er tíðenda“? Hann lézt engi tíðendi hafa — „enn orðit hefir í prettr nökkurr við oss“. Guðmundr mælti: „Hvat er í því“? Helgi segir, hversu farit hafði með þeim Þóri akra-karli — „enn ek vil at þú takir við málinu, því at ek vil sigla“. Guðmundr mælti: „Oft hefir þú mér hallkvæmr verit, enn eigi mun nú smæstu ráða, ok má mér þetta koma at miklu haldi“. Heimti Guðmundr til sín tvá menn, ok tók sök á hönd akra-Þóri; enn Guð-

mundr gaf Helga góðar gjafar, ok skildust at því. Ok fór Helgi utan ok byrjaði vel.

14. Litlu síðar lét Guðmundr taka hest sinn, ok reið ofan til Þverár; enn menn váru eigi upp risnir, nema sauðamaðr. Hann kvaddi Guðmund ok spurði, hví hann riði einn saman; hann lét ýmsa vegu gegna — „eða hvárt er Einarr bróðir minn heima“? Sauðamaðr segir hann heima vera; hann gekk inn ok mælti: „Maðr er úti ok vill hitta þik“. Einarr mælti: „Hverr er hann“? Hinn mælti: „Guðmundr bróðir þinn“. Einarr mælti: „Hvat er manna með honum“? „Hann er einn saman“, segir hann. Einarr mælti: „Þat er honum eigi oft títt at ríða sveinalausum, ok skil ek eigi þetta“. Hann gekk út ok heilsaði Guðmundi. Hann tók því vel, ok mælti: „Setjumst vit niðr, bróðir, ok tölumst við. Enn svá er mál með vexti, at fátt hefir verit með okkr um frændsemi, ok vilda ek því meir leita minnar sæmdar, enn gæta frændsemi minnar við þik; hefir þú trautt afla við mik, enn þú ert maðr vitrari; enn ef vit værim báðir at einu ok samhuga, þá ætla ek at fátt skyli við haldast. Nú vilda ek at betr væri enn fyrr, því at þú hefir þat gnægra, er mest þarf við; skal ek í millum leggja vinganar þinnar“. Síðan tók hann upp skikkju góða, ok gaf honum. Einarr svarar: „Þetta er góðr gripr, ok ferr þetta nú annan

veg enn líklegt væri; ok kalla ek mínu kaupi vel keypt — ok allgóðr er meðalaukinn". „Tökumst nú í hendr at guðs vitni", segir Guðmundr, „at vit veitumst at öllum málum, því at þat er maklegast". Ok svá gerðu þeir. Síðan reið Guðmundr í brott; enn Einarr skipaði sauðamanni sínum, at hann skyldi snemma upp rísa hvern dag, ok fylgja sólu meðan hæst væri sumars; ok þegar er út hallaði á kveldum, skyldi hann halda til stjörnu ok vera úti með sólsetrum — „ok skynja alla hluti þá, er þér bera fyrir augu ok eyru; ok seg mér öll nýnæmi stór ok smá". Einarr var sjálfr árvakr ok ósvefnugr; gekk út oft um nætr ok sá himintungl, ok hugði at vandlega, ok kunni þar á gott skyn.

Þat var einn morgin, at sauðamaðr hafði út gengit; hann litaðist um, ok sá at reið tuttugu manna ofan með Eyjafjarðará hvatlega. Hann gekk inn til rúms Einars, ok sagði honum, hvat hann hafði sét. Hann stóð upp þegar ok gekk út; hugði at reið mannanna, ok starði á um hríð. Einarr var skygn ok heyrðr vel, ok glöggþekkinn. Enn er sólin rann upp ok skein um heraðit, þá mælti Einarr: „Með skjöldu ríða þessir menn; mun þat annathvárt, at þeir eru utanheraðsmenn, er virðing er at, ok munu þeir hafa farit at sækja heim Guðmund bróður minn, þó at vér hafim þat eigi spurt, eða mun Guð-

mundr ríða þar sjálfr, ok þykki mér þat miklu líklegra; enn eigi mun örvænt hvert hann stefnir, eða hvert erendit mun vera; enn skamt mun til at vér munum þess vísir verða". Einarr bað at húskarlar skyldi gefa-geymdir at, er hann riði aftr — „ok látið hesta vára vera nær túni". Einarr gekk inn aftr til rekkju sinnar ok lagðist niðr. Enn um daginn um nónskeið riðu þeir Guðmundr aftr. Einarr reið á móti bróður sínum, ok kvödduſt þeir vel. Þá mælti Einarr: „Hvert hafi þér farið, eða hvat er at erendum"? Guðmundr svarar: „Ek reið út til Hörgárdals, ok stefnda ek mannníðingnum akra-Þóri fyrir brotttöku fjár Helga Arnsteinssonar, ok hefir hann sök á hverjum manni ok vélar lengi haft; hefir hann saman dregit of fjár" — ok segir honum innilega frá kaupinu, ok hvar þá var komit, er Helgi fór í brott — „vil ek nú, bróðir, hafa liðsinni þitt til þeira mála, svá sem vit höfum áðr mælt". Einarr svarar fá, ok reið hann aftr at annarri stundu; ok váru góðar kveðjur með þeim at skilnaði.

Þegar eftir stefnu þessa reið akra-Þórir á fund Þóris Helgasonar, ok segir honum hvát títt var, ok bað hann liðs — „því at ek em í þingreið með þér". Þórir svarar: „Leitt er at fást í með þér, enn veita mun ek þér". Ok setti þá átölur við hann um þæfni sína ok ranglæti. Þórir mælti: „Ek mun gefa þér vin-

gjafar, ef þú leggr hlut þinn við þetta". — Litlu síðar reið Þórir Helgason til Þverár á fund Einars, ok mælti: „Nú em ek hér kominn at sækja lið þitt, Einarr, sem vit höfum rætt". Hann svarar: „Svá má vera; stiltir eru vit nökkut; enn hitta má ek Guðmund ok leita um sættir, ok mun ek fara til þings, áðr enn alls er fótum undan mér skotit; enn grunr er mér á, at hann vili eigi annat enn at fram fari sektir". — Síðan reið hann á fund Guðmundar, ok kvöddust þeir vel. Síðan mælti Einarr: „Þórir Helgason býðr gerð sína á þessu máli, ok veit ek, bróðir, at þér mun þykkja mart til þess fundit, fyrst fastmæli okkur ok frændsemi". Guðmundr svarar: „Eigi ann ek þess Þóri, at fara sektalausan af þessu máli, ok ann ek eigi öðrum manni hér um at dæma enn mér". Einarr mælti: „Þá mun enn velta til vandans, at þú munt engan meta nema þik einan í þessu máli, ok kann vera at skamt taki frá borði". Guðmundr mælti: „Engi várkunn þykki mér þér þat, at þú leggir hlut þinn við mál okkur Þóris; er hann ok ekki bundinn í vináttu við þik, enn hann er flestum mönnum óþekkr, ok engi heraðsbót at honum". Þá skildust þeir at svá búnu. — Enn er menn kómu á Vöðlaþing, var Guðmundr all-fjölmennr. Þórir Helgason var ok fjölmennr; enn Einarr var eigi til þings kominn, ok var leitat um

sættir. Enn Guðmundr kvað eigi þat þurfa at leita um sættir — „ok vil ek eigi annat, enn Þórir sé gerr sekr". Akra-Þórir svarar: „Viltu at þit Þórir Helgason gerið um málit"? Guðmundr svarar: „Eigi ætla ek at vit verðim samdóma um málin, enn mér virðist þú maklegr at láta þitt fyrir þung svik við oss". Akra-Þórir hitti nafna sinn, ok spurði hvárt þar myndi staðar nema, at hann myndi eigi á líta með sér — „er hér til lítils at slægjast ok sjá, er ávalt ferr einn veg, at þú lætr þinn hlut fyrir Guðmundi". Þórir svarar: „Mikill ríkismunr er með okkr Guðmundi, ok þó má hann mér mart ilt þola". Akra-Þórir kvað þá mjök undir fótum troðna — „ok væri betr at menn tali þat við Guðmund varlega, enn láta sæmd sína". Ok er at dómum kom, vildi Þórir Helgason eigi af láta at verja málit; ok kom málit í dóm. Þá gekk at akra-Þórir, ok bauð sættir at nýju, ok kvað sæzt á slík mál. Guðmundr kvaðst engi gjöld vilja — „ok hefir þú, Þórir, eigi mjök til þessa aftr haldit ójafnaðinum, ok mætti enn svá vera, at þú sætir hlutlauss hjá". Akra-Þórir varð sekr, ok þótti mönnum fast fylgt málinu; grunuðu margir, at annat mundi meir búa undir fjandskapinum, enn þá var bert gert. Þeir sjá nú hvar komit var, ok fóru norðr í Húsavík um þingit með mikit lausafé; enn lönd stóðu eftir, ok of kvikfjár á skulda-

stöðum. Þórir fór utan, ok er hann ór sögunni.

Guðmundr frétti þat, ok vissi at afarfé mikit var eftir. Féránsdóm átti Þórir Helgason at nefna eftir þingmann sinn, enn Guðmundr átti at sækja, ok svá gerði hann; ok var þeim til boðit, er heimta áttu at akra-Þóri. Nú var þangat boðit öllu fé, sem féránsdómr átti at vera. Guðmundr var fjölmennr, ok var engi mannafli á mót. Hann háði féránsdóm eftir akra-Þóri; enn síðan lét hann safna kvikfé Þóris öllu, ok fekk mann til at reka í brott. Enn er féit var rekit með túngarðinum, hlupu geldingarnir inn yfir garðinn í tún. Sauðamaðr Guðmundar setti eftir, ok elti sauðina eftir túninu ok út af garðinum; þar stóð sauðahús. Sauðamaðr hljóp fyrir dyrnar; þá sá hann, at nær þrjátigi hafrar váru þar inni í húsinu. Þá mælti sauðamaðr: „Mörgu ræðr þú nú fénu, Guðmundr“. Hann svarar: „Fédrjúgir verða þeir nú þingmenn Þóris“. Sauðamaðr svarar: „Svá væri, ef þú hefðir gersamlega alt féit“. Guðmundr mælti: „Hvat skortir“? Sauðamaðr svarar: „Eigi mikit, enn sét hefir verit eftir minna“ — ok segir honum til hafranna. Guðmundr mælti: „Verða má þér þetta at gæfu, ok munda ek svá helzt kjósa, at Þórir gerði skóggangssök á hönd sér“. Guðmundr reið á fund Þóris, ok kveðst eigi vilja stelast at hon-

um. Guðmundr leit til, ok mælti: „Hús stendr þar út við garðinn ok rýkr upp af, ok mun þar fé inni“. Ok fór hann nú til ok hlupu þar út þrjátigi hafrar, ok váru allir nýmarkaðir ok fært til marks Þóris Helgasonar. Síðan reið Guðmundr til Þóris, ok spyrr hverju gegndi, er þar var fé inni markað. Þórir svarar: „Akra-Þórir gaf mér hafra þessa á vári til liðs sér, þá er þú hafðir stefnt honum, enn nú var með marki fyrir féránsdóma — ok á ek hafrana“. Guðmundr mælti: „Myndi sú gjöf nökkut lögleg, meðan sakar váru hafðar á hendr honum, enn þú vissir at féit var alt dæmt“? Síðan nefndi Guðmundr sér vátta, ok stefndi Þóri Helgasyni um fé þat, er hann hafði markat ok vilt á heimildir, er akra-Þórir hafði átt, síðan er sakar váru hafðar á hendr honum, ok telr hann eiga verða sekjan fjörbaugsmann, ok stefndi til alþingis. Þórir svarar: „Eigi kantu nú hófi þínu um áganginn“. Guðmundr kvað þetta upphafit mega heita — „ok er seint mann at reyna; ek hugða at þú myndir hlutvandr maðr vera“. Þórir svarar: „Geistr ferr þú nú“. Fé þetta var stórlega mikit, er Guðmundr fekk, ok tók Einarr Konálsson við.

15. Guðmundr ferr nú heim. — Ok er þetta spyrr Einarr Eyjólfsson, þá mælti hann: „Svá mæli ek um at tröll hafi þá skikkju; hefir Guðmundr komit á vitsmuni við mik, ok hefir þat

eigi fyrr orðit". Síðan reið Þórir Helgason til Þverár, ok sagði Einari hvar þá var komit málum þeira Guðmundar, ok bað hann ásjár; ok taldi til fornrar vináttu. Einarr svarar: „Þat ætla ek, at Guðmundr hyggi at reka þess fjandskàpar við þik, er honum er sagt frá orðum þínum, meira enn honum gangi siðvandi til við heraðsbygð, þó at akra-Þórir næði eigi at sitja hér í bygð fyrir honum; hefir þú mart satt í þínu máli; má ok vera, at Guðmundi þykki ek eigi torsóttlegr eftir, ef hann kvistar af mér slíka vinina, sem þú ert, eða aðra þvílíka; ætla ek þat sannast, at ek skal aldri bregða okkarri vináttu, meðan þú vill halda". Síðan reið Þórir heim. Enn Einarr fór á fund Guðmundar, ok hafði skikkjuna með sér ok mælti: „Ek vil bjóðast til þess, frændi, at sætta ykkr Þóri, ok mik til ummæla í milli ykkar, ok munu menn þat mæla, at þínu máli sé framar komit, þó at á þetta sé sæzt". Guðmundr svarar: „Ek mun nú ok hafa liðveizlu þína til mála okkarra Þóris, svá sem þú hefir áðr heitit mér at guðs vitni; væri þat þó en mesta óhæfa at verða mér ekki at liði ok fulltingi, þótt frændsemi ein væri til at telja, enn nú er þat ógeranda, með því at þú hefir því áðr til guðs skotit, ok þegit af mér dýrgrip". Einarr mælti: „Ærnir eru skyldleikar í milli okkar; eigi varðveitir þú þá betr enn svá; þykkist þú nú hafa

komizt á spektar mun við mik, enn ek kalla þat vélar; ok læt ek at brugðit sé öllu ummæli okkru, því at þú hefir mik at viðsjármanni um mál þessi, enn til einskis trúnaðar; skilr ok eigi svá mikit vizku okkra, at eigi sjái ek þau ráð er þú gerir; tak nú við skikkju þinni, er þér hafa lengi áðr augu til staðit" — ok kastaði Einarr skikkjunni til hans. Guðmundr mælti: „Eigi mun ek við henni taka; selt hefi ek hana ok fullu verði; haf þú nú alt saman, skikkjuna ok andvirðit, ok get ek at svá búist þú um, at þér verði at bæði heimska ok klækiskapr; nú mun ek eigi kaupa af þér vandraun né ófrelsi, ok ertu maklegr at sitja í nökkuru vandkvæði". Einarr mælti: „Eigi er nú jafnmjúklega mælt, ok þá er þú komst á fund minn með skikkjuna; ok væri þat víst góðr gripr, ef eigi hefði vélar undir búit". Guðmundr mælti: „Kasta niðr, ef þú vill; fyrr skal hon fúna, enn neinn taki hana upp". Einarr reið heim með skikkjuna; ok skildu þeir bræðr at því.

**16.** Þat er sagt frá þeim bræðrum, þá er þeir váru ungir, at Guðmundr átti sér fóstra sköllóttan, ok unni hann honum mikit. Ok einn dag svaf hann úti í sólskini, ok settist mý mart á skalla honum, enn Guðmundr rakaði á brott með hendi sinni; ok þótti honum sem fóstra sínum myndi mein at verða. Einarr mælti: „Högg þú til öxi þinni, vinr, í skalla karlsins".

Hann gerði svá; skallinn blæddi, enn mýit hófst upp; enn karlinn vaknaði ok mælti: „Erfitt er nú, Guðmundr, er þú vinnr á mér“. Hann svarar: „Nú finn ek í fyrsta sinni, at ráðin Einars eru eigi af heilu við mik; má vera at at því komi oftar“. Ok heldr eldist þeim hér langr óþokki af.

Einarr fann nú Þóri ok segir honum frá viðskiftum þeira Guðmundar; kveðst nú vant við kominn fyrir frændsemis sakir ok svá fyrir gerðar sakir. — Síðan riðu menn til þings allfjölmennir; var nú um sættir leitat. Þórir kvaðst ætla, at hann myndi seint bætr fram leggja fyrir þetta mál; enn Guðmundr lét sér ok ekki betr falla enn sekt hans; var Guðmundr miklu fjölmennari. Ok eitt sinn spyrr Einarr Þóri á þinginu, hverja meðferð hann ætlaði at hafa — „eða hví ætlar þú at Guðmundr þingi svá fast um þetta, ok kann vera at honum þykki þér framarlega talat hafa áðr“? Þórir mælti: „Eigi hefi ek varorðr verit við Guðmund, sem margir aðrir; enn auðsætt er nú, at hann ætlar at vér munim engi föng í móti hafa“. Einarr mælti: „Hvat berst þú fyrir“? Þórir mælti: „Þat er ætlan mín, þá er vér komum til lögbergis, at bjóða honum hólmgöngu, ok mætti þá mýkjast ofsi hans“. Einarr svarar: „Þat er erendi gott, enn eigi lítilmannlegt“. — Þat var venja þeira bræðra, Guð-

mundar ok Einars, er þeir váru á alþingi, at þeir gengu til tíða báðir saman, ok sátu sunnan undir kirkju; enn flokkr Einars stóð vestr frá þeim, enn Guðmundar flokkr austr; var svá, hvárt er var í millum þeira mart eða fátt. Þórir Helgason sat næst Einari, enn næst Guðmundi sat Vigfúss víga-Glúmsson, ok váru nökkurir félagar hans á þingi. Margir menn leituðu um sættir með þeim Guðmundi ok Þóri; ok gerði þat ekki, því at Guðmundr vildi eigi annat enn sjálfdæmi sitt, enn Þórir vildi eigi fé bjóða. Einn dag at lögbergi, þá er menn höfðu lokit þar lögskilum at mæla, þá spurði Þórir Helgason, hvárt Guðmundr væri at lögbergi. Hann kvaðst þar vera. Þá mælti Þórir: „Vinir várir margir ok göfgir menn hafa lagt ámæli við mik um málaferli okkur, ok veita mér ámæli fyrir þat, at ek vil eigi fé bjóða fyrir sakar þær, er þú hefir á hendr mér; skal nú eigi lengr svá fram fara; skal ek nú bjóða þér því betr sem ek hefi lengr frestat — ok vil ek bjóða þér handsöl mín ok gerð Einars bróður þíns“. Guðmundr svarar: „Engum manni ann ek at gera um þessi mál, nema sjálfum mér; ætla ek nú at þú skulir vita, at þér Hörgdælar hafið lengi haft tvímæli á, hvárr okkarr væri ríkari“. Þórir mælti hátt: „Eigi mun ek enn láta þrjóta boðin við þik, Guðmundr, því at ek veit at þér þykkir annat miklu

stórlegar við mik enn um hafra-merkingina Þóris akra-karls; því at ek veit at þú kennir mér þat er margir mæla — ok eru þó eigi aðrir minna af valdir — at ek hafi mælt rag-lega um þik; vil ek þat nú reyna, hvárt þetta eru sannmæli eða eigi, því at ek vil skora á þik til hólmgöngu, at þú komir á þriggja nátta fresti í hólm þenna, er liggr í Öxará ok menn hafa áðr vanir verit á hólm at ganga; ok berjumst þar, svá sem forn lög liggja til; ætla ek, áðr enn þeim fundi lúki, at færast skal af tvímælit, hvárt sannara er, at þú sér maðr snjallr ok vel hugaðr, eða sé hinn veg, sem vér höfum áðr orðum til komit ok allmargir hafa sagt fyrir oss, at þú sér eigi snjallr". Þá var mikit óp gert at orðum hans; enn menn skildu ó-happalaust í þat sinni at lögbergi.

17. Þeir bræðr, Guðmundr ok Einarr, gengu þat kveld til aftansöngs, sem þeir váru vanir; ok var Guðmundr all-kátr. Enn eftir um nóttina, þá er heldr tók at morna, vaknar Vigfúss víga-Glúmsson ok mælti til Guðmundar: „Lítt sefr þú í nótt; hyggr þú eigi gott til hólmgöngunnar við Þóri, eða hvern veg ætlar þú at fara með málum þínum"? Guðmundr svarar: „Smátt bregðr slíkt svefni mínum, enn ráðit hefi ek skjótan órskurð um þetta mál okkart Þóris, því at hann bauð mér þat, er ek átta honum at bjóða; ætla ek at hamingja ok góð málaefni

muni skifta með okkr hólmgöngunni; ætla ek mál vera at færa af hendi illmælit". Vigfúss mælti: „Nú mun ek því við bregða — er ek hefi eigi fyrri náð við þik at tala, Guðmundr — at ek mun vera maðr miklu vitrari enn þú, fyrir því at ek sé at þú ert verr enn dáðlauss; enn ek kann þér gott ráð hér til, þat er virðing þín má vaxa við, enn þú munt verða í engri mannhættu; muntu eigi þurfa neinu til at kosta, enn hafa þó af málum þat er þú vill". Guðmundr leit við honum ok mælti: „Nú er enn komin gautan þín, eða hvat þykkist þú sjá kunna í þessu máli, er ek sé eigi"? Vigfúss svarar: „Ek mun ganga til lögbergis í dag; síðan mun ek skora til hólmgöngu Einar bróður þinn, at hann berist nú við mik í dag; skal ek veita formæli þar at, miklu freklegar enn við þik var mælt, ef Einarr vill eigi berjast við mik; skortir þar eigi nógar sakar til minnar handar við hann, er þess er óhéfnt, at Einarr rak oss föður minn af Þverárlandi af allri mannvirðingu; ok horfir Einari engum mun betr hólmgangan við mik, enn þér við Þóri. Nú látum hann fyrst hafa hvikunar rúmit, ef svá er, at hann þorir eigi á hólm at ganga; enn ef hann berst við mik, þá mun ek drepa hann; enn höfðingjarnir munu leita annars, enn þit bræðr séð höggnir niðr á þingi báðir". Guðmundr mælti: „Slíka menn getr varla til vitr-

leiks, sem þú ert, þótt menn eigi margra góðra kosti". Vigfúss mælti: „Láttu nú eigi finna á þér feginleikinn; því at ef Einarr finnr af vizku sinni, at skift er skapi þínu, þá mun hann hitta bragð til at þetta ráð komi eigi upp". — Ok um daginn, þá er þeir gengu til tíða, sátu þeir þá enn í rúmum sínum. Guðmundr var hljóðr, ok mælti ekki orð, ok hafði höfuðit í feldi sínum. Enn þar varð lítill atburðr; barn eitt hvarflaði þar á hellunum fyrir Guðmundi ok fretaði; enn sumir menn hlógu at. Enn er Einarr ok Þórir kómu til búðar, þá mælti Einarr við Þóri: „Hvern veg leizt þér á Guðmund bróður minn við kirkjuna"? Hann mælti: „Svá sem ek vilda, ok þótti mér hann eigi hefja höfuðit hátt; ok mun hann vera því hryggvari, er meir dregr at óvirðing hans, þeiri er hann á fyrir höndum". Einarr mælti: „Eigi sýndist mér svá; í gær at aftansöng þá þótti mér hann láta all-glaðlega, enn var þó hryggr raunar; enn nú sýndist hann hljóðr — enn sáttu eigi at fellröggvarnar hrærðust, er hann hló? Nú munu þeir hitt hafa ráð nökkut, er oss mun illu gegna, ef fram kemr, ok skal eigi þess bíða; ok skal nú þegar ganga á fund Guðmundar, ok lúka málum þar sem framast má koma". Síðan gengu þeir Einarr til búðar Guðmundar, ok mælti Einarr: „Þat er erendi mitt hingat sem maklegt er, at ek vil sætta

ykkr Þóri; ok hefi ek komit honum til þess, at hann vill bjóða þér sjálfdæmi, svá sem þú hefir áðr beitt, um mál ykkur öll“. Þá laut Vigfúss at Guðmundi ok mælti: „Nú hefir þú eigi gætt at bera af þér feginleikinn, ok hefir Einarr nú fundit af spekt sinni gleði þína; enn þó er nú einsætt at þiggja þenna kost, er svá er vel boðit“. Margir tóku undir ok fluttu þetta erendi með Einari. Síðan lét Guðmundr koma til sín höfðingja ok vini sína, þá er honum höfðu áðr liði heitit; ok varð til þess fundar all-fjölment. Síðan handsalaði Þórir Guðmundi sjálfdæmi. Þá mælti Guðmundr: „Ek geri á hönd Þóri hundrað silfrs, ok veit ek at þat eru stinn manngjöld; ok kveð ek þess vert. Þú skalt ok sekr, ok vera utan þrjá vetr svá sem fjörbaugsmaðr; enn fyrir hvern vetr, ef þú ert hér á landi, skaltu gjalda hundrað silfrs“. Svá kom þar orðrómr á, at Guðmundr hafi haft enn mesta sæmdarhlut af málum þessum.

18. Þat sumar fór Þórir Helgason utan í Skagafirði, enn bú hans stóð eftir á Laugalandi. Hann var vetr þann í Orkneyjum. Enn eftir um várit kom hann út aftr til Íslands í Eyjafirði, er þrjár vikur váru af sumri; ok reið þá heim á Laugaland, ok réð sér hjú; ok reið eftir um sumarit til alþingis. Ok svá var hann á Vöðlaþingi, ok heldu þeir Einarr saman flokkum sínum. Hann var heima um sumarit at bú-

sýslu sinni, ok fór utan um haustit, ok þá til Noregs, litlu fyrir vetrnætr; ok var þó í Orkneyjum þann vetr. Enn eftir um várit fór hann til Íslands, ok fór alt á sömu leið sem et fyrra sumar. Þórir fór utan um haustit, ok var í Noregi þann vetr, ok fekk sér húsaviðu; ok stýrði skipi sínu aftr til Íslands, ok kom í Eyjafjörð; fór þá heim til bús síns á Laugaland, ok bjó þar til elli ok þótti skörungr mikill.

Á þessum enum sama tíma, sem nú var frá sagt, höfðu margir höfðingjar liði heitit Guðmundi. Ok þegar at þinglausnum dró, gekk hann í búðir ok þakkar mönnum lið. Hann gekk í búð Svínfellinga; ok er Guðmundr snýr utar at dyrunum, þá sá hann at maðr gekk í búðina ok bar inn bagga ok söðulreiði. Guðmundr leit við honum, ok snýr at Vigfúsi ok mælti: „Hefir þú nökkurn þann sét, er síðr sé nökkurs verðr enn þessi maðr“? Vigfúss svarar: „Eigi veit ek þat þegar“. Guðmundr mælti: „Eigi hefi ek sét þann mann, at betr sé fallinn til flugumanns“. Hann veik at honum ok mælti: „Hvat heitir þú“? „Ek heiti Þorbjörn“, segir hann, „ok kallaðr rindill, austfirzkr at ætt“. Guðmundr mælti: „Viltu kaupa við mik nökkuru“? Hann svarar: „Hverr ertu“? „Ek heiti Guðmundr ok er Eyjólfsson“. „Vel veit ek nú“, kvað hann. „Ek heyri sagt, at flestir farsælist af þér; enn fátt hefi ek til

kaupa; ek em félítill". Guðmundr mælti: „Fleira kemr mér enn fé; máttu nú koma norðr þangat í sumar á leið vára, ok leita þá til margra vista, enn ráð þik hvergi; enn ek mun þá til koma". Þetta var nú ráðit; ok riðu menn af þingi; ok kómu þeir á Eyfirðinga leið. Þar kom Rindill, ok var all-hjaldrjúgr við marga. Þá mælti Guðmundr: „Hverr er sá maðr, er nef hefir í eyra hverjum manni ok falar til ýmissa vista, enn ræðr enga"? Hann svarar: „Ek heiti Þorbjörn, eða viltu taka við mér, Guðmundr"? Hann kvaðst þat gera mundu, ef hann vildi — „því at vit þurfum marga vega manna". Síðan fór hann þangat, ok var þar um hríð. Ok einn dag mælti Guðmundr: „Mun nú eigi ráð, at þú takir til sýslu"? Hann lét þat vel fallit; ok var honum fenginn ljár, ok sló hann. Guðmundr mælti: „Eigi muntu þessu verki vanr vera, eða þykki þér nökkut hægra at ríða með til laugar um daga"? Hann kvað þat enn hægra.

Svá fór enn fram, at eitt sinn mælti Guðmundr: „Nú er á þá leið, Þorbjörn, at nökkut er á höndum; ek vilda hafa nökkut fyrir mitt, ok er eigi örvænt at ek gera þik tignum mönnum kunnan; ok er annathvárt, at þér mun verða at því gæfa eða gæfu þrot". Þorbjörn mælti: „Þessu muntu fyrir trúnaði þínum ráða, enn hugat mun mér at gæta lífs míns; ok

treysta vil ek því, at ek mun þér trúr; enn ef hætta er í sendiförum, ok vilir þú þær fyrir mik leggja, þá mun ek um njósna, enn til áræðis em ek eigi trúr". „Þó má vera at oss komi at haldi", segir Guðmundr, „ok mun ek nú leggja fyrir þik stórræði, er ek berumst fyrir. Maðr er nefndr Þorkell ok er kallaðr hákr, ok býr norðr í Ljósavatnsskarði; hann vil ek hafa at dauðamanni; þangat vil ek þik senda at njósna fyrir mér, því at ek mun brátt eftir sækja". Þorbjörn svarar: „Því mun ek heita þér, at ek mun þér trúr at njósna slíkt er þú vill — enn eigi rétti ek hendr mínar at vinna á Þorkatli". Guðmundr mælti: „Ek mun setja til ráðit. Þú skalt hverfa heðan í brott, enn ek mun fá þér í hendr hesta tvá magra ok baksára, ok þar með kláfa á, ok osta í ok várskinn. Þú skalt fara Hellugnúpsskarð ok ofan í Bárðardal; er nú á hallæri, enn hvalreiðar-ár er mikit norðr um Tjörnes, enn þú ert engum manni jafnlíkr, sem þeim er komit hafa vestan ór Hálfdanartungum, ok skaltu látast þaðan vera; still þú svá til, at þú komir til Þorkels í vándu veðri; ok lát vesallega, ok gakk eigi á brott. Tak steina ór læk, ok lát vera jafnmarga sem menn eru fyrir, ok hefi ek þat til marks, því at ek ætla mér þangat". Síðan fór Rindill, ok kom til Öxarár í drápveðri miklu. Þorkell var úti ok mælti: „Hverr er sá maðr-

inn, eða hví komtu hér, eða hvert skaltu fara, eða hvar áttu heima"? Hann svarar: „Ek heiti Þórhallr, ok bý ek vestr í Hálfdanartungum, ok fer ek til hvalkaupa; enn því kom ek hér, at mér þótti mál at hvílast; ok mun ek deyja undir húsum þínum úti, ef ek má eigi inn ganga; ok mun þat þykkja ilt at vita, svá mikill garpr sem þú ert". Þorkell svarar: „Lítit er oss um ókunna menn, því at vér eigum lítt vingað við stórhöfðingja, enn vitum ógerla, hvert erendi hvers í verðr". Hann svarar: „Þykki þér ek grunsamlegr vera? enda mun ek hér niðr leggjast, ef þú lætr mik eigi inn". Þorkell svarar: „Ek á sel skamt heðan; vertu þar í nótt" Hann segir: „Eigi geng ek feti framar". Hann skalf mjök. Þorkell mælti: „Mjök vesallega lætr þú, ok lát sjá hestana". Hann gerði svá, ok tók ofan kláfana; váru hestarnir baksárir ok fóthrumir. Þorkell mælti: „Satt muntu segja; langan veg ertu til kominn, ok muntu vera kotbóndi nökkurr, því at þesslegr er varningr þinn; ok ber inn reiðinginn, fretkarl". Hann kvaðst þat gjarna vilja. Þorkell var kvángaðr maðr. Þorgerðr hét kona hans; hon tók til orða: „Hvern leiðir þú eftir þér þar, herjans-soninn"? Hann svarar: „Eigi sýnist mér sjá maðr svá bráðhættlegr, enn eigi nenni ek at hann deyi undir görðum mínum, ok sé mér þat í brigzli fært". Hon svarar:

„Gerla skil ek nú at þú ert feigr; nú lát hann orna sér, ok fari síðan til sels várs“. Rindill svarar: „Eigi mun ek fara at geipun þinni; hlíta mun ek ok því, er Þorkell bauð“. Síðan var hon all-æf í orðum við hann, enn Rindill svaraði henni illa; tók nú at nátta. Þá mælti Þorkell: „Sit hér hjá mér, Þórhallr; sé ek at konur hafa þungan hug til þín“. Enn eftir mat fór gestr at sofa, ok svá Þorkell; ok lá hann í lokrekkju, enn gestrinn utar frá. Konur fóru eigi í rekkju. Þorkell spurði: „Hví ferr þú eigi í rekkju, húsfreyja“. Hon svarar: „Ek trúi verr gestinum enn þú“. Þorkell svarar: „Þungt er þér til hans“. Síðan sofnaði hann; ok hvíldi Guðrún dóttir hans hjá honum; hon var fjögurra vetra. Ok er myrkt var orðit, reis Rindill upp ok skaut frá lokum; síðan gekk húsfreyja eftir gólfi ok utar í öndina, ok mælti: „Varð svá þó“ — ok lét fyrir lokurnar. Þorkell vaknaði ok mælti: „Hvat er nú, húsfreyja“? „Slíkt sem mik grunaði“, segir hon, „at gestrinn vill svíkja þik, ok hefir skotit frá lokum“. Rindill mælti: „Mikinn fjandskap sýnir þú við mik, hve nær sem at gjöldum kemr“. Þorkell mælti: „Eigi mun gát hafa verit at setja fyrir lokurnar. Síðan sofnaði hann. Ok er stund leið, skreiddist Rindill ór rúmi sínu ok skaut frá lokunum, ok mælti: „Enn mun Þorkell dyljast við“ — ok gekk í eldhúsit; ok

svaf Þorkell þá. Ok þegar jafnskjótt sprettr Rindill upp, ok heyrði þá hundgá ok at menn riðu at bænum. Hann hljóp út þegar ok hafði föt sín í fangi sér, enn sjálfr var hann nakinn, ok fór nú í klæðnað.

19. Síðan drifu menn at bænum, ok inn í húsin; var þar kominn Guðmundr ok þeir tuttugu saman. Ok við gnýinn ok vápnabrak vaknaði Þorkell, ok varð eigi ráðrúm til at fara í brynju sína; enn höggspjót tók hann í hönd sér, enn setti hjálm á höfuð sér. Mjólkrketill stóð í húsinu í horninu, ok var þröngt. Þá mælti Guðmundr: „Þat er nú ráð at sýna sik, ok skríða eigi í hreysi“. Þorkell svarar: „Nú skal ek víst sýna mik þér, Guðmundr, ok eigi komtu fyrr enn ek ætlaða, eða hverja leið fóru þér hingat“? Hann svarar: „Ek fór Brynjubrekku ok Hellugnúpsskarð. Þorkell mælti: „Þú hafðir bratta leið ok erfiða; ok trautt kann ek at ætla, hversu rassinn mundi sveitast ok erfitt hafa orðit í þessi ferð“. Síðan hljóp hann fram með brugðit sverð, ok hjó þegar til Guðmundar; enn hann hopaði undan. Þorkell lét sem hann sæi engan nema Guðmund í atsókninni. Menn báru vápn á Þorkel; enn hann varðist hraustlega, ok fengu menn sár af honum. Þorsteinn hét maðr ok kallaðr enn rammi; hann gekk mest í móti Þorkatli, ok varð hann sárr mjök, því at margir váru um einn; ok var hann eigi at óákafari, þó at iðrin lægi úti. Guð-

mundr hopaði undan, ok hrataði í mjólkrketilinn; þat sá Þorkell ok hló at, ok mælti: „Nú kveð ek at rassinn þinn hafi áðr leitat flestra lækjanna annarra, enn mjólkina hygg ek hann eigi fyrr drukkit hafa; enda ráðst þú hingat, Guðmundr; úti liggja nú iðrin mín". Síðan drápu þeir hann. Þá mælti Guðmundr: „Vill húsfreyja tilbeina várn, at Þorkell sé jarðaðr"? Hon svarar: „Þat vil ek víst eigi, ok verðið á brottu sem fyrst; ok betra þykki mér hjá honum dauðum, enn hjá yðr lífs". Síðan riðu þeir á brott, ok hittu Einar Konálsson. Hann fagnaði Guðmundi vel, ok spurði tíðenda. Guðmundr mælti: „Veginn segi ek þér Þorkel hák". Einarr svarar: „Eigi þarf at sökum at spyrja; ætla ek nú at þú munir taka við fé þínu ok bjóða Ljósvetningum fébætr". — Síðan var fundr settr; ok kom þar Guðmundr ok Einarr Konálsson, ok þeir synir Þorgeirs, Tjörvi ok Höskuldr. Einarr mælti: „Spurt munu þér nú hafa líflát Þorkels, ok munu þat margir kalla eigi fyrir sakleysi; enn Guðmundr vill yðr bætr bjóða ok stinn manngjöld, enn eigi er þess at vænta, at Guðmundr flýi land sitt; mun hann ok um kyrt sitja". Höskuldr segir: „Þat er nú fram komit, er þér hafið lengi um setit; ok ótrúlegar munu sættir várar verða, þótt Guðmundr hafi nú ríki mikit". Tjörvi svarar: „Eigi mun þat mitt ráð, at neita fé-

bótunum“. Síðan greiddi Guðmundr fram féit; ok váru sáttir at kalla.

20. Rindill fór heim með Guðmundi, ok lét hann vel yfir honum; ekki var hann þó þokkaðr af alþýðu. Þeir bræðr í Gnúpufelli váru bundnir í tengdum við Þorkel hák. Eilífr átti Þórdísi skáldkonu; hann var maðr mikill ok sterkr, ok bogmaðr góðr; laungetinn var hann. Brúni átti Álfdísi Koðránsdóttur; ok váru þær bræðrungar ok Þorlaug Atladóttir, kona Guðmundar. Enn móðir Þorkels háks var Guðríðr, er Þorgeirr goði átti, ok hennar móðir var dóttir Hrólfs Ingjaldssonar í Gnúpufelli; ok var frændsemi með þeim Þorkatli ok þeim bræðrum í Gnúpufelli. Hlenni enn spaki bjó þá í Saurbæ; þeir váru bræðra synir ok Þorgeirr goði. Hlenni var þá blindr ok gamall. — Þar kom at um sumarit, at menn riðu til leiðar. Guðmundr var vanr at ríða fjölmennr, ok fór út frá garði; enn þeir er ofan riðu, fóru et neðra með ánni ok hittust í ákveðnum stað. Menn váru þá mettir, ok váru rekin heim hross; ok kom eigi hestr Rindils. Guðmundr bað leita hestsins. Rindill svarar: „Þat hæfir eigi, at aðrir menn leiti hests míns; enn ek veit hvar er, ok ríðið fyrir“. Guðmundr hafði virðing mikla á honum ok helt hann vel, ok mælti: „Far þú, sem ek vil“. Enn engi vildi sinn hest láta fyrir honum. Þeir Guðmundr riðu

fyrir, enn Rindill var eftir ok maðr einn hjá honum; ok fóru til matar, þegar hestrinn var fundinn. Rindill hafði skyr, ok mataðist skjótt, því at skyrit var þunt; ok riðu síðan út frá garði, ok svá í skóginn. Þá hleyptu menn á móti þeim, ok var þar kominn Eilífr ok maðr með honum. Þar varð fátt af kveðjum, ok setti Eilífr þegar kesjuna á Rindil miðjan; enn skyrit sprændi ór honum ok upp á Eilíf. Enn förunautr Rindils sagði Guðmundi. Hann varð óðr við, ok sneru þegar ferðinni eftir þeim; enn fekk mann til at helga leið. Þeir Brúni urðu varir við, ok sneru aftr; enn þeir Eilífr sneru í Saurbæ. Hlenni var úti ok bjó ferð húskarls síns; enn hann skyldi fara í Seljadal með kálfa. Þeir sögðu honum, hvat þeir höfðu gert, ok biðja hann ásjár — „því at Guðmundr vill hafa líf okkart, ok ríðr hér eftir oss“. Hlenni svarar: „Hvat er til saka, Eilífr, eða hefir þú skotit Rindil“? „Já“, segir hann, „ok hefir Guðmundr því reiðst“. Hlenni mælti: „Lítill mannskaði, enn ek má lítit traust veita, enn þó gangit þit inn ok verist innan“. Ok svá gerðu þeir. Síðan kómu þeir Guðmundr í túnit, ok kvöddust þeir Guðmundr ok Hlenni. Guðmundr mælti: „Eru þeir hér ódáðamennirnir hjá þér, Hlenni, Eilífr ok förunautr hans“? „Eru þeir hér“, segir hann, „ok þykki mér engi harmsaga, þótt Rindill sé dauðr“. Guðmundr mælti: „Ger

þú annat hvárt, at þú sel þá fram, ella munu vit brenna upp bæinn; engum skal hlýða at drepa heimamenn mína". Hlenni svarar: „Vera má þat, at nú megir þú gera slíkt sem þú vill, enn verit myndi þat hafa fyrr meir, at fjölrætt myndi í heraðinu, ef þú gerðir mér óvirðing; enn þann veg er mér um gefit, at betra þykki mér at þeir sé eigi fyrir augum mér drepnir nú; ok vil ek senda þá í Eyrarskóg". Guðmundr segir: „Viltu því heita, at þeir komi þar, þá mun ek þann kost taka, því at jafnt þykki mér heit þín sem handsöl annarra manna". Síðan gekk Hlenni inn ok mælti: „Nú er Guðmundr hér kominn, ok vill hafa líf þitt, enn ek hefi enga mótstöðu". Eilífr svarar: „Slíks er at ván, ok skal ek út ganga". Þá mælti Hlenni: „Þú skalt eigi hvata at því, enn lítit mun verða undanbragðit. Nú skulu þit fara yfir í Eyrarskóg með þeim hætti, at í sínu hripi skal vera hvárr ykkarr ok bera á ykkr gras; enn þá skal liggja kálfr á hvárum ykkrum; enn þó má vera at Guðmundr sjái eigi þetta undanbragð fyrir reiði sakar. Enn ef þik berr skjótt fram hjá, þá kipp þú þegar knappinum ór hrips-grindinni; enda mun þá auðna ráða". Svá var um búit, sem Hlenni mælti; ok er húskarlinn kom yfir á ok í skóginn, þá drifu þeir Guðmundr í móti þeim. Þá mælti Guðmundr: „Hví eru þeir Eilífr svá seinir"? Hann svarar: „Ek ætla

at þeim þykki eigi til öls boðit, enn þó váru þeir búnir er ek fór". Ok er hann kom fram hjá þeim, þá hljóp hann þegar aftr hjá hestinum ok hleypti þeim niðr ór hripunum; enn þeir hlupu þegar í skóginn ok til Gnúpufells. Þá mælti Guðmundr: „Nú eru vér stiltir; þeir hafa verit í hripunum, ok sé ek nú eftir, hversu hestrinn sté fast at grjótinu, er hófarnir lögðust fyrir; nú mun Hlenni eigi þykkjast logit hafa, ok er hann vitr maðr — enda snúum nú eftir þeim". Síðan kómu þeir í Gnúpufell ok gengu at dyrum; enn hurðir váru aftr, ok stóð Eilífr fyrir innan hurð með skeyti sín. Þá mælti Guðmundr: „Sel þú fram, Brúni, Eilíf ódáðamanninn, ella munu vér leggja eld at bænum". Hann svarar: „Þá skal hart eftir ganga, ok kynlegt er, at þér sýnist at hafa stórvirki á várum frændum ok leita eftir svá frekt um menn slíka, er einskis eru verðir". Guðmundr mælti at eldinn skyldi at bera; þá var svá gert. Þá gekk kona til hurðarinnar ok mælti: „Má Guðmundr heyra mál mitt"? Hann kveðst heyra — „eða er Þórlaug þar, ok er einsætt at ganga út"? Hon svarar: „Eigi mun ek skilja við Álfdísi, frændkonu mína, enn hon mun eigi skilja við Brúna". Guðmundr mælti: „Ef þú vill kjósa heldr at deyja við skömm hér, enn lifa með mér með sæmd ok virðingu, þá skal þó verkit eigi fyrir farast". Þá gekk

maðr í dyrnar ungr, ok mælti: „Hvárt má Guðmundr heyra mál mitt“? Hann kvaðst heyra — „eða er Halldórr þar sonr minn“? Hann kvað svá vera. Guðmundr mælti: „Gakk þú út, frændi“. Hann svarar: „Eigi þarftu þess mik at eggja, því at þér skal engi verri enn ek, ef móðir mín brennr hér inni“. Síðan áttu menn hlut at við Guðmund, at hann gerði eigi svá mikla óhæfu. Ok svá varð, at Guðmundr lét teljast, ok fór í brottu; síðan varð aldri vel með þeim. — Guðmundr sat yfir metorðum mestum í heraðinu.

21. Þat barst at eitt sinn, at Guðmund dreymdi draum mikinn. Síðan fór hann á fund Drauma-Finna norðr í Kaldakinn undir Fell, ok mælti: „Draum vil ek segja þér, er fyrir mik bar“. Hann svarar: „Óþökk er mér á öllum kvámum þínum sakir harma várra“. Guðmundr mælti: „Engi kemr grimd til þessa, ok þigg at mér fingrgull“. Hann tók við ok mælti: „Hvat dreymdi þik“? Hann svarar: „Ek þóttumst ríða norðr um Ljósavatnsskarð; ok er ek kom gagnvart bænum at Öxará, þá sýndist mér höfuð Þorkels háks á aðra hönd hjá mér, þá er at bænum vissi; ok er ek reið norðan, sat höfuðit á annari öxl mér, þeiri er þá horfði við bænum; nú stendr mér ótti af þessu“. Finni mælti: „Sjá þykkjumst ek fyrirburð þenna. Þat hygg ek, at hvert sinn, er

þú ríðr norðr ok norðan, komi þér í hug víg Þorkels háks; enn frændr hans sitja hér í hverju húsi, ok mun þér ótti af því standa; enn því skiftist þat á öxlum þér, at svá berr bæinn við — ok ekki kemr mér þat á óvart, at nær stýrt verði nökkurum þínum frændum".

Síðan reið Guðmundr á brott ok norðr í sveitir til þingmanna sinna, ok gisti á Tjörnesi; ok var honum skipat í öndvegi, enn innar frá honum var skipat Ófeigi Járngerðarsyni. Ok er borð kómu fram, þá setti Ófeigr hnefann á borðit ok mælti: „Hversu mikill þykki þér hnefi sjá, Guðmundr"? Hann mælti: „Víst mikill". Ófeigr mælti: „Þat muntu ætla at afl muni í vera"? Guðmundr mælti: „Ek ætla þat víst". Ófeigr segir: „Mikit muntu ætla at högg verði af"? Guðmundr segir: „Stórum mikit". Ófeigr segir. „Þat muntu ætla at saka muni"? Guðmundr mælti: „Beinbrot eða bani". Ófeigr svarar: „Hversu mundi þér sá dauðdagi þykkja"? Guðmundr mælti: „Stórillr, ok eigi munda ek vilja þann fá". Ófeigr mælti: „Sittu þá eigi í rúmi mínu". Guðmundr segir: „Þat skal ok vera" — ok settist öðrum megin. Þat fanst á, at Ófeigr vildi þar mest vera metinn — enn skipaði áðr öndvegit; enn sveifst einskis sjálfr, þess er honum bjó í skapi.

Kona hét Þórhildr ok var kölluð Vaðla-

ekkja, ok bjó at Naustum. Hon var forn í lund ok vinr Guðmundar mikill. Guðmundr fór á fund hennar, ok mælti: „Forvitni er mér á því mikil, Þórhildr, hvárt nökkur mannhefnd mun fram koma fyrir Þorkel hák“. Hon svarar: „Kom þú í öðru sinni ok hitt mik eina saman“. Síðan liðu stundir. Ok einn morgin reið Guðmundr heiman snemma einn saman til Vaðla; ok var Þórhildr úti ok gyrð í brækr, ok hafði hjálm á höfði ok öx í hendi. Síðan mælti hon: „Far þú nú með mér, Guðmundr“. Hon fór ofan til fjarðarins, ok gerðist heldr þrýstileg; hon óð út á vaðlana, ok hjó hon fram öxinni á sjóinn; ok þótti Guðmundi þat enga skipun taka. Síðan kom hon aftr, ok mælti: „Eigi ætla ek, at menn verði til at slá í mannhefndir við þik, ok muntu sitja mega í sæmd þinni“. Guðmundr mælti: „Nú vilda ek, at þú vissir, hvárt synir mínir munu undan stýra“. Síðan óð hon út á vaðlana; ok enn hjó hon á sjóinn, ok varð af brestr mikill ok blóðugr allr sjórinn. Síðan mælti hon: „Þat ætla ek, Guðmundr, at nær stýrt verði einhverjum syni þínum, ok mun ek þó nú eigi oftar þraut til gera, því at engan veg kostar mik þat lítit; ok munu hvárki tjóa við ógnir né blíðmæli“. Guðmundr mælti: „Eigi mun ek oftar þessa þraut fyrir þik leggja“. Síðan fór Guðmundr heim, ok sat í virðingu sinni.

Ok er á leið æfi hans, þá er þess getit, at maðr hét Þórhallr, góðr bóndi, ok bjó á bæ nökkurum í Eyjafirði. Hann dreymdi draum, ok fór norðr á fund Finna. Hann var í dyrum úti. Þórhallr mælti: „Draum vilda ek at þú réðir, Finni, þann er mik hefir dreymt“. Finni mælti: „Far þú í brottu sem skjótast, ok vil ek eigi heyra draum þinn“ — ok rak aftr hurðina, ok mælti: „Far þú ok seg Guðmundi á Möðruvöllum, elligar skal þik með vápnum brott reka“. Síðan fór hann í brott ok á Möðruvöllu. Enn Guðmundr var riðinn um daginn út eftir heraði, ok var heim ván um kveldit. Einarr bróðir hans lagðist niðr ok sofnaði; hann dreymdi þat, at oxi gengi upp eftir heraðinu, skrautlegr ok hyrndr mjök; ok kom á Möðruvöllu, ok gekk til hvers húss, er var á bænum, ok síðast til öndvegis; ok fell þar niðr dauðr. Síðan mælti Einarr: „Slíkt mun fyrir miklum tíðendum, ok er þetta mannafylgjur“. Þá kom Guðmundr heim, ok var þat siðr hans at koma til hvers húss, er á bænum var. Ok er hann gekk til öndvegis, þá lagðist hann upp ok talaði við Þórhall; ok sagði hann honum draum sinn. Ok eftir þat réttist hann upp, ok var þá fram kominn matr; mjólk var heit, ok váru á steinar. Þá mælti Guðmundr: „Ekki er heitt“. Þórlaug mælti: „Kynlega er þá“ — ok heitti steinana. Síðan drakk Guðmundr

ok mælti: „Ekki er heitt“. Þórlaug mælti: „Eigi veit ek nú, Guðmundr, hvar kemr til heitfengi þitt“. Ok enn drakk hann ok mælti: „Ekki er heitt“. Þá hneig hann á bak aftr ok var þá andaðr. Þá mælti Þórlaug: „Mikil tíðendi, ok munu víða spyrjast; enn engi maðr skal taka á honum; enn grunat hefir Einar oft minni tíðendi“. Síðan kom Einarr, ok veitti honum umbúnað. Einarr mælti: „Eigi hefir draumr þinn, Þórhallr, lítinn kraft; ok þat hefir Finni sét á þér, at sá væri feigr, er þú segðir drauminn; enn þess unni hann Guðmundi. Kaldr hefir hann nú verit innan, er hann kendi sín eigi“.

21. Síðan tóku synir Guðmundar ens ríka fé eftir hann, Eyjólfr ok Konrán. Konrán var manna vænstr, efnilegr ok vinsæll. Hann óx upp með Hlenna. Halldórr Guðmundarson var þá utan farinn; hann fell í Brjánsorrostu. Eyjólfr vildi einn hafa föðurleifð sína, ok unni eigi jafnaðar bróður sínum. Eyjólfr var vænn maðr ok mikill. Enn er Koðrán var fullkominn til aldrs, þá beiddist hann fjárskiftis við Eyjólf. Hann svarar: „Eigi vil ek hafa tvíbýli á Möðruvöllum, ok eigi rísa upp fyrir þér“. Síðan hitti Koðrán Hlenna fóstra sinn ok segir honum svá búit — „ok mun eigi sannleg vörnin, ef ek skal rænast arfinum“. Hlenni svarar: „Eigi kemr mér á óvart ofsinn Eyjólfs, enn

eigi ræð ek at þú dæmir þik sjálfr af arfinum; heldr gerir þú hús út frá garði á Möðruvöllum" — ok þat ráð var haft. Enn þat ráð samdist svá síðan, at Koðrán bjó í Möðrufelli. Einarr Arnórsson bjó þá at Hrafnagili, vitr maðr, göfigr ok ættstórr. Eyjólfr var ríkastr maðr fyrir norðan land. Þorvarðr Höskulds son Þorgeirs sonar bjó þá at Fornastöðum í Fnjóskadal. Hann var fyrir þeim Ljósvetningum. Hann var vitr maðr ok stiltr vel, ok nökkut aldraðr. Eyjólfr sendi menn á fund hans, ok bauð honum heim til sín, ok þann kost tók hann. Eyjólfr tók vel við honum ok mælti: „Undir þínum þokka þykki mér mest af þínum frændum; ok þótt fátt hafi verit um með oss af enum fyrrum atburðum, þá vil ek nú vingast við þik, ok skalt þú þiggja at mér stóðhest þann, er hér er beztr í heraðinu". Þorvarðr svarar: „Þiggja mun ek hestinn, ok haf þökk fyrir; ok hlýða mun okkr, ef eigi spilla aðrir menn um". Hann fór heim síðan. Höskuldr hét son Þorvarðs; hann var mikill maðr ok sterkr, ok uppvöðslumaðr mikill. Þorkell hét maðr. Hann bjó at Veisu; hann var Hallgils son; móðir hans hét Solveig Þórðardóttir. Þórðr var bróðir Þorgeirs at Ljósavatni. Með honum var at uppfæðslu Höskuldr Þorvarðsson. Gunnsteinn hét maðr, er bjó at Ljósavatni, Þórðarson. Brandr hét son hans; hann var jafnaldri Höskulds, ok

váru báðir með Þorkatli, ok áttu mikit lag við Þveræinga. Þorvarðr Höskuldsson var maðr óafskiftinn um málaferli. Hann bauð nær jafnaði, enda gekk eigi af, því at þeir fóstbræðr váru skaplíkir, ok urðu híbýlin því rostusöm; enn fátt var um með þeim frændum, Þorvarði ok Höskuldi, því at þeir váru óskaplíkir frændr í sumum háttum.

Maðr hét Ísólfr ok bjó norðr á Tjörnesi; hann var þingmaðr Eyjólfs Guðmundarsonar. Friðgerðr hét dóttir hans, kona væn ok ættgóð ok sköruleg, umsýslumaðr mikill. Grímseyingr einn ungr ok frálegr gerðist til ok slóst á tal við hana; enn föður hennar gatst eigi at því ok hitti hana, ok mælti: „Eigi er mér um vistir þínar hér lengr, at í því aukist vár ósæmd; nú sendi ek þik til Eyjólfs vinar mins, ok mun hann vel við þik gera“. Hon svarar: „Þat er vænlegt ráð“. Síðan fór hon ok maðr með henni. Ok er þau kómu á Fornastaði til Þorvarðs, gerði veðráttu illa. Þá mælti Þorvarðr: „Aldri þykki mér óvænna at snúa norðr aftr“. Hon svarar: „Þann veg er mér farit at síðan ek fór norðan, at eigi komi ek þar svá búit. Þorsteinn heitir maðr, ok er kallaðr drafli; hann býr á Draflastöðum; hann er nú norðr, ok mun ek vera þar, meðan óveðráttan batnar eigi“. Þorvarðr svarar: „Ek hefi nú ok um rætt slíkt, er mér sýnist, enn eigi kemr

mér á óvart at þessu sé misráðit". Síðan fór hon ofan í dalinn ok á Draflastaði; ok var vel við henni tekit. Þetta fréttist brátt. Veisusynir spurðu ok þetta, ok sóttu þangat leika, ok bar saman tal þeira fóstbræðra ok Friðgerðar, ok fór hún þangat, ok var þar.

Þess er getit, at skip kom út í þetta mund norðr, ok ætlaði þat at fara tvívegis. Þeir fóstbræðr fóru til skips ok könnuðust við kaupmenn. Þá mælti Höskuldr: „Þat höfum vit ætlat félagar, at fá yðr tveim mönnum fleira enn áðr". Stýrimaðr svarar: „Er eigi þat þá, Höskuldr"? Hann svarar: „Þat er í ætlan, ef kostr er". Stýrimaðr svarar: „Þess skal víst kostr". Þeir tóku sér fari, ok fóru síðan heim.

Ok er þeir váru mjök búnir, þá heimtu þeir Þorkel á tal. Þá mælti Höskuldr: „Vit fóstbræðr ætlum utan at fara, enn vit viljum fá þér í hendr sókn ok vörn mála þeira, er okkr snerta, ok höfum vátta við". Þorkell svarar: „Fátt hefi ek á móti ykkr látit, enn varla sýnist mér þetta vandalaust, ok kann mart til þess at bera; enn þó skulu þit ráða". Ok þetta gekk fram, at þeir fóru utan; ok váru vel virðir. Enn Friðgerðr var eftir, ok þótti vera kona sæmileg ok allmikill gleðimaðr, ok samdi sik mjök í hátt með ungum mönnum; hon var verkmaðr mikill ok umsýslumaðr. Hon kom eitt

sinn at máli við Þorkel: „Svá er, sem þú veizt“, segir hon, „at ek hefi haft umönnun ok verknað hér, enn nú fellr mér þat alt þyngra, því at vöxtr minn er í þrútnan ok þyngist heldr gangan; enn ek hefi eigi þurft annarra hér til, enn nú þykki mér þat ráð þurfa, er svá berr til; em ek nú kona eigi heil“. Þorkell svarar: „Hverr veldr því“? Hon kvað Brand valda því. Þorkell svarar: „Þó hefir hann þetta óvinlega gert, ok sagt mér ekki til; er mér þetta vandsét mál. Hefir hér verit gleðivist mikil, enn þú kona eigi fálynd, ok veit ek eigi, hvárt hann veldr þessu eða aðrir hleypimenn, þó at eigi sé jafnríflegir sem Brandr; ok þykki mér þeim ólið veitt fóstbræðrum, ef þá skal sanna gera at þessu“. Hon fekk af þessu mikla ógleði, ok fór til föður síns. Honum eyddist skjótt féit, ok kvað hon sína ferð óþekkilega orðit hafa, sem ván var at. Hann svarar: „Eigi hefir vel orðit, enda var eigi góðu ráði til at bregða“.

Ísólfr gerði ferð sína á fund Þorkels, ok vissi hann gerla, at hann var kominn þar til hreytingar, enn eigi til bótar. Hann brá Þorkatli þegar á tal, ok mælti: „Þat er undir för minni, at ek vilda at þú greiddir málit Friðgerðar, ok sómir yðr þat vel, at eigi standi hér ilt af, sem ván er at hermingar muni vera. Mæli ek til þess at hon sé með þér; ok mun

ek leggja fé fyrir hana, enn sættast hóglega á málit ok vera hægr í biðum, ok mun ek eigi mæla til framar, enn at vér sém eigi ræntir sannendum“. Þorkell svarar: „Saklauss em ek um þetta mál; er dóttir þín kona eigi fálynd, ok eigi einn líklegri enn fleiri til þokka með henni“. Síðan fór Ísólfr á brott, ok reið leið sína ok fór á fund Eyjólfs Guðmundarsonar á Möðruvöllu, ok var þar vel við honum tekit. Hann brá honum á tal ok mælti: „Ekki mun þér til virðingar mitt erendi, enn þó ætlu vér til þinnar ásjár, þingmenn þínir; virðum vér svá, at gild svívirðing sé í þeira tiltæki, Fnjóskdæla; hafa sumir hlaupizt á brott af landi, enn vér ætlum hlut í hafa þessu máli, enn þeir svara engu til, er nú eru fyrir mál settir. Stóð svá til í fyrstu, at ek ætlaða at senda dóttur mína á fund yðvarn, ok firra hana ámæli vándra manna; enn þeir heftu ferð hennar, Brandr ok Höskuldr, ok dvöldu hana til svívirðingar“. Eyjólfr svarar: „Þetta er illa við komit. Ek vilda undan eira við Ljósvetninga, enn þó ert þú illa við kominn. Ætla ek ráð, at hon fari hingat til mín, ok má ek eigi aka undan öllum fæti, enn svá mun þykkja, ef þetta er kyrt“. Ísólfr svarar: „Þann veg mun virt vera, at eigi haldi þér sæmdum, ef til hlutast yðr ótignari menn“. „Ek mun við máli taka“, segir Eyjólfr, „þótt eigi sé vandalaust, ok lát

fylgja henni til mín, ok mun ek þó lítilþægr at yfirbót; vænti ek at Þorvarði fari bezt, ef hans ráð eru höfð, enn lítillar sæmdar vænti ek af öðrum þeim, er hér eigu hlut í". Ok tókust þeir í hendr, ok seldi Ísólfr honum málit.

23. Síðan fór Ísólfr heim ok leið vetrinn. Ok einmánað öndverðan var samkoma at Hálsi í Fnjóskadal — enn nú er hon í Kaupangi. Eyjólfr kom seint, ok var þar lokit öllum samkomumálum; var Þorvarðr í brottu ok bændr. Eyjólfr spurði: „Hvat er títt um ferðir Þorvarðs?" Honum var sagt, at hann var heim farinn. Eyjólfr segir: „Þat er oss engi gæfa, eða hvárt er hér Þorkell Hallgilsson?" „Hér em ek", kvað hann. Eyjólfr mælti: „Vit höfum vel hittst at málum, eða hversu vill þú svara málum þeira Friðgerðar ok Ísólfs, er menn kalla yðr henda taka félaga? Mér er sagt at þú eigir sókn og vörn mála þeira, er við eru kendir Brandr ok Höskuldr; nú mun ek eigi mikilþægr at um yfirbætr, ef vel er svarat". Þorkell svarar: „Þetta berr breytilega til, er þú hefir at ganga eftir kvittum óvísra manna. Nú mun ek eigi veita fóstbræðrum mínum ólið, eða sanna þá at því máli, er allir eru jafnlíklegir til samlags við Friðgerði. Nú mun ek eigi sanna betr enn vita, hver sannendi til eru af þeim, er þér kennið málið". Eyjólfr svarar: „Þá eru vér tregari, enn vér mundum vilja, enn ek mun hóg-

lega til mæla. Viltu handsala í lögréttu, ok skíri hon sik, ok handsala faðerni, ef hon verðr skír?" Þorkell svarar: „Þungr verðr hlutrinn várr, ef ek handsala faðerni, enn annarr verðr sannr at, enn skírslunnar mun ek eigi varna; sumir kveða þó langstaðit, ok vil ek handsala rétt presti þeim, er skírslu gerir". Hann svarar: „Þat mun í lýsast, at ek vil sættast, ok kýs ek þetta af". Síðan gerði Þorkell svá, at hann handsalaði presti rétt, ef hon yrði skír, ok eindaga á fénu. Skírsla skyldi vera í Laufási; enn sá prestr hét Ketill, er gerði skírsluna, er kallaðr var Möðrvellinga-prestr. Þá var í Skálholti Ísleifr biskup. Síðan fastaði hon; enn Eyjólfr bauðst nú til að sjá skírsluna, ok kvað auðsætt, at þeir vildi enn tefja málit — „ok skal því meiri hug á leggja eftir at sjá". Þorkell kom, ok var nú leyst til handarinnar. Prestr veitti eigi skjót atkvæði. Þá mælti Þorkell: „Hví er þú svá mikill verrferðungr at segja eigi, at hon er brunnin?" — ok nefndi sér vátta at því. Prestr mælti: „Nú ferr óliðlega, er þit dæmið, ok takið málit fyrir hendr mér fram, er ek á atkvæði at veita, ok skal vera enn tilraun önnur skírari". Eyjólfr svarar: „Eigi má skírari vera, enn fyrir fjandskap þinn ok mútur, er þú hefir til tekit, þá skal ek heimta sem föðurarf minn". Þorkell svarar: „Vitu vér þat, Ljósvetningar, at ósparir hafi þér lengi verit við oss

um fjandskapinn". Eyjólfr svarar: „Þér hófuð fyrri fjandskapinn, enn kómuð niðr hart eftir verðleikum". Þorkell svarar: „Fyrir þessa sök skal ek láta annathvárt alt fé mitt, eða ekki". Eyjólfr svarar: „Eigi mundi Þorvarðr svá svara, frændi þinn". Síðan skildu þeir at því.

Þá kom skip at Gásum, ok váru þeir á fóstbræðr, Brandr ok Höskuldr. Þorkell hitti þá brátt, ok mælti: „Heimil mun vist með mér sem fyrri, þó vant sé". Þeir þágu þat, ok fóru til Veisu. Þá mælti Þorkell: „Svá er nú málavöxtr, at Eyjólfr vill bera þik sökum, Brandr, með þeim hætti, at þú hafir legit Friðgerði Ísólfsdóttur, ok mælt svá ferlega, at hann mundi svá heimta rétt hennar sem arfinn eftir Guðmund föður sinn. Enn ek ætla at hann geri þat lítt eftir sannri raun, því at skírslur hygg ek at henni gangi æ til smánar, ok sá ek hönd hennar ófegri enn áðr, ok sýndist í því fjöllyndi hennar; enn Eyjólfr vill enn vekja forna óhæfu við oss frændr". Brandr svarar: „Engan greiða mun ek á því gera, at ek sé þar í meiri venzlum, enn aðrir menn". Þorkell mælti: „Hverja meðferð vili þér hafa, því at frændr várir allir vilja með Eyjólfi vera, nema Hrafn Þorkelsson frá Ljósavatni?" — hann bjó þá at Lundarbrekku í Bárðardal; — „hann vænti ek at oss sinni eigi síðr; hann skortir eigi vit"; — kona Hrafns var ættuð ór Goðdölum; — „nú vænti

ek, at hann fái til nökkut ráð, at vér hafim hærra hlut; ok yrði svá vel, at Eyjólfr réðist norðr hingat, at hann hafi skapnaðar erendi". Höskuldr mælti: „Nauðsyn er, at vér stöndum við". Síðan hitta þeir Hrafn, ok bar Höskuldr málit upp, ok mælti: „Spurt munt þú hafa óþyktar svip Ísólfs ok Eyjólfs til vár enn at nýju. Nú vilju vér í móti rísa með þínu ráði". Hann svarar: „Þú segir satt; Eyjólfr vill nú ganga yfir alla þjóð, enn þeim þykkir ekki til vár koma, nema til Þorvarðs eins, ok er mér til nökkurs; enn farið nú til Óðslu ok hittið Ótrygg, ok bindið hann í lið með yðr, ok til vina várra í Fnjóskadal, því at ek kenni ofsa Eyjólfs, at hann mun norðr hingat leita; verum þá við búnir ok leynum Þorvarð".

Þat er sagt þat sumar, at Eyjólfr átti samkomu í heraði, ok mælti: „Þat mun yðr kunnigt, at ek em kallaðr höfðingi yðvarr. Nú þykki mér sem þat muni sannlegt kaup með oss, at hvárir veiti öðrum at réttum málum, ok at þér styrkið oss til móts við mína ágangsmenn, enn ek sé yðvarr liðsinnismaðr í yðrum nauðsynjum". Mönnum þótti þetta vel sagt. Síðan reið Eyjólfr til Hrafnagils tll Einars Arnórssonar. Hann var virðingamaðr ok vinr Eyjólfs. Þá mælti Eyjólfr: „Svá er því máli háttat, er ek vil ræða við þik, at mér er nú at sækja eindagann, enn ef ek fer fjölmennr, þá mun ek við leita,

at þrengja at þeim með fjandskap — enn Þorvarðr einn er vægðar verðr“. Hann svarar: „Gamall maðr er hann nú víst, ok góðr drengr er hann, því at hann barðist við Gyrð, þá er hann var með Þórólfi; er honum vel farit; hann er varúðigr ok mikill fyrir sér, ok því at eins dugir þeim frændum, ef hann sezt fyrir málit. Er þat mitt ráð, at þú farir með átjánda mann, ok seg, at þú farir eftir fangi til Flateyjardals“.

Síðan bjóst Eyjólfr, ok með honum Þorsteinn enn rammi af Arnarstöðum, ok Þórir, son Finnboga ens ramma, heimamaðr hans. Veðr var hvast, er þeir riðu á Vöðlaheiði. Þeir kómu á Draflastaði til Atla bónda. Hann var maðr auðigr, ok þingmaðr Eyjólfs. Þeir kómu síð, ok var vel við þeim tekit. Bóndi spurði um ferðir Eyjólfs. Hann kvaðst ætla út til Flateyjardals — „enn þú skalt vita hvat undir býr. Ek vil at þú gerir mann yfir til Veisu, ok vita, hvar þar er heima manna“. Bóndi var fámáligr. Eyjólfr mælti: „Hví ert þú svá fálátr?“ Atli svarar: „Ek væri glaðari, ef þú værir með hundrað manns“. Eyjólfr svarar: „Vel er þat mælt, eða veiztu nökkut til tíðenda frá Veisu?“ Hann svarar: „Ekki nema kyrt, enn eigi er þeim um þik“. Eyjólfr bað hann senda húskarl sinn til Veisu. ok vita hvat til tíðenda væri. Hann gerði svá. Húskarlinn kom til

Veisu. Höskuldr stóð úti í dyrum, ok mælti: „Snemma ertu á fótum félagi“ — ok brá honum til glímu, ok kvað hann hafa vanda til at glepja konur; ok tók hann at reika á fótunum. Hann ætlar þá at ganga at öðrum dyrum, ok var Brandr þar fyrir ok mælti: „Eigi muntu hér inn ganga; sofa vill hon“. Enn þeir reiddu hann aftr ok fram eftir vellinum, ok rifu af honum klæðin; varð hann því feginn, at hann komst á braut. Síðan fór hann heim, ok spurði Eyjólfr at um ferðina. Hann lét hana illa orðna — „váru þeir fóstbræðr úti, ok ætla ek at þeir hafi grunat mik, ok gerðu þeir mér atfarar margar ok rifu af mér klæðin; ok váru hurðir aftr fyrst, er ek kom, ok fekk ek þó sét frá hurðinni, hvat títt var inni; ok gruna ek, at fjölmenni muni fyrir, ok at þeir hafi njósn af um ferðir þínar“. Eyjólfr svarar: „Eigi er þat ólíklegt“. — Þat var síðan vanr at mæla Þorvarðr Þorgeirsson, þá er hark var haft: „höfum nú veisubragð“. — Atli mælti: „Slíkt grunaði mik“. Eyjólfr segir: „Eigi er förin góð svá búit“. Atli svarar: „Ek býð þér tíu menn vel búna, ok far aftr ok legg eigi menn þína í hættu“.

24. Síðan riðu þeir Eyjólfr at ánni. Þá sjá þeir at menn ríða frá húsunum ok eigi færri enn sjau tigir, ok létu þeir þegar drífa at þeim grjót; ok váru þeir menn Eyjólfs dumpaðir illa

um herðarnar, ok sneru þeir aftr. Atli kvað farit hafa sem hann grunaði. Eyjólfr mælti: „Nú skal senda eftir Odda Grímssyni í Höfða, vin várum“ — ok svá var gert. Menn váru ok sendir til fjarðarins eftir mönnum. Ok er þeir Koðrán ok Þóroddr heyrðu þetta, mælti Hlenni: „Langsær hefir Eyjólfr verit nú“ — ok snerust menn vel við, ok váru menn meir valdir at harðfengi enn fjölda. Oddi brást þegar við, ok fór við tíunda mann, ok reið Eyjólfr þegar í móti honum. Þá mælti Oddi: „Hvárt gera Ljósvetningar þér eigi greiðfært um vöðin, eða hver er ætlan þín um ferð þína, er svá er stofnuð?“ Eyjólfr svarar: „Ek ætla at ríða at þeim aftr í annat sinn ok eigast þá við“. Oddi svarar: „Mikilmannlegt er þat ok eigi ráðlegt; mun þeim eigi þykkja þungt falla at svá búnu“. Eyjólfr mælti: „Hvat leggr þú til?“ Oddi mælti: „Ríðum hart fram at ánni, enn þá skulu vér snúa upp til Hestavaðs; þar er mikit djúp at landi“. — Þetta var alt fyrri enn þeir Koðrán kómu. — Ok ríða þeir nú til vaðsins. Þetta sjá Veisumenn ok réðust í móti, ok þrengdust at vaðinu; enn þeir sneru þá hestunum upp með ánni. Þá mælti Hrafn: „Bragð hitta þeir nú í“. Höskuldr svarar: „Látum þat fyrir lítit koma, ok rennum upp í móti“. Ok svá gerðu þeir; ok snúa Ljósvetningar at ok ríða út á ána, enn hinir ríða undan. Skauzt

hestr Eyjólfs í kaf, enn þeir Þorsteinn ok Þórir tóku sínum megin í brjóstgjörðina hvárr ok hófu svá upp hestinn undir Eyjólfi, ok sneru aftr. Þá mælti Oddi: „Eigi gengr nú fram, Eyjólfr, ok snúum aftr“. Eyjólfr svarar: „Aldri skulu vér undan fara“. Höskuldr sneri at Odda örðigum, er þeir sneru hestunum, ok nam öxarhyrnan í milli herða honum. Þeir kómu aftr til sama lands. Þá mælti Oddi: „Eigi sækist skjótt reiðin“. Eyjólfr mælti: „Eigi munu vér enn skildir“. Þá var enn mönnum hleypt til féránsdóma á hvern bæ. Síðan báru Ljósvetningar ráð saman. Þá mælti Höskuldr til Hrafns: „Hvat leggr þú nú til, frændi, eða þykki þér eigi ráð, at vér förum í móti þeim til Þriðjungavaðs, því at þangat munu þeir leita?“ Hrafn svarar: „Til er slíkt, enn þess get ek, at nú leiti þeir þangat til, er þeir hafa meira traust enn nú. Þat er nú ráð mitt, at gera njósnarmenn til Þriðjungavaðs ok á Þingmannaleið at sjá ferðir manna“. Höskuldr svarar: „Þat munu vit Brandr gera, fóstbræðr“. — Enn þá var víða skógi vaxit. — Þeir sjá at menn fóru at Beljárskarði, ok sneru aftr síðan ok sögðu mönnum sínum. Þá mælti Hrafn: „Nú eru vér farnir, nema Þorvarðr ráðist í“. Höskuldr mælti: „Þat mun yðr ráð þykkja, at ek fari á Fornastaði ok biði Þorvarð liðs“. Hann gerir nú svá, ok kom á Fornastaði. Hann gekk inn

í stofu; hon var skipuð öll af mönnum; þat váru frændr ok vinir Þorvarðs. Höskuldr mælti: „Skjótt er mitt erindi; liðs er þörf; vér munum skjótt ofrliði bornir af Eyjólfi, nema vér njótim þín við“ — ok segir honum hversu farit hafi. Þorvarðr svarar: „Síð hefi ek at þessum málum kvaddr verit, mundi vera hóglegar at farit, ef ek réða. Nú fýsi ek eigi mína menn at fara í heimsku þessa“. Höskuldr mælti: „Eigi skal lengi lítils biðja þik, ok mun þú lítit veita ok óhallkvæmt; enn aldri skal ek við þá skiljast“. Þá tók kona Þorvarðs til orða: „Hitt er á at líta, at til þín mun koma þykkja, ef Höskuldr er drepinn; ok er eigi betra eftir at mæla“. Þorvarðr svarar: „Veit ek ákafa kvenna, enn gott mun at hefta vandræði þetta“. Hon svarar: „Þú munt illa mæla eftir hann dauðan, er þú þorir eigi at veita honum lifandi, enn eigi skal ek þá annan ala son, ef þú selr þenna undir vápn“. Þorvarðr svarar: „Er eigi þat ólíklegt, at illa standist ráð yðr kvenna, enn látit búinn náttverð nökkurum mönnum í kveld“ — ok spratt upp. Hon svarar: „Ek skal þat annast“. Enn Þorvarðr sendi menn á fund Gunnsteins, ok svá til Otryggs, er átti Guðrúnu dóttur Þorkels háks.

Hallr Ótryggsson var at Þverá í Fnjóskadal með konu þeiri, er Þorgerðr hét, ok gekk at sauðum þann morgin, ok hafði skift verkum

við þann, er fjár geymdi, því at hann var oft á Grýtubakka í Höfðahverfi ok hafði þar sláttu. Hann fór upp í dalinn. Ótryggr faðir hans var þá gamall, ok þó enn vaskasti. Honum kómu orð Þorvarðs at nýju; ok þá er sendimaðr kom, var hann at höfuðþvætti, ok kvaðst eigi búinn. Þá mælti Guðrún: „Satt er þat, at Þorkell hákr var mér skyldr, enn eigi skyldr þér, enda skal ek fara“. Ótryggr svarar: „Mér sómir förin, enda skal ek ok fara“. Fór hann þá síðan til Þorvarðs. Gunnsteinn fór ok til fundar við Þorvarð; þá kom at þræll hans, ok bað at hann mætti fara. Gunnsteinn mælti: „Þú skalt heima vera, ok halda híbýlum upp“. Þrællinn svarar: „Hvat sér þú þat á mér, at ek skuli heima vera? nú mun ek þó fara, ok hirða ekki um fé þitt“. „Svá skal vera“, segir Gunnsteinn. Þeir Þorvarðr fóru nú með sjau tigu manna, ok fóru tveim megum árinnar. Nú er eigi varit Eyfirðingum vaðit. Þeir Koðrán kómu þá, ok Þóroddr hjálmr ok Einarr Arnórs synir, ok höfðu mikit lið. Þeir kómu til hóls þess, er kallaðr er Kakalahóll. Þar var mýrr. blaut ok lækjarfall, ok stöðvaði þar fyrst áhlaup manna. Á aðra hönd Eyjólfi stóð Oddi Grímsson; hann var sköllóttr ok gamall. — Koðrán hafði einn sér lið. — Þeir Þorsteinn enn rammi fylgdu Eyjólfi allra fastast; enn Eyjólfr veik undan á mýrina, ok lá hestr hans í feni; hljóp

hann af baki ok snýr at Þorvarði, ok tóku til at berjast í sólar upprás. Ótryggr sneri þegar at fram. Þorvarðr virði svá sem Eyjólfr vildi þar at eins til snúa, scm honum þætti næst standa hefndinni; Eyjólfr íhugaði, at Þorvarðr hefði vitat óþokkann þeira í milli. Þá mælti Ótryggr: „Hjálmr enn ungi, hverr skal hér í dag fyrstr víg vekja“? „Hverr nema þú, Háks mágr“? segir hann. Síðan tókust áhlaup mikil. Ótryggr lét sem hann sæi engan mann nema Eyjólf. Þorvarðr var eigi í fyrstu bráðorðr. Ótryggr lagði spjóti til Eyjólfs, enn Eyjólfr var í skallatskyrtli rauðum ok hafði drepit upp skautunum, enn Ótryggr lagði í felina; enn Þorsteinn enn rammi laust ofan á öxarhamrinum svá hart, at fal eggina spjótsins. Ótryggr laut eftir; enn er Eyjólfr sá þat, þá lagði hann Ótrygg í gegnum með spjóti; hann snaraðist við, ok fell í lækinn ok dó þar. Þá frýðu menn eigi Þorvarði fram. Starri hét maðr, er var með Þorvarði. Hann átti Herdísi, dóttur Halldórs Guðmundarsonar, bróður Eyjólfs. Hann var son Þorgerðar Tjörva dóttur, ok var hann beggja vinr. Þorvarðr gekk hart fram, ok bar hann yfir Ótrygg. Þá rann Starri á hann, ok helt honum; ok í því hjó Eyjólfr á þumalfingrinn á honum, ok loddi köggullinn á sinunum. Þá mælti Þorvarðr til Odda frá Mývatni, at hann veitti honum; hann var sonr Þorgeirs öx-

arstafs Grenjaðarsonar, ok kominn frá Fjalla-Oddi. Hann átti Vigdísi systur Þorvarðs. Síðan hljóp Oddi at Starra ok gaf honum öxarhamars-högg, svá at fætrnir horfðu upp. Þorvarði hrumdi sárit, ok vildi snara af sér fingrinn. Þá mælti Oddi: „Lát lafa; muna þeir er mein þiggja“ — ok svá gerði hann. Höskuldr Þorvarðarson gekk í móti Odda frá Höfða, ok áttust þeir við. Þá mælti Gunnsteinn: „Frèmstr vill Höskuldr frændi várr vera, ok er því ráð at fylgja honum vel, er þó er margr um einn“. Þá mælti Þorsteinn, heimamaðr Gunnsteins: „Eigi er í hættlegra lagi hjá þér í dag, bóndi, er þú berst við hann Þveræing, Einar Járnskeggjason. Nú mun ek ráðast fyrst á brott“. Síðan snýr hann at með húskarla fjóra, ok setr öxarhamarinn í höfuð Odda, ok var þat svöðusár í enninu, ok blæddi mikit; þá spratt hann upp ok mælti: „Búinn em ek at berjast“. Þá mælti Þorsteinn skuldarmaðr: „Nú mun ek í brott, Höskuldr, ver nú hendr þínar, ok þit fjórir, heðan í frá“. Brandr gekk ok vel fram Gunnsteinsson.

Nú er at segja frá Halli Ótryggssyni. Hann kom til Ness, ok var jökulbarinn. Hann spurði, hvárt sauðamaðr væri heima. Konur svöruðu: „Hvat mun þér undir um smalamann, viltu eigi ráðast til, er frændr þínir berjast, ef þú þorir“? Hallr mælti hratt: „Fáið mér heldr vápn

nökkur". Síðan tóku þær viðaröxi eina ok fengu honum. Ok er hann kom til orrostunnar, stóð hann við ok mælti: „Hvat er hér tíðenda"? Maðr svarar: „Sér þú eigi, at faðir þinn er veginn ok liggr hér fyrir fótum þér; Eyjólfr Guðmundarson vá hann". Síðan gekk Hallr fram; enn Koðrán gekk í kvína, ok skildi menn; ok var þá svá komit, at tveir einir menn börðust, er sakar áttust við — ok stóðu vel flestir kyrrir — ok þurfti engi maðr at skilja þá; enn Koðrán tók sinni hendi hvárn þeira, ok skaut þeim svá tveggja vega frá sér. Í því hjó Hallr í höfuð honum. Þá kallaði maðr: „Þar fór nú einn bezti maðr ór Eyjafirði", segir hann. Hann mælti: „Ok var Guðmundarson, þó at góðr væri". Koðrán var þá borinn í brott á skildi, ok bundin sár hans. Þeir Ljósvetningar váru við skóg nökkurn. Eyjólfr eggjaði nú fast, at hverr dygði sem mætti. Þá svarar Þóroddr hjálmr: „Þat hugsar þú nú, Eyjólfr, hvat gert er, enn miðr hyggr þú at vægja bróður þínum; er nú ok veginn húskarl Einars at Þverá". Eyjólfr svarar: „Tjaldit um Koðrán; eigi nenni ek at leita honum hér lækningar, ok skal færa hann til Svalbarðs til Þorvarðs læknis". Þat sögðu menn, at Hrafn gætti eigi miðr skógarins enn fundarins, ok mælti Hrafn: „Þat er ráð, at fela sik í skóginum, ok þat annat, at segja Þorvarð sáran til

ólífis". Þá svarar Höskuldr: „Þat er öruggt ráð, ok þó fjarri skapi föður míns, enn ræða má ek þetta við hann" — ok svá gerði hann. Þorvarðr svarar: „Seg þú honum þau mín orð, at hann segi sik svá veslan, sem hann vill, enn ljúgi ekki á mik; ok þar liggr á mín reiði". Nú var framorðit dagsins. Eyjólfr eggjaði atgöngu. Hrafn hafði verit um nóttina á Hálsi, ok kom utan ór Flateyjardal, ok var þat meir af atburð, enn at honum þætti þat allgott. Hrafn fann Eyjólf ok mælti: „Sá fundr hefir harðr verit; Koðrán sárr mjök, enn Þorvarðr óvígr, ok er einsætt at hætta". Þá mælti Koðrán: „Já, skilið nú; ekki mun mik saka". Síðan skildu þeir. Eyjólfr vissi eigi, hversu mjök Koðrán var sárr. Ok er Þorvarðr spyrr þetta, mælti hann: „Heyr á endemi, at ljúga til sára manna; verði fundr sá sem auðnar; eru vér seinir til óhæfu, enn skiljum eigi nú fyrr, enn öðrum þykkir mál". Eigi urðu menn til þess at segja Eyjólfi þessi orð. Enn þeir Eyjólfr fóru til Svalbarðs, ok fundu Þorvarð lækni, ok leysti hann til sársins. Eyjólfr spyrr hversu honum segði hugr um. Hann svarar: „Ef Koðrán hefði kyrr verit, þá væri ván í, enn nú er engi". Eyjólfr svarar, at honum mætti á einum fingri dreyra vekja. Síðan var eldr gerr ok afklæddust þeir við. Eyjólfr mátti eigi komast af kyrtli þeim, er hann var í; svá

var hann þrútinn; enn Koðrán andaðist um nóttina, ok hörmuðu menn þat mjök. Hann var færðr inn til Eyjafjarðar ok búit vel um hans líkama.

25. Síðan er sagt frá Ljósvetningum, at Þorkell Hallgilsson mælti: „Bjóða vil ek öllum mönnum til mín, þeim sem hér hafa verit við staddir, nema Halli Ótryggssyni". Gunnsteinn mælti: „Slíkum orðum vil ek mæla". Þá mælti Þorvarðr: „Ek vil bjóða öllum til mín í kveld, ok fyrstum Halli Ótryggssyni, er skömm hefir af oss fengit ok höggit; ok skal eitt yfir oss ganga". Síðan fór Þorvarðr heim með allan flokkinn á Fornastaði, ok mælti: „Hitt er nú, húsfreyja, at leysa beinann af hendi". Hon svarar: „Eigi mun skorta beinann í kveld". Höskuldr Þorvarðsson var kátr ok veitti mönnum beina, ok mælti: „Faðir, hvárt skal skipa mönnum at mannvirðingu, eða eftir framgöngu"? Hann svarar: „Hrafn skal mér næstr sitja". Hallr hvarf í eldhússdyrum, ok vissu menn eigi um vetrinn, hvat af honum mundi orðit; enn hann var þá í eldhússkoti at baki Þorvarði. Síðan sendi hann orð þingmönnum, ok mælti, er þeir kómu: „Nú höfu vér hitt í stór vandræði ok munu vér nú ráða við þurfa; skal ek nú senda fyrst menn til Eyjafjarðar með boðum til Eyjólfs". Hann gerði nú svá. Þeir sögðu Eyjólfi, at hann vill gjalda

tvau hundruð silfrs fyrir Koðrán ok utanferð Halls, ok kæmi hann aldri út. Eyjólfr svarar: „Eigi ætla ek at hafa þenna dóminn Þorvarðs í bróðurbætr, ok neita ek þessu“. Sendimenn fóru aftr. Eyjólfr sendi menn til allra höfðingja, at biðja þá liðveizlu, ok svá vestr til Gellis vinar síns, at hann fjölmenti til Hegranessþings. Gellir var góðr drengr. Eyjólfr bauð eyri silfrs fyrir nef hvert, ok hverjum höfðingja, þeim er til þings riði, hálfa mörk. Hann sendi menn til sona Eiðs í Ás í Borgarfjörð, ok bauð þeim fé til liðveizlu, ok svá Goðdælum. Þá var umræða á, at Hrafn myndi eigi fyrir sökum hafðr, því at hann þótti eigi mannhættlegr verit hafa á fundinum. Vel flestir höfðingjar hétu Eyjólfi liði.

Hárekr hét maðr, er bjó at Ási í Kelduhverfi. Hann átti Þorgerði, dóttur Þorvarðs; hann var þingmaðr skegg-Brodda. Þorvarðr sendi hann austr til skegg-Brodda at biðja hann liðs — „ok vil ek gefa honum gullhring“. Skegg-Broddi átti Guðrúnu, Þórarins dóttur sælings ok Halldóru, dóttur Einars at Þverá. Eyjólfr sendi menn þangat — ok gista at Hrafns at Lundarbrekku — ok mælti til vináttu við hann, ok kunni hann eigi um sakar, ef hann skildist við ok væri í engri ráðagerð með Þorvarði; ok sendi Hrafni hálfs eyris gull. Ok er sendimenn kómu, tók hann þenna kost. Ok síðan hittu

þeir skegg-Brodda, ok báru fyrir hann málit. Hann svarar: „Eigi veit ek um liðveizlu þá; lítinn sóma hafa þeir gert frændkonu sinnar, Möðrvellingar, enda munu þeir eigi þurfa lið ór Austfirðinga fjórðungi; enn koma mun ek til þings, enn liðinu heit ek engu“. Þeir fóru aftr, er sendir váru.

**26.** Síðan kom Hárekr austr til skegg-Brodda, ok bar honum kveðju Þorvarðs ok sýndi honum hringinn. Hann svarar: „Spurt hefi ek málaferli þeira, enn þat hefi ek mælt, at ek mun þeim veita, sem færi eru; enn hringrinn mun dveljast eftir“. Síðan kómu þau í rekkju hjón; þá mælti hann: „Gesti eigu vit, Guðrún“. Hon svarar: „Hvert er erendi þeira“? Hann svarar: „Þorvarðr sendir þér hring þenna, at þú værir eigi í móti honum“. Hon svarar: „Eigi virði ek hringinn svá mikils, at ek virða þik eigi meira, ok veit ek at þér er sendr hringrinn til liðveizlu“. Hann svarar: „Koma mun ek til þings“. Nú fóru sendimenn á brott.

Eyjólfr átti sér fóstra. Eyjólfr var hljóðr mjök um vetrinn ok áhyggjusamr; ok einn morgin kom hann í stofu, ok mælti: „Dreymt hefir mik í nótt. Ek þóttumst ríða norðr háls, ok sá ek nautaflokk koma í móti mér; þar var í oxi einn mikill, rauðr; hann vildi illa við mik gera; þar var ok graðungr mannýgr ok mart

smáneyti. Þá kom yfir mik þoka mikil, ok sá ek eigi nautin“. Fóstri hans svarar: „Þat eru manna fylgjur, óvina þinna, ok oxi fylgir Þorvarði, enn graðungr Halli; enn þat er myrkr kom yfir þik, sé ek eigi fyrir annan enda um mál yðr“. Eyjólfr bjó mál til, ok bannaði þat engi maðr. Þá riðu þeir; ok var illfært um fjöll, ok var fjárfellir mikill. Þorvarðr hitti vini sína, ok mælti: „Mun eigi þat ráð, at snerpast við um þingförina, ef þér vilið mér lið veita? þá sé ek ekki til vænna, enn at menn fari ok hafi tveir saman hest, því at ek veit at Eyjólfr mun fjölmennr“. Menn urðu vel við, ok fekk hann víglegt hundrað manna. Þeir fóru degi fyrr enn Eyjólfr, ok fóru Öxnadalsheiði ok ofan Norðrárdal, ok áðu í Svínanesi. Eyjólfr hafði nær þrjú hundruð manna. Þar váru í för Þóroddr hjálmr ok Einarr Þveræingr; ok er hinir riðu ór Svínanesi, riðu þeir Eyjólfr í nesit. Þá varð þeim Þorvarði farartálmi, at klyfbera-band brast í sundr, ok fóru ofan klyfjar. Þorvarðr mælti: „Hvat er nú til ráða, Hrafn frændi“? Hann svarar: „Ekki sé ek annat til enn hafa sik undan“. Þorvarðr svarar: „Eigi er þá drengilega skilizt við menn sína, ok er nú verra enn fyrr, at hitta Eyjólf; ok þótt þá væri hlýtt ráðum þínum, þá mun ek nú eigi hlýða þeim“. Ok váru hinir þá eigi búnir. Einarr sá þá ok þótti búit til mikils

váða, ok leitaði sér fangaráðs ok reið fram hjá Eyjólfi ok mælti: „Sjái þér flokkinn þeira Þorvarðs“? Hann kvaðst sjá — „ók sýnist mér, sem skamt muni verða til fundar várs“. Einarr svarar: „Hvar kemr fé þat þá, er þú hefir heitit höfðingjum til liðs þér“? Eyjólfr svarar: „Eigi mun nú illa fallit, at vér reynim með oss“ — ok vill fram ríða. Þá brá Einarr öxi á söðulgjörðina, ok gekk Eyjólfr af baki; ok varð þá dvöl á eftirreiðinni, enn þeir Þorvarðr riðu undan. Þeir Eyjólfr riðu á Silfrastaði, enn Þorvarðr reið ofan eftir heraðinu á Miklabæ. Þá reið maðr í móti honum. Þorvarðr mælti: „Sjá stefnir til vár“. Sá mælti: „Hvar er Þorvarðr“? sagði hann. „Þorgerðr húsfreyja bauð þér heim“. Hann svarar: „Hafa munu vér þar náttverð, ok ríða síðan til Vallalaugar, syá at vér komim til þingstaðar fyrri“. Þorgerðr var ekkja, ok hafði hana átt Halldórr, bróðir Þorvarðs. Þá mælti húsfreyja: „Nú hafi þér vel gert, ok sét híbýli mín; nú vil ek fá yðr tjöld ok viðu, ok þrjátigi manna vist“. Hann svarar: „Sýnir þú stórmensku þína, enn ekki eru gistingarlaunin. Enn eigi skulu þeir fara, ok leggja þat í hættu, enn annan beina munu vér þiggja“. Svá var gert. Þeir tjölduðu ágætt herbergi við þinghelgi til vægðar við Eyjólf.

27. Eyjólfr kom á þing með miklu fjölmenni,

ok átti öllum mönnum búðarrúm at fá; ok var þar mikill mannfjöldi. Gellir kom at vestan með tvau hundruð manna, ok er þeir riðu á þingit, þá skipuðu þeir svá liðinu, at hverr rann eftir öðrum, ok þótti mönnum þat frágerðarlið, til at sjá, ok störðu menn á; enn einn var sá maðr, er þeim fanst einna mest um, er á baki var. Þat þótti mönnum lýtit á, at þeim sýndist hann ríða folaldi. Ok er þeir stigu af baki ok hestar váru lausir látnir, þá þótti sá hestr miklu mestr, er sá maðr hafði riðit, er þar var kominn, enn þat var Skeggi enn rammi, bróðir Álfs ór Dölum. Ok er menn höfðu eina nótt á þingi verit, þá sá þeir ferju á firðinum, ok tólf menn á, ok einn í vararskinnsólpu, ok um utan í blári kápu; ok hafði verit hvast veðr. Þeir váru afburðarmenn á at líta, ok bar þó höfðinginn af öllum. Þeir Eyjólfr gengu upp í mót þeim í lendingu, enn þeir Þorvarðr gengu þar í móti þeim, er verra var upp at ganga. Ok er þeir höfðu hlaðit seglinu, leit skegg-Broddi á liðit ok mælti: „Hingat munu vér fara í lið þessarra“. Þorvarðr mælti: „Kom þú nú heill, ok kunnu vér allir þökk á, at þú farir til búðar með oss“. Þeir gera nú svá, ok var þar rætt um við Skeggja, hversu fúss hann mundi at ganga í móti skegg-Brodda, ef saman lysti liðinu. „Þat ætla ek“, segir Skeggi, „at meir endist mér afl við skegg-Brodda eða

þó hugr, enn hamingju uggir mik at ek hafi eigi við hann". Síðan var rætt við skegg-Brodda þetta sama mál. Hann svarar: „Mikil ván er mér á, at Skeggja skorti eigi afl, enn þat ætla ek þó, ef svá væri til skipat í váru liði, sem hér er, at Þorvarðr yrði eigi aflvani". Morguninn eftir gekk skegg-Broddi til búðar Eyjólfs, ok var engi blíða við hann af Eyjólfi. Skegg-Broddi mælti: „Er eigi þat vænst at sættast, Eyjólfr"? Hann mælti: „Má sem vill". Skegg-Broddi svarar: „Fast er nú fyrir" — ok gengr til ok hittir Gelli, vin sinn. Þá mælti skegg-Broddi: „Fastlega horfir ræða Eyjólfs". Gellir mælti: „Gera vil ek at mínum hluta". Skegg-Broddi svarar: „Þat samir vel, enda væri þá nökkurs staðar; eru með okkr þeir menn, er eigu hér í hlut, at aukast munu vandræði, ef þeir verða sekir, ok mun þá meiri vandræði um at tala, enn fyrrum. Sækjum nú báðir eitt ráð, ok firrum mennina óhöppum". Gellir svarar: „Ek veit vilja Eyjólfs, at hann vill sjálfr ákveða ok fjársektum ráða; vill hann eigi sættast, nema Þorvarðr ok Brandr ok Höskuldr, Þorkell ok Hallr fari utan ok sé skógarmenn óferjandi". Skegg-Broddi svarar: „Ek veit ok vilja Þorvarðs, at hann vill at hann geri einn um fjársekt milli þeira, ok eigi þeir útkvæmt, nema Hallr; ok vilda ek at sá órskurðr væri lagðr fyrir okkr, at ákveða mann-



sektir". Gellir mælti: „Mun þú fyrst hvat fyrir komi". Síðan hittu þeir Eyjólf, ok mælti skegg-Broddi: „Óráðlegt er enn at vilja eigi sættast, því at eigi munu allir í mót Þorvarði ganga; láttu mæla um Gelli við sannvini hans". Eyjólfr svarar: „Eigi sé ek þat, at ek muni skyldr til vera at virða þinn vilja". Skegg-Broddi svarar: „Svá lítit er mitt traust, at nú hefi ek ekki vígsgengi at veita mínum mönnum, enn þó skulu nökkurir tannsárir verða, áðr enn Þorvarðr er drepinn". Þá svarar Gellir: „Þá ferr illa málahlutrinn várr, ef vandræðin aukast, ok þó at skegg-Broddi hafi nú fá menn, þá samir eigi at fyrirlíta hann". Eyjólfr svarar: „Eigi horfir Þorvarði vænlega dómrinn". Þá var um rætt, at dómar myndi út fara, ok treysti Eyjólfr fjölmenni sínu, ok bað fylkja við dóminn, meðan þeir hefði fram mál sín — „enn ætlum þeim í kvíarnar at ganga, ef þeir vilja". Ok er Þorvarðr spurði þetta, mælti hann: „Hvat liggr nú til, mun eigi þat betra ráð, at vit berjumst áðr enn vér erum sektaðir? Tökum til vápna, enn sumir færi heim hesta vára, því at fundr sá mun verða, at í brott munu komast nökkurir". Svá gerðu þeir, ok sneru at hart. Dagr hét maðr, er var með Þorvarði, ok átti Sigríði dóttur Þorgeirs goða. Hann gekk fyrstr, enn þá fimm saman, ok þá tíu, ok skipuðu liði sínu öllu, því at fám

var þekt í þeira liði at fara seint. Þá mælti skegg-Broddi til Gellis: „Hér kemr illa í hald, at góðir menn margir eru hér við staddir. Þú ert fjölmennr mjök, Gellir, ok vel vingaðr við dæli; snú svá til fjölmennu þínu, at þú verðir betri drengr af, ok fyllum báðir einn flokk ok göngum í milli þeira; snúumst at með þeim, er okkur orð vilja virða“. Gellir svarar: „Nú er vel skift með okkr; þú hefir drengskapinn, enn ek féit“. Síðan gengu þeir at dómum með liði sínu, áðr enn málaferli færi fram; enn þá var svá komit, at hvárirtveggju váru búnir at berjast. Þá mælti skegg-Broddi: „Má Eyjólfr heyra mál mitt“? „Heyri ek“, segir hann. Skegg-Broddi mælti: „Hér horfir óvænt, at menn skulu hér berjast fyrir þitt tilstilli; kalla ek þat heldr bezt ráð, at hvárr sætti sína menn“. Gellir segir: „Öllum er þat auðsætt, at sjá er verstr hlutrinn at berjast, ok mun ek bjóðast til at gera um málin“. Eyjólfr svarar: „Mun eigi þeim at duga, er drengrinn er beztr? — ok gef ek þér eigi fé til afarkosta“. Gellir mælti þá: „At þessu er mjök ráð vandanda, er þú verst nú fyrir ok snýst í mót Þorvarði“. Þorvarðr mælti: „Hvat vili þér nú gera? geistir fari þér nú mjök, enn friðarmenn skulu vér“. Gellir mælti þá: „Meir hyggr þú nú at ofrkappi enn forsjá, er þú gengr at, slíkt ofrefli sem fyrir er; gangið eigi at dóminum, svá at

þrengt verði at yðr". Þorvarðr svarar: „Þat er eigi örvænt, at þeir unni oss eigi jafnaðar um höggit, enn verra er þó, at vér sém fyrr sakteknir, enn síðan drepnir". Skegg-Broddi svarar: „Mun eigi annat ráðlegra, enn færa menn í slík vandræði — ok sættizt heldr"? Þorvarðr svarar: „Óvanr em ek at láta draga alla sæmd úr hendi mér". Skegg-Broddi mælti: „Hyggr þú nökkut at þessu, hvat at er? þótt ek veita þér lið, þá eru þó margir í móti; sýnist mér sá beztr, at þú játir várum ummælum". Hann svarar: „Ek skal játa". Síðan stöðvaðist liðit, ok var þá fram gengit; tókust þeir þar tali við. Þá mælti Eyjólfr: „Hví mun nú eigi ráð at snúa til lykta máli váru"? Skegg-Broddi svarar: „Þat er einsætt, at láta Gelli fyrir sjá um sinn, er þér mun eigi gera at meira mein". Eyjólfr svarar: „Hví mun hann meir kunna, enn allir aðrir"? Er þetta mál um síðir lagt undir Gelli, ok skyldi hann kveða á mannsektir; enn þeir sögðu þat upp, at allir menn skyldi eiga aftrkvæmt, nema Hallr. Þat líkaði Eyjólfi illa. Gellir gerði átta hundruð silfrs fyrir Koðrán, enn þat stóðst á, víg Ótryggs ok atfarar þeira Höskulds í fyrstu við Eyjólf. Áverkar Þorvarðs ok Odda váru líkir kallaðir. Víg húskarls Einars Járnskeggjasonar var bætt fé. Þorvarðr skyldi vera utan þrjá vetr, ok Þorkell ok Brandr ok Höskuldr, enn

Hallr eiga eigi utan ván. Síðan var mælt fyrir trygðum, ok fé upp goldit. Eyjólfi þótti sinn hluti til lágr, ok stóð þat meir af kappi; ok drap ókæti fyrir honum mest.

28. Skip stóð uppi í Svarfaðardalsárósi, er átti Kálfr enn kristni. Þorvarðr ætlaði sér eigi heim, ok fór til skips; enn þeir frændr skildu eigi, sem fyrr váru nefndir, ok höfðu tjald á landi. Þorvarðr skoraði á Kálf um skipkaup. Hann mælti: „Eigi er um skipkaup fyrr ráðit, enn þú skipir at helmingi, því at þér mun þat bezt líka“. Þorvarðr kvað svá vera skyldu. Hrafn þorði eigi eftir at vera, ok vildi hann fara með Þorvarði. Eyjólfr spurði þetta, ok íhugaði hvat látit var, ok reið í Hlíð til Þorkels vinar síns, ok sagði honum, at hann ætlaði at Þorvarði ok drepa hann. Hann lét illa yfir því at ganga á sættir, ok latti mjök, ok sagði at þeir hefði tjald á skipi. Eyjólfr kvaðst fara mundu, ok kvaðst eigi nenna, at engi kæmi mannhefnd fyrir bróður sinn. Enn er menn kómu í rekkju, þá var barit á hurð ok gekk bóndi út, ok kom inn aftr. Eyjólfr spurði, hverr kominn væri. Bóndi segir, at sá var utan ór dalnum. Eyjólfr mælti: „Hvat mun títt um austmennina“? Bóndi segir þá hafa utan látit. Eyjólfr kvað þá eigi orðið hafa, sem hann vildi, ok reið heim. Ok tveim nóttum síðar spurði hann at þeir höfðu eigi út látit; ok sagði reiði

á bónda, ok kvað hann rangt hafa við sik gert. Ok er Þorvarðr spurði þetta, sendi hann honum tuttugu skjólna ketil ok stóðhross af Fornastöðum. Síðan lögðu þeir Þorvarðr skipinu út undir Hrísey. Byrr var engi, enn bátrinn lauss; bátr fór þá innan frá landi; þar var rekkjumaðr í skut. Þá stóð maðr upp ok mælti: „Hvárt er sá maðr á skipi, er Már heitir, ok hefir sér far tekit“? Hann kvaðst þar vera. Þá mælti maðrinn: „Tak þú við Þorvaldi enum líkþrá, frænda þínum, eða vér munum banna þér far“. Síðan tók hann við honum. „Ek á fé á landi enn hjá mönnum“, segir hann, „ok skal ek þangat fara með hann“. Síðan kom hann aftr, ok kvaðst sét hafa ráðstafa fyrir honum. Síðan haustaði, ok gaf þeim eigi byr. Austmenn báru ráð sín saman, ok kváðust mundu rýma skip, eða láta Hall af skipi. Þorvarðr svarar: „Tökum annat ráð; föstum þrjá daga, ok vitum hvárt guð sýnir eigi hvat veldr; ok fari hlutr í sveitir, ok dæmum þann af skipi, er hlýtr, hvárt sem er yðvarr maðr eða várr“. Hlutir váru vígðir, ok kom upp hlutr þeira Kálfs; enn Már var þar í sveit, ok kom hans hlutr upp. Síðan stefndu þeir honum á land, ok kváðu honum illa mundu farit hafa við frænda sinn. Honum fanst fátt um; enn þar váru þau efni til, at hann hafði myrt hann. Síðan vildu þeir drepa hann; enn þat var þó

ráðs tekit, at hann iðraðist, ok gaf hálfan hluta eigu sinnar fátækjum mönnum, enn annan helming frændum mannsins. Síðan heldu þeir undan Hrísey, ok kom þá skip af hafi; þat átti Eldjárn Arnórs son kerlingarnefs ok Þórlaugar víga-Glúmsdóttur. Þá mælti Eldjárn til Þorvarðs: „Hafið eigi Hall í gegnum haf; fullboðit er oss þó". Þorvarðr svarar: „Hvat er annat sæmilegra, enn at hann fari með oss frændum sínum"?

Síðan gerði útnyrðing ok kalt veðr, ok heimtu þeir Þorvarðr upp akkeri sín, ok brast hnakkbandit. Þorvarðr bað nökkurn sýna atgervi sína — „ok fari til austmenn", segir hann. Þeir urðu eigi til búnir. Hallr svarar: „Ek em eigi sparandi til, ok fáið mér snærit". Síðan fór hann af stakki sínum ok kafaði niðr; ok kom snærinu í akkeris hringinn — ok fekk hann af þessu gott orð.

29. Síðan fluttust þeir út hjá þeim Eldjárni, ok var akkerit á strenginum; ok hafði Hallr vöttu á höndum, er hann dró akkerit. Þá mælti maðr einn til hans: „Óhræddr mun ek fyrir þér, Hallr félagi, er þú vattar streng". Síðan lögðu þeir margir gott til Halls, er áðr höfðu óþokkazt við hann. Síðan létu þeir í haf. Hallr var knár maðr ok liðgóðr. Þá bar norðr at Noregi, ok sigldu suðr síðan, ok höfðu byr hvassan; ok sá við sker nökkur bát einn, ok

váru á sveinar tveir, ok helt annarr skipinu, enn annarr jós. Þá mælti Þorvarðr: „Hjálpum mönnum þessum, er at dauða eru komnir, ok er skip þeira fult“. Kálfr svarar: „Þú leggr oss í hættu ok várt fé“. Hann svarar: „Ek skal skip ábyrgjast; eigi áttu betra til at láta fé, enn ek“. Kálfr svarar: „Góð þykkja mér þín ráð“. Síðan skutu þeir báti, Þorvarðr ok Hallr, ok hlupu þar á, ok var þá skip sveinanna fult. Hundar tveir váru bundnir í skipinu ok fjötraðir við innviðu. Þorvarðr greip þann svein, er við árarnar sat, enn Hallr annan, ok helt á hundunum, ok brá þeim á knörrinn, ok beitti at eynni. Þorvarðr spurði hverir þeir væri. Þeir sögðu at annarr héti Óspakr, enn annarr Ósvífr — „enn vit erum hundasveinar Úlfs stallara, ok höfum vit þetta af hundunum hlotit, ok tjáði okkr eigi at bíða, enn þá er vit kómum, váru þeir þá í brott, ok erum vit systursynir hans, ok ætluðum heim eftir þeim“. Þorvarðr mælti: „Hvat er íslenzkra manna með konungi í mestum virðingum“? Þeir svara: „Úlfr er þar mest virðr, enn þá er annarr maðr, ok heitir Járn-Skeggi“. Síðan gaf Þorvarðr þeim feldi tvá ok vápn. Síðan skildu þeir, ok heldu þeir eftir þeim konungi; ok spurðu þeir hvar hann drakk, ok kómu þar. Úlfr fagnar þeim vel ok spurði um ferðir þeira. Þeir kváðust komit hafa á skipi einu á vág-

inn, — „ok eru á góðir drengir ok lífgjafar várir“. Úlfr mælti: „Hverir eru þeir“? „Þorvarðr heitir einn, ok er Ljósvetningr, Höskulds son, ok annarr Hallr, ok er Ótryggs son, afrendr maðr“. Þá mæltu menn: „Ykkr myndi eigi nær fallit, er Íslendingar dugðu“. Úlfr mælti: „Gerið eigi mikit um þetta“. Skeggi heyrði þetta, ok hitti konung ok mælti: „Ek vilda at þú veittir mér lið at drepa menn þessa, er sakaðir eru við oss“ — „ok sagði honum allan málavöxt. Konungr mælti: „Þat er eigi mitt, at láta drepa mína þegna, enn þótt nökkurr gėrist til, þá mun yðr á því umbun verða“. Hann hitti marga menn konungs, ok gaf þeim fé til fylgis sér. Þá mælti sveinninn Ósvífr: „Hví lætr þú svá, járn-Skeggi“? Úlfr segir: „Hann ásakar menn þá, er ykkr hafa lið veitt“. Sveinninn svarar: „Skaltu ekki at hafast, eða þverr nú drengskaprinn þinn“? Hann svarar: „Eigi mun ek þeira mun gera“. Sveinninn svarar: „Ilt eigu vér at þjóna yðr; mundum vér nú dauðir, ef þeir hefði eigi hjálpat oss“. Úlfr svarar: „Þetta fær ykkr mikils“. Sveinninn svarar: „Lítit megu vit, enn með Þorvarði skulu vit vera“ — ok hlupu til strandar, ok sögðu Þorvarði hvat títt var. Þorvarðr mælti: „Enn er vandræði um at vera, Kálfr; nú vil ek kaupa af þér skipit, enn þér gangið af, ok gjaldi vár eigi aðrir menn, enn vér munum

flytja út grjót". Kálfr svarar: „Eigi skal svá vera; eigi munum vér við þik skilja". Allir vildu þeir honum fylgja.

Skeggi hafði fengit til skip, ok hitti konung ok mælti: „Nú er liðit fengit, herra" Konungr mælti: „Hefir þú fundit Úlf, eða hefir þú haft hans fulltingi við? þá eru vit sáttir". Síðan hitti Skeggi Úlf, ok segir honum nauðsyn sína. Úlfr svarar: „Vel hefir oss við þik líkat, ok munu vér þar fyrir veita þér þat er þú biðr". Síðan kemr Skeggi fyrir konung, ok segir honum þessi orð Úlfs. Konungr mælti: „Þá hefir hann vel við orðit, enn undir væri þér, hváru megin hann sneri at". — Nú er þar frá at segja, at Þorvarðr mælti til sveinanna: „Farið til Úlfs; endast skal oss nú". „Skilr þá drengskap várn", segja þeir, „ok munu vér eigi við þik skiljast". Nú fara skip á váginn, ok er þar Úlfr. „Hvert mun hans erendi"? segir Þorvarðr. Ósvífr mælti: „Hart mun hann at róa, ef hann vill illa". Síðan kómu þeir at kaupskipinu ok reru kyrt, ok lögðu skip sín á sitt borð hvárt. Þorvarðr spurði, hverr fyrir skipum ætti at ráða. Úlfr mælti: „Friðmenn, ok hafi þér til þess unnit". Síðan gekk konungr út, ok sá hvat títt var, ok mælti: „Skeggi, félagi, lát kyrt vera, ok leyfi ek engum manni at berjast við Úlf, enn mínir menn leggist hendr á. Hefir þú hugat þá menn sektalausa, ok er

svá fyrir mik komit“. Ok er nú eftir vitnum leitat, ok gengr Þorvarði vel. Skeggi kvað þá eigi við sik sátta. Konungr mælti: „Ek hefi athugat málit, ok sýnist mér sem eigi hæfi ágangr við þá, sem goldit hafa of fjár ok flýit land sitt“. Ok lætr konungr þá í friði fara.

Síðan heldu þeir til Danmerkr, ok fóru austr til Víkr; þar hitti Þorvarðr góðan dreng, er Bárðr hét, ok vingaðist við hann, ok fekk honum í hendr Hall Ótryggsson. Enn Þorvarðr bjóst til Róms. Enn Bárðr helt skipi sínu í Austrveg, ok kómu at þeim víkingar ok buðu þeim kost, hvárt þeir vildi heldr berjast eða upp gefast ok halda lífinu, ef þeir veitti féit. Enn Bárðr kvað þat mundu sitt kjör at berjast eigi; ok því tóku flestir skipverjar. Hallr svarar: „Eigi mun ek þrautarlaust upp gefast“. Bárðr mælti: „Hættum vit eigi á vald víkinga“. Hallr svarar: „Versnar nú skylduneyti mitt við stórvirkjum, ok bið þú eigi þess, ok mun ek gera þat, er ek em fúsari til“ — ok tók beitiás einn ok varði öðrum megin borðit, ok barði á tvær hendr ok örkumlaði menn. Ok er þat sá skipverjar hans, tóku þeir til ok vörðu öðrum megin borðit; ok höfðu þeir sigr kaupmenn. Þorkell ok Brandr ok Höskuldr fóru til Róms með Þorvarði frænda sínum.

30. Nú er at segja frá Eyjólfi Guðmundarsyni, at hann undi svá illa við þat, at eigi

kómu mannhefndir fyrir víg Koðráns, at hann gerði heiman för sína, ok váru saman fjórir tigir manna; ok fóru norðr í Flateyjardal á Brettingsstaði. Þar bjó Þórarinn Höskuldsson, bróðir Þorvarðs. Þar var Einarr Arnórsson i för með honum ok Einarr járn-Skeggjason.

Forni hét maðr, er farinn var til rétta — enn sá maðr var fyrir búi hans, er Þorgeirr hét — er bjó at Þverá í Fnjóskadal. Enn Ketill hét sá maðr, er farinn var ok til rétta, ok gistu þeir þar Eyjólfr, ok höfðu þar góðan beina. Þá mælti bóndi: „Hvert er ætluð förin"? Eyjólfr svarar: „Frek gerast nú boðin vár Eyfirðinga, ok þarf tilfanga, ok ætla ek til Flateyjardals eftir fangi". Bóndi svarar: „Þó skal nú mjök skipa virðingarmönnum í för þessa". Eyjólfr svarar: „Viðrkvæmilegt er, at vér farim allir frændr". Engan höfðu menn grun á um ferð hans, frá því er allir váru sáttir. Eyjólfr fór nú; ok kómu þeir til Þórarins, ok gengu þar inn í hús, ok báru þegar vápn á hann ok vógu hann, ok tvá menn aðra. Ok er þeir riðu ofan yfir Vöðlaheiði frá víginu, þá ræddu þeir um atburðinn; ok hrapaði hestr undir Eyjólfi, ok fell hann af baki; ok er hann vildi upp standa, þá var honum stirðr fótrinn, ok gekk hann haltr. Ok er menn riðu til alþingis, þá bauð hann engar sættir; enn svá var honum fótrinn stirðr, at hann mátti eigi ganga, ok

reið hann í milli búða. Þeir fundust, Finni ok Eyjólfr. Finni spurði, hversu hann hefði fengit meinit. Hann segir honum þat. Finni mælti: „Þess munda ek geta, at þar mundir þú eigi hafa staðizt fylgjur þeira Þorvarðs ok frænda hans, er fjandskap leggja á þik“. Eyjólfr mælti: „Ætlar þú, at þeira fylgjur sé meiri fyrir sér, enn mínar ok minna frænda“? Finni mælti: „Ekki kveð ek at því; þó er þat reynt, ef vér spyrjum um för Þorvarðs“.

Hrólfr hét son Þorkels Tjörva sonar Þorgeirs sonar frá Ljósavatni. Hann fór með Ljósvetninga goðorð á þinginu; ok var leitat um sættir. Eyjólfr kvaðst óráðinn til at bæta fé. Enn þeir höfðu búit mál til á hendr Eyjólfi með hálfan fimta tug manna. Hrólfr bað sér liðs, ok er hann fann Þorkel Geitisson, mælti hann slíkum málum við hann. Hann svarar: „Þú mælir sannara, enn eigi nenni ek at ganga í mót Eyjólfi“. Síðan hitti Hrólfr skegg-Brodda ok mælti: „Flestum mönnum mun nú kunnigt mál mitt, enn hér virða menn meir afla Eyjólfs enn sannsýni; verðr mér nú reikult um þingvöllinn, enn fæstir líta á mína nauðsyn“. Hann svarar: „Ek ætla þik ganga at liðsbón, enn hafa lítit at sök, ok engan tek ek af um liðveizlu við þik, enn halda mun ek réttindi þeim, er menn virðast hér at; enn ef Eyjólfr vill engu bæta, enda fáir þú engum málum fram

komit, þá er laust". Hrólfr svarar: „Eigi mun ek þik lengi þæfa um liðsbeina, enn segja mun ek þér ætlan mína. Ef ek má eigi mál fram hafa fyrir fjölmenni Eyjólfs, mun ek bjóða honum hólmgöngu, hvárt hann vill við fjórða mann, eða vit eigumst við tveir. Vilda ek þá til kjósa Einarana tvá ok Þórodd hjálm, er mér eru falastir til þungs hlutar, enn ek ætla í mót starfsmenn ok ræningja". Skegg-Broddi mælti: „Þú ert hetja mikil, ok er þú eigi ráðlauss, ok haltu þessu fram; enn ek skal til sjá með þér, ok munu menn ráðast í mót þeim nöfnum, ef þarf, ok má þat verða, at þú skilir eigi við með óvirðingu". Síðan hitti skegg-Broddi Gelli vin sinn, ok segir honum þetta. Hann svarar: „Illa læt ek yfir því, er hólmgöngur haldast uppi, ok er þat heiðinna manna". Skegg-Broddi mælti: „Hvers var at ván annars, ef maðr býr allilla til sitt mál, enn at menn muni þat illu gjalda — ok drepr saklausa menn á gervar sættir"? Þetta var sagt Eyjólfi. Hann svarar: „Fjandmaðr várr gerist þú nú, skegg-Broddi; hefir þú nú tveim sinnum brugðizt mér". Skegg-Broddi svarar: „Ek firrða þik ok næst á Hegranessþingi vandræðum, sem ván var at verða mundi, ef þú sektir Þorvarð ok frændr hans; þá draptu bróður hans, ok viltu þat nú engu bæta — eða hvar ætlar þú til? Eru nú tveir kostir fyrir höndum, láta okkr Gelli ráða

ok dæma, eða hólmgöngur munu fram fara". Eyjólfr kvaðst ætla, at betra muni at bæta. Þá áttu margir hlut í, ok kom þar, at manngjöld skyldi lúka, ok galzt þat fé alt.

Ok er Þorvarðr kom sunnan frá Róm ok í Saxland, þá hittu þeir Norðmenn, ok sögðu þeir víg Þórarins, er orðit hafði um haustit. Þorvarðr mælti: „Langt er nú öxanna várra í milli ok þeira Möðrvellinga, ok þat vilja þeir enn, at þær takist til, ef ek kem til Íslands — ok verði nú sem Pétr postoli vill; ok þó ætla ek at betra væri, at ek kæmi eigi út aftr". Ok þat segja menn, at fáar mílur gekk hann þaðan frá, áðr hann misti auga síns af verk, enn andaðist síðan. — Brandr fór síðan til Haralds konungs Sigurðarsonar, ok var með honum; ok svá Hallr Ótryggsson. Hann var með honum austr í Gautlandi, er Haraldr konungr barðist við Hákon jarl Ívarsson. Ok er Haraldr vildi á brott, þá fraus skip hans inni. Þá hjoggu menn ísinn í milli skipanna. Þá mælti Haraldr konungr: „Engi höggr sterklegar ísinn, enn hann Koðránsbani". — Maðr er nefndr Þormóðr, ok var Ásgeirsson, frændi Möðrvellinga. Hann var á skipi Magnúss konungs sonar, ok kom þá af Íslandi, ok sat um hann. Ok í því er konungr nefndi Koðránsbana, þá hljóp Þormóðr at honum, ok hjó hann banahögg; ok hljóp síðan á skip konungssonar. Haraldr kon-

ungr var reiðr mjök, ok bað leggja at þeim; ok er þeir þrengdust at honum, þá brast ísinn, ok drukknuðu margir; enn Magnús konungsson komst á brott, enn Þormóði kom hann af landi, ok létti hann eigi fyrr, enn hann kom út til Miklagarðs, ok gekk þar á mála. Enn þeir konungr ok sonr hans sættust síðan.

31. Brandr fór vestr með Haraldi konungi til Englands. Ok er þeir gengu upp í seinasta sinni, þá hafði Brandr einn brynstakk, enn alt annat lið konungs hafði eftir látit brynjur at skipum. Konungr átti brynju þá, er Emma hét, ok tók á mitt bein, ok var svá sterk, at aldri festi vápn á. Brandr bauð konungi brynstakk sinn. Konungr svarar: „Víst ertu góðr drengr, enn haf þú sjálfr brynstakk þinn". Þar fell Brandr með konungi. — Menn Höskulds kómu út á Eyrum ok Hárekr, ok fóru þaðan norðr á fjall um Kjöl; enn flokkr Eyjólfs Guðmundarsonar var fyrir á leiðinni; ok sat Eyjólfr þar. Höskuldr mælti: „Nú er færi á at drepa fjandann" — ok snýr á rás. Hárekr hleypr eftir honum, ok grípr hann í fang sér ok mælti: „Still þik, vinr, þetta er ekki færi". Menn Eyjólfs mæltu: „Verit hefir þú stundum snertibráðari, ok ríðum nú eftir þeim". Eyjólfr mælti: „Eigi skal nú launa svá guði ok góðum mönnum, er hafa á sæzt vandræði vár". Ok skildu þeir við þat. — Oddi Grímsson gekk

utan, ok fór suðr; ok kom sunnan félauss á fund Knúts konungs ens ríka; ok gekk fyrir hann, ok kvaddi hann ok mælti: „Féþurfi eru vér, herra“. Konungr mælti: „Gef þeim þrjár merkr silfrs“. Oddi mælti: „Eigi höfum vér fyrr svá ríkan mann heim sótt, ok hæfir oss eigi at sjá eigi í mót þessarri gjöf, ok vil ek gefa þér fé“. Konungr mælti: „Þykki þér lítit féit“? Oddi svarar: „Herra, einum þætti mér vel gefit, enn vér erum tólf“. „Svá mun satt vera“, sagði konungr, „ok gefið þrjár merkr hverjum þeira“. Þá mælti konungr: „Hvárt barðist þessi Oddinn við frændr sína á Íslandi“? Oddi svarar: „Þar váru þeir menn, er mér váru skyldir, enn ek væra í móti“. Hann fór út síðan, ok þótti ræsimaðr hvar sem hann var. Hann var faðir Guðmundar, er augat stakk ór Katli byskupi; enn svá barst at því, at óvinir Guðmundar báru þat í eyru Katli, þá er hann bjó á Möðruvöllum, at hann fífldi konu hans, dóttur Gizurar byskups; ok fundust þeir á förnum vegi, ok veitir Ketill honum tilræði; ok varð þó sá munr, at Guðmundr varð efri, ok stakk ór honum augat. Ok síðan vildi Ketill fram færa mál á hendr honum, enn síðan urðu nökkurir til at lemja því niðr, ok jókst af því óvirðing. Enn síðan er Guðmundr var félauss ok þurfti annarra, þá bauð Ketill honum til sín, ok veitti honum, meðan hann lifði. Ok snerist Katli

síðan hverr hlutr til sóma; enn at lyktum var hann til byskups kjörinn, ok gafst honum svá sitt góðræði.

Enn er Þorsteinn, skuldarmaðr Gunnsteins, sem fyrr gátum vér í sögunni, varð félauss, fór hann til Odda Grímssonar. Oddi mælti: „Mikit er þat um góðan dreng, at engi forlög verða; ok þó at þú værir nökkut mótsnúinn mér, ok litaðir á mér skallann, þá mun ek til leggja með þér". Síðan fekk hann honum bústað, ok þat með, er hann þurfti; ok sýndist þat í þessu, hverr drengr hann var. — Enn þat er at segja frá Háreki, at hann fór at finna skegg-Brodda, ok mælti: „Forvitni er mér á um, hversu sterkr þú ert, því at mikit er af því sagt; enn ek em kallaðr aflmaðr, enn þó mun ek eigi við þér hafa — enn vit þú fyrst, hvárt þú kemr höndum ór höfði mér". Skegg-Broddi svarar: „Óskylt ætla ek þat" — ok tók þó til, ok sviftir þegar í brott höndum hans. Enn er hann gekk at skegg-Brodda, þá stóð hann fyrir, ok hafði hendr í höfði sér; þá kom hinn at, ok kom hann þeim hvergi í brott, ok mátti á því sjá, hvárr þeira var meiri. Þá mælti skegg-Broddi: „Eigi þykki mér þú sterkr, enn drengr ertu góðr".

32. Þórarinn hét maðr, er kallaðr var ofsi. Hann bjó at Stokkahlöðum í Eyjafirði, ofláti mikill ok afbragðsmaðr. Hann var son Þórðar,

er mjök verðr getit við Esphælinga sögu, enn Hildr var móðir hans, dóttir Gauta Ármóðssonar. Þórarinn var farmaðr mikill. Þat var eitt sinn, at Þórarinn kom skipi sínu í Hrútafjörð, ok hafði sótt sér húsavið. Þar lá fyrir skip Þorgeirs Hávarssonar, ok hafði hann sekr orðit um sumarit um víg Þorgils, frænda Grettis Ásmundarsonar, ok um launvígsmál Þóris at Hrófá. Þórarinn kallaði saman menn sína, ok mælti: „Svá er við látit, at hér liggja þeir menn, sem fyrir mörgum eru kunnir at óspekt, ok hafa þeir drepit frændr vára; ok er nú mál eftirsjá at veita, ok er Þorgeirr enn versti maðr“. Síðan bjoggust þeir til at vinna knörrinn. Ívarr hét maðr, enn annarr Þórir, er váru með honum. Enn er Þorgeirr vissi þetta, þá bað hann menn sína sýna drengskap ok verja sik. Síðan gerðist orrosta mikil, ok sóttu at fjórir tigir manna, ok var allmikill liðsmunr. Þorgeirr varði stafninn alldrengilega; enn er þyntist skipanin með borðunum, þá óx atsóknin um stafninn; ok í þeiri svipan feldi Þorgeirr þá Ívar ok Þóri, ok tvá menn aðra, ok fell þar sjálfr. Þá hafði hann alls vegit fjórtán menn. Þórarinn feldi þar sjau menn, ok hjó hann af Þorgeiri höfuð, ok hafði með sér til Eyjafjarðar; ok lagði í salt, er hann kom heim. Þessi tíðendi spurðust víða. Þetta verk lofuðu menn mjök, ok þótti et mesta snarræði í vera; enn

Eyjólfr kvað hinn veginn oftast farit hafa, at húskarlar Óláfs konungs hafi fáir óbættir drepnir verit — „enn þó er enn eigi víst, hversu lengi þeir eigu allir sigri at hrósa. Hefir mér ok svá til spurzt, sem Þorgeirr hafi átt við liðsmun at etja, ok þótt hann væri óvinsæll, þá var hann þó kærr konungi“. Eyjólfr var hirðmaðr Óláfs konungs, sem Guðmundr faðir hans. Enn er menn búast til alþingis, þá lét Þórarinn taka höfuðit, ok kvað þá hafa skyldu þat með sér, ok sýna hvat þeir höfðu unnit. Enn er Þórarinn kom til lögbergis, var þar sem mest fjölmenni. Tók hann þá til orða: „Kunnigt mun hér öllum mönnum vera um atburð þann, er gerðist et fyrra haust í lífláti Þorgeirs. Enn þeir menn, er fé hafa gefit til höfuðs honum ok harmsakar áttu at reka, þá ætla ek at mér muni berast vitni um, at ek veld því verki; þykkjumst ek þess fjár eigandi orðinn, er menn lögðu til, at þetta verk væri unnit; ok ef nökkurr grunar sögu mína, þá má hér nú líta höfuð af honum“ — ok lét þá upp halda. Þá mælti Eyjólfr Guðmundarson: „Þat ætla ek, at Þorgeirr muni mjök harmdauði vera, ef ek sést vel um í alla staði, því at vér vitum, at Óláfr konungr var vinr hans, ok hirðmaðr hans var Þorgeirr; enn þú ferr at þessu með ofrkappi miklu — enn ‚mikil er alvalds raun’, ok ‚mörg konungs ráð’“. Síðan skilja þeir

ok hafði Þórarinn norðr með sér höfuð Þorgeirs. Þá mælti Þórarinn: „Þá mun flestum mönnum í hug koma dráp Þorgeirs, ef vér leggjum í haug höfuð hans hjá Vaðilshorni“ — ok svá var gert. Enn er skip gengu milli landa, þá kómu þeir á milli, sem þessa sögu báru fyrir Óláf konung um líflát Þorgeirs ok förunauta hans. Konungr spurði hverr því olli, enn þeir segja, at Þórarinn hefir gert, ok hversu ferlega hann hafi með farit, saltat höfuðit um vetrinn, enn flutt til alþingis um sumarit; ok varð konungr ákaflega reiðr, ok mælti: „Oft hafa menn drepnir verit, enn þess veit ek eigi dæmi, at svá hafi menn með farit, enn víst vil ek, at hann hafi feigum höndum gert“.

Í þann tíma var Þormóðr Kolbrúnarskáld farinn at drepa Þorgrím trölla til Grænlands, enn hefna Þorgeirs Hávarssonar. Hann orti ok erfidrápu, er mun sanna þann atburð. Konungr heimti á tal við sik þann mann, er Sigurðr hét. Hann var þá búinn til Íslands. Konungr mælti: „Þá er þú kemr til Íslands, þá far þú á fund Eyjólfs Guðmundarsonar, vinar míns ok hirðmanns, ok fá honum þetta fé; þat eru átta merkr vegnar. Vil ek gefa honum féit ok þar með vingan mína, enn ek vil þat í móti hafa, at hann ráði af Þórarin ofsa“. Sigurðr tók við fénu, ok fór leiðar sinnar, ok kom til Eyjafjarðar skipi sínu; ok tekst brátt kaupstefna

með mönnum. Eyjólfr reið til skips, ok hitti stýrimann. Þeir töluðust við um vistir ok kaup, ok bauð Eyjólfr honum til sín; enn hásetar vistuðust um Eyjafjörð. Sigurðr kom heim á Möðruvöllu; hann segir Eyjólfi orðsending konungs, ok bar fram fé — „enn hér í mót vill hann, at þú drepir Þórarin ofsa fyrir víg Þorgeirs“. Eyjólfr þakkaði konungi fyrir gjafar sínar ok vinmæli — „enn þat álag, er hann vill at ek gera, þá mun ek til stýra með konungs hamingju“. Enn um haustit, er menn riðu til leiðar, reið Eyjólfr með flokk sinn. Þórarinn ofsi reið ok með mikla sveit, ok þræll hans er Greipr hét, mikill ok sterkr. Menn riðu hart um daginn, ok hleypti þrællinn hjá Þórarni, svá at klæði hans ve̜rguðust. Þórarinn mælti: „Ver þú alla þræla armastr, gerandi mér slíkt“ — ok lýstr hann á hrygginn með sverðshjöltum; enn þrællinn snýst við, ok spyrr, ef hann vill nökkut leggja til bóta [*fyrir höggit. Þórarinn brást við reiðr ok mælti: „Heyr hér á endemi; þetta skal skapa þér bætrnar“ — ok lýstr hann anne̜t sinn sverðshjöltunum sýnu meira högg enn hit fyrra. Ok er þrællinn kendi höggsins, mælti hann: „Nú áttu at gjalda mér tvennar bætr, enn eigi mun ek beiða hinna þriðju þess kyns“. Þórarni þykir þrællinn gerast firna djarfr ok þrálátr á máli sínu; hafði hann þat í hug sér, at leiða honum bótabeiðsl-*

*una, ok ætlaði at bregða sverðinu; enn er þræll-inn sá þat, verðr hann skjótari at bragði, ok hjó Þórarin banahögg. — Nú er frá því at segja, at þessu næst er skip gengu heðan til Noregs, spurði Óláfr konungr at hefnd var fram komin fyrir víg Þorgeirs Hávarssonar, hirðmanns hans, með þeim atburði, at þræll Þórarins ofsa varð honum at bana fyrir til-stuðlan Eyjólfs á Möðruvöllum. Konungr lét vel yfir því — „ok sé ek", sagði hann, „at vinr minn Eyjólfr hefir svá til ætlazt um hefndina, at ‚firn skyldi fádæmum mæta'". Fanst þat á öllu, at konungi þótti þat vel orðit er var. Enn óvildarmenn Eyjólfs kölluðu þat lýsa ekki all-mikilli framsýni, ef höfðingjar, sem þess ættu at geyma, at heraðsstjórn færi sem bezt fram, gerðust til þess með fégjöfum, at hleypa upp þrælum í höfuð drotna þeira. Eyjólfr lét hvern ræða hér um slíkt er vildi; gerði hann hvárki at synja né sanna. Eigi er þess getit, at Ey-jólfr hinn síðara hlut æfi sinnar ætti í víga-ferlum eða stórmálum, eftir er hann hafði komit fram mannhefndum fyrir víg Koðráns ok sætt-um varð fyrir beztu manna milligöngu á komit með því móti, at Eyjólfr varð at bæta fyrir víg Þórarins á Brettingsstöðum. Þat þykir hafa komit fram á Koðráni, er Þórhildr Vaðlaekkja spáði, at nærri mundi stýrt verða einhverjum sona Guðmundar ens ríka, þá er hann frétti*

*hana eftir, hvárt nokkrar mannhefndir eftir Þorkel hák mundu koma niðr á sonum hans. Þessi vóru börn Eyjólfs ok Ingvildar, dóttur Halls á Síðu, konu hans, er vér höfum heyrt um getit: synir tveir, Þorsteinn ok Guðmundr, ok dætr tvær; ok hét önnur þeira Þórey, móðir Sæmundar prests hins fróða, enn um heiti hinnar dótturinnar greinast menn mjök; kalla sumir hana Hallfríði eða Vilfríði, ok enn aðrir Úlfhildi. Ingvildr, kona Eyjólfs, giftist eftir mann sinn andaðan Þórarni Dagssyni, er kominn var frá Þorkeli háva Grænvetningi. — Ok lýkr hér at segja frá viðskiftum Eyjólfs á Möðruvöllum ok Ljósvetninga].*

# Viðauki.

## I.

### Brot af A. M. 561, 4to.

. . . . . . eigi sakvarir. Enn lát þat fé alt koma í hendr mér, ok ekki mun þat týnast ok mætti þar koma um síðir, at þú þyrftir eigi meira fé at bæta Þorkel hák, ok væri þat maklegt, at þeir bætti sjálfir slíku mál sín. Guðmundr mælti: „Vitrlega sýnist mér þetta ráðit“. Einarr segir: „Trú þú þér einum til at vita þessi ráð“. Guðmundr fór heim ok grófst eftir um sakir við þingmenn Þóris, legorðs sakir ok hrossreiðir, ok hverja er hann mátti til fá, ok tók fé af hverjum þeira, ok fór svá fram nökkura hríð. Nú er ok öllum kunnigt, hvé mjök Þórir lætr sína sæmd, er hann mátti ekki þingmenn sína halda, ok fekk hann af því óvirðing mikla, er hann helt eigi sína þingmenn.

Ingjaldr hét maðr. Hann var farmaðr. Hann kom skipi sínu í Eyjafjörð. Enn Guðmundr

varvanr at koma fyrstr allra manna til skips. Hann var auðigr maðr. Guðmundr var vanr at ráða kaupum ok bjóða mönnum til sín, ok enn var svá, ok fór Ingjaldr til Guðmundar ok var með honum um vetrinn, ok var þá kyrt þann vetr. Enn um várit skildust þeir vinir, ok fór hann til skips. Hann var auðigr maðr ok drengr góðr. Hann bjó skip sitt. Þorgils hét maðr. Hann var þingmaðr Þóris. Hann bjó at Ökrum í Hörgárdal ok kallaðr akra-karl, ekki mjök vinsæll né trúr í kaupum. Hann fór til skips um dag einn með föggur, ok var þat ull ok klippingar, ok lét falt við Ingjald. Honum var annsamt. Ingjaldr fór til at vega ull ok klippinga, ok hugði ckki at, hvernig var, ok fekk honum lereft, ok fekk slíkt sem þeir urðu á sáttir, ok fór Þorgils í brott. Ok er austmaðrinn hugði at varninginum, var fúit bæði ull ok klippingar. Honum líkar illa, ok ferr á fund Guðmundar ok segir honum. Guðmundr mælti: „Marga velgerð hefir þú mér gert, enn öngva meiri enn þessa. Seldu mér málit, enn ek mun gjalda þér slíkt fé, sem þú átt at honum“. Nú tók hann við málinu, enn gaf honum gjafir, ok skildust vinir. Fór austmaðrinn utan, ok er hann ór sögunni. Ok er stefnu dagar kómu, reið Guðmundr með þrjá tigu manna, ok stefndi Þorgilsi um bekráð. Þorgils segir: “Ek vil bjóða fyrir þetta, at leggja undir gerð ykkra

Þóris, ok hefi ek eigi vitat, at ull væri ónýt né klippingar". Guðmundr segir: „Lítt ætla ek at vit Þórir gerum um málin, ef vit einir erum at, enn lét Þorgils maklegan at láta sitt fyrir svik sín, ok stefndi honum til alþingis". Guðmundr ríðr heim eftir þat. Enn Þorgils fór á fund Þóris, ok segir, at honum var stefnt, ok sagði at honum þótti hann mjök láta hlut sinn fyrir Guðmundi. Þórir mælti: „Má mér þat er yfir margan gengr". Þorgils fór heim.

Nú ríðr Guðmundr til þings, ok svá aðrir menn, ok hefir Guðmundr fram mál á hönd Þorgilsi, ok þá er kemr at dómum, þá gengr Þórir til, ok býðr boð fyrir Þorgils, ok sagði at menn sættist á slík mál. Guðmundr segir, at hann vill engi boð af honum þiggja. Þórir kvað honum lítt aftr fara at ósæmd við þá, enn Guðmundr lét honum enn eigi mega svá þykja, meðan hann væri eigi fyrir sökum hafðr; málit horfir óvænt ok hafði Þórir ekki afl móti at rísa, ok varð Þorgils sekr. Óvirðing fell á mál Þóris. Enn frá Þorgilsi er þat at segja, at hann þóttist sjá, hversu fara mundi, ok fór hann norðr í Húsavík um þingit með lausafé sitt, enn lönd stóðu eftir ok kvikfé, enn hann fór utan, ok er hann ór sögunni.

Nú ríða menn heim af þinginu, ok spurði Guðmundr, at Þorgils var í brottu farinn, enn vissi þó at mikit fé var eftir. Þórir átti at

nefna féránsdóm eftir þingmann sinn, enn Guðmundr til at koma. Nú ríðr Guðmundr heiman. Þórir bauð þeim öllum þangat, er fé áttu at heimta at Þorgilsi. Ok þangat var boðað fé því öllu, er hann hafði átt. Land hafði hann átt á Steðja ok hafra tíu, er Þórir varðveitti, ok ætlaði hann þá ok til (at) reka fundarins. Fjárhlutr var mikill eftir í geldfé, ok treystust menn eigi at kaupa án lofi Guðmundar. Guðmundr reið fjölmennr til féránsdóma, ok varð þar ekki til tíðenda. Ok er hann ríðr á brott með fénu — á Skútu*m* heitir bær fyrir ofan Laugaland — þeir koma þar, ok hittir Guðmundr sauðamann Þóris, er Oddr hét. Hann mælti ok tók svá til orða: „Drjúgir verða þér, Guðmundr, þingmenn Þóris til fjársins, ok mundi mikit um vert, ef þú hefðir fengit alt fé af Þóri“. Guðmundr segir: „Hvárt skortir at“? Oddr mælti: „Hafrar þeir tíu, er inni standa at Þóris“. Guðmundr mælti: „Þat munda ek helzt kjósa, at Þórir gerði skóggangs sök á hendr sér. Enn þér, Oddr, mun verða annat hvárt at þessu gifta eðr ógæfa“ — ok snúa þeir hestunum ok ríða á Laugaland, ok koma at húsinu, þar Oddr sagði hafrana inni vera. Hafrar hlaupa út, þegar þeir láta upp hurðina. Guðmundr mælti: „Fjár mun þetta vert“ — ok ríða nú heim á bæinn, ok var Þórir úti. Guðmundr mælti: „Seint er slíka at tryggja.

Ek hugða, Þórir, at þú værir heiðvirðr maðr". Þórir segir: „Eigi vissa ek þetta; enn nú er ok bæði, at þú ferr at geystr, enda má vera at eigi hafi vel verit til gert". Guðmundr mælti: „Svá verðr nú at vera, sem þú hafir vitat" — ok nefnir sér vátta, at honum væri féit óheimilt, ok skildu at því.

Nú er kyrt um sumarit. Ok einn morgun var Guðmundr snemma á fótum. Hann mælti við smalamann, at hann skyldi taka hest hans. Hann gerir svá, ok er hestr er búinn, stígr Guðmundr á bak, ok ríðr á brott einn saman, ok hafði með sér skikkju þá, er Ingjaldr austmaðr hafði gefit honum. Hann ríðr til Þverár at finna Einar bróður sinn. Enn þar var jafnan ekki mikit með þeim bræðrum. Enn Þórir var mikill vin Einars. Nú kemr Guðmundr til Þverár, ok drepr á dyrr. Smalamaðr kemr út, ok heilsar Guðmundi. Guðmundr spurði, hvárt Einarr bróðir hans væri upp risinn. Hann segir: „Eigi er þat". Guðmundr mælti: „Bið hann upp standa, ok seg at Guðmundr bróðir hans er kominn ok vill finna hann". Hann ferr inn ok vekr Einar, ok segir honum, at Guðmundr bróðir hans er kominn, ok vill finna hann. Einarr stendr upp, ok gengr út, ok fagnar vel bróður sínum. Guðmundr tók því vel, ok var allkátr. Guðmundr mælti: „Illa þykki mér þat, er með okkr er svá fátt. Ok

er ek nú til þess kominn, at ek vilda at betr væri í okkarri frændsemi heðan frá, enn hér til hefir verit, ok þætti mér okkr þat betr sama, frændi, at vit værim jafnan báðir at einu máli". Einarr mælti: „Víst væri þessa vel leitat, ef þat væri ráðit, at hugr fylgdi máli". Guðmundr mælti: „Þat mun ek sýna, at mér þykkir mikit undir at okkart vinfengi sé gott" — ok tekr nú skikkjuna, ok sýnir honum, ok mælti: „Þat vil ek, at þú hafir hana at gjöf af mér". Einarr mælti: „Þat vilda ek, at vit byndim þetta með fastmælum með okkr, enn þetta er góðr gripr, ok at vísu vil ek þiggja". „Þat vilda ek", segir Guðmundr, „at nú gerðu vér af nýju okkarn félagsskap". Einarr segir: „Ekki þykki mér vit þess þurfa, at binda okkar á meðal, þótt vinfengi sé með okkr". Guðmundr mælti: „Víst er þat líklegt, at þat muni alt vel endast, er þú heitr, enn ekki mun þat spilla til", segir Guðmundr. Einarr segir: „Eigi mun þat of mikit þykkja koma í mót skikkju gjöfinni, þótt þú ráðir þessu". Guðmundr mælti: „Ekki munu vit strit fyrir hafa, at kalla aðra menn at þessu, ok munu vit takast í hendr, ok nefna guð í vitni, at vit skulum at einu máli vera báðir heðan í frá" — ok svá gerðu þeir, ok vissi þetta engi maðr, nema þeir einir. Nú ríðr Guðmundr heim, enn Einarr gengr inn.

Þat er nú at segja, hvat er til hafði orðit með (þeim) bræðrum, þá er þeir váru ungir sveinar, at Guðmundr átti sér fóstra, ok unni hann honum mikit. Ok einn dag svaf hann úti í skini, enn sveinninn sat undir höfði honum, enn mý settist á skalla honum. Enn Guðmundr sópaði af með hendi sinni, ok þótti honum, sem fóstra hans mundi mein at vera. Enn Einarr gekk hjá ok mælti: „Sér þú eigi, bróðir, at þér vinnr þetta ekki, því at þat sezt jafnskjótt aftr á, ok skara heldr til öxarhyrnunni, er þú hefir hjá þér". Hann gerir svá, ok veik til öxarhyrnunni í höfuð honum, fóstra sínum, enn mýit lyftist á brott, enn skallinn blæddi. Karl vaknaði ok mælti: „Ertu ærr, er þú vinnr á mér". Guðmundr mælti: „Nú et fyrsta finn ek þat, at eigi eru ráðin Einars bróður míns heil við mik" — ok af þessu eldi lengi síðan.

Nú er kyrt um öndvert sumarit. Enn er á leið, ríðr Guðmundr með tuttugasta mann út á Laugaland, at stefna Þóri um sauða launin. Nú var leitat um sættir. Guðmundr vill ekki sættast, ok lézt nú reyna skyldu, hvárr þeira röskvari væri. Hann ríðr nú heim á leið. Þetta var snemma morgins. Einarr bróðir hans var því vanr, at rísa upp snemma, ok hitta sauðamann sinn. Þetta var enn í þat mund, er Guðmundr hafði heiman farit. Einarr mælti, at

hann skyldi víss verða þess, er þeir færi heim aftr. Enn er á líðr daginn, kom sauðamaðr ok sagði Einari, at þá vóru þeir utan á leið. Einarr mælti, at hann skyldi taka hest hans, ok leggja á söðul, ok svá gerir hann. Einarr stígr á bak ok ríðr fyrir þá, ok hittir þá fyrir ofan Hrafnagil. Guðmundr fagnar vel bróður sínum. Hann tók því vel. Einarr spurði: „Hvert hafi þér riðit í morgun, Guðmundr frændi, er þú hefir svá snemma at verit“? Guðmundr svarar: „Mörg eru erendi mín hérna um bygð“. Einarr mælti: „Ekki ertu vanr at ríða svá fjölmennr hér um bygðir, ef lítil erendi væri, ok seg mér, hvert þú hefir riðit“. Guðmundr mælti: „Ek reið út á Laugaland, at stefna Þóri um hafra launin, þeim er hann leyndi af fé Þorgils, enn ek átta sektarfé at taka eftir hann“. Einarr segir: „Þó hefir þetta leynilega farit“. Guðmundr mælti: „Ekki hefir þú tíðenda fróðr verit. Enn þess vil ek biðja þik, at þú veitir mér at þessum málum“. Einarr mælti: „(At) því vil ek hlut eiga, at þit sættizt“. Guðmundr mælti: „Þat ætlaða ek, at nú skyldi vér reyna með okkr, hvárr ríkari væri“. Þeir bræðr skildu nú at þessu, ok fór Einarr heim til Þverár. Guðmundr reið ok heim með sína menn. Enn nökkuru síðar fór Þórir at finna Einar, ok sagði honum, hvar komit var um mál þeira Guðmundar, ok bað Þórir Einar ásjá

ok liðveizlu. Einarr segir: „Mér er vant við Guðmund bróður minn fyrir frændsemi sakir, ok svá þess, at vit höfum bundit fastmælum með okkr, at hvárgi okkarr skyldi í mót öðrum vera". Þórir mælti: „Sjá máttu þó, at hann vill einn yfir öllum sæmdum sitja". Einarr mælti: „Mikit er til þess haft, at einn vill hann öllu ráða, ok einkis vill hann virða orð manna, þegar ef honum líkar annan veg betr. Enn leita mun ek um sættir með ykkr, enn ef þat stoðar ekki, ok vill hann einkis virða mín orð, þá mun ek ok ekki hirða um hans þokka, ok munu vit þá báðir saman til þings ríða". Þórir ríðr heim, ok er nú kyrt um hríð. Eitt hvert sinn bað Einarr taka hest sinn, ok kveðst vilja ríða upp á Möðruvöllu, at finna Guðmund bróður sinn, ok er hann kemr, ríðr hann upp at dyrrunum ok drepr á dyrrnar. Þar gengr út maðr. Einarr mælti, at hann skyldi kalla á Guðmund, — „ok seg at ek vil finna hann". Hann ferr ok segir Guðmundi, at Einarr var kominn, ok vill finna hann. Guðmundr gengr út í dyrr, ok heilsar Einari bróður sínum. Hann tók því vel. Einarr vildi ekki af baki stíga, enn Guðmundr gekk eigi út ór dyrrunum, ok töluðust þeir svá við. Einarr tók til orða, ok spurði, hvárt nökkut skyldi stoða at leita um sættir með þeim Þóri. Guðmundr segir, at þeir mundi ekki sættast, nema Þórir legði alt á hans vald, — „ok

er honum þat þó fullgott". Einarr segir, at hann vildi þessu máli mjök *[til kapps halda, — „ok muntu lítils virða orð mín". „Fyrir mun þat ganga", segir Guðmundr, „ok vil ek einn ráða". Einarr mælti: „Þá ætla ek (at) mér sé ekki meiri vandi við þik, ef þú vilt eigi minn vilja gera". Guðmundr mælti: „Gera mun ek þinn vilja um önnur mál, enn sjálfr mun ek þessu einn ráða". Einarr mælti: „Þá vil ek aftr (gefa) skikkjuna, ok eigi munum (vit) oftar gjöfum við skiftast". Guðmundr mælti: „Þú munt því ráða". Einarr kastar þá niðr skikkjunni. Guðmundr svarar: „Engi skal hana hér upp taka minna manna, ok missir þú bæði drengskapar míns ok skikkjunnar". Ok fór oft heldr lítt með þeim bræðrum. Enn um sumarit riðu menn til þings, ok fjölmentu hvárirtveggju; ok var Guðmundr fjölmennari. Þorkell Geitisson var þar, ok leitaði um sættir með þeim, enn Guðmundr vill eigi sættast. Eitt sinn mælti Einarr við Þóri, ok frétti (hversu) hann vildi með fara við Guðmund. Þórir svarar: „Þat hefi ek hugat, at ek muni skora Guðmundi bróður þínum á hólm". Einarr mælti: „Mikit ráð er þat. Nær ætlar þú þetta upp at bera"? Þórir mælti: „Eigi er mik at þessu (at) spyrja, fyrr enn fram kemr". Nú ríða menn heim af þinginu, ok váru eigi sáttir at því sinni. Þóttist Guðmundr hafa]* afráð goldit sinna orða, ok

kom nú í hug, at nú mundi fé ærit at bæta einhvern mann. Ok at þinglausnum kom einn maðr at Guðmundi, er Þorsteinn nefndist, ok var kallaðr rindill. Hann skoraði á Guðmund til vistar. Guðmundr spurði, hvar hann var sveitamaðr. Hann kveðst vera sunnlenzkr maðr. Guðmundr mælti: „Hví er þér betra í ókunnri sveit, enn kunnigri“? Hann kveðst vera sekr maðr. Guðmundr mælti: „Ertu nökkur verkmaðr“? Hann kvað þat satt vera, — „ok til margs vel fallinn“. Guðmundr mælti: „Eigi værir þú allóskotbragðlegr; eða hví munda ek eigi við þér taka“. Ok fór hann með Guðmundi af þinginu.

Nú er at segja frá Þóri, at (hann) fór utan um sumarit er á leið, ok var hann á Hjaltlandi þann vetr. Enn um várit fór hann út, ok hafði góða kaupferð, ok réð sér hjón, ok var heima um sumarit; enn um haustit fór hann utan, ok var í Orkneyjum um vetrinn. Enn um várit fór hann út, ok hafði bæði mjöl ok annan varning, ok er hann kemr heim, réð hann sér hjón, ok var heima um sumarit, ok annaðist um bú sitt; enn um haustit fór hann utan, ok var þá í Noregi þann vetr. Þá var Óláfr konungr Haraldsson konungr yfir Noregi. Enn um várit fór hann utan, ok átti mikit í skipi, ok hafði þá mikit fé, ok þótti hann sköru-

lega farit hafa, ok sezt hann nú í bú sitt. Ok lýkr þar nú frá honum at segja.

(Guðmundr sendi Rindil til Þorkels). Þat var um sumarit, at Guðmundr vildi láta slá í túni sínu. Þá mælti hann við Rindil, at hann mundi til taka, at slá um hús, ok fekk honum ljá í hönd. Hann tók til ok sló, enn Guðmundr stóð hjá, ok mælti: „Ófimlega ferr þú at þessu verki, ok mun þér annat betr hent. Er þér vildara, at ríða með mér um daga til laugar, ok vinna ekki“? Hann kvað sér þat betr fallit. Guðmundr kvað honum mundu betr hentar sendiferðir, — „ok má þó vera, at þú metist eigi til ómaga“. Enn um morguninn riðu þeir til laugar, ok töluðu mart. Guðmundr mælti: „Nú mun ek trúa þér vel, ok mun ek segja þér þá hluti, er stórræði fylgja, ok mun þér verða at því annathvárt gæfa eðr höfuðbrot, ok hafa vil ek nökkut fyrir gott yfirlæti“. Þorsteinn mælti: „Trúr mun ek þér vera í orðum ok sendiferðum, enn eigi er ek öruggr til áræðis“. Guðmundr mælti: „Þó mun at gagni koma, ok nú mun ek segja þér trúnað minn“. Þorsteinn mælti: „Ek mun eiga traust ok hop undir þér, enn send mik hvert er þú vill“. Guðmundr mælti: „Ek hefir fjandskap lagit á Þorkel hák. Nú vilda ek þik þangat senda at skynja hans háttu með mínu umstilli“. Rindill mælti: „Legg til ráðit, enn ek mun fram

fylgja". Guðmundr mælti: „Á þessu hausti ætla ek at sækja heim Þorkel hák. Nú máttu mér meira at veita í slægð, enn áræði, enn líf þitt er í veði, ef þú bregðr af". Þorsteinn mælti: „Lifi ek fyrir þá sök". Guðmundr mælti: „Nú er á hallæri, enn hvalrekstr norðr á Tjörnesi, ok sækja þangat margir vestan heðan ór sveitum. Þú skalt fara norðr Vöðlaheiði, ok fara með hesta tvá óvandaða, ok látst vera vestan ór Hálfdanartungu, því at þeim ertu líkastr, er þaðan koma, ok lát sem þú farir þangat at hvalkaupum, ok haf kláfa á hrossinu, ok far upp ór Kaupangi ok Reykjaskarð, ok svá Hellugnúpsskarð til Bárðardals austan ok síðan til Þorkels háks; enn haf því buginn, at bær Þorkels verði á leið þinni, enn hitt er alþýðuvegrinn, at fara Ljósavatnsskarð til Tjarna, enn Þorkell er illr viðtakna, ok ekki samþykkr við aðra menn. Get ek, at einn maðr sé úti, er þú kemr þar, ok ver framfærinn, ok tak af hestum þínum, at eigi reki hann þik í brott, ok hafst þar við. Enn vörnuð býð ek á brottför þinni, ok ef þú náir þar vist, þá lúk upp hurðina um nóttina, ok tak steina jafnmarga. ok legg á vegginn, sem menn eru inni, ok höfum vér þat til marks". Nú er þat sumar kyrt, ok ríðr Þorsteinn með Guðmundi oft til laugarinnar, ok fanst mönnum mjök orð um þat, ok þóttust vita, at nökkut mundi undir búa.

Enn um sjauvikna skeið hvarf Rindill í brott, ok fór norðr, sem ráð var til sett. Enn Þorkell hafði fátt hjóna, ok einn húskarl, ok var hann brautu til vers. Rindill kom til húss í vásviðri miklu, tók af hestum, ok færði þá í Öxarárgil, ok er hann kom heim, gó hundr at honum, ok gekk út kona, ok hvarf inn aftr, ok sagði Þorkatli, at maðr var kominn úti, ok hafði tekit af hestunum, ok fært þá. Þorkell spratt upp, ok kvað hann furðu djarfan, ok í því bili kom Rindill inn, ok rann ór hverju hans klæði, er hann var í. Þorkell spyrr, hverr hann sé — „eða hví komtu hér“? Rindill mælti: „Mér þótti mál at hvílast“. Þorkell mælti: „Ókunnr ertu mér, ok heldr ertu ósællegr“. Rindill mælti: „Ekki hagar nú svá til, at maðr sé svá kurteiss, eða hvárt viltu veita mér húsin eða eigi“. Þorkell mælti: „Sjá vil ek fargagn þitt“. „Já“, segir Rindill, „þat má vel“. Þorkell sá þar ull ok várgærur ok smá osthleifa, ok sér at hestarnir eru mjök fótsárir ok bakvana. „Satt muntu segja“, segir Þorkell, „ok far inn“. Enn eldr var á arni. ok sat húsfreyja við eld, ok mælti: „Hvern leiðir þú þar eftir, eða hvárt er þér á honum nökkurr vandi“? Hann segir: „Ókunnr maðr er mér hann, enn ósællegr þótti mér (hann) vera, ok vísaða ek honum því eigi á brott“. Hon mælti: „Ilt varð mér við, er ek sá hann“. Þorkell

mælti: „Eigi veit ek, hversu þat gegnir“. Hon segir: „Síðar veiztu þat gerr“. Rindill mælti: „Hvárt þykist þú framvís, eða hví munda ek eigi hlíta löð bónda, Þorkels Þorgeirs sonar lögsögumanns, er réttr forstjóri má heita hús síns, ok mun ek þat at öngu hafa, sem kona sjá geipar“. Enn Þorkell lætr eigi sem hann heyri viðræðu þeira. Þorkell var beinn við hann, enn húskarl Þorkels vann þar sem heitir at Landamóti at heyverki. Enn um aftaninn, er borð váru upp tekin, mælti Þorkell við Rindil: „Sit hér, armi“, segir hann. Rindill sat þar, ok hirti ekki, þótt konur væri eigi beinar. Enn Þorkell hvíldi í lokrekkju, enn Rindill instr í seti. Þorkell sofnaði brátt, enn slagbrandr var settr innan við hurðina. Rindill stóð upp, ok gekk út. Hann tók steina tvá ok lagði upp á vegginn, ok lét lokur frá hurðum. Enn ekki þótti honum gagn í, er konurnar váru á gangi, ef þeir Guðmundr kæmi. Enn Þorkell hafði lokit aftr lokrekkjuna. Síðan sofnaði Þorkell. Húsfreyja gekk eftir gólfi utar í öndina, ok mælti: „Var svá þó“, ok lét fyrir lokurnar; ok vaknaði Þorkell við, ok mælti: „Hvat er nú húsfreyja“? „Slíkt sem (mik) grunaði, at gestrinn vill svíkja þik, ok hefir látit frá lokur“. Rindill mælti: „Mikinn fjandskap sýnir þú við mik, nær sem at gjöldum kemr“. Þorkell mælti: „Eigi mun gáð hafa

verit at setja fyrir lokurnar". Síðan sofnaði hann, ok er stund leið, þá skreiðist Rindill ór rúmi sínu, ok skaut frá lokum, ok heyrði þá hundgá, ok at menn riðu at bænum. Hann hljóp út þegar ok hafði klæði sín í fangi sér, enn sjálfr var hann nökkviðr, ok fór úti í klæðin.

---

## II.

### Endir Guðmundar sögu eftir A. M. 514, 4to.

---

Synir Guðmundar, Eyjólfr ok Koðrán, tóku fé eftir hann; vildi Eyjólfr eigi unna bróður sínum jafnaðar, ok eigi vildi hann, at Koðrán bjó í Möðrufelli; hann var efnilegr maðr ok vinsæll. Eyjólfr var ríkastr maðr fyrir norðan land.

Þorvarðr Höskuldsson, Þorgeirs sonar goða, bjó þá á Fornastöðum, vitr maðr ok stiltr. Höskuldr hét son hans, uppivöðslumaðr mikill. Þorkell hét maðr, Hallgilsson; hann bjó á Veisu. Móðir hans hét Sólveig, Þórðardóttir. Þórðr var bróðir Þorgeirs goða. Hrafn, Þorkels son háks, bjó þá at Lunda(r)brekku; — þessir váru Ljósvetningar kallaðir. Deilur hófust með þeim

Eyjólfi ok Ljósvetningum; ok þar kom um síðir, at þeir réðu til bardaga við Eyjólf, eitt sinn er hann reið norðr, þannig. Höskuldr Þorgeirsson ok Hrafn Þorkelsson váru mjök fýsandi fundarins; enn Þorvarðr var eigi við í fyrstu, því at vináttumál höfðu farit áðr í milli Eyjólfs ok hans. Þó fór svá, at Þorvarðr kom til fundarins ok veitti Ljósvetningum. Honum fylgdi Hallr Ótryggsson, dóttursson Þorkels háks. Fundr þessi var við hól þann, er nefnist Kakalahóll. Koðrán Guðmundarson kom til liðs við Eyjólf bróður sinn; ok var þá hvíld orðin á bardaganum, svá at eigi börðust aðrir enn þeir sem sakar áttust við. Koðrán gekk í milli ok skildi menn; þá hljóp at Hallr Ótryggsson ok hjó í höfuð honum; ok var þat banasár. Ótryggr faðir hans var þá veginn. Sæzt var á víg Koðráns á Hegranessþingi fyrir meðalgöngu skegg-Brodda ok Gellis; váru gerð átta hundruð silfrs fyrir víg Koðráns, ok skyldi Hallr utan fara ok eiga eigi aftrkvæmt. Þorvarðr, Þorkell ok Höskuldr skyldu utan vera þrjá vetr. Þorvarðr gekk suðr. Ok á meðan hann var utan, drap Eyjólfr Þórarin Höskuldsson á Brettingsstöðum, bróður Þorvarðs, því at hann undi illa við, at eigi skyldi mannhefndir koma eftir Koðrán. Þorvarðr frétti víg bróður síns, þá er hann kom sunnan frá Róm, í Saxlandi. Hann mælti þá: „Langt er nú öxa várra í

milli, ok þat vilja þeir Möðrvellingar, at þær tæki enn sáman, ef ek kem til Íslands — ok verði nú sem Pétr postuli vill". Skömmu þar eftir andaðist Þorvarðr. Eyjólfr bætti víg Þórarins stinnum manngjöldum. Hallr Ótryggsson var með Haraldi konungi Sigurðarsyni, er hann barðist við Hákon jarl Ívarsson; ok er Hallr hjó ísinn, hljóp at honum Þormóðr Ásgeirsson, frændi Möðrvellinga, ok veitti honum bana, sem segir í sögu Haralds konungs. — Deilur Eyjólfs ok Ljósvetninga hófust af því, at Brandr Gunnsteinsson á Ljósavatni barnaði Friðgerði dóttur Friðgeirs bónda, þingmanns Eyjólfs, ok vildi síðan eigi undir ganga. Brandr var fóstbróðir Höskulds Þorvarðssonar, ok fell á Englandi með Haraldi Sigurðarsyni. — Ok lýkst hér svá þessi saga.



## Nöfn.

## Leiðréttingar.

*Bls.* $74_{16}$: Konrán *á að vera* Koðrán.
*Bls.* $88_{18}$: lifandi *á að vera* lifanda.

Hinn góðfrægi vísindamaður, háskólakennari **Dr. Finnur Jónsson** í Kaupmannahöfn, fer svofelldum orðum um sagnaritun og bókmenntastörf forfeðra vorra í hinni miklu bókmenntasögu sinni (Den oldnorske og oldislandske Litteraturhistorie II. B. bls. 15):

Sögurnar, er (á Íslandi) lifðu í minni og munni þjóðarinnar, og gengu svo mann frá manni, urðu að grundvelli og lífsskilyrði fyrir almennri, þjóðlegri sagnaritun. En síðan hefir hún í margar aldir beint andlegum áhuga þjóðarinnar í ákveðna stefnu, sem hún heldur að nokkru leyti enn í dag. Hjer spratt því upp sú endurnýjungarlind, er jafnan hefir vökvað íslenzkt þjóðlíf; þar hafa Íslendingar ávallt fundið og þekkt sína eigin mynd. Þessar sögulegu bókmenntir hafa ásamt með fleiri atvikum — og má þar fyrst og fremst telja fjarlægð lands og lýðs frá öðrum þjóðum — stuðlað að því, að Íslendingar hafa fremur öllum öðrum þjóðum varðveitt tungu sína eigi meir breytta en svo, að þar skilur hvert bóklæst barn fullt svo vel hinar fornu sögur, eins og rit þau, sem nú eru skráð þar. Enn hefir það leitt af þessu, að Íslendingar eru fróðir um sögu ættjarðar sinnar, einkum fornaldarsögu hennar. — — Það má kveða svo að orði í stuttu máli, að á öllum svæðum bókmenntalífsins geti þar að líta kostgæfna óheikula starfsemi; vjer verðum þar varir einkar-heilnæmrar, sann-vísindalegrar greindar með gaumgæfilegri og nákvæmri sannleiksleitun, er að sínu leyti jafnast við hinar nákvæmu og vísindalegu rannsóknir þessara tíma. Allt ber vott um víðan sjóndeildarhring og andlegan áhuga hjá háum og lágum.

Verð: 35 aur.

Íslendinga sögur.

15.

# Hávarðar saga Ísfirðings.

Búið hefir til prentunar

**Valdimar Ásmundarson.**



Reykjavík.

Kostnaðarmaður: Sigurður Kristjánsson.

1896.

# HÁVARÐS SAGA ÍSFIRÐINGS.

---

BÚIÐ HEFIR TIL PRENTUNAR

VALD. ÁSMUNDARSON.



REYKJAVÍK.

NAÐARMAÐUR: *SIGURÐUR KRISTJÁNSSON.*

1896.

# FORMÁLI.

**Hávarðs saga Ísfirðings** er hér gefin út eftir útgáfu hins norræna bókmentafélags (det nordiske Literatur Samf.), Khöfn 1860, sem Gunnlaugr Þórðarson hefir búið til prentunar, að öðru enn því, að Gísli Brynjólfsson hefir lagfært vísurnar og skýrt þær. Annars eru til tvær aðrar útgáfur af sögunni, báðar óvandaðar; er önnur þeirra í sögubók, sem prentuð er á Hólum 1756 og heitir: „Nockrer marg-frooder Sögu-þætter Islendinga“, en hin er prentuð á Ísafirði fyrir skömmu.

Saga þessi er að eins til í pappírshandritum, sem er að finna í safni Árna Magnússonar og víðar. Í Kaupmannahafnar útgáfunni, sem hér er fylgt, er sagan gefin út eftir handr. 160 fol. A. M., sem er frá 17. öld, skrifað af séra Jóni Erlendssyni í Villingaholti.

Sjálf er sagan auðsjáanlega mjög úr lagi færð frá því sem hún hefir verið upphaflega, og vísurnar enn meira. Þetta sést meðal annars, ef Landnáma og Hávarðs saga eru bornar saman. Þannig er það t. d. alveg rangt, sem segir um Sturlu Þjóðreksson (Víga-Sturlu) og víg hans.

Hann bygði fyrstr bæinn að Staðarhóli og bjó þar síðan. Það sem segir um Hólmgöngu-Ljót (Ljót spaka), sem bjó á Ingjaldssandi (sagan lætr hann hafa búið á Rauðasandi), er mjög blandað málum, því að Ljótr var spakr maðr og góðr. Þorbjörn á Laugabóli átti systur hans, eins og segir í sögunni í 14. kap. (og í viðaukanum bls. 70), enn ekki systur Gests Oddleifssonar, eins og stendr í 4. kap., og alt það sem segir af Gesti í sögunni, mun eiga við Ljót, eins og dr. Guðbr. Vigfússon hefir tekið fram í Safni I, 365. Synir Gríms kögurs, Sigurðr og Þorkell, drápu Ljót hið sama vor, sem Þorbjörn á Laugabóli hafði verið drepinn haustið áðr. Þessi víg hafa og orðið seinna enn í sögunni segir. Ekki getr það heldr verið rétt, að Steinþórr á Eyri komi við þessa sögu, heldr er það samkvæmt Landnámu Eyjólfr hinn grái í Otradal og Steingrímr sonr hans, sem veittu Hávarði eftir vígin.

Af vísunum í sögunni má ráða, að þær eru eldri enn sagan, enda koma þar fyrir mannanöfn, sem ekki getr í sögunni. Þannig nafnið Geirdís í vísunni á bls. 40, sem ætla mætti ef til vill að væri móðir Hávarðs. Í sömu vísu hefir Gísli Brynjólfsson getið til, að lesa ætti Knöttr í 3. vísuorði, því að Knöttr hét einn af Þjóðrekssonum, og kemr það vel heim við rímið.

Vísurnar í Hávarðs sögu eru svo afbakaðar, að engi líkindi eru til, að þær verði lagaðar svo að þær verði einu sinni líkar því, sem þær hafa verið upphaflega. Vísan á bls. 31 er og ranglega eignuð Hávarði, sbr. Landnámu II, 33. kap.

Gísli Brynjólfsson hefir reynt að lagfæra vísurnar í Hávarðs sögu, og má kalla að hann hafi ort þær upp aftr. Eru þær hér prentaðar að mestu leyti eins og hann hefir frá þeim gengið, en jafnframt hefir þótt rétt að prenta þær eins og þær líta út í handriti því, sem lagt var til grundvallar við útgáfu sögunnar, með því að hér er um svo mikinn mismun að ræða. Getr verið að hægt væri að lagfæra þær betr með samanburði handrita, þótt fá séu, eða komast nær því, sem þær hafa verið upphaflega enn Gísla Brynjólfssyni hefir tekizt.

Í staðlegu tilliti er Hávarðs saga allónákvæm, enn sú ónákvæmni virðist þó að mestu stafa af röngum afskriftum. Þannig er t. d. um ‚Rauðasand' fyrir ‚Ingjaldssand'. *Mánaberg* er nú ekki bæjarnafn, enn svo er klettabelti eitt nefnt í eynni Vigr. Þar mun þó ekki verið hafa bær Ljóts heldr á meginlandi, enda er það eyðibýli nefnt í jarðabók Árna Magnússonar. *Valbrandsstaðir*, *Þorbrandsstaðir* og *Ásbrandsstaðir* eru nú ekki bæjanöfn við Ísafjarðardjúp. Enn getið er til, að þessir bæir hafi verið á Langadalsströndinni, og að Valbrandsstaðir hafi verið þar sem nú heitir Melgraseyri. Að bæir þessir hafi heitið svo að fornu er þó ólíklegt mjög, og mun söguritarinn hafa búið þau til, af því að hann hefir ekki vitað, hvar þeir menn hafa búið, sem hann kennir bæina við.

Þessi staðlega ónákvæmni og ruglingr á sumum persónum sögunnar bendir á, að sagan sé miklu síðar í letr færð, enn hún hefir gerzt, eða að hún hafi aflagazt mjög í meðförum ritaranna.

Að frásögninni til er Hávarðs saga liprlega rituð og skemtileg.

Vísurnar virðast og hafa verið vel ortar, og munu vera upphaflegar, og eldri enn sagan, eins og áðr er sagt. Þær eru þannig vitni um áreiðanleik sögunnar að því er þær ná til.

## TÍMATAL.

Víg Óláfs Hávarðssonar . . . . . um 1000.
Víg Þorbjarnar Þjóðrekssonar og
Ljóts . . . . . . . . um 1002—1003.



# Hávarðs saga Ísfirðings.

Þat er upphaf þessarrar sögu, at Þorbjörn hét maðr; hann var Þjóðreksson. Hann bjó i Ísafirði á þeim bæ, er heitir at Laugabóli; hann hafði goðorð um Ísafjörð. Hann var stórættaðr maðr ok höfðingi mikill ok hinn mesti ójafnaðarmaðr, svá at engir menn þar um Ísafjörð báru styrk til neitt í móti honum at mæla. Hann tók dætr manna eða frændkonur ok hafði við hönd sér nökkura stund, ok sendi síðan heim; fyrir sumum tók hann bú upp eða rak brott af eignum sínum. Þorbjörn hafði tekit þá konu fyrir bú sitt, er Sigríðr hét; hon var ung kona ok stórrar ættar. Hon átti fé mikit, ok skyldi þat standa fyrir henni, ok eigi fram ganga meðan hon væri með Þorbirni. Hávarðr var maðr nefndr; hann bjó þar sem heitir á Blámýri. Hann var ættstórr maðr, ok var þá

hniginn á hinn efra aldr. Hann hafði verit víkingr mikill hinn fyrra hlut æfi sinnar ok hinn mesti kappi, ok í einhverjum bardaga hafði hann orðit sárr mjök, ok fengit eitt sár undir knéskelina, ok þaðan af gekk hann jafnan haltr síðan. Hávarðr var kvángaðr, ok hét Bjargey kona hans; hon var af góðum ættum ok hinn mesti skörungr. Þau áttu son einn, er Óláfr hét; hann var á ungum aldri, manna gervilegastr; hann var mikill vexti, fríðr sýnum. Þau Hávarðr ok Bjargey unnu Óláfi mikit; hann var þeim ok hlýðinn ok auðráðr. Þormóðr hét maðr; hann bjó á þeim bæ, er heitir á Bakka; Þorgerðr hét kona hans. Þormóðr var lítt við alþýðu skap manna; hann var þá hniginn nökkut á hinn efra aldr. Var þat kallat, at hann væri eigi einhamr; þótti hverjum þeira ok verst við hann at eiga. Ljótr hét maðr, er bjó á Mánabergi í Ísafirði. Ljótr var mikill maðr ok sterkr; hann var bróðir Þorbjarnar, ok honum líkastr um alla hluti. Þorkell hét maðr, er bjó í ey þeiri, er Æðey heitir; hann var vitr maðr, ok þó lítilmenni, enn þó af góðum ættum ok manna óeinarðastr. Þorkell var lögmaðr þeira Ísfirðinganna. Tveir menn eru nefndir til sögunnar: annarr hét Brandr, enn annarr Vakr; þeir váru heimamenn Þorbjarnar á Laugabóli. Brandr var mikill vexti ok rammr at afli. Þat var iðja Brands, at hann hafði ferðir á sumrum ok

flutti at búi þat er þurfti; enn á vetrum gætti hann gamals fjár; var hann vinsæll ok óáleitinn. Vakr var systursonr Þorbjarnar; var hann maðr lítill ok smáskytligr, vígmáligr ok illmáligr; fýsti Þorbjörn frænda sinn jafnan þess, er þá var verr enn áðr; varð hann af því óvinsæll, ok unnu menn honum sannmælis. Hann vann ekki annat enn gekk með Þorbirni út ok inn, eða fór sendiferðir hans, ok þá hann vildi ill verk gera láta. Þórdís hét kona, er bjó á Hváli í Ísafirði; hon var systir Þorbjarnar, enn móðir Vakrs. Hon átti ok annan son, er Skarfr hét. Hann var bæði mikill ok sterkr; var hann með móður sinni, ok sá um bú þeira. Þórálfr hét maðr, er bjó þar sem heitir á Lónseyri; hann var vinsæll maðr, ok eigi mikilmenni. Hann var mjök skyldr bústýru Þorbjarnar. Þórálfr hafði boðizt til at taka við Sigríði ok ávaxta fé hennar, enn Þorbjörn vildi þat eigi, ok sýndi þar um enn ójafnað sinn, ok bað hann ekki orð til leggja.

2. Þar er nú til máls at taka, at Óláfr vex upp á Blámýri; hann gerist efnilegr maðr. Svá segja menn, at Óláfr Hávarðsson hafi haft bjarnyl, því at aldri var þat frost eða kuldi, at Óláfr færi í fleiri klæði enn eina brók, ok skyrtu gyrða í brækr. Aldri fór hann svá af bæ á brott, at hann hefði fleiri klæði. Þórhallr hét maðr; hann var frændi þeira Hávarðs,

1*

ok heimamaðr, ungr maðr ok hinn frálegsti; hafði atdrátt at búi þeira. Þat var eitthvert haust, at Ísfirðingar gengu afréttir sínar, ok heimtu menn lítt. Þorbirni á Laugabóli var vant 60 geldinga. Liðu vetrnætr ok fanst eigi. Nökkuru fyrir vetr ferr Óláfr Hávarðsson heiman ok gengr afréttir ok öll fjöll, leitar fjár manna ok finnr fjölda fjár, bæði þat (er) Þorbjörn átti ok þeir feðgar ok svá aðrir menn, rekr síðan heim fénaðinn ok færði hverjum þat er átti. Varð Óláfr af þessu vinsæll, svá at hverr bað honum góðs. Einn dag snemma rekr Óláfr geldinga Þorbjarnar ofan á Laugaból. Hann kom í þann tíma, er menn sátu yfir borðum, ok váru engir menn úti. Óláfr drepr á dyrrnar ok gekk kona ein til dyrranna; þat var Sigríðr bústýra Þorbjarnar, ok heilsaði hon honum vel. Hon spurði, hvat hann vildi. Óláfr svarar: „Ek hefi rekit hingat geldinga Þorbjarnar, er honum var vant í haust“. Ok er Þorbjörn heyrði, at á dyrrnar var drepit, bað hann Vakr forvitnast hvat komit væri. Hann gerði svá ok gekk at skellihurðinni. Hann sá þá, at þau Sigríðr töluðust við. Hann hljóp þá upp á okann ok stóð þar meðan þau töluðu. Þá mælti Óláfr: „Nú þarf ek eigi at fara lengra; skaltu nú, Sigríðr, segja til geldinganna“. Hon sagði at svá skyldi vera, ok bað hann vel fara. Vakr hljóp inn í stofuna æpandi. Þor-

björn spyrr, hví hann léti svá, eða hvat komit hefði. „Þat ætla ek“, segir hann, „at Óláfr glóprinn af Blámýri, son Hávarðs, kæmi; hefir hann rekit hingat geldinga þína þá er vant var í haust“. „Þat er vel gert“, segir Þorbjörn. „Annat ætla ek verit hafa eigi síðr undir ferðinni“, segir Vakr, „því at þau Sigríðr hafa talat í allan morgin; sá ek, at henni þótti allgott at leggja hendr sínar um háls honum“. Þorbjörn mælti: „Þó at Óláfr sé hraustr maðr, þá er honum þat ofdirfð at fara óþokkaferð til vár“. Óláfr ferr heim. Líða þau misseri, ok er svá sagt, at Óláfr kemr jafnan á Laugaból ok fann Sigríði, ok gerðist vel með þeim. Var þetta brátt orðat, at Óláfr fífldi Sigríði. Ok annat haust gengu menn enn afréttir sínar, ok heimta lítt. Varð Þorbirni enn flest vant. Ok er lokit var réttunum, ferr Óláfr heiman einn saman ok gengr afréttir víða um fjöll ok heiðar, finnr enn fjölda fjár ok rekr í bygðina; færir enn hverjum þat er á. Gerðist hann nú svá vinsæll af bygðarmönnum, at allir biðja honum góðs, utan Þorbjörn; hann grimmast við hann fyrir alt saman, þat er aðrir lofa hann, ok þat er hann heyrir talat um bygðina um þangatkvámur hans til fundar við Sigríði. Vakr sparir nú eigi af at rægja þau við Þorbjörn. Nú er enn svá komit, at Óláfr er kominn á Laugaból með geldingana svá marga sem fyrr; ok er

hann kom, váru engir menn úti. Gengr hann nú inn ok til stofu. Var þar Þorbjörn bóndi ok frændi hans, Vakr, ok mart heimamanna. Óláfr gengr innar mjök at pallinum; stingr hann niðr öxarskaftinu ok styðst á, enn enginn heilsaði honum, ok þögðu allir. Ok er hann sér at engi æmti honum, þá kveðr hann vísu:

(1) Þat réðk fyrst at fregna
fámálgasta þegna:
hví þegja hér allir
hjörþings viðir snjallir?
Metorð leggjum engi
á mállausa drengi;
hefk staðit hér lengi
svá mik kvaddi alls engi.

Þá mælti Óláfr: „Þat er mitt erendi hingat, Þorbjörn bóndi, at ek hefi rekit hingat geldinga þína“. Þá mælti Vakr: „Kunnigt er mönnum þat nú, Óláfr, at þú gerist sauðreki um Ísafjörð; vitu vær ok erendi þitt hingat, þat at þú férr at heimta hlut af sauðunum; er þat ok stafkarla háttr, ok er einsætt, at minnast hans þó at lítit sé“. Óláfr svaraði: „Eigi er þat mitt erendi, mun ek ok eigi reka hit þriðja sinn“. Snýr hann þá í brott; enn Vakr hleypr upp ok æpir át honum. Óláfr gaf engan gaum at því, ok gekk heim, ok líða þau misseri. Ok um haustit heimta menn vel, utan Þorbjörn; honum var vant 60 geldinga, ok fundust eigi. Létu þeir frændr þau orð um fara, at Óláfr

mundi enn ætla at heimta til hlutar eða stela ella. Þat var eitt kveld, er þeir feðgar sátu yfir borðum, at á diskinum fyrir þeim lá langleggjarstykki. Óláfr tók upp ok mælti: „Þetta er furðu mikill leggr ok digr. Hávarðr mælti: „Þat ætla ek þó, frændi, at hann sé af okkrum sauðum, enn eigi Þorbjarnar bónda, ok mikit er at þola slíkan ójàfnað“. Óláfr leggr niðr legginn á borðit, ok roðnaði við, ok þótti þeim, sem hjá sátu, sem hann þrýsti við borðinu, enn þó brast sundr leggrinn, ok svá snart, at annarr hlutrinn stökk út í bjórinn svá at þar varð fastr. Hávarðr leit upp ok mælti eigi, ok brosti þó at, enn í því gekk kona í stofuna, ok var þar komin Þorgerðr af Bakka. Hávarðr fagnaði henni vel ok spurði tíðenda. Hon sagði andlát Þormóðar bónda síns. „Erum vér þó eigi vel við komin, því at hann vitjar hverja nátt sængr sinnar. Nú vilda ek þiggja, bóndi, at þér veittut mér nökkut lið, því at fólki mínu þótti ódælt við Þormóð, enn nú er svá komit, at þat ætlar alt í brott“. Hávarðr svaraði: „Ek em nú af léttasta skeiði, ok eigi til slíks færr; eða hví ferr þú eigi á Laugaból? Er þess ván um höfðingja, at þeir láti skjótt til slíkrar héraðsstjórnar koma sitt sveitargengi“. Hon svarar: „Einskis góðs vænti ek þangat; læt ek vel yfir, ef hann gerir mér ekki ilt“. Þá mælti Hávarðr: „Þat er mitt ráð, at þú

biðir Óláf son minn, ok væri þat ungra manna, at reyna sik svá at karlmensku; mundi oss forðum slíkt gaman hafa þótt". Hon gerir nú svá. Óláfr hét ferðinni, ok bað hana þar vera um nóttina; enn um daginn eftir fór Óláfr heim með Þorgerði. Var þar alt fólk ókátt; enn um kveldit fóru menn at sofa. Óláfr lá í stafnrekkju utar við dyr: ljós brann í skálanum; var ljóst hit efra, enn dimt hit neðra. Óláfr lagðist niðr í skyrtu ok brókum, því at hann hafði aldri fleiri klæði, enn kastaði á sik feldi einum. Ok er dagsett var, gekk Þormóðr inn í skálann ok lét róa tinglit; hann sá at rekkja var skipuð, er eigi var vani á; var hann eigi allgestrisinn; snýr hann þangat ok þrífr í feldinn. Óláfr vill eigi laust láta ok heldr þar til at þeir skifta feldinum með sér. Ok er Þormóðr finnr at afl er í þeim, er fyrir er, hleypr hann upp í sætit at rúminu. Óláfr hljóp upp ok þreif til axarinnar, ok hafði ætlat at slá hann; enn bráðara bar at, því at Þormóðr hljóp undir hendr honum. Varð Óláfr þá við at taka; tókst þar hinn harðasti atgangr. Varð Þormóðr harðtækr, svá at alt hljóp hold undan þar sem hann þreif til; flest gekk ok upp þat sem fyrir þeim varð; ok í því bili sloknaði ljósit. Þótti Óláfi þá eigi um batna. Þormóðr sótti þá í ákafa, ok þar kemr at lyktum, at þeir hörfa út. Í túninu lá rekatré mikit, ok

svá bar til, at Þormóðr rekr hælana báða í tréit ok fellr á bak aftr. Óláfr lætr þá kné fylgja kviði; leikr þar til við Þormóð, er hann sér fyrir honum slík ráð, er honum sýndist. Fólkit þagði alt, er Óláfr gekk inn. Ok er hann lét heyra til sín, var alt senn, at fólkit var uppi ok ljósit, ok strauk hann uppi ok niðri; var hann hvervetna meiddr af atgangi Þormóðar. Þakkaði hvert mannsbarn honum, þat er mæla kunni. Hann kveðst ætla, at þeim mundi eigi mein at honum verða. Óláfr dvaldist þar nökkurar nætr, fór síðan heim á Blámýri; varð hann víðfrægr af þessu verki um Ísafjörð ok alla landsfjórðunga, ok af þessu öllu vóx mjök óþokki milli þeira Þorbjarnar.

3. Þat er þessu næst at segja, at hvalr kemr í Ísafjörð. Þeir Þorbjörn ok Hávarðr áttu reka at tveim megin. Var sú sögn þegar, at Hávarðr mundi eiga. Var þat hin bezta reyðr. Hvárirtveggju fóru til ok ætluðu at hafa lögmanns órskurð á. Kom þar fjölmenni manns saman. Þótti öllum sýnt, at Hávarðr mundi hvalinn eiga. Þorkell lögmaðr var þar kominn, ok var hann þá at spurðr, hverr ætti. Þorkell svarar, ok heldr lágt: „Þeir eiga hval víst“, sagði hann. Þorbjörn gekk þá at honum með brugðit sverðit ok mælti: „Hverir þá, armi“? segir hann. Þorkell svarar skjótt, ok drap niðr höfðinu: „Þér, þér, víst“, segir hann.

Þorbjörn gekk þá at með ójafnað sinn ok tók upp hvalinn allan. Fór þá Hávarðr heim, ok undi illa við sinn hlut. Þótti öllum mönnum Þorbjörn enn nú hafa auðsýndan ójafnað sinn ok fullkominn ódrengskap. Þat var einn dag, at Óláfr gengr til fjárhúsa sinna, því at veðrátta var hörð um vetrinn, ok þurftu menn mjök at fylgja fénaði sínum; hafði veðr verit hart um náttina. Ok er hann ætlaði brott at ganga, sér hann at maðr gengr at húsinu; er þar kominn Brandr hinn sterki. Óláfr tók honum vel. Brandr tók vel kveðju hans. Óláfr spurði, hví hann færi svá síð. Hann svarar: „Eigi er svá frásögulegt; ek gekk til fjár míns snemma í dag, enn þat hafði rekast látit ofan í fjöruna; má þar ok í tveim stöðum upp reka, enn jafnan þar sem ek leitaði til, þá stóð þar maðr fyrir ok bandaði í móti fénu, svá at þat hljóp aftr í fang mér, ok hefir svá farit í allan dag alt hér til. Nú vilda ek gjarna, at vit færim til báðir saman“. Brandr svarar: „Þat vil ek gera fyrir þína bæn“. Ganga síðan báðir saman ofan í fjöruna. Ok þegar þeir vilja féit upp reka, sá þeir, at Þormóðr er þar fyrir, glímufélagi hans, ok bandar í móti fénu, svá at þat hleypr aftr í fang þeim. Þá mælti Óláfr: „Hvárt viltu heldr, Brandr, reka féit, eða ráðast í móti Þormóði“? Brandr svarar: „Þat mun ek kjósa, hit auðveldara, at reka féit“. Óláfr gengr at

þar er Þormóðr stóð gegnt á uppi; þar var laginn snjór mikill framan á bakkann. Óláfr rann þegar upp á bakkann at Þormóði, enn hann gefr honum rúm. Ok er Óláfr kemr á upp, rennr Þormóðr þegar undir hendr honum. Óláfr tekr ok við eftir megni. Gangast þeir at lengi. Þykir Óláfi hann eigi raknat hafa eftir hnyskingina. Þar kemr at þeir falla báðir senn fram á bakkann, ok er svá er komit, veltir hvárr öðrum þar til er þeir tumba báðir ofan fyrir fönnina; eru þá ýmsir undir, þar til er þeir koma í fjöruna, þá bar svá til, at Þormóðr varð neðri; neytir Óláfr þá þess, ok braut í sundr hrygginn í honum; bjó þá um sem honum líkaði, ok lagðist út á sjóinn með hann langt frá landi, ok sökti niðr í djúp. Þykir þar jafnan óhreint síðan, ef menn sigla í nándir. Óláfr lagðist til lands. Hafði Brandr þá upp komit fénu öllu, ok fagnaði vel Óláfi; gengu þeir þá heim báðir. Ok er Brandr kom heim, var mikit af nátt. Þorbjörn spurði, hvat hann hefði dvalit. Brandr segir svá sem farit hafði, ok svá hversu Óláfr hafði honum til staðit. Þá mælti Vakr: „Hræddr hefir þú orðit, er þú lofar glóp þenna; mun þat hans fremd mest, at fást við aftrgöngumenn“. Brandr svarar: „Hræddari mundir þú hafa verit, því at þú ert mestr í málinu, sem refarnir í hölunum; muntu í engum hlut mega jafnast við hann“. Töluðu

þeir þar til er hvárumtveggju mislíkaði. Þorbjörn bað Brand eigi kapp á leggja með Óláfi: „Skal þér eigi duga, ok engum öðrum, at láta Óláf framar enn mik eða frændr mína“. Líðr nú af vetrinn. Ok er várar, talast þeir við feðgar, Óláfr ok Hávarðr. Hávarðr mælti: „Svá er komit, frændi, at ek hefi eigi skaplyndi til lengr at búa svá nærri Þorbirni, með því vit höfum engan afla at halda okkr til jafns við hann“. Óláfr svarar: „Lítit er mér um at hafa þat í yfirbætr at flýja fyrir Þorbirni, enn þó vil ek at þú ráðir; eða hvert viltu þá leita“? Hávarðr svarar: „Út með firðinum hinum megin eru víða tóftir ok vítt land, þat er engi maðr á; þar vil ek, at vit reisum okkr bústað, ok erum vit þá nær frændum okkrum ok vinum“. Þetta taka þeir til ráðs, flytja þangat fé sitt alt ok þat góðs er þeir eiga ok gera þar hinn bezta bústað; heitir þar síðan á Hávarðsstöðum. Váru þeir einir bændr í þenna tíma í Ísafirði, er landnámamenn váru.

4. Þorbjörn Þjóðreksson reið hvert sumar til þings með menn sína; var hann höfðingi mikill, ættstórr ok frændmargr. Í þann tíma bjó Gestr Oddleifsson í Haga á Barðaströnd; var hann spekingr mikill, vitr ok vinsæll ok manna framsýnastr, ok hafði margt mannaforráð. Þetta hit sama sumar, er þeir feðgar færðu bústað sinn, reið Þorbjörn til þings, ok hóf bón-

orð sitt ok bað systur Gests Oddleifssonar. Gestr tók þessu máli seinlega, ok sagði sér lítit um Þorbjörn fyrir ójöfnuð hans ok ofbeldi; enn með því at margir váru veitendr at málinu með Þorbirni, þá gerði Gestr kost á, at þessi ráð skyldu takast, ef Þorbjörn héti því með handtaki at láta af ójöfnuði ok rangindum, bjóða hverjum manni þat er á ok halda lög ok rétt; enn ef hann vildi eigi ganga at þessu, þá skyldi Gestr brigða bónorðit ok gera skilnað. Þessu játar Þorbjörn, ok kaupa at svá mæltu. Þá reið Þorbjörn með Gesti heim af þinginu á Barðaströnd, ok tókust þar þessi ráð um sumarit; var þar hin bezta veizla. Ok er þessi tíðendi spurðust til Ísafjarðar, þá tekr Sigríðr ok Þórálfr frændi hennar þat ráð, at kveðja til bændr ok láta virða Sigríði alt sitt fé af Laugabóli, ok fór hon til Þórálfs á Lónseyri. Ok er Þorbjörn kom heim á Laugaból, varð hann stórlega reiðr, at Sigríðr var í brott, hét þeim afarkostum ok reiði bændunum, er þeir höfðu virt féit, gerðist þá þegar hinn harðasti, ok þykist nú enn vaxit hafa af þessum mægðum. Kvikfé Hávarðs bónda var mjök óspakt um sumarit, ok einn morgun snemma kom smalamaðr heim, ok spurði Óláfr, hversu at færi. „Svá ferr at“, segir hann, „at vantar fjölda fjár; get ek eigi hvárttveggja gert, at leita þess er vantar, enda gæta hins er fundið er“.

Óláfr svarar: „Vertu kátr, félagi, geym þess er fundit er, enn ek skal leita þess er vantar". Hann gerist þá hinn efnilegasti maðr ok hinn fríðasti sýnum, mikill ok sterkr; hann var þá átján vetra gamall. Hann tekr nú öxi í hönd sér, gengr síðan út með firðinum alt þar til er hann kemr á Lónseyri. Hann sér hvar féit er alt komit, þar sem þat var á land flutt. Óláfr snýr þá til bæjarins; var þat snemma morguns; hann barði á dyrrnar. Þá gekk Sigríðr til duranna ok fagnaði vel Óláfi. Hann tók vel kveðju hennar. Ok sem þau höfðu stund skrafat, þá mælti Sigríðr: „Skip ferr þar handan yfir fjörðinn, ok sé ek gerla, at þar er Þorbjörn Þjóðreksson ok Vakr frændi hans; ek sé at vápn þeira liggja í stafni fram; þar er ok Gunnlogi, sverð Þorbjarnar, ok er annat hvárt, at hann hefir ilt gert eða ætlar hann, ok vil ek, Óláfr, at þú finnir eigi Þorbjörn; hefir lengi fátt verit með ykkr, enn þó ætla ek nú eigi hafa um batnat, er þér virðut mér féit á Laugabóli". Óláfr mælti: „Eigi óttumst ek Þorbjörn á meðan ek hefi ekki gert til saka við hann; mun ek ok skamt renna fyrir honum einum". Hon svarar: „Þetta er hraustlega mælt, at þú átján vetra mundir eigi undan leita þeim manni, er jafnvígr er hverjum manni; hann hefir ok þat sverð, er hvergi nemr í höggi stað; ætla ek ok þat, ef þeir vilja þik finna, sem mér segir

hugr um at sé, at Vakr, illmennit, mun eigi sitja hjá, ef þit berist“. Óláfr svarar: „Ek á ekki erendi við Þorbjörn; mun ek eigi finna þá, enn ef vér finnumst, skaltu nökkut hraustlegt til eiga at spyrja, ef þess þarf“. Sigríðr svarar, ok kvaðst eigi mundu at spyrja. Óláfr spratt upp skjótt, ok bað hana vel lifa, enn hon bað hann vel fara. Hann gekk þá ofan á eyrina, því at þar lá féit. Þeir Þorbjörn váru þá at landi komnir þar gegnt. Gekk hann þá ofan at skipinu ok tók í móti ok kipti upp undir þeim á eyrina. Þorbjörn fagnaði þá vel Óláfi. Tók Óláfr kveðju hans ok spurði, hvert hann ætlaði. Hann kvaðst ætla at finna systur sína, Þórdísi; ok munum vér fara allir saman. Óláfr svarar: „Eigi er þat samfært, af því at ek verð at reka heim fé mitt; væri þat sanntalat, at þá stækkist sauðrekarnir um Ísafjörð, ef þú lægðir þik svá“. „Eigi ferr ek at því“, segir Þorbjörn. Var viðarbulungr mikill á eyrinni, ok þar á ofan lá forkr einn mikill, ok var brotit af endanum. Óláfr tók upp forkinn ok hafði í hendi sér, stökkr nú fénu fyrir sér; gengu nú allir saman. Talar Þorbjörn við Óláf, ok var hinn kátasti. Hann fann, at þeir vildu jafnan ganga síðar, enn hann sá við því, ok fóru jafnan fram allir, ok alt fram fyrir hólinn; skildust þar vegirnir. Þorbjörn snerist þá við ok mælti: „Vakr frændi, eigi þarf at

seinka því er ætlat er". Óláfr sér þá hvat þeir ætla; snýr hann þá upp í brekkuna; enn þeir sækja at neðan. Óláfr verst með forkinum, enn Þorbjörn höggr hart ok tíðum með sverðinu Gunnloga, ok skífði svá forkinn sem hvannir; fengu þeir þó stór högg af forkinum meðan til vanst. Ok er hann var sundr sniðinn, tók Óláfr öxi sína, ok varðist þá svá vel, at þeim þótti ósýnt, hversu fara mundi með þeim; urðu þeir ok allir sárir. Þórdís systir Þorbjarnar gekk út þenna morgin, er þeir börðust, ok heyrði til, enn mátti eigi sjá. Hon sendi skósvein sinn at forvitnast til. Hann gerði svá, ok sagði Þórdísi, at þeir berðist Þorbjörn bróðir hennar, Vakr sonr hennar ok Óláfr Hávarðsson. Hon snýr þá inn ok fann Skarf son sinn, ok sagði honum þessi tíðendi, ok bað hann til fara ok veita frændum sínum. Hann mælti: „Ek er ráðinn at berjast með Óláfi, ok í mót þeim; þykir mér ok skömm, at þrír ganga at einum manni, með því at þeira er eigi óvænna, enn fjogurra annarra; mun ek hvergi fara". Þórdís svarar: „Þat ætlaða ek, at ek munda eiga tvá sonu vel hugaða; er þat satt, at mælt er, at ‚margt leynist lengi'; nú veit ek, at þú ert dóttir heldr enn sonr, er þú þorir eigi at verja frændr þína; skal nú ok raun til gera, at ek em vaskari dóttir, enn þú sonr". Hon gekk þá brott, enn hann reiddist ákaflega ok spratt

upp ok þreif öxi sína. Hann hljóp út ok ofan fyrir brekkuna ok þar til, er þeir börðust. Þorbjörn sá hann, ok sótti í ákafa, enn Óláfr sá hann eigi. Ok þegar er Skarfr kemr í höggfæri við Óláf, þá hjó hann tveim höndum milli herða honum, svá at þegar stóð á kafi. Óláfr hafði ætlat at höggva til Þorbjarnar. Ok er Óláfr fekk höggit, snarast hann við; Skarfi varð laus öxin, enn Óláfr hafði reidda öxina, ok hjó hann í höfuð Skarfi, svá at þegar stóð í heilanum, ok í því var Þorbjörn upp kominn hjá honum, ok hjó í fang Óláfi; var þat ok nóg banasár, ok falla þeir báðir. Þorbjörn gekk þá at Óláfi, ok höggr um þvert andlitit, svá at ór stukku tennrnar ok jaxlarnir. Vakr spurði: „Hví gerir þú þetta við dauðan mann“? Hann kvað enn þat mundu koma til nökkurs. Þorbjörn tók þá skauta einn ok knýtti þar í tennrnar ok varðveitti. Eftir þat gengu þeir upp til bæjarins ok sögðu Þórdísi tíðendin. Váru þeir báðir stórmjök sárir. Hon varð nú stórlega hrygg við þessa sögu ok harmaði, er hon hafði eggjat son sinn svá mjök. Veitti þeim nú þó beina ok hjúkrun. Spyrjast nú þessi tíðendi um allan Ísafjörð, ok þótti öllum hinn mesti skaði at Óláfi, með þeiri vörn, er menn heyrðu hann haft hafa; fór Þorbirni ok vel, at hann sagði jafnt frá ok farið hafði, ok bar vel Óláfi söguna. Þeir fóru heim þegar er þeir þóttust

mega, ok mæði rann af þeim. Þorbjörn kom á Lónseyri ok spurði at Sigríði. Honum var sagt, at hon hefði eigi fundizt síðan hon gekk brott með Óláfi um morguninn hinn; var hennar þar víða leitat, ok er svá sagt, at aldri fanst hon síðan. Fór Þorbjörn þá heim ok settist um kyrt í búi sínu.

5. Þar er nú til máls at taka, at þau Hávarðr ok Bjargey spyrja þessi tíðendi, fall Óláfs sonar síns. Hávarðr karl blés við mjök ok gekk til sængr sinnar; var ok svá sagt, at alla þá tólf mánaði næstu lá hann í rekkju ok reis aldri ór, enn Bjargey tók þat ráð, at hon reri á sjó hvern dag með Þórhalli, enn hon vann um nætr þat er hon þurfti; fór nú svá fram þau misseri, ok er kyrt alt. Verðr eigi eftirmál um Óláf; þótti mönnum ok eigi líklegt, at nökkur rétting mundi frændum hans koma, því at Hávarðr þótti þá til einskis færr, enn við slíka stóreflismenn sem eiga er, ok eigi mjök væna til jafnaðar, ok liðu þau misseri. Var þat einn morgun, at Bjargey gekk til fundar við Hávarð karl ok spurði hann, hvárt hann vekti, enn hann kvaðst vaka ok spurði, hvat hon vildi. „Þat vil ek“, segir hon, „at þú standir upp ok farir á Laugaból ok finnir Þorbjörn ok beiðir hann bóta eftir Óláf son þinn; þat er karlmannlegt mál, at sá er til engra harðræðanna er færr, at spara þá eigi tunguna

at tala þat er honum mætti gagn at verða; muntu vera at eigi mikilþægr, ef honum ferr vel“. Hann svaraði: „Eigi hygg ek gott til þess, enn þó skaltu ráða“. Eftir þat býst Hávarðr karl ok ferr þar til er hann kemr á Laugaból. Þorbjörn fagnaði honum vel. Hávarðr tók kveðju hans. Síðan mælti Hávarðr karl: „Svá er mál með vexti, Þorbjörn, at ek em kominn at heimta bætr fyrir Óláf son minn, er þú drapt saklausan“. Þorbjörn svaraði: „Kunnigt er þat, Hávarðr, at ek hefi margan mann drepit; þótt menn hafi saklausa kallat, þá hefi ek engan fé bættan, enn með því at þú áttir vaskan son, ok þér fellr svá nær, þá ætla ek betr gert at minnast þín í nökkuru, þó at lítit sé; er hér hestr fyrir ofan garð, er þeir sveinarnir kalla Dott; hann er grár at lit, afgamall ok baksárr, ok hefir jafnan legit afvelta hingat til, enn nú hefir hann verit á moðum nökkura daga, ok ætla ek hann batnat hafa; far þú heim með hestinn ef þú vilt ok eig“. Hávarðr roðnaði ok mátti engu svara; fór hann þegar í brott ok var stórlega reiðr, enn Vakr æpti at honum er hann gekk ofan til báts síns, ok fór allbjúgr, enn Þórhallr hafði þar beðit á meðan. Síðan reru þeir heim. Gekk Hávarðr þegar til hvílu sinnar ok lagðist niðr ok stóð aldri upp á hinum næstum tólf mánuðum. Spurðist þetta nú, ok þótti Þorbjörn enn sýnt hafa

ójöfnuð ok ilsku í þessum svörum. Líða nú þau misseri.

6. Enn um sumarit ríðr Þorbjörn til þings með menn sína ór Ísafirði. Þat er þá enn einn dag, at Bjargey gengr til máls við Hávarð. Hann spurði þá, hvat hon vildi. Hon svaraði: „Nú ætla ek at þú skulir ríða til þings ok vita. ef nökkut skipast um mál þitt“. Hann svaraði: „Þetta er mér mjök í móti skapi; eða þykkir þér ek helzti lítt hraktr af Þorbirni sonarbana mínum, þó at eigi hrekti hann mik meir þar sem allir höfðingjar koma saman“. „Eigi man svá fara“, sagði hon; „þess get ek, at nú verði nökkur veitandi at þínu máli, ok mun þat gera Gestr Oddleifsson, ok ef svá ferr, sem ek get, at hann komi sættum á með ykkr Þorbirni, ok hljóti hann at gjalda þér fé mikit, þá get ek, at hann láti margt manna hjá vera, ok mun hringr sleginn um yðr ok munu þér þá vera innan í hringnum, þá er Þorbjörn greiðir féit. Ok ef svá berr til, áðr greitt er féit, at Þorbjörn gerir þat nökkut er þér er móti skapi eða raun at, þá skaltu skynda í brott sem mest máttu, ok ef þér verðr þá léttara, enn þér þætti ván, þá skaltu eigi sættast á þetta mál, því at þá er ván, þó at ólíklegt se, at hefnt verði Ólafs sonar okkar; enn ef þér léttist þá eigi, þá skaltu eigi ósáttr fara af þinginu, því at þá mun eigi hefndin verða“. Hann kvaðst eigi vita til

hvers þetta kæmi, — „enn ef ek vissa, at hefndin mætti verða eftir Óláf son minn, þá hirta ek aldri hvat ek ynna þar til“.

7. Eftir þat býr hon ferð hans, ok ríðr hann leið sína; var karl heldr bjúgr, ok kemr hann á þing. Váru þá tjaldaðar búðir ok menn allir komnir. Hann reið at einni mikilli búð, enn þá búð átti Steinþórr af Eyri, ríkr maðr ok höfðingi mikill ok hinn mesti garpr ok fullhugi. Hann stígr af baki ok gengr inn í búðina. Sat Steinþórr ok menn hans hjá honum þar. Hávarðr gekk fyrir hann ok kvaddi hann vel. Hann tók vel kveðju hans ok spurði, hverr hann væri. Hávarðr sagði til sín. Steinþórr mælti: „Ertu sá, sem frægstan áttir son, þann er Þorbjörn drap, ok menn ágættu mest vörn hans“? Hann segir, at sá er hinn sami, — „ok vilda ek, bóndi, at þú leyfðir mér at vera í búð þinni um þingit“. Hann svaraði: „Þat lofa ek víst; ok ver hljóðr ok fáskiftinn; eru þeir sveinarnir jafnan glensmiklir, ok þér harmr mjök í hug; ertu lítt við kominn, gamall ok til einskis færr“. Þat er sagt, at Hávarðr karl tekr sér rúm einhverstaðar í búðinni, legst þar niðr ok gengr aldri ór rúmi sínu; aldri kemr hann á mál sitt við nökkurn mann, ok líðr mjök á þingit. Þat var einhvern morgun, at Steinþórr gekk at Hávarði ok mælti: „Hví fórtu hingat, þar sem þú liggr hér sem arftökukarl, ófærr maðr“. Hávarðr

svaraði: „Hitt hafða ek ætlat, at leita bóta eftir Óláf son minn, enn ek em ófúss til mjök; er Þorbjörn ósparr til illyrða ok ódrengskapar". Steinþórr mælti: „Haf ráð mitt; gakk til fundar við Þorbjörn ok kær mál þitt; vænti ek, ef Gestr ferr með þér, at þú fáir rétt af Þorbirni". Hávarðr stóð þá upp ok gekk út mjök bjúgr; fór hann til búðar þeira Gests ok Þorbjarnar ok inn í búðina. Var Þorbjörn þar, enn eigi Gestr. Þorbjörn heilsaði Hávarði ok spurði, hví hann væri þar kominn. Hann svaraði: „Svá verðr mér minnisamt dráp Óláfs sonar míns, at mér þykkir sem nýtt sé, ok er þat erendi mitt at beiða þik bóta fyrir vígit". Þorbjörn svaraði: „Hér kann ek gott ráð til; kom til mín heim í heraði, mun ek þá hugga þik at nökkuru, enn ek á nú margt at annast, ok vil ek, at þú klymtir nú eigi á móti mér". Hann svaraði: „Ef þú gerir nú engan veg á, þá hefi ek reynt, at eigi gerir þú heldr heima í heraði; hafða ek ætlat, at nökkurr mundi styrkja mál mitt". Þorbjörn mælti: „Heyrit fádæmi", segir hann, „hann ætlar at koma mönnum á hendr mér. Ver á brott, ok kom eigi á þetta mál við mik síðan, ef þú vilt ómeiddr vera". Hávarðr reiddist þá mjök, ok sneri út ór búðinni ok mælti: „Urðum til gamlir, ok verit hefði þeir mínir dagar, at mér hefði ólíklegt þótt, at ek munda þola slíkan ójafnað". Ok er hann

gengr brott, þá gengu menn í móti honum; var þar Gestr Oddleifsson ok fylgdarmenn hans. Hávarðr var svá reiðr, at hann hugði varla at hvar hann fór; hann vildi ok eigi finna mennina. Gekk hann heim til búðar. Gestr leit til mannsins, er gekk hjá honum. Hávarðr gekk til rúms síns ok lagðist niðr ok blés við, enn Steinþórr spurði, hversu farit hefði. Hann segir sem fór. Steinþórr svaraði: „Slíkt er óheyrilegr ójafnaðr ok vænn til mikillar sneipu nær sem fram kemr“. Enn er Gestr kom inn í búðina, fagnaði Þorbjörn honum vel. Þá mælti Gestr: „Hverr gekk maðr ór búðinni fyrir litlu“? Þorbjörn svaraði: „Hví spyrr þú svá undarlega, vitr maðr; ganga hér miklu fleiri út ok inn, enn vér megim greina“. Gestr svaraði: „Þessi maðr var ólíkr öðrum mönnum; hann var mikill vexti ok nökkut við aldr, ok skauzt á fótum, ok þó hinn karlmannlegsti, ok svá leizt mér sem fullr væri upp harms ok óyndis ok skaprauna, ok svá var hann reiðr, at hann gáði eigi, hvar hann fór; mér leizt ok maðrinn giftusamlegr ok eigi allra færi við at eiga“. Þorbjörn svaraði: „Þar mun verit hafa Hávarðr karl, þingmaðr minn“. Gestr spurði: „Var sá eigi hans son, er þú drapt saklausan“? „Þat ætla ek víst“, sagði hann. Gestr mælti: „Hversu þykkist þú hafa efnt þat er þú lofaðir mér, þá er ek gifta þér systur mína“ Þorgils hét maðr,

ok var kendr við móður sína ok kallaðr Höllu-son; hann var hinn mesti ágætismaðr ok full-hugi; var hann þá með Gesti frænda sínum ok þá sem mestr uppgangr hans; Gestr bað Þor-gils ganga eftir Hávarði ok biðja hann þangat koma. Þorgils gekk til búðar Hávarðs ok sagði honum, at Gestr vill finna hann. Hávarðr svaraði: „Ófúss er ek at fara ok verða at þola Þorbirni ójafnað ok skemmileg orð“. Þorgils bað hann fara. „Mun Gestr styðja þitt mál“. Hann fór ok er þó tregr til. Koma þeir til Gests. Hann stendr upp í móti honum, ok fagnaði honum; setr hann niðr hjá sér. Þá mælti Gestr: „Nú skaltu, Hávarðr, taka til at upphafi ok segja frá skiftum yðrum Þorbjarn-ar“. Hann gerði nú svá. Ok er hann hafði sagt, spurði Gestr Þorbjörn, hvárt nökkut væri svá. Þorbjörn kvað eigi hégómat frá. Gestr mælti: „Hefir nökkurr heyrt slíkan ójafnað. Eru hér tveir kostir til: sá annarr, at ek rýf öll kaup okkar, ella lát mik einn skera ok skifta um ykkar mál“. Þorbjörn játar því. Þeir gengu þá út ór búðinni. Kallaði Gestr til sín fjölda manna, ok stóðu menn í hring, enn þar stóðu í hringnum nökkurir menn saman komn-ir ok töluðu málit. Þá mælti Gestr: „Eigi kann ek, Þorbjörn, at gera svá mikit fé sem vert væri, fyrir því at þú hefir eigi til; vil ek gera fyrir víg Óláfs þrenn manngjöld, enn fyrir

annan ójafnað þann sem þú hefir gert Hávarði, þá vil ek gera þér, Þorbjörn, haust ok vár, at þú komir til mín ok skal ek sæma þik gjöfum ok því heita þér, at gera aldri forverkum við þik meðan vit lifum báðir". Þá mælti Þorbjörn: „Þessu vil ek játa ok gjalda hæglega heima í heraði". Gestr svaraði: „Nú skal gjalda alt féit hér á þinginu, ok gjalda vel ok skörulega; mun ek svá leggja til ein manngjöld". Lét hann ok þegar þat fram alt vel goldit. Settist Hávarðr þá niðr ok helti í kápuskaut sitt. Þorbjörn gekk þá at ok galt smám ok smám, ok gat goldit ein manngjöld, ok kvað þá lokit því er hann hefði til. Gestr bað hann þá eigi undan draga. Þorbjörn tekr þá einn knýtiskauta ok leysir til ok mælti: „Þat mun víst, at þá mun honum eigi vangoldit þykkja, ef þetta fær til". Slær síðan á nasir Hávarði, svá at þegar fell blóð um hann. „Eru þar nú tennr ok jaxlar", segir Þorbjörn, „ór Óláfi syni þínum". Hávarðr sér nú, at þat hrynr ofan á kápuskautit; sprettr hann upp ákafareiðr, svá at sinn veg hrýtr hverr penningrinn; hann hafði staf í hendi ok hleypr at mannhringnum, ok setr stafinn fyrir brjóst einum manni svá at þegar fellr hann á bak aftr svá at hann lá lengi í óviti. Hávarðr stökk út yfir mannhringinn ok kom hvergi við ok kom hvar fjarri niðr, ok svá heim til búðar, sem ungr maðr. Ok er hann

kom heim í búðina, mátti hann við engan mann mæla, ok kastaði sér niðr ok lá sem sjúkr væri. Eftir þetta mælti Gestr við Þorbjörn: „Engum manni ertu líkr at illmensku ok ójafnaði; kann ek ok eigi at sjá á manni, ef eigi iðrast þú þessa nökkurt sinn, eða þínir frændr“. Gestr var þá svá reiðr ok óðr, at þegar ríðr hann af þinginu til Ísafjarðar ok gerir skilnað þeira Þorbjarnar ok Þorgerðar. Þykkir Þorbirni nú hin mesta smán, ok öllum frændum hans, enn geta þó ekki at gert. Sagði Gestr, at svá muni hann annarra skamma verri bíða ok sér maklegri. Ríðr Gestr á Barðaströnd með frændkonu sína ok of fjár. Svá er sagt, at eftir þingit býst Hávarðr karl heim; var hann þá allstirðr. Þá mælti Steinþórr: „Ef þú þarft, Hávarðr, lítillar liðveizlu við, þá kom til mín“. Hann þakkaði honum. Reið síðan heim, ok lagðist niðr í sæng sína ok lá þar hina þriðju tólf mánaði. Var hann þá miklu stirðastr. Bjargey helt hinu sama fram um athöfn sína, at hon reri á sjó hvern dag með Þórhalli.

8. Þat var einn dag um sumarit, er þau reru á sjó, at þau sá skip fara inn eftir firðinum; kendu þau ok, at þar var Þorbjörn ok heimamenn hans. Þá mælti Bjargey: „Nú skulu vit hafa uppi færi okkur ok róa í móti Þorbirni; vil ek finna hann. Skaltu róa framan at borði skútunnar, enn ek skal tala við Þorbjörn nökk-

ut, enn þú skalt róa í hring um skútuna á meðan“. Þau gera nú svá, róa at skútunni. Bjargey kastar nú orðum á Þorbjörn, heilsar hon honum ok spyrr, hvert hann ætli at fara. Hann kvaðst skyldu fara vestr í Vaðil, — „er þar kominn út Sturla bróðir minn ok Þjóðrekr son hans; skal ek flytja þá hingat til mín“. Hon spurði: „Hversu lengi muntu vera á brott, bóndi“, segir hon? „Nær viku“, segir hann. Þórhallr hafði þá róit umhverfis skútuna. Ok er hon hefir at gert slíkt er hon vildi, þá fleyta þau í árum ok róa í brott slíkt er þau mega. Þá mælti Þorbjörn: „Kvenna örmust farandi. Ok skulum vit þegar róa eftir þeim ok drepa hann, enn meiða hana“. Þá mælti Brandr: „Nú sannar þú enn, þat er mælt er til þín, at þú munir eigi spara flest ilt at gera, enda skal ek veita þeim er ek má; skaltu þá at keyptu komast“. Enn við umtölur Brands, ok þat er þau váru langt undan komin, þá lét Þorbjörn vera kyrt, ok fór leið sína. Þá mælti Bjargey: „Eigi er þat líklegt, enn er þat þó ætlan mín, at hefnt muni verða Óláfs sonar míns; skulu vit eigi heim“. „Hvert viltu þá“? segir Þórhallr. „Nú skal fara“, segir hon, „ok finna Valbrand bróður minn. Hann bjó á Valbrandsstöðum; var hann gamall maðr mjök, enn hafði verit hinn ágætasti maðr. Hann átti tvá sonu, hina vænlegstu menn; hét annarr Torfi, enn ann-

arr Eyjólfr; váru þeir þá á ungum aldri. Þau létta eigi fyrr enn þau koma þangat. Valbrandr var úti á töðuvelli ok margt manna með honum. Hann gekk þá í móti systur sinni ok fagnaði henni vel ok bauð henni þar at vera; enn hon kvað sér þat eigi gegna, — „verð ek heim í kveld“. Hann spurði: „Hvat viltu þá systir“? „Ek vilda, at þú léðir mér nætr þínar“. Hann svaraði: „Hér eru þrjár nætr, ok er ein forn mjök ok nú eigi trúleg, enn hefir verit örugg; enn tvær eru nýjar ok óreyndar. Haf þú hvárt er þú vilt tvær eða þrjár“. Hon svaraði: „Þær vil ek hafa hinar nýju, enn ek vil eigi hætta til at hafa hina fornu, enn lát þú búnar þessar, nær ek læt eftir koma“. Hann kvað svá vera skyldu. Eftir þat fóru þau á brott. Þá mælti Þórhallr: „Hvert skulum vér nú fara“? Hon svarar: „Nú skal fara ok finna Þorbrand bróður minn“. Hann bjó á Þorbrandsstöðum; hann var þá gamall mjök. Hann átti tvá sonu unga; hét annarr Oddr, enn annarr Þórir; váru þeir vænlegir menn. Ok er þau kómu þar, fagnaði Þorbrandr þeim vel ok bauð þeim þar at vera. Hon kvaðst þat eigi mega. „Hvat viltu þá, systir“? segir hann. „Ek vilda“, segir hon, „at þú léðir mér net þín“. Hann svaraði: „Ek hefi þrjú til, ok er eitt fornt mjök, enn tvau eru ný ok hafa eigi höfð verit; haf hvárt er þú vilt tvau eða þrjú“. Hon kvaðst

þau nýju hafa vilja; ok skildu at því. Síðan fara þau í brott. Þórhallr spurði: „Hvert skulum vit nú fara“? „Nú skal“, segir hon, „finna Ásbrand karl, bróður minn“. Hann bjó á Ásbrandsstöðum; hann var þeira bræðra elztr; hann átti systur Hávarðs karls. Hann átti son, er Hallgrímr hét; hann var ungr at aldri, enn bæði mikill ok sterkr, ófríðr sýnum, enn þó karlmannlegr. Ok er Bjargey kemr þar, fagnar Ásbrandr henni vel ok bað hana þar vera. Hon kvaðst skyldu heim um kveldit. Hann spurði: „Hvat viltu þá? ok kemr þú þó sjaldan at finna frændr þína“. „Lítit er erendit“, segir hon, „vér erum svá óbirg um torffæri, ok vilda ek gjarna, at þú léðir mér torföxi þína“? Hann svarar brosandi: „Hér eru tvær til, ok önnur ryðfrakka mikil, forn ok skörðótt, ok þykkir nú til einkis fær; önnur er ný ok mikil, ok hefir til einkis höfð verit“. Enn hon kvaðst hafa vilja þá hinu nýju, — „þá er ek læt vitja“. Hann svaraði, at hon skal ráða. Síðan fara þau heim á Hávarðsstaði um kveldit.

9. Líða nökkurir dagar þar til er henni þótti ván sem Þorbjörn mundi vestan koma. Ok einn dag gekk hon at sæng Hávarðs ok spurði, hvárt hann svæfi. Hann settist upp við, ok kvað vísu:

(2) Eigi hefir á augu
unnskíðs komit síðan·
byggvi svá öfund eggjar
oddstefnu mér svefna,
síz hræstorðar harðan
hjörs gerðu styr Börvar,
ótt þeirs Óláf létu
allsaklausan falla.

„Þat er víst“, segir hon, „at þetta er allmikil lygi, at þú hafir aldri sofit á þrim árum, enn þó er nú upp at standa ok gera sik sem vaskastan, ef þú vilt hefna Óláfs sonar þíns, því at eigi verðr hans hefnt um aldr þinn, ef eigi verðr á þessarri nátt“. Enn er hann heyrði ummæli hennar, spratt hann upp ór sænginni ok fram á gólfit, ok kvað þá vísu:

(3) Ákat ek hógt, af hœgu
hljóð veiti mér sveitir
enn í elli minni,
í-vegstafi segja,
síz vel hressan vissak
vápna Njörð at jörðu,
minn var sonr at sönnu
snjallr aflstuðill, fallinn.

Hávarðr var þá hinn sprækasti ok skorti eigi göngu. Hann gekk til kistu einnar, mikillar, hon var full af vápnum, ok lauk henni upp, tók hjálm á höfuð sér ok fór í sterka brynju. Hann leit þá upp ok sá, at már einn fló yfir glugginn. Hann kvað vísu:

**(3) Hlakkar hagli stokkinn**
**hræs es kemr at sævi**
**— móðr krefr morginbráðar —**
**már valkastar báru.**
**Svá gól fyrr þás feigir**
**folknárungar váru**
**gunnar haukr, es gaukar**
**Gauts bragða spá sagðu.**

Hann vápnaðist skjótt ok fimlega; hann bjó ok Þórhall með góðum vápnum. Ok er þeir váru búnir, sneri hann at Bjargeyju ok mintist við hana; kvað þá eigi sýnt vera, nær þau fyndist. Hon bað hann vel fara. „Þarf ek eigi at hafa eggjunarorð við þik um hefnd eftir Óláf son okkarn, með því at ek veit, at þar fylgir kapp hreysti er þú ert“. Eftir þat skildu þau. Gengu þeir ofan til sjávar, hrundu fram sexærum bát ok tóku til ára; léttu eigi fyrr enn þeir kómu fyrir bæ Valbrands. Þar var eyrartangi langr, er gekk út í sjóinn; lögðu þeir þar at bátinn. Bað Hávarðr Þórhall at gæta bátsins, enn hann gekk upp til bæjarins; hann hafði spjót í hendi; var þat ágætt vápn. Ok er hann kom upp á völlinn, váru þeir þar feðgar. Þeir bræðr váru af klæðunum, ok rökuðu upp töðuna; þeir höfðu tekit af sér skóna ok sett á völlinn hjá sér; váru þat upphávir skór. Valbrandr gekk í móti Hávarði ok fagnaði honum vel, ok bauð honum þar at vera. Hann kvaðst eigi þar vera mega, — „em ek kominn at

vitja nóta þinna, er þú léðir systur þinni“. Hann gekk at sonum sínum ok mælti: „Hér er kominn Hávarðr mágr ykkarr, ok er þann veg búinn sem þá er hann mundi ætla til stórræða nökkurra“. Ok er þeir heyra þetta, kasta þeir hrífunum ok hlaupa til klæða sinna. Ok er þeir skyldu taka skóna, höfðu þeir skorpnat í skininu. Þeir stigu í ofan sem skjótast, svá at þegar gekk skinnit af hælunum, ok er þeir kómu heim, váru skórnir fullir af blóði. Valbrandr fekk sonum sínum góð vápn, ok mælti: „Veitið Hávarði góða fylgd, hyggið meir á hefnd, enn hvat eftir kemr“. Eftir þat fóru þeir á Þorbrandsstaði; váru þeir ok skjótt búnir Oddr ok Þórir. Fóru nú þar til er þeir kómu á Ásbrandsstaði. Krafði Hávarðr þar torföxarinnar. Bjóst Hallgrímr frændi hans þá til ferðar með honum. Ánn er maðr nefndr; hann var heimamaðr Ásbrands; hafði hann húskarls verk. Hann var fóstri Hallgríms, ok bjóst til ferðar með þeim. Ok er þeir váru búnir, fara þeir þar til er bátrinn var; fagnaði Þórhallr þeim vel. Váru þeir þá átta saman, ok hverr öðrum víglegri. Þá mælti Hallgrímr við Hávarð frænda sinn: „Hví fórtu svá heiman, frændi, at þú hafðir hvárki sverð né öxi“? Hann svaraði: „Verði svá vel, at vér finnum Þorbjörn Þjóðreksson, eftir várn skilnað skaltu annat mæla, því at mér ætla ek sverðit Gunnloga, er bezt vápn er“.

Þeir báðu hann lúka heilum munni sundr. „Væri oss nú mikit undir, at oss tækist karlmannlega til handa“. Þat var mjök at áliðnum degi. Þeir hrinda þá fram bátnum ok stigu þar á ok tóku til ára. Þeir sá, at hrafnaflokkr mikill fló fyrir þeim ok yfir eyrartangann, er fyrir þeim var. Hávarðr kvað þá vísu:

(5) **Efna hygg þat, Yggjar**
**ek hef heitit má beitu**
**— sundlíri flýgr sára**
**svangr fyrir eyrar tanga. —**
**Veitk at vér munum hljóta**
**— vel er fallit þat, — allir,**
**— hljómr er af hildar glaumi —**
**Hallgrímr, farar tíma.**

Þeir fóru yfir sundit, ok var hvast mjök á firðinum ok fengu mjök framanvátt; sóttu þeir drengilega, ok léttu eigi fyrr enn þeir kómu fyrir Laugaból. Var þar gott at at leggja, fyrir því at Þorbjörn hafði látit gera þar höfn góða; hann hafði látit ryðja ok hreinsa alt inn at landi. Var þar atdjúp mikit; mátti þar fljóta skúta eða stærri skip þó at vildi. Þar váru ok grafin niðr rif stór fyrir hlunna ok festir endarnir grjóti; þurfti þar engi maðr vátr at verða, þó at af skipi stigi eða á skip, hvárt er var meira skip eða minna, enn uppi yfir var malarkampr hár; fyrir ofan kampinn stóð hurðanaust mikit, ok var vel um horfit; til annarrar handar var lón mikit fyrir ofan kampinn. Frá naust-

inu sá engi í fjöruna, enn af malarkampinum mátti bæði sjá til naustsins ok í fjöruna. Ok er þeir koma at landi, hlaupa þeir af bátinum. Þá mælti Hávarðr: „Nú skulum vér bera bátinn upp yfir kampinn á lónit; vér skulum ok vera fyrir ofan kampinn, svá at þeir megi eigi þegar sjá oss; verum ok eigi of veiðibráðir; hlaupi engi fyrr upp enn ek segi fyrir“. Var þá mjök dimmat.

10. Þar er nú til máls at taka, at Þorbjörn ok þeir félagar fóru vestan tíu saman á skútunni. Var Sturla þar ok Þjóðrekr son hans, Þorbjörn ok Vakr, Brandr hinn sterki ok tveir húskarlar; höfðu þeir hlaðit mjök skútuna. Enn þetta sama kveld koma þeir við Laugaból fyrir myrkr. Þá mælti Þorbjörn: „Vér skulum fara at engu ótt, ok skulum vér láta fljóta skútuna hér í nátt ok eigi af bera nema vápn vár ok klæði; er nú veðr gott ok þurlegt. Skaltu Vakr bera upp vápn vár“. Hann tók fyrst sverð þeira ok spjót ok bar upp at naustinu. Þá mælti Torfi: „Tökum fyrst sverð þeira ok þann sem fylgir“. „Látum vera enn“, segir Hávarðr. Hann bað Hallgrím fara ok taka sverðit Gunnloga ok færa sér. Ok er Vakr gekk ofan, hljóp Hallgrímr ok tók sverðit ok færði Hávarði. Hann brá á loft við, ok skók meðalkaflann. Vakr gekk upp í annat sinn, ok hafði hlaðit á bak sér skjöldum, enn stálhúfum hafði

hann hlaðit á handlegg sér; hann hafði hjálm á höfði. Ok er hann var kominn upp með lóninu, þá hlupu þeir upp ok ætluðu at taka hann. Ok er hann heyrir harkit til þeira, þóttist hann vita, at ófriðr mundi vera; ætlaði hann at skunda til þeira með vápnin. Ok er hann bregðr við hart, skruppu honum fætrnir við lónit, svá at höfuðit kemr fyrst niðr á honum. Var þar blautt mjök, enn vatnit grunt, enn maðrinn þungr á sér með vápnum öllum; getr hann ok eigi upp staðit, enn engi þeira vildi duga honum, ok lýkr svá æfi Vakrs, at hann deyr þar. Ok er þeir sá þat, hlaupa þeir ofan á malarkampinn. Ok er þetta sér Þorbjörn, kastar hann sér þegar á sund ok legst frá landi. Þetta sér fyrst Hávarðr karl, skundar þegar ok kastar sér á sund eftir Þorbirni. Svá er sagt um Brand hinn sterka, at hann hleypr at ok rífr upp einn hlunn, þat var hvalrif mikit, ok rekr í höfuð fóstra Hallgríms. Hallgrímr var þá ofan kominn af mölinni ok sá, at Ánn fell. Hann hljóp at með reidda öxina ok hjó í höfuð Brandi ok klauf hann í herðar niðr, ok í þessarri svipan hlupu þeir á sund Þorbjörn ok Hávarðr. Ok er hann sér þat, hleypr hann þegar eftir þeim. Torfi Valbrandsson hleypr í móti Sturlu; var hann bæði mikill ok sterkr ok hverjum manni betr vígr; hann var ok með vápnum sínum öllum. Þeir börðust bæði lengi ok drengilega.

11. Nú verðr þar til at taka, er þeir Þorbjörn eru ok Hávarðr; þeir leggja frá landi; var þat langt sund, þar til Þorbjörn kom í eitt sker, er þar liggr frammi fyrir. Ok er hann kemr í skerit, þá kom Hávarðr at framan. Ok er Þorbjörn sér þat, var hann vápnlauss fyrir; þrífr þá upp stein mikinn ok ætlaði at keyra í höfuð honum. Ok er Hávarðr sér þat, kom honum í hug, at hann hafði heyrt sagt utan ór löndum, at þar var annarr siðr boðaðr, enn norðr í lönd, ok með því ef nökkur kynni honum þat at segja, at sú trúa væri betri ok fegri, þá skyldi hann því trúa, ef hann sigraði Þorbjörn. Ok eftir þat lagði hann sem harðast at skerinu. Ok er Þorbjörn ætlaði at kasta steininum, skruppu honum fætrnir ok varð honum hált á grjótinu, svá at hann fell á bak aftr, enn steinninn fellr ofan á bringspalir honum, ok verðr honum ósvipt við; ok í því kom Hávarðr í skerit, ok lagði hann þegar í gegnum með sverðinu Gunnloga. Hallgrímr var þá upp kominn í skerit. Hávarðr hjó þá um þvert andlitit ok klauf tennr ok jaxla, ok þar niðr í gegnum. Hallgrímr spurði, hví hann gerði svá við dauðan mann. Hávarðr svaraði: „Þat var mér þá í hug, er Þorbjörn rak knýtilskautann á nasir mér; hrundu þar ór tenn ok jaxlar, er hann hafði höggvit ór Óláfi syni mínum með enu sama sverði“. Síðan lögðust þeir til lands.

Þótti mönnum síðan, þeim sem um töluðu, Hávarði hraustlega farit hafa, er hann lagðist út á fjörðinn, enn vissi eigi til at skerit væri út undan; var þat þó all-langt sund. Ok er þeir kómu upp at mölinni, hljóp maðr mót þeim með reidda öxi; sá var í blám stakki ok gyrðr í brækr. Þeir snúa í mót honum; ok er þeir fundust, kenna þeir þar Torfa Valbrandsson, ok fögnuðu þeir honum vel. Spurði Torfi, hvárt Þorbjörn væri dauðr. Hávarðr kvað vísu:

(6) Mótreyni klaufk máua
malma brags í jagsla;
segg létk alms í augum
eitrdögg staðar leita;
sákatk hitt at hrykki
hringmerkðr fetilstingi,
þás gunnloga grenni
gallharðan sák falla.

Hávarðr spurði, hvat þeir hefði at gert. Torfi sagði, at Sturla væri fallinn ok húskarlarnir, — „enda er Ánn dauðr“. Hávarðr kvað vísu:

(7) Vér höfum felda fjóra,
feng telk í því drengjum,
brátt, þeims blóðgan létu
Bjargeyjar son deyja;
enn af órum mönnum
einn, hversollins gera
Ánn vas hœfðr með hlunni,
Hallgrímr kveðr nú fallinn.

Þeir gengu þá upp at naustinu; váru þeir þar fyrir félagar, ok fögnuðu þeim vel. Þá spyrr Eyjólfr Valbrandsson, hvárt eigi skyldi drepa

þrælana. Hávarðr kvað eigi at hefndara Ólafs sonar síns, þó at þeir dræpi þrælana, — „veri þeir hér í nátt, ok geymi svá at engir steli af reknunum“. Þá spurði Hallgrímr, hvat þeir skyldi þá at hafast. Hávarðr svaraði: „Vér skulum taka skútuna, ok alt þat oss þykir slægr til, ok halda undir Mánaberg ok finna Ljót kappann; væri heldr hefnd í slíkum manni, sem hann er, ef svá vildi verða. Þeir taka nú skútuna ok marga gripi, þá er þeir frændr höfðu átt, ok róa út eftir firði ok framan at Mánabergi. Þá mælti Hávarðr: „Nú munum vér verða með ráðum at at fara; er Ljótr varr um sik; á hann jafnan sökótt Hann lætr vaka yfir sér hverja nátt; hann liggr í lokrekkju læstri hverja nátt; jarðhús er í hvílugólfinu, ok er annarr jarðhússmunninn á baki húsunum; hefir hann ok mart manna með sér“. Þá mælti Torfi Valbrandsson: „Þat er mitt ráð, at vér berim eld at bænum, ok brennum inni hvert mannsbarn“. Hávarðr sagði, at eigi skyldi svá vera, — „skulu þit Hallgrímr frændi vera uppi á húsunum ok gæta þess jarðhússmunnans, er út má ganga, trúi ek ykkr bezt til; hér eru ok tvennar dyrr framan á bænum; á skálanum eru ok tvennar dyrr; nú skulu vit Eyjólfr ganga inn aðrar, enn þeir bræðr Oddr ok Þórir aðrar ok svá í skálann, enn þú Þórhallr skalt gæta hér skútunnar ok verja með karlmensku, þó at þess þurfi með“. Ok er hann

hefir til skipat, svá sem hann vill, þá ganga þeir heim at bænum. Útibúr mikit stóð í túni, ok maðr einn sat undir veggnum með vápnum. Ok er þeir koma mjök svá at upp, sér hann mennina ok sprettr upp ok hleypr ok ætlar at gera vart við komu þeira. Hallgrímr gekk fyrstr þeira félaga; hann skaut spjóti eftir honum, ok rak í gegnum hann við vegginn. Dó hann þegar þar á spjótinu. Eftir þat gengu þeir þangat sem ætlat var; þeir Torfi ok Hallgrímr þangat sem útganga var á bænum.

12. Svá er sagt, at Hávarðr snarar inn í skálann; brann þar ljós hit efra, enn dimt hit neðra; hann gekk þar at hvílugólfinu. Bar þá svá til, at húsfreyja var eigi í sæng komin; var hon í stofu ok konur hjá henni; var þá eigi læst hvílugólfit. Hávarðr slær flötu sverðinu á hurðina. Ljótr vaknaði við ok spurði, hverr harkaðist. Hávarðr karl segir til sín. Ljótr mælti þá: „Hví ertu hér, Hávarðr karl? Var oss sagt í fyrra dag, at þú værir at dauða kominn“. Hávarðr svaraði: „Annars dauða máttu fyrr spyrja; kann ek at segja þér víg bræðra þinna, Þorbjarnar ok Sturlu“. Ok er hann heyrir þetta, hljóp hann upp í rúminu ok grípr ofan sverð, er hekk yfir honum. Ljótr bað menn upp standa í skálanum ok taka til vápna. Hávarðr hljóp þá upp í hvílugólfit ok hjó til Ljóts á öxlina vinstri; enn Ljótr brást

við hart, ok berr sverðit út af öxlinni ok flusti ofan handlegginn ok af höndina í ölnbogabót. Ljótr hljóp fram ór rúminu með brugðit sverðit, ok ætlaði at höggva til Hávarðs. Þá var Eyjólfr upp kominn, ok hjó á öxlina hægri ok af höndina, ok feldu þeir þar Ljót. Þá var yss mikill í skálanum. Vildu húskarlar Ljóts þá upp standa ok taka til vápna. Váru Þorbrands synir þá inn komnir. Fengu menn þá einstaka slög ok skeinur. Þá mælti Hávarðr, bað menn vera sem kyrrasta, ok sýna ekki ilt af sér, — „ella drepum vér hvert mannsbarn á fætr öðru". Þykkir þeim þá betr at liggja sem kyrrastir. Var Ljótr fám harmdauði, þó at þeir hefði verit með honum. Eftir þat snúa þeir út; vildi Hávarðr þar eigi at gera fleira. Þá kómu þeir á móti þeim Torfi ok Hallgrímr; höfðu þeir þá ætlat til inngöngu, ok spurðu, hvat at hefði gerzt. Hávarðr kvað þá vísu:

(8) *Brátt* gekk sonr, þás sótti
sunnu bekks at runni,
Knöttr sák hvar brá bitrum
blóðísi, Geirdísar;
enn réð Eyjólfr minnask
eggleiks við kyn seggja
geymibaldri at gjalda
gunnbliks fúra kunnum.

Síðan gengu þeir ofan til skútunnar, ok heilsaði Þórhallr þeim vel. Þá spurði Torfi Valbrandsson, hvat nú skyldi at hafast. „Nú skal

leita til traustsnökkurs; þó at eigi verði hefndin jafnmikil sem ek vilda, þá munum vér þó eigi einhlítir til at halda oss eftir þessi verk; eru enn margir frændr Þorbjarnar þeir er mikils eru verðir; þykkir mér líkast at leita til Steinþórs á Eyri; hefir hann helzt haft tilmæli við mik, ef ek þyrfta nökkurs við". Allir þeir báðu hann fyrir sjá, ok sögðust þat vilja gera sem hann vildi, ok eigi fyrr við skiljast, enn hann sæi ráð fyrir. Eftir þat halda þeir út á fjörðinn. Tóku þeir at spenna árarnar, enn Hávarðr settist við stjórn. Þá mælti Hallgrímr, ok bað Hávarð kveða vísu nökkura. Hávarðr kvað þá vísu:

(9) Heldr höfum heiftir goldit,
Hallgrímr, saman allir
— vígs iðrumst þess þeygi —
Þjóðreks sonum stórar.
Urðu œski-Nirðir
oddregns of sök vegnir,
— örþjóða veitk eyða
ímgjarña, — Þorbjarnar.

**13.** Nú er ekki at segja frá þeira ferð fyrr enn þeir koma á Eyri; var þat þann tíma dags, er Steinþórr sat at borðum með menn sína. Þeir ganga í stofuna fjórir saman með vápnum; gekk Hávarðr fyrir Steinþór, ok kvaddi hann. Steinþórr tók kveðju hans ok spurði, hverr hann væri. Hann kvaðst Hávarðr heita. „Vartu í búð várri í fyrra sumar?" Hann kvað

svá verit hafa. Steinþórr mælti: „Hafi þér sét ólíkara mann, piltar, sjálfum sér, er hann er nú, eða þá var hann; sýndist mér sem hann gæti varla gengit staflauss á milli búða, ok oss þótti líklegr til kararmanns, með því at honum skapraunaði mjök; enn nú sýnist mér maðrinn hinn gervilegasti undir vápnum; eða segi þér nökkut tíðenda“? Hávarðr svaraði: „Vér segjum víg Þorbjarnar Þjóðrekssonar ok bræðra hans Ljóts ok Sturlu Þjóðrekssona, Brands hins sterka ok þeira sjau saman“. Steinþórr svaraði: „Þetta eru mikil tíðendi; eða hverir hafa þetta gert, er drepit hafa niðr kappa hina mestu ok stóreflismenn“? Hávarðr mælti ok segir, at þeir frændr hafi þat gert. Steinþórr mælti ok spurði, hvert Hávarðr ætlaði at leita trausts eftir slíkt stórvirki. Hávarðr svaraði: „Þat hefi ek ætlat, sem nú er orðit, at leita til þín; þótti mér þú þat mæla í fyrra sumar á þingi, ef ek þyrfta lítillar liðveizlu, at ek munda eigi síðr koma til þín, enn til annarra höfðingja“. Steinþórr svaraði: „Eigi veit ek nær þú þykkist mikillar þurfa, ef nú þarftu lítillar; enn þat máttu hugsa, at eigi munda ek þá góðr viðtakna, ef nökkurs þyrfti við, er nú læt ek seint við; skal ok eigi svá vera; vil ek bjóða þér, Hávarðr, hér at sitja með félögum þínum þar til er þessi mál koma til vegar; vil ek ok því heita, at rétta yðr mál, því mér lízt svá á

yður, at sá mun betr hafa, er við yðr tekr, ok er eigi víst at jafnröskva menn fái sem þér eruð; hefir þetta meir gengit eftir málefnum, enn líkindum". Hávarðr kvað þá vísu:

(10) Nús jafnöndum efni
angrsólar fram ganga
várar elds þeims vilja
vígstemjendr fremja;
vera kveða högg enn höggvit
hjörs saklausra Börva,
Ísfirðinga orðit
eirlaust, farit trausti.

Þeir þökkuðu Steinþóri mikilmannlegt boð. Hann bað taka við klæðum þeira ok vápnum ok fá þeim þur klæði. Ok er Hávarðr tók af sér hjálminn ok steypir af sér brynjunni, þá kvað hann:

(11) Hlógu hirðidraugar
hvinnis um sök minni
sónar, þás syni mínum
svells, nam *ísarn* bella:
nú tér, síz vegnir váru
viðmiðjungar Þriðja,
börgs í hverju bjargi
blóts annan veg þjóta.

Steinþórr bað Hávarð at ganga til bekkjar ok sitja gegnt sér, ok skipa þar félögum sínum hjá sér. Hávarðr gerði ok svá; skipar Hallgrími frænda sínum innar frá sér, enn innar frá honum sitja þeir Þórir ok Oddr Þorbrandssynir, enn utar frá Hávarði sátu þeir Torfi ok Eyjólfr

Valbrandssynir, þá Þórhallr, þá heimamenn þeir sem áðr sátu. Ok er þeir setjast niðr, kvað Hávarðr vísu:

**(12) Hallgrímr skulum heiman,**
**hlít es vættugi níta,**
**uggi ek ógnir *seggja,***
**oddhríð, ór stað bíða:**
**enn víg þau es vér vágum,**
**vilda ek aldrigi gjalda**
**geira gæti-áru,**
**gjörvall í strá falli.**

Þá mælti Steinþórr: „Auðheyrt er þat nú, Hávarðr, at þér gengr nú flest eftir vilja, enda væri þá svá ok, ef ekki eftirmál mundi verða eftir jafnhrausta menn ok ríka, sem þeir váru allir frændr, ok svá miklir menn, sem enn eru til eftirmálsins“. Hávarðr kveðst aldri hugsa um eftirmál; kvað lokit því heðan af, at hann mundi hafa nökkura sorg eða angr í sínu hjarta, ok þykkja eigi þann veg vel, sem af reiddi hans mál. Var hann ok svá kátr ok glaðr við hvert mannsbarn sem ungr væri. Spyrjast nú þessi tíðendi víða, ok þótti með mestum ólíkendum verða. Sátu þeir nú á Eyri með Steinþóri bónda. Skorti þar eigi fjölmenni mikit ok hinn mesta fagnað; þar var eigi færa enn sex tigir vígra manna. Hverfum nú frá er þeir sitja á Eyri með Steinþóri bónda í góðum fagnaði ok með miklum kostnaði.

14. Ljótr hét maðr; hann bjó á Rauðasandi;

hann var kallaðr hólmgöngu-Ljótr. Var hann bæði mikill ok sterkr ok hinn mesti hólmgöngumaðr. Systur hans hafði átta Þorbjörn Þjóðreksson. Er svá sagt, at Ljótr var hinn mesti ójafnaðarmaðr, ok hafði öxi í höfði hverjum manni, er eigi vildi laust láta fyrir honum þat er hann vildi, ok báru engir menn frjálst höfuð fyrir honum þar um Rauðasand ok víðar annarsstaðar. Þorbjörn hét maðr; hann bjó þar sem heitir á Eyri; hann var auðigr maðr at fé, ok kominn mjök á hinn efra aldr, ok eigi mikilmenni at skapi. Hann átti tvá sonu; hét annarr Grímr, enn annarr Þorsteinn. Svá er sagt, at þeir Ljótr ok Þorbjörn áttu eitt veitiengi báðir saman; var þat hit mesta gersimi. Var svá skilit, at sitt sumar skyldu hafa hvárir, enn sá lækr fell fyrir neðan bæ Ljóts, er hljóp á engit á várit. Váru þar í stíflur ok vel um búit. Fór svá jafnan, þá er Þorbjörn átti at hafa engit, at hann náði aldri læknum, ok fór svá, at Ljótr lét næsta þau orð um fara, at Þorbjörn ætti eigi engit, ok skyldi hann eigi þora at eigna sér. Ok er Þorbjörn heyrði þetta, þykkist hann vita, at Ljótr mun þat efna, sem hann hefir heitit. Var skamt milli bæja þeira. Ok einn dag fundust þeir; spurði Þorbjörn, hvárt Ljótr ætlaði at taka af honum engit. Ljótr svaraði, ok bað hann ekki orð til leggja, — „skal þér eigi duga heldr enn öðrum at kvarta

um þat, er ek vil vera láta; ger annat hvárt, at þú lát þér vel líka þat er ek vil gera, elligar rek ek þik brott af eignum þínum; skaltu hvárki hafa engit né annat". Ok er Þorbjörn vissi ójafnað Ljóts, enn hann hafði of fjár, þá kaupir hann engit eftir því sem Ljótr kvað á, ok gaf fyrir sextigu hundruð þegar í stað, ok skilja at því. Ok er sveinarnir spyrja þetta, verða þeir stórilla við ok kalla þetta hið mesta arfrán, at kaupa þat, er hann átti áðr. Spyrst þetta nú víða. Þeir bræðr gættu fjár föður síns; var Þorsteinn tólf vetra, enn Grímr tíu. Þat var einn dag á öndverðum vetri, at þeir bræðr gengu til fjárhúsa; hafði veðr komit mikit, ok ætluðu at vita, hvárt heim væri kominn allr fénaðrinn. Þat bar saman, at Ljótr hafði gengit um morguninn til reka sinna. Hann var umsvifsmaðr mikill um bú sitt. Þat var í þann tíma, er sveinarnir váru komnir at fjárhúsum, þá sjá þeir, at Ljótr gengr neðan frá sjónum. Þá mælti Grímr við Þorstein bróður sinn: „Sér þú hólmgöngu-Ljót, þar sem hann gengr neðan frá sjónum"? „Hví mun ek eigi sjá hann"? segir Grímr. Þá mælti Þorsteinn: „Mikinn ójöfnuð gerir Ljótr þessi oss ok öðrum mönnum, ok er mér þat í skapi at hefna, ef ek gæti". Grímr mælti: „Þetta er óvitrlega mælt, at þú mundir sýna nökkura óvísu af þér við slíkan kappa sem Ljótr er, ok gild-

ari enn fjórir eða fimm menn aðrir, þó at mjök sé vaxnir, ok er hann eigi barna færi". Þorsteinn svaraði: „Eigi gerir at letja mik; skal ek til ráða alt at einu, enn þú munt líkjast föður þínum ok vilja vera ræningi Ljóts sem margir aðrir". Grímr svaraði: „Með því þér er þetta í hug, frændi, þá mun þér verða of lítit gagn at mér, enn slíkt sem er, þá mun ek veita þér eftir megni". „Þá ferr þér vei", segir Þorsteinn, „ok má vera at gangi eftir málaefnum". Þeir höfðu handöxar í hendi, ok váru þær litlar ok bitrlegar. Standa þeir nú ok bíða til þess er Ljót berr at húsinu. Hann snarast fram hjá þeim; hafði Ljótr bolöxi í hendi. Hann gengr leið sína ok lætr sem hann sjái eigi sveinana. Ok er hann berr fram hjá þeim, þá höggr Þorsteinn á öxlina á Ljóti; öxin beit eigi, enn þó varð höggit svá mikit, at höndin gekk ór axlarliðnum. Enn er Ljótr sá, at sveinarnir vildu glettast við hann, snarast hann við ok hóf upp öxina ok ætlaði að slá Þorstein með öxinni; ok í því er hann reiðir upp öxina, hleypr Grímr at, ok höggr af Ljóti höndina fyrir ofan úlflið; fellr þá niðr höndin með öxinni. Láta þeir þá skamt höggva í milli, ok er eigi sagt líklegra enn svá, at þeir fella þar hólmgöngu-Ljót, enn verða eigi sárir; grafa þeir hann niðr í fönnina ok gengu þar frá. Ok er þeir koma heim, var faðir þeira í durum úti ok

spurði, hví þeim hefði svá seint orðit, eða hví blóðug væri klæði þeira. Þeir segja víg Ljóts. Hann spyrr, hvárt þeir hefði drepit hann. Þeir segja at svá var. Þá mælti hann: „Verðit í brott, vándir óhappamenn; hafi þit unnit hit mesta óhappaverk, ok drepit hinn mesta höfðingja ok várn formann. Munu þit þat hafa at gert, at ek mun gerr af eignum mínum, ok öllu því er ek á, enn þit munut drepnir, ok er þat allvel“. Þorbjörn hljóp þá brott ok út frá bænum. Grímr mælti: „Fáumst vit aldri við skrattakarl þenna, er svá lætr leiðinlega, ok er þetta eigi meðalvesalingr, hversu sér lætr“. Þorsteinn svaraði: „Finnum vér hann, því at þat grunar mik, at hann sé eigi jafnreiðr sem hann lætr til reiðulega“. Eftir þat ganga þeir at honum. Þorbjörn mælti glaðlega við þá ok bað þá bíða sín þar. Hann gekk þá heim, ok var litla stund á brott; hann kom aftr með hesta tvá vel búna. Þá mælti Þorbjörn, at þeir skyldi stíga á bak, — „vil ek senda ykkr á Eyri til Steinþórs vinar míns; biðit hann taka við ykkr; er hér gullhringr, mikil gersemi, er þit skulut gefa honum; hefir hann oft til mælt, ok fengit aldri, enn nú skal lausan láta fyrir ykkra nauðsyn“. Eftir þat minnist karl við sonu sína, ok bað þá vel fara ok heila hittast. Er nú eigi sagt frá þeira ferð, fyrr enn þeir koma á Eyri; var þat snemma dags. Ganga þeir til stofunn-

ar, ok var hon altjölduð ok skipuð á báða bekki; skorti þar eigi glaum né gleði. Þeir ganga fyrir Steinþór ok kveðja hann vel. Hann tók vel kveðju þeira. Hann spurði, hverir þeir væri. Þeir sögðu nöfn sín ok föður síns. Þá mælti Þorsteinn: „Hér er hringr, er faðir minn sendi þér, ok með kveðju sína ok bað þess, at þú veitir okkr vetrvist í vetr, eða lengr þó at vit þyrftim“. Steinþórr tók við hringnum ok mælti: „Segi þit nökkur tíðendi“? Þeir segja þá víg Ljóts ok svá þat, at þeir hefði drepit hann. Steinþórr svaraði: „Þetta er enn orðit undarlega, at tvau ungmenni hafa orðit at skaða þvílíkum kappa sem Ljótr var; eða hvat var til saka“? Þeir sögðu slíkt sem þeim þótti vera. Steinþórr mælti: „Þat er ráð mitt, at þit gangið yfir fyrir hann Hávarð hærukarlinn, er sitr gegnt mér; spyrið hann eftir, hvárt hann vill taka við ykkr eða eigi í sveit með sér“. Þeir gera nú svá; ganga fyrir Hávarð. Hann fagnar þeim vel ok spurði tíðenda, ok lét sem hann hefði ekki heyrt, enn þeir sögðu honum frá sem innilegast. Ok er lokit var ræðu þeira, sprettr Hávarðr upp í móti þeim ok kvað vísu:

**(13) Dökk eigu vér víga,**
**váruð hollir mér, þollum,**
**ann ek æskirunnum**
**ógólegum, sólar:**
**þann vissak mér manna**
**mest alls at hlít fallinn,**

**orðin spyri fárleg fyrðar**
**flest andskotum vestan.**

Hávarðr skipar þeim bræðrum utar frá sér. Sátu þeir þar glaðir ok kátir. Spyrjast nú þessi tíðendi um allan Rauðasand ok víða annarsstaðar. Finst Ljótr þar dauðr undir veggnum. Var þá farit til Þorbjarnar, ok hann at spurðr. Þrætti Þorbjörn eigi, at synir hans hefði drepit hann. Ok með því at Ljótr var óvinsæll um Rauðasand, ok Þorbjörn kvaðst hafa illa við orðit ok rekit þá á brott, ok þat bera heimamenn með honum, þá verðr þar eigi eftirmál at sinni. Sezt Þorbjörn um kyrt í búi sínu.

15. Nú er þar til at taka, at þeir sitja á Eyri allir saman vel haldnir. Verðr Steinþóri kostnaðarsamt, svá mart fjölmenni sem hann hafði, ok þurfti stóran kostnað til at leggja, svá mikla rausn sem hann helt. Atli hét maðr, er bjó í Otradal, ok átti systur Steinþórs á Eyri, er Þórdís hét. Atli var manna minstr ok vesallegstr, ok svá er sagt, at þar eftir væri skaplyndi hans, at hann væri hinn mesti vesalingr, ok var þó stórra manna, ok svá auðigr, at hann vissi varla aura sinna tal; hafði Þórdís verit gift Atla til fjár. Svá er sagt, at bærinn í Otradal væri mjök af almannaveg; þat var út öðrum megin fjarðarins gegnt Eyri. Atli tímdi eigi at halda vinnumenn; vann hann bæði nátt ok dag slíkt er hann mátti. Hann

var ok svá einþykkr, at hann vildi ekki eiga við aðra menn, hvárki gott né ilt. Hann var hinn mesti búmaðr; hann átti útibúr mikit; váru þar í alls konar gæði; þar váru inni hlaðar stórir ok alls konar slátr, skreið ok ostar ok alt þat er hafa þurfti. Atli hafði þar gert sæng sína, ok lágu þau þar hverja nátt. Svá er sagt, at einn morgin var Steinþórr snemma á fótum; hann gekk at sæng Hávarðar ok tók á fótum hans ok bað hann upp standa. Hávarðr spratt upp skjótt ok fram á gólfit. Ok er hann stóð upp, þá stóð upp hverr at öðrum þeira félaga, því at þat var vandi þeira, at allir gengu hvert er einn þurfti at fara. Ok er þeir váru allir búnir, gengu þeir út í túnit. Steinþórr var þar fyrir með nökkura menn. Þá mælti Hávarðr: „Búnir erum vér, bóndi, at fara hvert er þér vilið láta fara; viljum vér gjarna þér fylgja hvárt sem er ríflegt eða óríflegt, enn þat er eftir metnaðar míns, at ek vil eigi vera í þeiri ferð, er ek veit eigi, hvert ek skal fara“. Steinþórr mælti: „Ek ætla at fara til Atla mágs míns, ok vil ek, at þér veitið mér brautargengi“. Þeir gengu ofan til sjóvar; var þar skúta, sú er þeir höfðu tekit af Þorbirni. Þeir hrundu fram skútunni ok tóku til ára, ok reru yfir á fjörðinn. Þótti Steinþóri þeir félagar til alls harðfengilega taka. Þenna morgin stóð Atli bóndi snimma upp ok gekk af sæng sinni. Atli var

svá búinn, at hann var í hvítum stakki, stuttum ok þröngum; var maðrinn eigi skjótlegr á fæti; var hann bæði vesalmannlegr ok ljótr at sjá, sköllóttr ok inneygr. Hann gekk út ok sá til veðrs. Veðr var kalt ok frost mikit. Hann sá at skip fór handan yfir fjörðinn, ok komit mjök at landi, ok kendi þar Steinþór bónda mág sinn, ok varð eigi gott við. Garðr stóð í túninu ok meir út á völlinn; stóð þar í heykleggi, ok dregit af öllum megin. Þat var bragð Atla, at hann hljóp í garðinn ok velti kleggjanum ofan á sik, ok lá Atli þar undir. Nú er at segja frá Steinþóri ok þeim öllum saman, at þeir koma at landi ok ganga upp til bæjar, ok er þeir koma í útibúrit, þá spratt Þórdís upp ok fagnaði vel bróður sínum ok öllum þeim, ok kvað hann sjaldsénan þar. Steinþórr spyrr, hvar Atli mágr hans var. Hon kvað hann fyrir litlu út genginn. Steinþórr bað þá leita hans. Þeir leituðu hans um bæinn, ok fundu eigi, ok segja síðan Steinþóri. Þá mælti Þórdís: „Hvat viltu frændi til vár“? Hann svarar: „Þat hafða ek ætlat, at Atli skyldi hafa gefit mér eða selt mér föng nökkur“. Hon svaraði: „Eigi þykkist ek síðr ráða eiga, enn Atli; vil ek at þú hafir slíkt er þú vilt“. Hann kvaðst þat gjarna vilja. Ryðja þeir búrit, ok bera ofan á skútuna til þess at hon var hlaðin; váru þat alls konar föng. Þá mælti

Steinþórr: „Nú skulu þér fara heim á skútunni, enn ek skal hér eftir vera hjá systur minni; er mér forvitni á at vita, hversu Atli mágr minn lætr sér þá er hann kemr aftr“. Hon svaraði: „Þarfleysu eina ætla ek þetta vera, frændi minn“, sagði Þórdís; „mun þér eigi þykkja gaman í at heyra til hans, enn þó skaltu ráða; eða því skaltu heita mér, at vera eigi verri vin Atla enn áðr, hvat sem hann mælir eða gerir“. Steinþórr játaði þessu. Hon lét hann vera undir fortjaldi nökkuru þar sem enginn mátti sjá hann; enn þeir halda heim aftr á skútunni. Þeir höfðu hvast mjök á fjörðinn, ok fengu mjök innanvátt áðr þeir kómu at landi.

16. Nú er þar til at taka, at Atli liggr undir kleggjanum, ok er hann sér, at þeir eru undan landi, skríðr hann undan kleggjanum, ok er hann svá stirðr, at hann má varla upp standa; dragnar síðan heim at búrinu; glamrar í honum hver tönn ok gnötrar. Hann rekr upp sjónirnar, ok sér at rutt er búrit. Hann mælti þá: „Hvaða ránsmenn hafa hér komit“? Þórdís svaraði: „Engir hafa hér rænt, enn þó kom hér Steinþórr bróðir minn með menn sína, ok gaf ek honum þat er þú kallar rænt“. Atli svaraði: „Þess mun ek mest iðrast, er ek hefi þik fengit, ok er ek vesall eigu; veit ek eigi hverr verri maðr er, enn Steinþórr bróðir þinn,

eða hverir meiri ránsmenn eru, enn þeir sem með honum eru, enn tekit nú frá mér ok stolit ok rænt hér öllu, svá at vit munum brátt á húsgang". Þá mælti Þórdís: „Aldri mun okkr fé skorta; ok far í sæng þína, ok lát mik verma þik nökkut, þykkir mér sem þú sért stórlega kalinn". Ok þat verðr, at hann hokrar undir klæðin hjá henni. Þykkir Steinþóri mágr sinn all-lítilfjörlegr vera; hefir ekki á fótum, enn steypt stakki á höfuð sér, ok tók hvergi ofan. Atli smýgr þá undir klæðin hjá henni ok er málóði; ámælir jafnan Steinþóri ok kallar ránsmann. Eftir þat þagnar hann nökkura stund. Ok er honum hitnar, þá mælti hann: „Þat er þó at segja, at mikla gersimi á ek þar sem þú ert; er þat ok satt at segja, at slíkr rausnarmaðr mun eigi finnast sem Steinþórr mágr minn er; er þat ok vel sem hann hefir haft; er þat sem ek varðveitti". Gengr þetta nú lengi, at hann lofar Steinþór. Steinþórr gengr þá fram at sænginni, ok er Atli sér hann, stendr hann upp ok fagnar honum. Þá mælti Steinþórr: „Hvárt þykkir þér, Atli mágr, ruzt hafa búrit"? Atli svarar: „Þat er nú sannast, at mér þykkir þat alt bezt komit, er þú hefir; vil ek ok þat bjóða þér, at þú hafir þat alt af mínu gózi, sem þú vilt, því at ekki skortir til; hefir þú hit höfðinglegasta ráð upp tekit; tekit við þeim mönnum, er rekit hafa harma sinna; muntu þá

ætla út at leysa stórmannlega". Þá mælti Steinþórr: „Þess vil ek biðja þik, Atli mágr, at þú gerir þik eigi jafnvesalan sem þú hefir gert þik áðr; tak þik upp vel ok haf vinnumenn fyrir þik ok ver siðblandinn við aðra menn; veit ek at þú ert eigi lítilmenni, þó at þú gerir þik svá fyrir skaplyndar sakir". Atli hét nú þessu. Ferr Steinþórr heim um daginn. Skilja þeir mágar með mikilli blíðu, ok kemr svá heim á Eyri, ok þykkist vel farit hafa. Sitja bú heima, ok leið á vetrinn. Váru þar skinnleikar knáir ok knattleikar.

17. Svartr hét maðr; hann var þræll þar á Eyri, mikill ok sterkr, svá hann hafði fjogurra manna megin; var hann þarfr búi; vann hann mikit. Þat var einn dag, at Steinþórr lét kalla til sín þrælinn, ok mælti við hann: „Þeir vilja, at þú værir í leik með oss í dag, því at oss vantar einn mann". Svartr svaraði: „Eigi þarf at biðja mik til þess, því at ek á mart at vinna; get ek ok, at kappar þínir vili eigi vinna fyrir mik; enn þó skal ek þetta veita þér ef þú vilt". Svá er frá sagt, at Hallgrímr skyldi í mót Svarti; er þar ok bezt frá at segja, at í hvert sinn, er þeir takast á, þá fellr Svartr, ok eftir hvert fall þá fara af honum skórnir, ok tefst hann þar af löngum at binda á sik skóna. Ferr svá lengi dags, ok gerðu menn hér at mikit óp ok hlátr, enn Hávarðr kvað vísu:

(14) **Varð-at viggja Njörðum,**
**Valbrands sonum, handan,**
**þess mun minnst um, Þvinnils,**
**þvengr vanbundinn, lengi:**
**þás skerfoldar, skyldi,**
**skjalda hlums, á sumri**
**garðr svall Gylfa jarðar,**
**Gefn, míns sonar hefna.**

Leikrinn var hinn bezti. Var Hallgrímr þá átján vetra gamall, ok þótti líklegr til afreksmanns þá er væri fullþroskaðr. Svá er sagt, at af leið vetrinn ok varð ekki til tíðenda, ok alt þar til er þeir bjoggust til þings. Steinþórr lézt eigi vita, hvèrt ráð hann skyldi sjá fyrir þeim félögum; vildi hann eigi hafa þá til þings með sér, enn þótti eigi gott at láta þá vera heima um þingit; ok fám dögum fyrir þingit fundust þeir Atli. Atli spurði, hvat hann mundi sjá fyrir vistarmönnum sínum um þingit. Steinþórr kvaðst eigi víst vita, hvar hann mundi þeim svá koma, at hann væri óhræddr um þá, — „nema þú takir þá“. Atli mælti: „Bindast mun ek í at taka við þessum mönnum“. „Þá gerir þú vel“, sagði Steinþórr. Atli mælti: „Eftir megni mun ek veita þér þat er þú vilt“. Steinþórr mælti: „Þar treysti ek þér allvel til“.

18. Eftir þetta ferr Hávarðr brott með Atla, ok hans félagar. Koma þeir í Otradal. Tekr hann við Hávarði báðum höndum. Skorti þar ekki þat er hafa þurfti; gerði hann þeim hina

beztu veizlu. Váru þar tíu karlar vígir. Lét Atli ryðja búrit ok gerði þar sængr þeira, ok festi þar upp vápn þeira, ok var þar búit um hit bezta. Enn Steinþórr boðar at sér mönnum; skorti þar eigi vini né frændr; var hann ok mægðr við höfðingja. Reið hann á þing við þrjú hundruð manna; váru þat alt hans þingmenn, vinir, frændr ok mágar.

19. Þórarinn hét maðr; hann var goðorðsmaðr vestr um Dýrafjörð, höfðingi mikill ok nökkut við aldr; hann var bróðir þeira Þjóðreks sona; var hann miklu hygnastr ok spakastr. Hann hafði spurt þessi tíðendi, ok víg bræðra sinna ok frænda, ok þótti sér nær höggvit vera, ok þóttist eigi sitja mega hjá málum þar sem mest kom til hans eftirmálit. Ok áðr til þings væri riðit, stefnir hann at sér mönnum um Dýrafjörð, ok þar sem váru vinir ok frændr. Dýri hét maðr, er þar var annarr mestr höfðingi; hann var vinr mikill Þórarins goða. Þorgrímr hét son hans; var hann fullþroska maðr þá er þetta var tíðenda. Svá er frá honum sagt, at hann var mikill ok sterkr, fjölkunnigr ok hinn margvísasti, ok gerði mart með göldrum. Bar Þórarinn þetta mál upp fyrir vini sína, ok var þat ráð þeira allra saman at þessu, at Þórarinn ok Dýri ríða á þing við tvau hundruð manna, enn Þorgrímr Dýrason bauzt til at drepa Hávarð ok þá alla saman frændr ok fé-

laga. Kveðst spurt hafa, at Steinþórr á Eyri hefði haldit þá um vetrinn, ok heitit at halda þeira málum til fullra laga við þá sem eftirmálsmenn væri við þá frændr. Kveðst Þorgrímr vita, at Steinþórr væri heiman riðinn með mikit fjölmenni, enn þeir frændr ok félagar væri komnir í Otradal til Atla veslingsins, mágs Steinþórs, — „ok mun ekki fyrir verða, at drepa hvern á fætr öðrum“. Var þetta ráð tekit, at Þorgrímr ríðr heiman við átjánda mann. Er ekki sagt frá þeira ferð, fyrr enn þeir koma til bæjar Atla í Otradal; var þat einn morgin snemma, ok ríða í dalverpi, þat er eigi mátti sjá frá bænum. Bað Þorgrímr þá stíga af baki; kvað sik svá syfja, at hann mátti engan veg upp sitja. Þeir gera nú svá; létu hestana bíta, enn Þorgrímr sofnaði ok breiddi feld á höfuð sér ok lét illa í svefni.

20. Nú er þar til máls at taka, hvat þeir hafast at heima í Otradal. Þeir sofa í útibúrinu um náttina, sem þeir áttu vanda til. Um morgininn vakna þeir við þat, at Atli lét illa í svefni, svá at engi þeira mátti fyrir sofa, því at hann brauzt um ok blés ok barði bæði höndum ok fótum í sænginni, þar til er Torfi Valbrandsson hljóp upp ok vakti hann ok sagði, at engi mátti sofa fyrir honum ok látum hans. Atli sezt upp, ok strauk um skallann. Hávarðr spyrr, hvárt nökkut hefði borit fyrir hann. Hann

kvað heldr þat vera, — „ek þóttumk ganga út ór útibúrinu, ok sá ek at vargar runnu sunnan á völlinn átján saman, enn fyrir vörgunum rann refkeila ein; þat var svá slæglègt kvikindi, at slíkt hefi ek aldri sét fyrri; þat var ógurlegt mjök ok illilegt; þat skygndist víða ok á öllu vildi þat auga hafa, ok öll sýndust mér dýrin grimmleg. Enn er þau váru komin heim at bænum, þá vakti Torfi mik, ok veit ek víst, at þat er manna hugir; skulum vit þegar upp standa“. Atli hafnaði eigi vanda sínum; sprettr upp, ok steypir á sik stakki sínum, ok svá út sem kólfi skyti; enn þeir taka vápn sín ok klæði ok búast sem skörulegast. Ok er þeir váru mjök búnir, kom Atli inn aftr ok var þá kominn í sterka brynju ok brugðit sverð í hendi. Þá mælti Atli: „Þat er líkast, at þetta fari svá sem margr hefir getit til, at Steinþóri mági mínum mundi þat eigi vel duga at láta yðr hér niðr koma; nú beiðumk ek þess, at þér látít mik ráða tilskipun fyrir oss; er fyrst mitt ráð, at vér gangim út undir hússvegginn ok látum eigi stanga oss inni, get ek ok yðr þat í hug at flýja eigi, hvat sem at höndum kemr“. Þeir segja svá vera.

21. Þar er nú til at taka, at Þorgrímr vaknar; var honum orðit heitt. Hann mælti þá: „Heima hefi ek verit um hríð á bænum, ok er svá vilt fyrir mér, at ek veit ekki frá mér,

enn þó munum vér heim ganga at bænum. Ætla ek, at vér skulum brenna þá inni; þykkir mér þat skjótast mega yfir taka". Taka þeir nú vápn sín ok ganga heim á völlinn. Ok er þeir Atli sjá mennina, mælti Atli: „Þat er ætlan mín, at þeir sé hér komnir Dýrfirðingarnir, ok sé fyrir þeim Þorgrímr Dýrason, er verstr maðr er í öllum Dýrafirði ok fjölkunnugastr. Eru þeir hinir mestu vinir Þórarinn, er eftirmál á um bræðr sína. Ætla ek mér, þó at ólíklegt sé, at ganga á móti Þorgrími, enn þér, Hávarðr, ætla ek at ganga í móti tveimr, ertu reyndr ok kappi mikill; Hallgrími frænda þínum ætla ek tvá þá sem gildastir eru, Valbrandssonum, Torfa ok Eyjólfi ætla ek fjóra, ok þeim Þorbrandssonum, Oddi ok Þóri ætla ek ok fjóra, Þorbjarnarsonum, Grími ok Þorsteini, ætla ek þrjá, enn þá ætla ek sinn mann hverjum þeira Þórhalli ok hússkarli mínum". Ok er Atli hafði til skipat sem hann vildi, þá ganga þeir Þorgrímr sunnan at húsum. Sjá nú at þar er öðruvíss fyrir búit, enn þeir ætluðu; standa þar menn með vápnum ok búnir til viðtöku. Þá mælti Þorgrímr. „Hverr veit, nema Atli enn ragi sé brögðóttari, enn vér ætlum, enn þó skulum vér á móti þeim alt at einu". Hlaupast menn nú at svá sem ætlat var. Þat var hit fyrsta athlaup, at Atli hinn litli hljóp at Þorgrími ok hjó til hans tveim höndum með sverð-

inu, ok beit eigi á. Þeir hjuggust á nökkura stund, ok beit eigi á Þorgrím. Þá mælti Atli: „Trölli líkr ertu, Þorgrímr, enn eigi manni, er þik bíta engi járn“. Þorgrímr svaraði: „Hví dirfist þú at tala um slíkt, því at ek hjó til þín áðan svá sem mér var hægast, ok beit eigi á þinn vánda skalla“. Atli sér at eigi muni svá búit hlýða; kastar síðan sverðinu, ok hleypr undir Þorgrím ok rekr hann niðr við völlinn. Nú er eigi vápnit hjá honum, enn hann veit at liðsmunr er mikill; verðr honum þat fyrir, at hann greyfist niðr at honum ok bítr sundr í honum barkann, dregr hann síðan þangat til er sverð hans var ok sníðr af honum höfuðit. Eftir þat rekr hann upp skygnurnar ok sér, at Hávarðr hefir felt annan þeira, er hann átti við. Hleypr Atli þar fyrst at, ok skifta þeir eigi lengi höggum við hann áðr hann fellr. Hallgrímr hafði drepit báða þá, er hann átti við, ok svá Torfi, Eyjólfr hafði drepit annan þann er hann átti við, Þórir ok Oddr höfðu drepit þrjá, enn eftir var einn; Þorsteinn ok Grímr höfðu felda tvá, enn einn var eftir; Þórhallr hafði drepit þann er hann átti við; húskarl hafði eigi drepit þann er hann átti við. Hávarðr bað at hætta skyldi. Þá mælti Þorsteinn Þorbjarnarson: „Eigi skal faðir minn þat spyrja vestr á Rauðasand, at vit bræðr vinnim eigi hlutverkum okkrum sem aðrir menn“.

Hann hleypr at einum þeira með reidda öxi ok rekr í höfuð honum, svá at þegar fekk hann bana. Atli spurði, hví hann skyldi eigi alla drepa. Hávarðr kvað þat til einkis vera. Atli settist niðr ok bað þá leiða fyrir sik. Hann rakar af þeim hárit ok gerði þeim koll ok bar í tjöru eftir; síðan tók hann kníf sinn ór skeiðum ok rak af þeim öllum eyrun ok bað þá svá markaða fara á fund Dýra ok Þórarins; kvað þá heldr muna mega, at þeir hefði fundit Atla hinn litla. Eftir þat fara þeir þaðan þrír, enn kómu átján saman allir frækilegir ok vel búnir. Hávarðr kvað þá vísu:

**(15) Þat mun vestr ok vestan,**
**varð ár roðin sára,**
**orð til Ísafjarðar**
**oddregns koma þegna:**
**at til geira glettu**
**gunnæringar færi,**
**vægr er vöxtr í augum**
**Valbrandssonum, handan.**

Eftir þat snúa þeir áleiðis ok jarða þá er drepnir váru, taka síðan á sik náðir ok frelsi slíkt er þurfti.

22. Nú er þar til at taka, er menn kómu til þings; var þar fjölmenni mikit. Váru þar höfðingjar margir ok mikils virðir; þar var Gestr Oddleifsson, Steinþórr af Eyri ok þeir Dýri ok Þórarinn. Var þá talat um mál þeira öll saman; var Steinþórr fyrir hönd Hávarðs. Bauð

hann sættir fyrir þá ok gerð Gests Oddleifssonar; kvað honum kunnugast um málit. Ok með því at þeir vissu áðr, hversu þeir höfðu undir búit, þá gengu þeir at þessu allglaðlega. Þá mælti Gestr: „Með því at þat er vili hvárratveggja, at ek geri hér nökkut at, þá skal eigi seint til láta; mun ek þar fyrst til taka, er bit fyrra sumar var talat um víg Óláfs Hávarðssonar, at ek geri þat þrjú manngjöld; skulu þar niðr falla víg Sturlu ok Þjóðreks ok Ljóts, er mjök váru saklausir drepnir, enn Þorbjörn Þjóðreksson skal hafa fallit ógildr fyrir ójafnað sinn ok fyrir marga óheyrilega tiltekt, þá er hann hefir haft við Hávarð ok marga aðra, svá þeir Vakr ok Skarfr bræðrungar skulu hafa fallit óhelgir, enn víg þeira skulu jöfn vera Brands hins sterka ok Áns fóstra Hallgríms, gjalda ein manngjöld fyrir fylgdarmann Ljóts at Mánabergi, er þeir Hávarðr höfðu drepit. Svá er um víg Ljóts; kann ek eigi fé at gera; er þat öllum auðsætt, ójafnaðr sá, er Ljótr hefir haft við Þorbjörn ok alla aðra þá er hann hefir mátt; gekk þar eftir málefnum, at tvau börn skyldu drepa þvílíkan kappa sem Ljótr var; skal ok Þorbjörn hafa engi þat alt frjálslega, er þeir áttu báðir saman áðr; enn til huggunar við Þórarin, þá skulu þessir menn fara utan: Hallgrímr Ásbrandsson, Torfi ok Eyjólfr Valbrandssynir, Þórir ok Oddr Þorbrandssynir,

Þorsteinn ok Grímr Þorbjarnarsynir; með því at þú er gamlaðr mjök, þá skulu þeir eigi koma út fyrr enn þeir spyrja at þú ert allr; enn Hávarðr skal færa bústað sinn, ok vera eigi í þessum landsfjórðungi, ok svá Þórhallr frændi hans. Vil ek, at þér sættist heilum sáttum, ok sé þetta prettalaust af hvárumtveggjum". Eftir þat gengr Steinþórr at, ok tekr sætt fyrir Hávarð ok alla félaga, með því skilorði, sem Gestr hafði fyrir sagt. Steinþórr geldr ok hundrað silfrs þat er gjalda átti. Gengu þeir Þórarinn ok Dýri at öllu drengilega ok létu sér vel líka þat er gert var. Ok er þessum málum var lokit, þá kómu þar þeir afeyringar á þingit ok segja þessi tíðendi at öllum áheyröndum, sem gerzt höfðu í ferð þeira. Þótti öllum þetta mikil tíðendi, ok þó farit maklega. Þótti mönnum Þorgrímr hafa dregizt til fjandskapar við þá, enn vorðin umskifti jafnleg. Þá mælti Gestr: „Þat er þó sannast at segja, at þér frændr eruð ólíkir öðrum mönnum at ilsku ok ódrengskap; eða hví varð þér þetta fyrir, Þórarinn, at láta sem þú skyldir sættast, enn fara með slíka prettvísi? Nú með því at ek hefi hér nökkut um talat áðr, þat er til vægðar mætti komast þitt mál, þá læt ek nú þó standa svá, eftir því sem áðr var gert ok talat, enn hins væri þit verðir, Þórarinn ok Dýri, at ykkur mál væri mjök spjölluð fyrir ykkra undirhyggju, enn þat skal

þar fyrir koma, at ek skal aldri at ykkar málum veita. Enn þú, Steinþórr, lát þér þetta vel líka, fyrir því, at heðan af skal ek veita þér at málum þínum við hvern sem þú átt um; hefir þér þetta vel farit ok drengilega". Steinþórr sagði, at Gestr skyldi þá mestu um ráða, — „þykkir mér þeir nú hafa af hinn versta; látit menn sína marga ok þar með drengskap sinn".

Eftir þetta slíta þeir þingit. Skilja þeir Gestr ok Steinþórr með mikilli vináttu, enn þeir Þórarinn ok Dýri undu við stórilla. Ok er Steinþórr kom heim á Eyri, sendir hann eftir þeim í Otradal. Ok er þeir finnast, segja hvárir öðrum sem farit hafði. Þótti þeim allvel farit hafa ór því sem ráða var. Þökkuðu þeir Steinþóri fyrir forganginn, sögðu ok at Atli mágr hans hefði vel við þá gert, enda hversu hraustlega hann hefði fram gengit, ok sögðu hann hinn hraustlegasta dreng. Gerðist þá hin bezta vinátta með þeim mágum; var Atli þaðan af haldinn hinn bezti drengr, hvar sem hann kom.

23. Eftir þat ferr Hávarðr ok þeir allir saman heim til Ísafjarðar; verðr Bjargey honum stórlega fegin, ok svá feðr þeira bræðra, ok þykkjast nú ungir orðnir í annan tíma. Nú tekr Hávarðr þat til ráðs, at hann býr til veizlu mikillar; var þar bær mikill ok stórmannlegr; skorti þar engan hlut. Býðr hann Steinþóri af Eyri ok Atla mági hans, Gesti Oddleifssyni ok

öllum mágum sínum ok frændum. Verðr þar fjölmenni mikit, ok hin vænsta veizla. Sitja þar viku allir saman glaðir ok kátir. Hávarðr var stórauðigr maðr at alls konar fé, ok at lyktum veizlunnar gefr Hávarðr Steinþóri þrjá tigi geldinga ok fimm yxn, skjöld ok sverð ok gullhring, hina beztu gersemi. Gesti Oddleifssyni gaf hann tvá gullhringa ok níu yxn. Atla bónda gaf hann ok góðar gjafir, Valbrandssonum ok Þorbrandssonum ok Þorbjarnarsonum gaf hann ok öllum hinar beztu gjafir, sumum vápn góð ok aðra hluti. Hallgrími frænda sínum gaf hann sverðit Gunnloga ok þar með öll hervápn harðla góð. Þakkaði þeim öllum góða fylgd ok drengilega framgöngu. Öllum gaf hann góðar gjafir, þeim sem hann hafði þangat boðit, því at hvárki skorti til gull né silfr. Ok eftir þessa veizlu ríðr Steinþórr heim á Eyri, enn Gestr á Barðaströnd, Atli í Otradal. Skilja nú allir með hinum mestu kærleikum. Enn þeir er utan skyldu, fara vestr í Vaðil, ok þar utan um sumarit; gefr þeim vel, koma við Noreg. Réð þá Hákon jarl fyrir Noregi. Váru þeir þar um vetrinn, enn um várit fá þeir sér skip, ok leggja í hernað ok verða hinir frægustu menn. Hafa þeir þá iðju nökkur misseri. Fara þeir nú út hingat, ok var Þórarinn þá dauðr. Urðu þeir ágætir menn; eru af þeim miklar sögur hér á

landi ok víðar annarsstaðar. Lýkr hér nú frá þeim at segja.

24. Svá er sagt frá Hávarði, at hann seldi eignir sínar, enn þau ráðast norðr til Svarfaðardals, ok upp í dal þann, er Oxadalr heitir, ok reisir þar bústað sinn, ok bjuggu þar nökkura vetr, ok kallaði Hávarðr þenna bæ á Hávarðsstöðum. Ok nökkurum vetrum síðar spurði Hávarðr þau tíðendi, at Hákon jarl var dauðr, enn kominn í land Óláfr konungr Tryggvason, ok væri hann orðinn einvaldskonungr yfir Noregi, ok boðaði aðra trú sanna. Ok er þetta spyrr Hávarðr, bregðr hann búinu ok ferr utan ok Bjargey með honum ok Þórhallr frændi hans. Koma þau á fund Óláfs konungs ok tók hann vel við þeim. Var Hávarðr þá skírðr ok öll þau, ok váru þau þar um vetrinn í góðu yfirlæti með Óláfi konungi. Þann sama vetr andaðist Bjargey; enn Hávarðr ok frændi hans Þórhallr fóru út til Íslands um sumarit. Hávarðr hafði út með sér kirkjuvið harðla mikinn. Hann setti bústað sinn í neðanverðum Þórhallsdal, ok býr þar eigi lengi áðr hann tekr sótt. Kallar þá á Þórhall frænda sinn ok mælti: „Svá er mál með vexti, at ek hefi sótt fengit, þá er mik mun til bana leiða; vil ek at þú takir fé eftir mik; ann ek þér vel at njóta; hefir þú mér vel þjónat ok veitt mér góða fylgd. Skaltu færa bústað þinn í ofanverðum Þórhalls-

dal, skaltu láta þar kirkju gera, ok vil ek at þeiri mik grafa láta". Ok er hann hefir fyrir sagt slíkt er hann vildi, þá deyr hann litlu síðar. Þórhallr bregðr við skjótt ok færir bústað sinn upp í dalinn ok gerir þar reisulegan bæ, ok kallar á Þórhallsstöðum. Fær hann kvánfang gott, ok hefir mart manna frá honum komit, ok býr þar til elli. Er ok svá sagt, at þá er kristni kom til Íslands, at Þórhallr lét kirkju gera á bæ sínum af þeim við, er Hávarðr flutti út hingat. Varð þat hit skrautlegsta hús, ok var Hávarðr at þeiri kirkju grafinn, ok þótti verit hafa hit mesta mikilmenni. Ok lúkum vér nú þar þessarri sögu at sinni með þessu efni.

## Viðbætir.

Úr AM. 152, 4to.

. . . . . . . Þeir ferðast síðan þar til þeir koma á Eyri. Enn sem þeir kómu, gengr Hávarðr heim ok heilsar Steinþóri. Steinþórr mælti: „Hverr er þessi hinn mikli maðr“? Hávarðr sagði til sín. Steinþórr mælti: „Ek mundi sjá þik í sumar í búð minni, ok ertu nú ólíkr sjálfum þér, er þú dróst þá sem förumaðr milli búða, enn nú ertu hinn hermannlegsti; eða kunnið þér at segja nõkkur ný tíðendi“? Hávarðr kvað vísu:

**(16) Þar hafa sex þeirs sævask**
**sútlaust, bana úti**
**svipnjörðungar sverða**
**sárteins, á brústeinum;**
**hygg ek hitt þar liggi**
**heftendr laga eftir;**
**eggskeindar létk undir**
**óbíðingum svíða.**

Nú víkr sögunni vestr á Ingjaldssand. Þar bjó hólmgöngu-Ljótr; hann var son Þorgríms

Harðrefssonar, sem fyrr er sagt, enn móðir hans hét Rannveig, dóttir Grjótgarðs jarls. Þorgrímr gagarr var sonr Ljóts. Halldísi systur Ljóts hafði átt Þorbjörn Þjóðreksson, sem áðr er sagt, enn Ásdísi aðra systur Ljóts nam Óspakr Ósvífrsson; um þá sök sótti Ljótr Óspak til sektar. Úlfr hét sonr þeira; hann fæddi Ljótr; hann varð síðar stallari Haralds konungs Sigurðarsonar. Grímr kögurr bjó á Brekku; hans synir váru þeir Sigurðr ok Þorkell, litlir menn ok smáir. Þórarinn hét fóstrsonr Ljóts. Ljótr kaupir slátr at Grími til tuttugu hundraða, ok galt læk, er fell meðal landa þeira; sá hét Túnsómi. Grímr veitti hann á eng sína ok gróf land Ljóts, enn hann gaf sök á því, ok var jafnan fátt með þeim. Gestr Oddleifsson sótti haustboð til Ljóts. Ljótr spurði Gest at boðinu, hvat manni Þorgrímr gagarr sonr hans mundi verða. Gestr kvað Þórarin fóstra hans frægra mundi verða. Óvirðing þótti Ljóti þetta ok spurði um myrgininn, hvat fyrir Þorgrími lægi. Gestr kvað Úlf systurson hans frægra verða mundu. Þá varð Ljótr reiðr, enn reið þó á veg með Gesti ok spurði: „Hvat mun mér at bana verða“? Gestr kvaðst eigi sjá örlög hans, enn bað hann vera vel við nábúa sína. Ljótr spurði: „Munu jarðlýsnar, synir Gríms kögurs, verða mér at bana“? Gestr mælti: „Sárt bítr soltin lús“. „Hvar mun þat verða“? kvað Ljótr.

„Héðra nær“, kvað Gestr. Enn um várit sat Ljótr at þrælum sínum á hæð einni; hann var á kápu, ok höttr lerkaðr um hálsinn, ok ein ermr á. Þeir Kögurs synir hlupu á hæðina, ok hjuggu til hans báðir senn. Eftir þat snaraði Þorkell höttinn at höfði honum. Ljótr bað þá láta gott í búsifjum sínum; ok hröpuðu þeir af hæðinni á götuna þá er Gestr hafði ritit. Þar dó Ljótr. Þeir Gríms synir fóru þá til Hávarðs halta ok váru þeir allir at Steinþórs um vetrinn sem fyrr segir.



# Vísnaskýringar.

---

**Vísurnar eftir handritum.**

(2) **Eigi hefir a augu**
**undskiðs komit síðan**
**dyggr þo af und eggjar**
**oddstefnum mer svefner**
**syzt hræstorðar harðan**
**hier gjörðu styr borvar**
**oft þeir er Olaf letu**
**allsaklausan falla.**

(3) **Atta ek hœgt af hœgn**
**hlioð veiti mer sveitir**
**enn i elli minni**
**i vegstafi segia**
**syzt vel hressa vissak**
**vopna niorð at jorðu**
**minn er sonr at sönnu**
**sniallr afistuðill fallinn.**

(6) **Motreyni klauf ek mana**
**malma brags i jaxla**
**segg let ek alms i augu**
**eitt högg staðar leita**
**sakaða ek hitt at hrykki**
**hringmerktr fetils þingi**
**hne gunnloga gunnar**
**giallharðan sa ek falla.**

(7) Vær hofum fellda fiora
feing tel ek i þreingium
bratt þeir er bloðgan letu
Bjargeyjar son deyja
enn af vorum mönnum
einhver sollinn geyra
þion var hœfðr með hlunni
Hallgrimr kveðr nu fallinn.

(8) Snar gekk sonr þa er sotti
sunnar bliks at minni
hvatr fra ek hior bra bitrum
bloðise gerdisar
enn reð Eyjolfr minnaz
eggleiks við kyn seggia
geymi balldrs at giallda
gunnblaks fyrra runnum.

(9) Helldr hofum heiptir goldit
Hallgrimr saman allir
vigs iðrumz þess þeigi
Þioðreks sonum storar
niorðr arske nyrðar
oddregns sauk vegnir
bor þioða veit ek eyði
inngiarna Þorbiarnar.

(10) Nu er jafnendum efni
angr solar frami ganga
vara elldz þeir er vilia
vegstemmendr fremia
vera kveða ham enn hoggvit
her såklausa baurna
Isfirðinga angrs
eirlaust skartit trausta.

(11) Hlogu herþi draugar
vinnendr um sok minni
frons a frænda minum
falle domr i skelle
nu er syst hoggnir voro
viðniðingar verðu
hafs i hveri biargi
Liotz annan veg þiota.

(12) Hallgrímr skulum heiman
hlit ek vættugi lita
uggi ek ognir mestu
oddvargs ur stað biþa
en vig þau er vær vogum
villda ek alldri giallda
geira gæti ara
giorvoll i stra falla.

(13) Þekkiliger var vigi
vertu hollr her þollum
enn ek æski runnum
ogurligum solar
þann vissa ek mer manna
mest alls a hlyn fallinn
orðin spyrie fárlig yrðar
flest andskotum mestan.

(14) Varð at vœcki morðum
Valbrandz sonum handan
þess minn minzt um þinnilz
þveings vanbundin lengi
þa er skerfolldar skylldi
skiallda hlunnz a sumri
garðer snall gylfirs siofar
gengit mins far hefna.

(15) Þat mun vestr og vestan
varð ár roðinn saran
orð til Isafjarðar
oddregns komu þegna
at til geira glettu
gunnæringar væri
vogr er voxtr i augum
Valbrandz sonum handan.

---

1 (Óláfr Hávarðsson). Ek réð fyrst at fregna fámálgasta þegna: hví þegja hér allir snjallir hjörþingsviðir[1]? Leggjumk engi metorð[2] á mállausa drengi; hefi ek staðit hér lengi svá, (at) alls engi kvaddi mik.

1. *hjörþing*, bardagi; hjörþings *viðr*, mannkenning. — 2. leggja *metorð* á, virða.

Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.

2 (Hávarðr Ísfirðingr). Eigi hefir svefn(a?) komit á augu mér, unnskíðs byggvi[1], eggjar öfund[2] svá oddstefnu[3], síz[4] hjörs Börvar[5] gerðu harðan hræstorðar styr[6], þeirs[7] ótt létu Óláf falla allsaklausan.

1. *unnskíð*, skip; unnskíðs *byggvir*, mannkenning. — 2. *öfund*, harmr. — 3. *oddstefna*, bardagi. — 4. *síz* = síðan. — 5. *hjörs Börvar*, mannkenning. — 6. *hræstorðar styr*, bardagi. — 7. *þeirs* = þeir sem.

Svefn hefir eigi komið á augu mér, — harmrinn eggjar mig hefndar — síðan menn þeir háðu bardagann, er létu Óláf falla alsaklausan.

3 (Hávarðr Ísfirðingr). Ákat ek hógt[1], enn sveitir veiti mér enn af hœgu hljóði í elli minni, (at) segja í-

vegstafi[2], síz ek vissa vel hressan vápna Njörð[3] fallinn at jörðu. Sonr minn var at sönnu snjallr aflstuðill[4].

1. *ákat ek hógt*, mér er ekki hægt. — 2. *ívegstafir*, frægðar rúnir, hreystileg orð? — 3. *vápna Njörðr*, mannkenning. — 4. *aflstuðill*, stoð og stytta.

Mér er ekki hægt, — enn menn veiti mér enn gott hljóð að segja hreystileg orð í elli minni — síðan hinn hrausti sonr minn féll. Hann var sannlega stoð mín og stytta.

4 (**Þorbjörn þyna**). Vísa þessi stendr í Landnámu, og er hér ranglega eignuð Hávarði.

5 (**Hávarðr Ísfirðingr**). Ek hygg (at) efna þat (at) ek hefi heitit Yggjar má[1] beitu; sára sundlíri[2] flýgr nú svangr fyrir eyrar tanga. Ek veit, Hallgrímr, at vér munum allir hljóta farar tíma[3]; þat er vel fallit. Hljómr er af hildar glaumi[4].

1. *Yggr*, Oðinn; Yggjar *már*, hrafn. — 2. *líri*, fugl; *sára sund*, blóð; blóðfugl, hrafn. — 3. *farar tími*, góð för. — 4. *hildar glaumr*, bardagi.

Svangr hrafn flýgr fyrir eyrartangann; eg hefi heitið honum beitu. Eg veit að för vor allra verðr góð, Hallgrímr; það er vel fallið. Mér er sem eg heyri bardagagnýinn.

6 (**Hávarðr Ísfirðingr**). Ek kláuf mótreyni malmabrags mána[1] í jaxla; ek lét alms eitrdögg[2] leita staðar í augum segg. Ek sákat[3] hitt, at hringmerkðr fetilstingi[4] hrykki, þás[5] ek sá gallharðan gunnloga grenni[6] falla.

1. *málmabragr*, bardagi, bardaga *mótreynir*, mannkenning. — 2. *almr*, bogi; boga eitrdögg, örvar. — 3. *sákat* = ek sá ekki. — 4. *fetilstingi*, sverð. — 5. *þás* =

þá er. — 6. *gunnlogi*, sverð; sverðgrennir, mannkenning.

Eg klauf Þorbjörn í jaxla og skaut öru(?) í augu honum. Eigi varð eg var við að hið hringmerkta sverð bugaðist, þegar hinn gallharði maðr féll.

7 (Hávarðr Ísfirðingr). Vér höfum brátt felda fjóra — ek tel drengjum feng í því — þás létu Bjargeyjar son blóðgan deyja; enn af órum mönnum kveðr Hallgrímr nú einn fallinn. Ánn vas hœfðr með hversollins gera[1] hlunni.

1. *hversollinn geri* er tilgáta Gísla Brynjólfssonar, og ætti það að vera skipskenning.

Að öðru leyti þarf vísan ekki skýringar við.

8 (Hávarðr Ísfirðingr). Hratt[1] gekk sonr Geirdísar, þá es (hana) sótti at sunnu bekks runni[2]; ek sá hvar Knöttr brá bitrum blóðísi[3]. Eyjólfr réð enn minnask eggleiks[4] við kyn seggja, at gjalda kunnum geymibaldri gunnbliks fúra[5].

1. *Hratt* er tilgáta fyrir *snarr*, sem stendr í útg., enn hér stendr í textanum *brátt*, sem fer ver. — 2. *bekkr*, lækr; bekkjar *sunna*, gull; *runnr* gulls, viðr gulls, mannkenning. — *blóðíss*, sverð. — 4. *eggleikr*, bardagi. — 5. *gunnblik*, bardagaljómi; *fúrr* eldr; *geymi-Baldr g.-f.* er því mannkenning.

Hratt gekk sonr Geirdísar, þá er hann sótti að manninum; eg sá hvar Knöttr (sbr. formálann) brá sverði. Ennfremr mintist Eyjólfr (fyrri) vopnaskifta við þá félaga, (með því) að endrgjalda honum.

9 (Hávarðr Ísfirðingr). (Vér) höfum allir saman, Hallgrímr, goldit Þjóðrekssonum stórar heiftir. Vér iðr-

**umst þeygi þess vígs; œski-Njrðir oddregns[1] urðu vegnir of sök Þorbjarnar. Ek veit eyða örþjóða[2] ímgjarna[3].**

1. *oddregn*, bardagi, *œski-Njörðr oddregns*, mannkenning. — 2. *örþjóð* (réttara *órþjóð*), skríll; *órþjóða eyðar*, skríleyðendr, þeir sem vinna á ómennum. — 3. *ímgjarn* (af íma? bardagi), hraustr.

Vér höfum nú, Hallgrímr, allir saman endrgoldið Þjóðreks sonum mikinn fjandskap; vér iðrumst eigi þess vígs. Menn eru hér vegnir fyrir sök Þorbjarnar. Það eru hraustir menn, sem hafa unnið á þessum ómennum.

10 (**Hávarðr Ísfirðingr**). **Nús jafnöndum angr-sólar[1] efni (at) ganga fram, þeims[2] vilja fremja[3] várar elds vígstemjendr[4]. (Menn) kveða nú orðit farit trausti Ísfirðinga, enn höggvit eirlaust[5] högg saklausra hjörs-Börva[6].**

1. *angr*, vík eða fjörðr (sbr. Kaupangr, Harðangr); víkrsól, gull; *jafnendr* gulls, mannkenning. — 2. *þeims* = þeim er. — 3. *fremja* = frama. — 4. *Vár*, Ásynja; *Várar eldr*, (líklega hér) bardagi; *Várar elds vígstemjendr* er þá mannkenning, þótt hún sé ekki rétt. — 5. *eirlaust*, vægðarlaust? — 6. *hjörs Börr*, mannkenning.

Nú er efni að ganga fram, þeim er vilja að bardagamenni vinni sér til frama. Nú segja menn Ísfirðingum gengið, enn höggvið skarð í lið saklausra manna.

11 (**Hávarðr Ísfirðingr**). **Hirðidraugar hvinnis sónar svells[1] hlógu þás[2] ísarn[3] nam bella[4] sœni[5] mínum. Nú tér þjóta annan veg í hverju blótsbörgs[6] bjargi, síz viðmiðjungar Þriðja[7] váru vegnir.**

1. *hvinnir*, úlfr; *sónarsvell*, blóð? *draugr* tré, drumbr, *hvinnis-sólarsvells-hirðidraugar*, hinir blóðþyrstu menn. — 2. *þás* = þá er. — 3. *ísarn*, járn. — 4. *bella*, gera ilt. —

5. *sæni* = syni. — 6. *blótsbörgr*, úlfr? — 7. *Þriði*, Áss; *viðmiðjungar Þriðja*, mannkenning.

Hinir dauðu menn hlógu að mér, þá er sonr minn var veginn. Nú þýtr annan veg í björgum, er þeir eru vegnir.

12 (**Hávarðr Ísfirðingr**). Vér skulum bíða heiman ór stað, Hallgrímr; hlít es vettugi (at) níta[1] oddhríð[2]; ek uggi ógnir seggja; enn víg þau es vér vágum falli gervöll í strá; ek vilda aldrigi gjalda geira gæti-áru[3].

1. *níta* = neita. — 2. *oddhríð*, bardagi. — 3. *árr*, sendiboði; *geira-gæti-árr*, mannkenning (*áru* er eignarfall fleirtölu af **árr**).

Vér skulum bíða hér, Hallgrímr; eigi dugir að kannast eigi við vígin; mér stendr ótti af óvinunum, en víg okkar skulu öll vera ógild og eg vil engan þessara manna bæta.

13 (**Hávarðr Ísfirðingr**). Vér eigum **vága** sólar þollum[1] þökk; ek ann ógólegum[2] œski-runnum[3]. Þann vissa ek mest alls manna fallinn at hlít; fyrðar[4] spyri vestan flest orðin fárleg andskotum.

1. **vága** er hér tilg. fyrir *víga*, sem Gísli Brynjólfsson hefir getið til; *vága* sól, gull; *þollr*, tré; gulls *þollr* mannkenning. — 2. *ógólegum* er tilg. G. B. fyrir *ógurlegum*, og kemr það heim við rímið, enn verðr eigi skiljanlegt; *ógólegr*, ljótr, getr ekki átt við sveinana, og þýðing Gísla Brynjólfssonar á *ógólegr* ‚ildebefaren' getr engri átt náð. — 3. *œski-runnar* er mannkenning, enn að eins hálfkenning, og vantar því líklega á hana. — 4. *fyrðar*, menn. Fyrri hlutr vísunnar er lítt skiljanlegr, þótt farið sé eftir tilgátum G. Br., og *at hlít* í síðara hlut vísunnar kemr og ekki vel heim við hitt.

Þann mann vissa eg fallinn svo, að bezt má við una; menn spyrji að vestan flest orð (fregn), sem eru fárleg óvinum vorum.

14 (**Hávarðr Ísfirðingr**). Valbrands sonum, viggja-Njörðum Þvinnils[1], varð at vanbundinn þvengr handan — þess mun minsk umb lengi, — þás, skerfoldar Gefn[2], skyldi hefna sonar míns á sumri. Garðr Gylfa jarðar[3] svall.

1. *Þvinnill*, sækonungr; *viggr* hestr; *viggja-Nirðir Þvinnils*, menn; annars er þessi kenning, eða 1. vísuorðið, að líkindum ekki rétt. — 2. *skerfoldar Gefn* er ekki nema hálfkenning, enn mun eiga að vera kvenkenning. — 3. *Gylfi*, sækonungr; *Gylfa jörð*, sjór; garðr *Gylfa jarðar*, bára.

Valbrandssynir vóru ekki lengi að leysa skóþvengi sína að handan, — þess mun lengi minzt — þá er, (kona?), hefna skyldi sonar míns á sumri. Sjórinn var úfinn.

15 (**Hávarðr Ísfirðingr**). Þat orð mun koma vestr ok vestan — sára ár[1] varð roðin — til oddregns þegna[2] Ísafjarðar, at gunnœringar[3] fœri handan til geiraglettu[4]; slíkt es vægr vöxtr í augum[5] Valbrands sonum.

1. *sára ár*, sverð. — 2. *oddregns þegnar* bardagamenn. — 3. *gunnœringar*, bardagamenn. — 4. *geiragletta*, bardagi. — 5. *vægr es vöxtr í augum* er líklega eitthvað afbakað.

Sú fregn mun berast vestr og að vestan til bardagamanna í Ísafirði, að hinir hraustu drengir fóru yfir Djúpið til bardaga. Slíkt vex eigi Valbrandssonum í augum.

16 (**Hásteinn Hrómundarson**). Vísan er prentuð í Landnámu, Rvík 1891, bls. 121. Þar er hún einnig skýrð,

og er ekkert þar við að athuga nema að *óbíðendum*, sem stendr í hdr., í síðasta vísuorði mun eiga að vera *óbíðingum*, enn hvorttveggja merkir hið sama.

---

# Viðbætir.

---

## Vísuhelmingr úr Snorra-Eddu.

Eftir **Hávarð Ísfirðing.**

Nús jódraugum ægis[1] arnar flaug, ok bauga,
hygg ek at heimboð þiggi hanga goðs[2], of vangi.

1. *ægis-jór*, skip; *draugr*, tré, drumbr; *ægis-jódraugr*, mannkenning. — 2. *Hanga-goð*, goð hinna dauðu, Óðinn.

Þessi vísuhelmingur verðr eigi fullskýrðr, af því að hinn helmingrinn er eigi til.

# Nöfn.

**Joh. A. Enander,** háskólakennari og fræðivinur í Vesturheimi, kemst svo að orði í bók sinni „Våra fäders Sinnelag“ (Stockholm 1894):

„Bókmenntir Norðurlanda í fornöld (hinar fornu íslenzku bókmenntir) lýsa dularfullum, rólegum hugsunarhætti, sem lítur inn á við. Hjá Grikkjum og Rómverjum má glögglega sjá allt efnið, en öðru máli er að gegna um norrænu bókmenntirnar. *Þær eru ótæmandi.* Frægur rithöfundur segir, að þær sjeu opt fremur huldar í forminu en að þær sjáist í gegnum það. — — Fræðifýsn forfeðra vorra lýsir sjer mjög vel í „söguskemmtan“ þeirra. Sögurnar segja frá merkustu mönnum, og *á meistaralegan hátt*, þannig að þær hvetja unglinginn til drengskapar og framtakssemi“.

Verð: 45 aur.

Íslendinga sögur.

16.

# Reýkdæla saga.

Búið hefir til prentunar
Valdímar Ásmundarson.



Reykjavík.

Kostnaðarmaður: Sigurður Kristjánsson.

1897.

# REYKDÆLA SAGA.

---

BÚIÐ HEFIR TIL PRENTUNAR
VALD. ÁSMUNDARSON.

REYKJAVÍK.
ÚTGEFANDI? — ADARMAÐUR: *SIGURÐUR KRISTJÁNSSON*.
1896.

# FORMÁLI.

**Reykdæla saga eða Vémundar saga og víga-Skútu** hefir verið gefin út tvívegis fyrr enn nú, af konungl. Fornfræðafélaginu 1830 og af Bókmentafélaginu íslenzka 1881. Dr. Finnr Jónsson hefir unnið að síðari útgáfunni, og er sagan hér prentuð eftir henni.

Af þessari sögu er til brot á skinni, sem er talið ritað um 1400, enn að öðru leyti eru að eins pappírshandrit til af sögunni, og eru þau ekki mjög frábrugðin hvort öðru. Skinnbókarbrotið er í Árna safni nr. 561, 4to, og eru á sömu bók Þorskfirðingasaga og Ljósvetningasaga. Brot þetta hefst í 13. kapítula, enn í niðrlag sögunnar vantar. Hefir dr. Hallgr. Scheving að gamni sínu fylt það skarð, svo að samsvarar að lengdinni því sem vantar. — Þessi kafli hljóðar svo:

*„Þóroddr réð þeim Illuga ok Birni at fara til Ölvis hins spaka, ok biðja hann at vera með þeim í atför við Skútu, ok gefa til ráð, at þeir fengi náð lífi hans. Enn at skilnaði segir Þóroddr þeim, hvers hann er víss orðinn af Þorgrími um híbýla skipan Skútu. Brátt eftir viðrtal þeira Þórodds fara þeir Þórissynir til Ölvis, ok bera þetta mál upp fyrir honum. Ölvir svarar: „At vísu mun ek víkjast undir nauðsyn ykkra, ok koma þeg-*

*ar mér þykkir tími til, enn fara ekki at sinni". Þeir báðu hann hafa þökk fyrir heityrði sín, ok váru með þeim góðar kveðjur at skilnaði. Eftir brottför þeira bræðra sitr Ölvir heima, til þess er dagr skemmist, ok nótt tekr at myrkva; þá býst hann heiman. ok bar ekki til tíðenda í ferð hans; kemr síð dags til þeira Þórissona, Illuga ok Bjarnar. Þeir fagna honum vel, ok var hann þar um nóttina. Enn at morgni, er þeir váru mettir ok búnir til ferðar, tók Ölvir svá til orða: „Ef ykkr er allmikill hugr at leita til hefnda við Skútu fyrir dráp Þóris flatnefs, föður ykkars, ok Þorgeirs, bróður ykkar, þá er nú ekki at fresta því lengr, ok því em ek hér kominn eftir ykkarri áskorun, at ek mynda vera með ykkr í atför við Skútu, ok gefa til ráð, at hann yrði veiddr. Er nú þungum steini ór götu velt, þar sem frændi ykkarr, Þóroddr goði, hefir gert ykkr kunna híbýlaskipán Skútu, svá þat mun ekki við nema, ef auðna vill falla til. Nú skulu vér hátta svá ferð várri, at vér komim ekki á Skútustaði, fyrr enn fólk alt er í svefni. Skulu vér hafa með oss kerti ok eldsvirki, ok fara til sauðahúsa Skútu, ok mun ek þar gæta jarðhússmunnans, enn þit bræðr skuluð við tendruðu ljósi stíga niðr í jarðhúsit, ok ætla ek ykkr bræðrum, at sæta áverkum við Skútu".*

Í þeirri útgáfu sögunnar, sem hér birtist, er engu breytt frá útgáfu Bókmentafélagsins, nema að bær Vémundar kögurs er nefndr *Öndóttsstaðir*, enn ekki Öndólfsstaðir, sem bærinn er nú nefndr, eða Öndórsstaðir, sem í handritum sögunnar stendr. Öndóttsstaðir er bær-

inn nefndr í fornu bréfi, sem er eldra enn pappírshandrit þessarar sögu, og er það því talið réttast.

Þó að hér sé um tvær sögur að gera, hefir þótt réttast, að nefna báðar einu nafni Reykdælasögu, eins og jafnvel er gert í sögunni sjálfri.

Reykdæla saga virðist vera fornleg og áreiðanleg, þótt hún sé auðvitað færð í letr mjög löngu seinna enn viðburðir þeir gerðust, sem hún segir frá. Hún segir frá mjög merkum mönnum og kemr allvel heim við aðrar sögur. Áskell goði er ágætr höfðingi og einna líkastr Ingimundi gamla. Vémundr kögurr er þar á móti miðlungi góðgjarn, enn vitr maðr og hraustr. Glúmr Geirason kemr talsvert við Noregskonungasögur sem skáld, og þótti Haraldi konungi Sigurðarsyni, sem sjálfr var skáld, mjög mikið til hans koma, sem ráða má af orðum þeim, er hann sagði við Stúf skáld: „Gott skáld er þú, ef þú yrkir eigi verr enn Glúmr“. Glúmr orti drápu um Eirík blóðöx og erfidrápu um Harald gráfeld, Gráfeldardrápu. Af vísum Glúms má sjá, að hann hefir verið meðal hinna beztu fornskálda.

Haukr Valdísarson lætr í Íslendingadrápu Glúm, enn eigi Þorkel bróður hans, eignast sverðit eftir Skefil dauðan. Hann kveðr svo:

Ár frák arfvörð Geira,
ylgr saddiz, vel fylgja
— menn vá Glúmr at gunni —
Gunnhildar bör kunnu:
Njörðr klauf Herjans hurðir
harða vitr á Fitjum,

hinn er mál af manni,
metins auðar, fekk dauðum.

Tímatalið í Reykdælasögu er eitthvað veilt, enn svo er um fleiri Íslendingasögur, og raskar það ekki sögulegu gildi þessarar sögu.

---

## TIMATAL.

Víg Áskels goða . . . . . . . . um 970.
Deilur víga-Glúms og víga-Skútu um 980—85.
Víga-Skúta veginn . . . . . . . . um 990.

# Reykdæla saga.

## I.

## Vémundar saga.

### Hér hefr sögu Vémundar kögurs.

Maðr hét Þorsteinn höfði. Hann bjó á Hörðalandi. Hann var faðir Eyvindar og Ketils hins hörzka. Þat var eitt sinn í tali þeira bræðra, at Eyvindr kvaðst heyra gott af Íslandi sagt, ok fýsti bróður sinn Ketil til Íslands ferðar með sér eftir andlát föður síns. Ketill vildi eigi fara, enn bað Eyvind svá vítt nema land, at þeim ynnist báðum vel, ef honum líkaði þar landskostir. Eyvindr fór til Íslands, og kom skipi sínu í Húsavík á Tjörnesi, ok nam Reykjadal upp frá Vestmannsvatni, ok bjó at Helgastöðum, ok þar var hann heygðr. Náttfari sá, er Garðari hafði út fylgt, hafði eignat sér áðr Reykjadal, ok markat til á viði, hversu vítt hann skyldi eiga; enn er Eyvindr fann hann, gerði hann honum tvá kosti, at hann skyldi eiga Náttfaravík, eða alls ekki. Þangat fór Náttfari.

Ketill fór til Íslands at orðsending Eyvindar bróður síns, ok seldi áðr jarðir sínar austr. Hann bjó fyrstr at Einarsstöðum í Reykjadal. Hann var faðir Konáls, föður Einars, er þar bjó lengi. Eyvindr átti mörg börn; synir hans váru þeir Helgi á Helgastöðum, er þeir eru við kendir — hann druknaði á Grímseyjarsundi, — ok Áskell goði, er bjó í Hvammi, faðir víga-Skútu ok Þorsteins. Dætr Eyvindar váru þær Þorbjörg, er átti Þormóðr ór Laxárdal, ok Fjörleif, er átti Þórir leðrháls son Þorsteins Gnúpa-Bárðar sonar. Þeira synir váru þeir Vémundr kögurr, Herjólfr, Háls, Ketill í Húsavík, Áskell ok Hávarðr, er bjó í Fellsmúla.

Eysteinn hét maðr. Hann var Mánason, ok *háleygskr* at kyni. Hann bjó í Rauðaskriðu við Fljótsheiði. Hann var ójafnaðarmaðr mikill. Mýlaugr hét nábúi hans. Hann bjó á Mýlaugsstöðum. Hann var barnfóstri Hávarðs Fjörleifarsonar. Mýlaugr var auðigr maðr ok síngjarn. Eysteinn fór til við sétta mann ok tók fyrir Mýlaugi fjögr mæli-hlöss skíðaviðar, ok hafði með sér heim, því at hann vildi eigi selja honum. Oft hafði hann fengit honum áðr við, ok hafði hann eigi fyrir goldit. Mýlaugr sagði til Hávarði, enn Hávarðr sagði til Áskatli goða, móðurbróður sínum. Áskell kvað Eystein eigi vera jafnaðar-mann Mýlaugs við at eiga, ok vildi hann sjálfr til vekja um málit við Ey-

stein, sem hann gerði um várit. Eysteinn lagði málit undir Áskel, því at hann var réttlátastr manna í sættargerðum, hverir sem í hlut áttu. Áskell gerði Mýlaugi jafnmikinn við, ok tólf aura silfrs fyrir sakastaði Þá var goldið silfrit þegar, enn viðrinn litlu síðar. Kvaðst Eysteinn eigi oftar skyldu undir Áskel leggja mál sín. Ekki taldi Áskell at því. Þat haust kom Þorsteinn bolstöng út í Húsavík, systurson þeira Áskels, ok átti í skipi. Hann fór til Hávarðs, ok lét bera varnað sinn til Eyjafjarðar, ok þótti ekki á verða, nema starf eitt, ok seldi því Eysteini ór Rauðaskriðu þrjú hundruð lérefta ok klæða fyrir tíu hundruð, ok bauð Eysteini at flytja til skips í Húsavík verðit, áðr fjórar vikur eru af sumri. Hávarði þótti þat í illa skuldastaði selt, þá er hann vissi, enn helzt kaup sem áðr. Enn er vára tók, þá heimti Þorsteinn at Eysteini. Hann kvað Þorstein eigi þurfa at annast um; ok annat sinn, er Þorsteinn kom at heimta at Eysteini, svaraði Eysteinn: „Ek hefi", segir hann, „selt öðrum mönnum léreftin. Nú gelzt mér seint af þeim, sem ek á at heimta at; enn verr hefir mér greiðst, enn ek hugða til, at kaupa við þik, því at léreftin váru verri, enn ek ætlaða". Þorsteinn kvað Eystein óspiltan varning tekit hafa, ok nú þykkir sinn veg hvárum þeira. Og þar kom nú mál þeira, at Eysteinn kvað þat

mundu bezt, at heimta ekki fyrir varninginn, ok láta þar niðr falla þat mál, sem nú var komit. *Þorsteinn fór nú og sagði Hávarði til svá búins.* Hávarðr segir, at nú fór sem hann grunaði, ok hann gat til, þá þegar, er Þorsteinn sagði honum kaup þeira, — „*ok* þat sýnist mér fyrir liggja, at léita til Áskels um þetta mál, sem öll önnur, þau er hans sómi við liggr ok frænda hans, ok er sá líkastr, at rétta þetta mál við Eystein“. Þorsteinn kvaðst eigi vilja kæra *fyrir* frændum sínum þetta mál, ok bauð nú Eysteini hólmgöngu, þá er hann varnaði honum gjaldsins. Tókst hólmgangan með þeim, ok varð hon með því móti, að Þorsteinn hjó skjöldinn af Eysteini, og nær undan honum fótinn. Tók hann þar þrjár merkr silfrs ok varning sinn allan. Fór hann nú utan. Þótti mönnum hann mikit vaxit hafa af máli þessu. Enn frá Eysteini er þat at segja, at fótr hans var græddr, ok gekk hann jafnan haltr síðan er hann hafði barizt við Þorstein.

2. Svá er sagt, at Háls Fjörleifarson gerði bú at Tjörnum í Ljósavatnsskarði, ok þar gerðist vinátta mikil í millum *ok* Eysteins í Rauðaskriðu. — Björn hét maðr. Hann var frændi þeira Fjörleifarsona. Hann kom einhverju sinni at hitta Háls Fjörleifarson, ok beiddi hann nökkurs tilbeina um ómegð sína, ok svá at gefa nökkut til utanferðar sér. Háls sagði, at hann

myndi annast ómegð hans, ef frændr hans vildi beina til utanferðar honum. Björn réð þat nú af, at hann fór til Reykjadals, at finna föðurfrændr sína; ok hann kemr at kveldi til Eysteins, ok varð þeim margt talat, ok ræddu um hverjar tiltekjur Björn ætlaði at hafa, ok þá spurði hann Eystein, hverju hann ætlaði at beina til utanferðar honum. „Viltu til vinna nökkut, þat er hæfilegt er, eða nenna“? Eigi kvaðst hann flugumaðr vilja vera, þó at Eysteinn vildi þat. Eysteinn svarar: „Ek skal gera þér kost einn fullgóðan. Þú skalt reka fimtán geldinga til Háls frænda þíns, þá sem ek á, ok þó með leynd, á þessarri nóttu, ok setja þar inn ok byrgja, enn kasta vöttum þínum ok staf hjá vökinni þar á tjörninni“. Björn fór með eftir ráðum Eysteins, ok rak fimtán geldinga til Háls frænda síns um nóttina á laun, enn Eysteinn fekk honum farbeina, ok fór hann utan austr í Fjörðum með ráði Eysteins. Enn frá því er nú at segja, hvað Eysteini gekk til þess, er hann bauð honum, at kasta niðr stafnum ok vöttunum hjá vökinni, at hann ætlaði, at menn skyldi hyggja, at hann væri druknaðr, ok ætla at hvarf hans myndi af því vera. Um morguninn eftir fór Eysteinn í rannsókn, ok með honum Þor*geirr* frá Ljósavatni, ok þeir kómu til Háls ok báðu þeir hann rannsóknar; var þeim þat uppi látit. Ok er

Eysteinn rannsakaði, fann hann geldinga sína fimtán í húsi Háls, ok beiddist sjálfdæmis af honum. Enn Háls brást ókunnigr við þetta, og vildi í engan mun festa grið fyrir þetta, er hann hafði engan grun um sauði Eysteins, þessa er þar váru komnir, eða hverju faraldi þeir hefði þar komit. Ok var þat nú hans órræði at leita frænda sinna, Áskels goða og Hávarðs, ok segir þeim til þessa, þat sem hann mátti af vita. Þeir svöruðu, at nú hefði svá farit, sem ván var at, at hann mundi eigi betr gefast honum enn öðrum. Þeir kváðu mjök í bætr bera, at hann hefði engu mátt á leið koma um þenna áburð, ok var nú sú ráðagerð Áskels, at þeir myndi utan fara báðir bræðr, Háls ok Vémundr — Þess var eigi langt at bíða, áðr enn fréttist hvarf Bjarnar, ok þótti mönnum þat með undarlegu móti vera. Ætluðu margir at þat myndi hafa saman borit hvarfit Bjarnar ok sauðanna Eysteins, ok kom þat mjök í huga mönnum einart, at eigi væri örvænt við féþurft Bjarnar ok grunnsæi, enn við illgirni ok slægð Eysteins, at þeir myndi með nökkuru móti hafa verit báðir at einu ráði; töldu eigi ólíklegt, at þann veg myndi Eysteinn þykkjast helzt mega reka svívirðingar sinnar, sem hann fekk af Þorsteini bolstöng, at láta frænda hans verða fyrir þvílíku ámæli, sem mörgum myndi þykkja líklegt vera, at Háls fengi af þeim hlut. Þótti

þat ok undarlegt, at hann færi svá djarflega með, ok gengi svá gegnt at í rannsókninni, nema hann vissi nökkut til áðr. Nú ferr málit til þings, ok lauk svá, at Háls varð sekr um sauðatökuna, fyrir því at Áskell vildi eigi svara fyrir hann.

3. Nú er at segja frá ferð þeira Háls og Vémundar, at þeir fóru utan, ok fundu Björn frænda sinn, ok spurðu, hverju gegndi um ferð hans; enn hann varð fár við komu þeira, ok fann þat til utanferðar sinnar, at hann kvaðst svá helzt mega forðast ómegð sína, at hann færi utan. Háls kvað þat mundu engu gegna. Björn sagði, hvernig farit hafði með þeim Eysteini, er hann hafði heitit honum at annast ómegð hans, ef *frændr* hans vildi nökkuru til beina til utanferðar honum, — ok nú segir Vémundr, at hann hafi ekki komit at finna þá, ok þykkjast þeir bræðr nú skilja, at hann myni eigi hit sanna uppi láta, ok leita nú eftir við Björn, þar til er hann segir hit sanna, hversu farit hafði með þeim Eysteini; ok nú tóku þeir Vémundr ok Háls Björn, ok fóru með hann á sínu valdi aftr til Íslands þegar hit næsta sumar, ok koma skipi sínu í Húsavík ok hafa þar Björn með sér. Þat var ráðagerð þeira Vémundar at leyna Birni, þar til er þeir fyndi Áskel goða. Háls sagði þá þegar Katli bróður sínum, er hann kom til skips. Nú láta þeir

skamt at bíða, áðr enn þeir fara á fund Áskels, ok segja honum, hvar nú var komit málinu, ok þykkir honum nú vel hafa vegnat, ef Háls mætti nú fá rétting síns máls, ok safnar nú at sér mönnum, þar til er þeir verða saman sex tigir, ok fara þegar til Eysteins, ok hugðust at koma þar á óvart. Enn þat bar svá til, at Eysteinn hafði þar eigi færa lið fyrir. Þeir Áskell ok frændr hans bera upp sitt mál, ok duldi Eysteinn alls um þat, at svá væri sem þeir sögðu. Þá var Björn til leiddr, ok sannar hann sögu þeira Áskels, ok eigi dylr Eysteinn at síðr, ok nú biðr hann liðs Þorgeir Þorkelsson ljósvetning. Enn hann sagði, at hann myndi eigi gott mál til bera, ok kvaðst þat vita, at Áskell myndi honum aldri lið veita um þetta mál. Áskell lét nú stefna Eysteini um illmæli þat, sem hann hafði við Háls um sauðatökuna, til alþingis. Engir menn urðu til at svara fyrir Eystein, ok nú verða þær málalyktir, at Eysteinn varð sekr, ok þá *er* þeir koma heim af þingi, þá reið Áskell þangat með flokk manna, ok ætlaði at taka hann af lífi. Enn í öðru lagi er þat at segja frá Eysteini, at honum hafði í hug komit, at eigi væri örvænt, at þvílíkar málalyktir yrði á þinginu, sem nú váru, ok honum þótti þurfa nökkurra órræða í at leita, ef duga skyldi, ok kom þat í hug, at eigi myndi þeir gefa honum langa

tómstund til ráðagerðar, þegar þeir kæmi heim af þinginu, ef hann sæist eigi áðr fyrir; ok nú var þat hans órræði, at hann samnaði saman öllu ganganda fé, því er hann átti, ok rak inn í húsin, ok brendi upp alt saman, bæinn ok fénaðinn, ok svá hjónin öll, þau sem verit höfðu hjá honum. Enn frá því segja menn ýmist, hvat honum sjálfum varð fyrir. Er þat sumra manna sögn, at hann hafi farit utan suðr á Eyrum, ok hafi sézt í Vík austr, ok þaðan farit suðr til Danmerkr. Enn sumir segja, at hann myni hafa brunnit inni með hjónum sínum; ok vitum vér eigi, hvárt honum hefir nú heldr at bana orðit, enn jarðir þær, sem þar urðu eftir, urðu nú sektarfé.

4. Hánefr hét maðr. Hann bjó í Óþvegins-tungu. Fátt verðr frá honum vel sagt í þessarri sögu, ok var hann óorðsæll maðr. Hann græddi mikit fé, enn þó heldust illa hjónin hjá honum. Svá er sagt, at Hánefr fór til fundar við Vémund kögur, ok bauð honum at fóstra Þorkötlu dóttur hans, ok ætlaði hann sér þat mjök til trausts við aðra menn. Vémundr var engi jafnaðarmaðr kallaðr, ok vænti Hánefr af slíku, at hans hlutr myndi síðr fyrir borð borinn verða, þó at hann bæri eigi ávalt gott mál fyrir hendi. Þat er nú at segja, at Vémundr þá barnfóstrit, ok ferr Hánefr nú heim, ok þykkir allgóð ferðin. Nú verðr Áskell var við þetta, ok þótti

kynlegt, hví hann vildi þiggja slíkt at jafnskitlegum manni, sem hann kvaðst hyggja, at Hánefr væri; lét ok þat líklegt þykkja, at hann myndi af honum nökkut ilt hljóta. Vémundr kvað eigi vera, sem hann sagði; lét Hánef vera vingóðan mann, ok kvað hann hafa sér marga góða gripi gefna, ok kallaði sér líka vel við hann, ok kvað hann vera góðan dreng. Áskell kvað hann mundi eigi langt líða láta, áðr enn hann sýndi honum drengskap sinn; — enn hann þykkist nú hafa fengit sér örugt traust", — ok nú hætta þeir umræðunni.

Þorleifr hét maðr; hann var kallaðr melrakki. Hann kemr til Hánefs ok skorar á hann til vistar. Þá hafði húskarl Hánefs í brott hlaupit skömmu áðr, ok tekr Hánefr við Þorleifi. Þat var siðvandi Hánefs, at hann lét hvern dag ganga í haga til sauða sinna, ok lét telja þá.

Maðr hét Hrafn. Hann bjó at Lundarbrekku í Bárðardal. Hann var góðr bóndi. Svá er er sagt, at Hrafni hurfu geldingar sextán, ok spurði ekki til, ok þóttust menn eigi vita, hvat af væri orðit. Þat er at segja, at Þorleifr melrakki varð varr við, at Hánefr hvarf *mjök* oft ór hvílu sinni um nætr. ok þar kom, at hann forvitnaðist um, hverju gegna myndi. Ferr hann nú út, ok leitar Hánefs, ok í einni brekku fellr hann. Ok er hann stóð upp, er blóð á hendi honum, ok nú hyggr hann at, hvar hann væri

skeindr, er hann sá sik blóðgan; ok nú verðr hann eigi þess varr. Enn nú grunar hann, hverju gegna myndi. Þar váru hrísrunnar nökkurír, sem hann var, ok þar hittir hann jarðhús munna. Þar var hann veg um búit, at þar var borinn fyrir hrísflekkr, ok stungit í gegnum hríslum, ok var svá á at sjá, at heilir runnar stæði, of eigi var alt at gengit. Nú fór hann í jarðhúsit, ok þreifast þar fyrir. Hann hittir þar gærur, ok sauðarhöfuð grábíldótt fann hann þar eitt, ok var þat mjök auðkent. Þat tók hann á brott, ok þekr aftr sem áðr var eftir sér. Síðan kendi hann reykjarþef, ok því næst sá hann eld ok ketil yfir eldinum, ok var þar maðr hjá, ok kennir hann hér Hánef, húsbónda sinn, ok gengr nú at fram at eldinum, ok lætr illa at Hánef, er hann er at slíku um nætr. Hánefr kvað húsfreyju rekkjuilla, enn sagði sér ant um daga, svá at hann mætti þá eigi at vera, ok nú býðr hann Þorleifi eldsverk, enn hann kvaðst þat ekki vilja, ok segir, at hann myni eigi lengr með Hánef vera; segir sér leiki grunr á um mál hans, *at* ekki *sé* allfrægilegt, — ok þar skilja þeir. Ferr hann nú þar til er hann kemr til Hrafns, ok varðveitti höfuðit, þat sem hann fór með. Vel fagnar Hrafn honum, ok frétti hví hann færi frá Hánef. Þorleifr taldi hvárutveggja þeira geðlausan, ok því hefði hann í brott farit. Nú varð

Hrafni rætt um sauðahvarfit, ok varð þann veg í orðum Þorleifs, at honum þótti menn engan gaum at gefa slíkum hlutum, — „er ekki skal eftir leita þvílíkum hvörfum, er svá eru stödd“. Hrafn spurði, hvárt hann vissi nökkut til, hvert eftir myndi vera at leita. Ekki vildi hann þó segja Hrafni greinilega til, áðr enn Hrafn gaf honum hundrað silfrs, ok nú sýnir Þorleifr honum bæði höfuðit ok markit, ok kendist Hrafn þat. Nú fara þeir til jarðhússins, ok fundu þar ekki. Þeir þóttust vita, at Hánef myndi hafa grunat, at Þorleifr hafði snefil af haft, ok hafi því á brott borit. Þeir Hrafn hittu nú Hánef, ok báru þetta á brýn honum, at hann man vera nökkurs af valdr um sauðatökuna, enn hann duldi alls um þat. Þorleifr segir Hánef grun þann, er hann hafði af, ok eigi dylr Hánefr at síðr. Hrafn bauð honum at hafa jafnmarga sauði aftr, sem hann hefði tekit frá honum. Eigi vildi Hánefr þat, ok nú skiljast þeir. Fara þeir Hrafn heim, ok sannlega þykkist Hrafn nú vita, at Hánefr hefir stolit frá honum geldingunum. Þat er nú at segja, at Hánefr ferr til fundar við Vémund vin sinn, ok segir honum illmæli þat sem haft var á honum. Vémundr spyrr, ef hann væri nökkurs af valdr um þetta mál, enn Hánefr kvað þat fjarri fara, ok bað nú Vémund at styrkja sitt mál. Hann kvað svá vera skyldu.

5. Maðr hét Steingrímr Örnólfsson, Þórðar

sonar slítanda. Hann var mikill maðr fyrir sér, ok góðr bóndi. Hann var kvángaðr maðr, ok hét Ástríðr kona hans.

Þorbjörn hét maðr, er bjó á þeim bæ, er í Árskógi heitir; þat er á Gálmaströnd. Þorbjörn átti tvá sonu, er við þessa sögu koma nökkut. Hét annarr Steinn, enn annarr Helgi. Þeir váru efnilegir menn, ok enn mun sagt verða frá þeim síðar meir í sögunni. Dóttir Þorbjarnar hét Ástríðr. Þá konu átti Steingrímr, er fyrr var nefndr. Steingrímr bjó at Kroppi í Eyjafirði. Var sagt, at hann væri frændi Hrafns, er bjó at Lundarbrekku í Bárðardal.

Nú er þat fyrst at segja, at Hrafn sendi Þorleif melrakka til Steingríms, frænda síns í Eyjafirði, ok vildi ekki hætta honum þar með sér, ok kvað hann vera góðs verðan af sér, svá sem honum hafði drengilega farit í málum þeira Hánefs. Kvaðst hann eigi vilja, at hann hlyti þar ilt af. Segir, at hann mun koma um vetrinn, at finna hann. Þorleifr kemr nú til Steingríms, ok tekr hann vel við honum at orðsendingu Hrafns. Er hann nú með honum. Um vetrinn finnast þeir frændr, ok er þat ráðagerð þeira, at Hrafn skyldi selja jarðir sínar þar norðr, ok fara síðan vestr í nánd Steingrími, ok stefna Hánef um sauðatökuna, enn þá kveðst Steingrímr vilja taka við málinu síðan. Nú fór Hrafn svá með, sem honum var ráð til gefit, at

hann stefndi Hánef um várit, áðr *enn* hann fór í brott þaðan ór sveit með alt sitt í Eyjafjörð. Enn frá því er nökkut at segja, hvern veg Hánef brá við stefnuna, at hann fekk sér sjálfr hest, ok reið þegar á fund Vémundar vinar vinar síns, ok segir honum, hvar nú var komit málinu, ok nú lætr hann á sannast fyrir Vémundi, at hann er valdr at sauðatökunni, ok biðr hann nú ásjá nökkurrar. Vémundi þótti nú illa, at Hánefr duldi hann fyrr sauðatökunnar, ok sagði, at nú þætti honum verra við at eiga, er hann hefði eigi áðr vitat. Enn þó er svá sagt, at Vémundr tekr handsölum á öllu fé hans, enn hefði heim dóttur sína. Nú verðr Áskell skjótlega varr við þetta, ok býðr hann Hánef til sín, ok þótti hann vera þræls efni; segir nú, sem fyrr, at ilt myni af honum hljótast; kvað eigi ólíkt því farit hafa, sem hann gat til fyrir öndverðu, þá er þeir Vémundr töluðust við, þá er hann þá barnfóstrit af honum.

Steingrímr fór nú til alþingis með málit, og endar svá, at hann Hánefr verðr sekr gerr um sauðatökuna.

Hrói hét maðr. Hann bjó norðr í Öxarfirði á þeim bæ, sem heitir í Klifshaga. Hann var mikill bóndi fyrir sér, ok sagt er, at Steingrímr gaf Hróa hundrað silfrs, til þess at drepa Hánef, ef Vémundr sendi hann í Raufarhöfn til skips, — „því at hann vill koma honum þar

utan á Sléttunni“. — Enn Steingrímr kvaðst mundu varða at Gásum, at eigi kæmist Hánefr þar utan. Ok þetta vill Hrói, ok fara menn nú heim af þinginu. Vémundr ferr Sandleið heim bús síns á Öndóttsstaði í Reykjadal, ok hann kom í Hraunsás hjá Mývatni. Þar bjó kona sú, er Þorgerðr hét. Hon átti son þann, er Þorkell hét. Hann var ungr maðr ok fræknlegr. Vémundr bað, at son hennar færi norðr á Sléttu með honum til skips; kvað sér gott þykkja, at slíkir menn færi með honum, sem Þorkell væri, — „er svá eru vænlegir“. Hon leyfir, ok þykkir allmikit fyrir, enn þó ferr hann með Vémundi. Nú ferr Vémundr at hitta Áskel frænda sinn, ok ræðst um utanferðina Hánefs við hann. Enn Áskell latti utanferðina, ok bauð honum þar at taka við Hánef, ok sjá þat ráð fyrir honum, sem honum bezt líkaði; segir honum þann grun, sem hann þóttist vita um ráðagerð þeira Steingríms ok Hróa í Klifshaga, enn kvað enga von, at hann myndi á brott komast í Eyjafirði, svá at Steingrímr yrði ekki var við. Vémundr kveðst þat eina vilja, at koma honum á brott. „Engan hlut vil ek í því eiga“, segir Áskell, „ok far þú með, sem þú vill, enn mikit ilt mun af Hánef hljótast“. Vémundr sendi orð Háls bróður sínum, at hann komi á hans fund. Þá kom honum þat í hug, at eigi myni ráðit, hversu menn vikist við um orðsending hans. Ok því

gerir hann þat ráð heldr, at sendimaðr beri orð Áskels þeim mönnum, sem hann vill til nefna. Hann sendi mann til Þóris geitskeggs, er bjó í Laxárdal á þeim bæ, er hét í Holti. Þórir bjóst til sels, þá er sendimaðrinn kom. Þórir neitti ferðinni áðr enn orð Áskels kómu til, enn þá var hann þegar búinn. Ljót at Þverá í Laxárdal hitti hann ok; var hann sem óðast at skálasmíð; ok hinn þriðja Þórodd harðjaxl á Mánahjalla. Hann var enn í selför. Þessir köstuðu þegar niðr verki sínu, er Áskels orð kómu til, enn eigi fyrr. Þessir menn allir fara nú með Vémundi, ok er Hánefr í för með þeim. Þeir váru átján saman ok fara nú síðan þann veg sem leiðir lágu; taka gistingarstað í Reykjahverfi með þeim manni, er Geirrekr hét, ok var vinr Vémundar. Hann bauð at hafa Hánef þar á laun, til er skip kemr náðulega at, svá at honum mætti utan koma, ok kvaðst þat þykkja ráðlegra, enn sjá meðferð, er Vémundr ætlaði at hafa, ok sagði, at Hrói í Klifshaga hefði fé til tekit at drepa Hánef af Steingrími, ef honum gæfist færi á, — „ef þangat er fars leitat, sem þú ætlar nú til, ok því einu hefir hann þar um játat, at hann mun þat gjarna enda vilja, ef hann má því á koma“. „Hitt er líkara“, segir Vémundr, „at hann gefi at þessu engan gaum, ok munu vér fara þann veg, er vér höfum áðr ætlat“. „Þú munt því ráða“, segir Geirrekr,

„ok annan veg mun reynast, enn hann Hrói myni láta hjá sér líða þat, sem hann er heitbundinn í við vini sína". — Þeir Vémundr kögurr fara nú í Öxarfjörð, ok yfir Jökulsá at ferju hjá Akrhöfða. Sá maðr hét Þórðr, er þar bjó. Þar hafa þeir dagverð at Þórðar. Svá er sagt, at Þórðr átti þræl, er . . . . var nefndr. Hann hafðist þat at um daginn, er þeir Vémundr kómu, at hann ók heim viði. Ok þegar er þrællinn varð varr við, hverir komnir váru, þá veltir hann af hlassinu; síðan tekr hann á rás mikla, ok rennr þar til er hann hitti Hróa í Klifshaga, meðan þeir Vémundr mötuðust, ok nú segir hann Hróa, at Vémundr var kominn í Akrhöfða við átjánda mann, ok þat, at þar var Hánefr í för; ok kvaðst þræll-inn vilja nú launa brókavaðmálit, er hann hafði gefit honum. Hrói sendir þrælinn at vita, hvára leið þeir færi, hit fremra eða hit efra um hálsa. Þórðr í Akrhöfða bauð Vémundi at sitja þar, ok sagði þat nú um þrælinn, at hann hefði í brott hlaupit, þá er þeir höfðu komit, ok kvaðst ætla, at hann myndi hafa farit til Hróa ok gert hann varan við kvámu þeira. Vémundr vill fara, sem hann hefir ætlat, ok kvað Hróa ekki mundu þykkja undir um ferðir hans. — Þat er nú at segja, at Hrói safnar liði, ok hefir þrjá tigu manna. Áðr enn hann fór heiman, vildi fóstra hans þreifa um hann, ok þótt-

ist hún þá gerzt vita, hvern veg honum mun farast. Hon finnr á fæti honum, enn annarsstaðar þótti henni vel vera.

6. Nú fór Hrói með föruneyti sínu, þrem tigum manna, ok sátu fyrir þeim Vémundi í einstigi nökkuru. Höfðu þeir eigi lengi þar verit, áðr enn Vémundr kemr með flokk sinn at einstiginu, ok nú hlaupa þeir Hrói upp fyrir þeim, ok biðr hann Vémund nú, at hann fái Hánef í hendr þeim, — „ok far aldregi með slíkt illmenni, heldr láttu mik sjá fyrir honum“, segir hann, „þat er mér líkar“. „Nei“, segir Vémundr, „eigi mynda ek þat vilja, Hrói, at þú kæmist svá auðvellega at hundraðinu því, sem þú tókt af Steingrími til höfuðs Hánef, at ek selja hann nú þegar fram þér í hendr. Verðið þér at sækja eftir betr, ef þér vilið“, segir hann. Nú slær þegar í bardaga með þeim, ok skýtr Vémundr þegar spjóti til Hróa ok í rist hans, enn Hrói sendi þegar aftr spjótit til Þorkels ok í gegnum hann. Enn hann var sonr Þorgerðar í Hraunsási. Þóroddr harðjaxl vá Helga bróður Hróa. Þat er nú sagt, at þeir vildu aftr hverfa, Þóroddr ok Hánefr, enn Vémundr vill þat eigi; ok nú kemr þar Áskell við þrjá tigu manna, ok vildi sætta þá. Er svá sagt, at hann fór þegar, er hann spurði atferðina Vémundar, ok þótti þess eins ván vera, at eigi kæmi þeir fram skemdarlaust ferðinni

fyrir Hróa, ok kallar nú mikit at orðit, ok kvað þó þá betra at sættast, enn síðar. — Nú kemr þar ok til fundarins sá maðr, er Þórhallr hét. Hann bjó í Hafrafellstungu, góðr bóndi ok skilríkr. Hann var með þrjá tigu manna. Hann gerir nú tvá kosti. Bað þá at gera annathvárt, at kjósa hvárn þeir vildi, at þeir hætti at berjast eða hann mun ráðast til bardagans með þeim — „ferr þá sem auðið verðr. Ok nú láta þeir af at berjast. Svá er sagt, at fallnir váru af liði Hróa Helgi bróðir hans og þrællinn, enn af Vémundi Þóroddr harðjaxl, ok Þorkell. er fyrr var getit. Hánefr var ok fallinn; þótti þat fám mönnum skaði, þó at hann væri drepinn. Nú er þegar slegit í sætt málinu með því móti, at Áskell skal gera um þeira í millum. Sú var gerð Áskels, at vígin skulu á standast Þorkels ok Helga, bróður Hróa, Hánefs ok þrælsins, enn Þórodd skal bæta hundraði silfrs. Land var goldit í Reykjahverfi, ok váru þat ráð Áskels. Eru þeir nú sáttir eftir þetta, ok fara nú hvárirtveggja til sinna heimkynna. Nú segir Áskell, at nú hefir því nær farit, sem hann gat til, ok þótti þessi för betr ófarin. Vémundr kvað hvern sínum forlögum fylgja verða, sagði nú hváratveggja mega vel við una sinn hlut, ok segir, at þá mun hverr deyja, er feigr er.

7. Þá gerði vetr mikinn þar eftir hinn næsta, ok eiga þeir fund Reykdælar at Þverá,

at Ljóts hofgoða, ok þat sýndist mönnum ráð á samkomunni, at heita til veðrabata. Enn um þat urðu menn varla ásáttir, hverju heita skyldi. Vill Ljótr því láta heita, at gefa til hofs, enn bera út börn ok drepa gamalmenni. Enn Áskatli þótti þat ómælilegt, ok kvað engan hlut batna mundu við þat heit. Sagðist sjá þá hluti, at honum þótti líkara til, at batna myndi við ef heitit væri; ok nú spyrja menn hann, hvat þat væri; enn hann sagði, at ráðlegra væri, at gera skaparanum tígn í því, at duga gömlum mönnum, ok leggja þar fé til, ok fæða upp börnin. Ok svá lauk nú þessu máli, at Áskell réð, þó at margir menn mælti í móti í fyrstu; ok öllum þeim, er réttsýnir váru, þótti þetta vel mælt.

Einhverju sinni kom Vémundr at máli við Áskel, ok bað hann ljá sér ferju út til Flateyjar eftir veiðiskap. Kvaðst hann bæði mundu flytja at Áskatli ok sér. Hann sagðist ljá ferjuna þegar er hann vildi. — Áskell átti þar mikil föng í eynni, ok hafði þann mann settan til að geyma, er Kálfr hét. Ekki er hann sagðr mikilmenni. — Nú ferr Vémundr, þar til er hann hittir Kálf, ok biðr hann at greiða sér föng þau, er Áskell átti í hans varðveizlu, ok kvaðst vera eftir sendr. Kálfr svaraði, at hann kvaðst selt hafa föngin þeim ór Árskógi, Þorbirni ok sonum hans, ok sagði nú Stein nýfarinn á brott, ok at hann hefði kú viðtekit af

þeim. Vémundr sagði: „Þá varð ek heldr til seinn; enn þat væri maklegt, at ek dræpa þjóf þinn, ok mættir þú þann veg ekki svíkja fleiri góða menn sem Áskel, ok muntu vera hinn versti maðr“. Kálfr svarar, at hann ætti ekki refsing á þessu, — „lát mik fara á fund Áskels, ok vil ek gjarna, at hann geri minn hlut þann sem hann vill“. Nú fara þeir á fund Áskels, ok segir Vémundr honum þat sem um var. Enn Áskell sagði, at ekki skyli þeir um þetta deila þurfa, ef verðit gyldist; — „vil ek nú“, segir Áskell, „gefa þér, Kálfr, kúna“, — ok biðr hann nú afla sér heyja um sumarit, ok sækja sér aðra kú heim til sín, ok kveðst þá vilja gefa honum, ok kendi sér völd um þat harðrétti, er hann hafði þolat af Vémundi, ok virði þat til várkunnar við Kálf. Ok jafnan sýndi Áskell þat, at hann var fám mönnum líkr sakar réttdæmis, er hann hafði manna í millum, ok drengskapar við hvern mann.

8. Annat vár bað Vémundr Áskel ferju sinnar til Grímseyjar á reka þeira Áskels Sá maðr er nefnd Máni, er geymdi rekann, þann er Áskell átti þar. Ok nú segir Áskell Vémundi, at hann hefði mælt við Mána á várþingi, at hann skyldi selja rekana, ef hann gæti, enn ef nú væri eigi selt, þá skyldi Vémundr með fara. Vémundr kom nú til Grímseyjar, ok dró upp skip í varar Áskels; enn þar lá skip

fyrir, ok tekr Vémundr þat ráð, at hann hratt út skipinu, ok lét fljóta um íla. Gengr síðan til Mána ok spyrr eftir föngum, enn Máni kvaðst selt hafa, sem Áskell skipaði áðr. Vémundr segir, at hann var nú eftir sendr fanginu, ok kveðr Mána nú illa hafa með farit, ok vill hann þá enn eigi fara erendislaust; tekr síðan hval fram á ferjuna, er þeir áttu feðgarnir ór Árskógi, ok í því bili kom þar Steinn í eyna, ok mæltust þeir við nökkur orð, ok vill Steinn eigi róa eftir honum, ok skiljast þeir nú at sinni. Nú kemr Vémundr kögurr á fund Áskels, ok segir honum hversu farit hafði, ok bauð honum af fanginu slíkt, er hann vildi. Lét Áskell illa yfir ferðinni, ok kvaðst engan hlut vilja hafa af því, er Vémundr stæli, enn sagði Mána hafa svá með farit, sem hann hafði skípat honum, ok segir, at Vémundr vill þat oft ónýta, sem hann leggr til með honum, þótt honum gegndi hvergi verr þat at hafa, ok nú segir Vémundr, at eigi skal hann utan hafa flutt farminn til þess at engi njóti; lætr flytja í bú sitt; segir at nýta skal hann fangit, þó at Áskell vili eigi hafa. — Nú kemr Steinn at hitta Steingrím, mág sinn, ok segir honum þau óskil, er þeim feðgum váru ger af Vémundi um hvaltökuna. Steingrímr kveðr þá skulu gera eftir dæmum Áskels, ok segir, at þá skyldi ekki á skilja um hvalþjósir nökkurar, ok bað þá láta vera kyrt.

9. Þat er nú at segja, at skip kom í Eyjafjörð eitthvert sinn við Knarrareyri. Þat skip var viði hlaðit at miklum hluta; ok annat skip kemr at Gásum, mjök í þat mund sem hitt fyrra. Herjólfr frá Mývatni ok Vémundr bróðir hans koma til kaupa. Herjólfr átti skála á velli, ok vildi kaupa til góðan við, ok bauð nú um Vémundi, at vera fyrir sína hönd. Hann ferr nú ok falaði viðinn at austmanni fyrir Herjólf, ok þar var með kjörviðr, er hann vildi kaupa, ok var hvárrtveggja góðr viðrinn, ok nú segir austmaðrinn, at Steingrímr frá Kroppi hefir áðr *varðað* viðinn fyrir þrjú hundruð einlit, enn hefði goldit áðr fyrir kjörviðinn í öðru lagi sex aura. Vémundr helt enn fram málinu, ok bauð hann hálft verðit mórent fyrir viðinn, enn alt mórent fyrir kjörviðinn. Sagði honum eigi verra við sik at kaupa, enn við Steingrím, — „enn hefir þó verðit minna fyrir". Austmaðrinn kvaðst mundu hafa selt honum, ef hann hefði fyrr komit, með þvílíku verði, sem Steingrími, enn segist nú ekki taka litla mútu, — „til at bregða þessu kaupi mínu, þar sem ek hefi orðit áðr á sáttr við annan mann". Nú sér Vémundr, at hann fær ekki at gert at svá búnu, enn vildi þó fyrir hvern mun fá viðinn keyptan. Ok nú kaupir hann at einum þræl ok gefr honum til eyri silfrs, at hann segði í hávaða þar við skipit, at Steingrímr

hefði keypt við at Gásum, ok hann myndi nú ekki þessa viðar þurfa, er hann hefði þar áðr varðat fyrir sína hönd, ok þegar er sjá saga kemst við veðri þar at skipinu, þá keypti Vémundr þá þegar viðinn, þann er hann hafði áðr falat. Ok nú segir hann Herjólfi; enn hann vill eigi hafa þenna við, er keyptr var í brigð við annan mann, ok kveðst munu ná enn þeim viði, er menn hefði eigi áðr keyptan. Vémundr segir, at honum líkar þat vel, þótt hann vili eigi hafa viðinn; kvað ósýnt, at betra myndi hann við taka, eða betri kaup á fá, enn sá var, *er* keyptr *var* þvílíku verði. Herjólfr kvaðst betra þykkja, þótt hann fengi harðan kost á um viðinn, ok væri ekki tvímæli á síðan, hvárt hann ætti eða aðrir menn. Vémundr kvað því margan lítilmenni vera, — „at sér lætr alt í augum vaxa, þótt smátt komi til“. Vémundr geldr þegar fyrir viðinn, ok þá lætr hann viðinn þegar heim flytja. Svá er sagt, at nú þrýtr hrossin fyrir þeim, ok er kjörviðrinn eftir í Hnjóskadal á Vetrliðastöðum við Þingvað, enn annarr komst heim. — Nú verðr Steingrímr þessa brátt varr, hvern veg farit hefir um viðinn, ok segir at hann myndi ekki kunna austmann um þetta, ok þótti honum hafa vel farit, ok eigi vill hann hafa verðit, er hann hafði reitt fyrir kjörviðinn. Kvaðst ann-

athvárt skyldu missa hvárstveggja, eða hafa allan viðinn þann er hann hafði keyptan.

Svá er sagt, at Steingrímr sendi Þorleif melrakka ok Hrafn verkstjóra sinn at vitja viðarins, hvárt Vémundr hefði látit heim draga viðinn; ok nú er ekki at segja fyrr frá þeira ferð, enn þeir koma til Þingvaðs, ok finna þar þræla Vémundar. Er sá sagðr fundr þeira, at þeir Þorleifr drepa þræla Vémundar, enn taka á brott kjörviðinn, ok hafa heim með sér, ok segja Steingrími, hvat þeir hafa at gert, enn hann lét vel yfir þeira ferð, ok kvað þá ekki skulu síns í varða um þetta mál. — Nú er þat at segja þessu næst, at Vémundi þykkir mjök seinkast heimkoma þrælanna, ok ferr nú síðan at leita þeira, ok finnr þá við Þingvað drepna ok hulda með viðum, ok nú sér hann, at brott er kjörviðrinn. Nú bregðr honum mjök í brún. Ferr nú þegar at finna Áskel; kvaðst eigi una við svá búit, at eigi kæmi hér nökkut fyrir, ok segir honum nú þat sem á var orðit. Áskell segir, at varla sýnist honum þann veg. Kvað ekki meira at orðit, enn honum þótti ván at, svá illa sem Vémundr hefði þetta mál upp tekit at öndverðu fyrir viðakaupit. Vémundr bað nú Áskel at eiga hér nökkurn hlut í, svá at þetta mál mætti til skila ganga, svá at eigi hlytist verra af, enn nú er orðit.

10. Þat var sagt, at á Möðruvöllum bjó Ey-

jólfr Valgerðarson. Sendir Áskell honum orð, at hann komi til móts við hann at Tjörnum í Ljósavatnsskarði, ok vildi at þeir semdi þetta mál milli þeira Steingríms ok Vémundar; ok þótti, sem minna myndi af verða, ef þeir hittist eigi sjálfir, er hvárrtveggja var kappsmaðr mikill, enn miðlungi góðgjarn. Ok sýndist þat sáttvænlegra, at þeir Eyjólfr forvitnaðist af Steingrími, hvárt hann myndi vilja una við svá búit, ok at Eyjólfr skipaði málum fyrir hans hönd, sem honum líkaði, enn Áskell taki mál fyrir Vémund. Enn Steingrímr kvað þá allvel komit sínu máli, at Eyjólfr sæi fyrir, ok setti niðr, sem honum líkaði.

Ok nú finnast þeir at ákveðinni stundu, Áskell ok Eyjólfr, ok ræða mál með sér ok var sú gerð þeira, at jöfn skal vera kjörviðar takan, er hvárr hafði tekið frá öðrum, ok þræla drápit, er heimamenn Steingríms höfðu drepið við Þingvað. Enn svo er sagt frá orðum Vémundar, þá er hann vissi gerðina, at hann kvaðst eigi mundu rjúfa gerð þeira, enn sagði þó þat með, að hann þóttist ekki hafa fyrir þrælana sjálfa. Nú býðr Áskell honum af sér at þiggja hvárt er hann vill, fé fyrir þræla sína eða þrælana sjálfa. Enn Vémundr kvaðst hvártki af honum þiggja vilja, fé né mansalsmenn, ok kvaðst heldr við svá búit una mundu, sem honum var þá ætlað.

11. Þat er nú at segja, at Háls kemr á fund

Áskels frænda síns, ok segir at hann vildi láta biðja konu til handa sér. Áskell spyrr, hvar hans hugr leikr á um þetta mál. Háls svarar, at hann vill fá þeirar konu, er Helga heitir, ok var Grana dóttir, er bjó á Arnarstöðum í Eyjafjarðardölum, ok biðr Áskel at vera fulltingismann þessa máls fyrir sína hönd. Ok Áskell ferr með Hálsi, ok vekr upp bónorðit við Grana ok bað hann gera sinn vilja um þetta mál, ok gefa Hálsi konuna. Grani svarar, at Áskell skuli ráða þeim nökkura staðfestu ok vera þeim jafnan ásjáandi; lét þess þurfa mundu fyrir sakar ofstopa Háls ok hlutdeilni. Ok nú takast þessi ráð, ok réð Áskell undir þau Helgastaði. Tókust nú ástir með þeim, ok váru þau þó eigi samlík í lundarfari.

Nú er þat fyrst at segja, at Hrafn á Hóli í Kræklingahlíð skyldi fá dóttur þess manns, er Atli hét; hann bjó á Grund í Bárðardal; ok nú biðr Hrafn, at Steingrímr fari með honum í brúðferðina, ok svá gerði hann. Fara nú til þess er þeir koma til Atla. Sá maðr er nefndr til sögunnar, er Örnólfr hét; hann var kallaðr hrella; hann bjó á þeim bæ, er heitir á Jarlsstöðum. Örnólfr var maðr auðigr at gripum ok lausafé. Þat er sagt, er hann var at brullaupinu er Atli gifti dóttur sína, at Steingrímr falaði yxn tvau rauð at Örnólfi sex vetra gömul; þat váru góðir gripir; enn hann

mat yxnin fyrir fimm hundruð. Enn Steingrímr bauð við stóðhross, ok varð kaup þeira, at Steingrímr skyldi gefa til hálfa mörk silfrs, at hann næði kaupinu. Eigi vildi Steingrímr hafa á brott yxnin, fyrr enn Örnólfr sæi hrossin. Steingrímr sendir nú húskarla sína tvá, at færa Örnólfi hrossin, ok hafa þeir nú með sér á brott yxnin, ok ætluðu heim með at fara til Steingríms. Þeir koma til Lauga í Ljósavatnsskarði um kveldit, ok setja inn yxnin, ok eru þar um nóttina. Enn þá var haustboð undir Felli at Vémundar, ok kómu þangat göngukonur tvær, ok sögðu Vémundi yxnakaupit. Nú kemr Vémundr at máli við Háls, ok bað hann at halda þar nú háttum at boðinu, enn hann kveðst eiga heimanferð fyrir hendi. Hann fór nú við fjórða mann á Jarlsstaði til Örnólfs, ok kveðst vilja kaupa yxnin til þess að gefa Áskatli; kvaðst engi yxn eiga þau áðr, at honum þætti honum gefandi. Nú segir Örnólfr kaup þeira Steingríms, ok þat með, at þeir hefði þegar í brott farit með yxnin. Þá vazt við griðkona ein, ok kvaðst hafa sét yxnin á stöðli um daginn, ok kvað þat engu gegna, er hann segði. Örnólfr kvað þat hafa verit þau hin hvítu, hin fimm vetra gömlu yxnin, ok helt einn veg sögu sinni sem áðr; þótti einskis örvænt fyrir Vémundi, ef hann vissi eigi hit sanna, enn hugði, at hann myndi heim snúa þaðan, ok vildi hann

þat eina af sér láta hljótast um mál þeira, at honum mætti ekki um kenna. Vémundr ferr nú at leita yxnanna, ok grunaði sögu hans. Þeir koma alt til Tjarna ok svá til Lauga; ok var svá nær, sem þeim væri vísat til yxnanna, taka í brott ok hafa heim með sér undir Fell um morgininn. Vémundr vildi gefa Áskatli yxnin. Hann spyrr Vémund, hversu hann hefir fengit. Hann segir sem farit hafði. Áskell vill fyrir engan mun þiggja, þegar *er* hann veit, hversu farit hafði. Nú tekr Vémundr til sín yxnin, ok lætr ala til jóla, ok skal Svartr vaka yfir um nætr. Áskell lét illa yfir, ok kvað Vémund eigi fyrr af láta óspektinni, enn nökkut ilt hlytist af honum, ok kvað þat líkara, at Steingrímr myndi eigi vilja hafa svá búit, — „þvílíka svívirðing, sem þú hefir nú gert honum“. Vémundr kvaðst eigi síðr eiga at sjá til síns hlutar við Steingrím, ok kvaðst gjarna vilja, at hann fyndi þat nökkut sinn. Áskell bað Vémund, at hann skilaði aftr yxnunum, enn hann kvað þat mundu fjarri fara, at hann vildi hafa sótta þá til einskis annars, enn at senda þá nú aftr þegar, ok kvað Steingrími svá munu þykkja, sem hann myndi nú eigi þora at halda þeim, ok kvaðst ekki þat gera. Nú skiljast þeir Áskell ok Vémundr, ok þykkir sinn veg hvárum þeira. — Nú koma þeir heim húskarlarnir, þeir er Steingrímr hafði

sent eftir yxnunum, ok segja honum til svá búins, hvat af þeim var orðit; enn hann lét þegar leita eftir. Fékk hann til ferðarinnar Þorleif melrakka; hann kaus Hrafn verkstjóra at fara með sér. Nú fara þeir til þess er þeir koma til Vémundar, ok ganga til fjóss. Þorleifr spurði Hrafn, hvárt hann vildi taka uxana, eða varðveita þann manninn er vakir. Hrafn kaus at sjá fyrir manninum. Nú ráðast þeir inn í fjósit, ok leiðir Þorleifr út uxana, enn Hrafn gengr nú fyrst þar til, er Svartr var, ok varðveitir hann á þá leið, at hann rak öx í höfuð honum, ok veitti honum þegar banasár, ok kveðst þat ætla, at hann myndi eigi segja Vémundi frá þeira ferð. Nú ráðast þeir á veginn, ok fara óþyrmilega með uxana yfir heiðina. Kom þeim þat eina í hug, at Vémundr myndi eftir þeim fara, ok vilja því firrast hann, sem þeir megu. Ok er lýsa tekr nökkut, ok uxarnir þreyttust, víkja þeir af götunni ok leita sér hælis undir bökkum, þar er sízt mátti þá sjá.

Nú er frá því at segja, at einhver griðkona fór í fjós at Vémundar, ok vildi vekja Svart, ok kvað hann eigi vera trúlyndan, er hann vakti svá ódyggilega, enn hann vaknar eigi við kall hennar. Nú þrífr hon á honum, ok verðr vör við, at hann er drepinn; hleypr inn með ópi miklu, ok segir Vémundi, at Svartr var dauðr;

ok þóttist Vémundr þegar vita, hverju gegna myndi; býst nú þegar til ferðar við tólfta mann, ok ætlar at leita þeirra, er verkit hafa unnit. Hann sendir þegar eftir Konáli á Einarsstaði, at hann komi til liðs við hann. Konáll fór ok við tólfta mann. Ok er þeir finnast, fagnar Vémundr honum vel, ok skifta þeir liði, ok riðu þeir Konáll götur til Ljósavatnsskarðs yfir fljótit. Enn Vémundr leitar á Fljótsheiði, ef þeir hefði eigi komist yfir fljótit. Hann hafði sporhunda, er Konáll hafði átt, ok nú finna hundarnir uxana. Þá spruttu þeir Þorleifr upp, ok út á fljótit, ok höfðu alt á kafi. Þeir Vémundr hleyptu nú eftir þeim, enn þeir Þorleifr fóru á hól nökkurn. Þá kómu þeir Vémundr þar, ok sækja at þeim. Vémundr skaut spjóti á hólinn, ok kom á Þorleif miðjan, ok flaug í gegnum hann. Hrafn þrífr spjótit, ok sendir ofan aftr at þeim, ok steypist sá dauðr af baki, er fyrir varð. Hrafn hljóp á bak hesti sínum, ok hleypir sem mest má hann, þar til er hann komst heim, ok segir Steingrími sína ferð, sem orðið var. Enn þeir hverfa aftr með uxana, ok hjó Vémundr höfuð af hvárutveggja nautinu, ok sagði, at Steingrímr skyldi aldri þeira njóta þaðan af. Ok nú ferr Vémundr á fund Áskels, ok sagði honum, hvat á millum þeira Steingríms hafði þá borit. Áskatli þótti þá farit hafa, sem honum kom í hug ok ván

var; ok býðst hann til at sætta þá, ef hann skal ráða fyrir hönd Vémundar. Nú játar Vémundr hans ummælum. Þá sendi Áskell orð Eyjólfi Valgerðarsyni, at taka málum fyrir hönd Steingríms, ok koma til móts við hann at Laugum í Ljósavatnsskarði, ok þar finnast þeir eftir því sem Áskell beiddi. Ok nú taka þeir til at tala um málin, ok var sú sættargerð þeira, at vígin ástandast Þorleifs melrakka ok þess manns, er Hrafn vá með því spjóti, er Þorleifr hafði bana af fengit. Enn fyrir uxana sex hundruð, ok virt til vöru, enn Svartr skal koma fyrir þat, er teknir váru uxarnir frá Steingrími í fyrstu, ok skapraun, sem Vémundr gerði honum. Ok nú segir Vémundr, at hann þykkist enn aldri bætr hafa haft fyrir þrælana, þá er drepnir váru við Þingvað. Enn Áskell bað hann eigi láta þat ofan komast, ok sagði at hann mátti vel við una, er menn vildu honum jafnan sættar unna, hver endemi, sem hann tæki til bragðs, ok kvað hann eigi vera meðalóspektarmann; ok eru nú sáttir enn um sinn.

12. Svá er sagt, at eitthvert sumar skyldi Steingrímr etja hesti sínum á Ljósvetningaleið við hnjóskdælskan mann nökkurn. Þar koma þeir Reykdælir, Áskell ok Vémundr ok Fjörleifarsynir. Þeir Vémundr ok Háls kómu til þeira manna, er at soðning váru, ok beiddi

Vémundr þá, at þeir myndi gefa honum hrútshöfuð hvítt, er var hjá þeim. Þeir spyrja, hvat honum skal þat, enn kváðust þó eigi myndu spara við hann, ef honum þætti máli varða, at hann næði því. Hann kvað þeim fara vel, ok nú svíðr hann lítt um höfuðit, ok varðveitir þat síðan, sem honum sýndist. Þeir fara nú á brott þaðan, ok finna þann mann, er Þorgeirr er nefndr, ok er kallaðr smjörhringr. Frá honum er þat sagt, at engi matr þætti honum jafngóðr, sem smjör og brauð. Hann var kallaðr lítill skilamaðr. Ok nú segir Vémundr til Þorgeirs: „Þat er vel, at ek hefi þik fundit“ — ok kallar hann frænda sinn — „vil ek gjarna gefa þér mat, meðan vit erum hér“, — ok kvað þat maklegast vera, at hann rækist ekki þar á öðrum mönnum, enn Þorgeirr tekr því vel, og kvað Vémund mundu góðan dreng vera. Þat er sagt, at Áskell varð varr við þetta, ok kvaðst eigi vita ván í, at Þorgeirr væri þeim nökkut skyldr, ok kvað þat óvitsamlegt, at gefa slíkum óvendismanni mat sinn sem Þorgeirr var; kvaðst eigi vita, hvat undir slíku bjó. Enn Vémundr gaf engan gaum at orðum hans, ok sitr nú á tali við Þorgeir, svá sem hann væri dugandismaðr; ok þat varð í ræðu þeira, at Vémundr gerði honum kaupakost. Þorgeirr spurði, hverr sá væri; kvaðst gjarna vilja við hann kaupa. Vémundr kögurr svarar, at hann mun fá honum vetrvist, ef Þor-

geirr vill þat vinna til, at ljósta Steingrím um daginn með sauðarhöfði fyrir augum öllum mönnum. Þorgeirr bað hann gefa ráðit til, enn kvað sér eigi munu áræðit bila. Vémundr kvað svá vera skyldu; ok nú segir hann Þorgeiri, at þar skal etja hestum um daginn, ok Steingrímr á hesti at etja. „Skal ek nú ráð til leggja með þér, at þú dragir sauðarhöfuðit, er ek fæ þér, á stöng þína, ok gangir mjök at hestavígunum, sem þú ert vanr", — enn kvað Steingrím fylgja hesti sínum, ok vera í hvítri skyrtu ok hafa hlaðbúna húfu á höfði, ok kvað hann vera skrautmenni hit mesta, ok bað hann Þorgeir láta ríða stöng sína at höfði Steingríms, svá at sauðarhöfuðit kæmi á háls honum sem harðast, — „enn ek mun vera nær at duga þér", segir Vémundr. Þorgeirr svarar: „Vitr maðr ertu, ok er þetta ráð af mikilli fyrirhyggju sett". Ok nú er þetta kaup ráðit með þeim. Þat er sagt, at Áskell mælti við Vémund, áðr *enn* hestarnir váru fram leiddir, at hann sæti hjá kyrr um daginn, ok ætti engan hlut í um hestakeyrslurnar, ok þótti þat þá líkara, ef hann sæti hjá, ok skifti sér ekki af. Vémundr segir: „Oft þykkir þér ek ekki ráðþæginn um þá hluti, er þú vill mér kenna, þótt mér væri þat betra at hafa. Ok nú finn ek, hversu óvitrlegt þat er, ok nú vil ek svá gera, sem ek ætta jafnan, at taka með þökkum þín heilræði"; — kvað svá

vera skyldu, sem hann vildi. Ekki vissi Áskell af kaupi þeira Vémundar og Þorgeirs. Og nú leiða menn saman hestana, og fór það eftir því, sem Vémundr gat til, at Steingrímr keyrði hest sinn sjálfr, ok er vígit gott; hleypr Þorgeirr þar hjá ok er málóði mjök. Menn gefa at því engan gaum, ok þykkir eigi nýtt um þat. Ok í einhverri hvíld, þá er menn varði minst, þá lýstr Þorgeirr Steingrím mikit högg með sauðarhöfðinu á hálsinn, og kallar nú á Vémund, at hann skyldi duga honum, enn Steingrímr hleypr eftir honum, ok mágar hans með honum, Steinn ok Helgi, ok vá Steingrímr Þorgeir, ok fekk honum nú vetrvistina, ok tók þar nú starf af Vémundi. Nú snýr hann aftr, ok kvaðst hann nú þessa höggs hefnt hafa. Vémundr hafði nú vel hlýtt ráðum Áskels, ok hafði setit kyrr hjá um daginn, enn nú þóttust allir vita, at þetta váru hans ráð, er Þorgeirr bað hann dugnaðar eftir höggit. Nú varð þar þröng mikil af mönnum, ok býðr nú Áskell enn sætt fyrir þetta, enn Steingrímr segir, at jafnan hafði hann sæzt, ok kvað þá enga sætt halda vilja, ok segir at nú myni ekki verða af sættinni, ok kvað eigi mega þá verr verða enn áðr. Þá er þeir váru sáttir kallaðir. Ok nú vill Áskell gefa Steingrími þrjá gripi, sverð ok skikkju ok gullhring, ok váru þat miklar gersemar, enn hann vill engan þiggja. Nú hefir Eyjólfr tekit við

gripunum, er Áskell bauð honum; því at Steingrímr vildi eigi við taka. Fara menn heim af leiðinni með engri sætt, ok una nú hvárigir vel við sinn hlut; þóttist Steingrímr enga *sæmd* haft hafa fyrir skömm þá er honum var ger, enn Vémundr þóttist nú *b*err vera orðinn í miklum óþokka við Steingrím, ok þó telr hann ekki at því; ok þat líkar honum illa, ef eigi skulu bætr koma fyrir Þorgeir, ok kallar hann fyrir sér drepinn hafa verit. Áskell bað hann þat aldri gera, at heimta bætr fyrir mannfýlu þá, ok kvað hann svá mega gera sik berastan at því, at Þorgeirr hefði hans ráðum fram farit; ok unir Áskell illa við þat, er honum þykkir Vémundr jafnan valda því, er illa er, enn þótti þat þó illa, er hann fekk engum sáttum á komit í millum þeira. Ok skilja þeir nú at sinni.

13. Þat var tveim vetrum síðar, enn þat er nú var frá sagt, eftir alþingi um sumarit, at Steingrímr kvaddi Hrafn verkstjóra til selgerðar, ok kvað á, hversu lengi hann skyldi at vera. Enn þat var tveggja vikna verk. Hrafn sagði, at hann léti eigi vinna þat, er meira lá við, enn riga at slíku. Steingrímr spyrr, hvat þat er. Hrafn svarar: „At hefna sauðarhöfuðhöggsins, er þú vart lostinn á leið um sumarit fyrir tveim vetrum af Þorgeiri smjörhring“. Steingrímr kvað hann eigi mega meir fyrir gjalda enn lífit, enn Hrafn sagði þá eigi ómaklegri at kenna af

nökkurs, er Þorgeir höfðu þess eggjat, ok kvað hann þat ekki hafa af sjálfum sér tekit. Steingrímr kvaðst eigi þat vita, — „enn þó hefi ek annat ætlat þér verkit, enn ek sagða þér“. Hrafn spyrr, hvert þat er. „Nú vil ek senda þik á Hól í Kræklingahlíð eftir Hrafni; bið hann at koma á minn fund. Þú skalt ok koma í Hörgárdal eftir þeim manni, er Gnúpr heitir. Hann býr á þeim bæ, er á Öxnhóli heitir, ok er góðr bóndi. Síðan far þú á Gálmaströnd eftir þeim mágum mínum Steini og Helga, ok bið þessa menn alla at koma á minn fund“. Hrafn kvað sér þetta betr hent, enn at vera at selgerðum. Nú ferr hann á fund þessarra manna, ok sagði þeim sitt erendi. Váru þeir þegar uppi, er Steingríms orð kómu til; ok svá er sagt, at Gnúpr myndi farit hafa fyrri, þótt fyrr hefði komit verit, at því er hann sagði Hrafni. Fara þeir nú allir á fund Steingríms. Hann fagnar þeim vel. Nú ríðr hann heiman við tvítjánda mann ok norðr til Reykjadals, ok riðu snemma aftans heiman; taka hvíld á Fljótsheiði, gagnvert Öndóttsstöðum, ok áðu þar. Ok er svá sagt, at þeir sofnuðu allir. Smalamaðr Konáls fór í þat mund þar nær at fé sínu, ok nú sér hann hesta marga, enn vissi ekki ván mannaferða. Snýr heim þegar, ok segir Konáli þat, sem hann hafði sét. Konáll þykkist vita, hverir vera myndi, ok býst nú við, ok sendir eftir Vé-

mundi, ok hann fór þegar á fund Konáls, ok hafa nú tuttugu manna báðir saman. Nú er þat at segja, at nú vaknar Steingrímr, ok sjá nú manna farar til Öndóttsstaða, ok þykkjast þeir nú skilja, at menn hafa orðit varir við þá. Taka nú hesta sína, ok fara nú á bak, ok sjá eigi færi sitt á Vémundi at sinni, ok þótti Steingrími þat ráðlegt, at þeir sneri heimleiðis, enn þeir Gnúpr ok Steinn svöruðu, at aldri vildu þeir við þetta heim snúa, ok þóttust vita hæðileg orð Vémundar við þá, ef þeir snúa aftr við þetta, ok kváðu nú vænna, at snúa til Mývatns at drepa Herjólf, síðan þeir náðu eigi Vémundi; ok þangat riðu þeir um nóttina, ok fengu þat ráð, at Þorsteinn blindingr, heimamaðr Steingríms, skal ríða til húss, ok hafa lyng eða mosa í sekkjum, ok láta vísa sér til Möðrudalsheiðar, svá sem hann ætlaði sér til skips, ok teygja Herjólf svá út. Ok þetta ráð gekk svá fram, sem þeir ætluðu til, at þann veg varð honum út komit. Þeir Gnúpr ok Steinn hlaupa nú at honum, ok leiða hann frá dyrunum, enn Þorsteinn gætti hurðarinnar, at engi mætti út komast, þótt vildi. Svá er sagt, at Gnúpr mat ekki við aðra menn, at vega at Herjólfi. Ok nú riðu þeir heimleiðis. Þeir koma til Fjörleifartofta í Bárðardal. Hrafn af Hóli lýsti þar víginu Herólfs fyrir Fjörleifu móður hans, ok lét sem hann vildi drekka, ok fekk sér þat til erenda. Hon

segir, at Herjólfr myni hafa goldit Vémundar, ok kvað hann ok hefna mundu, ok sagði at varla var hon enn frændlaus eftir; kveðst við þat mundu una, at hetnt myndi verða. — Nú ríða þeir Steingrímr á fund Eyjólfs, ok segja honum vígit, enn hann kvaðst þat illa þykkja, at Vémundr var eigi heldr fyrir orðinn eða Háls; enn Steingrímr sagði, at eigi hefði þeir náð Vémundi, — „enn þó vildu vér, at hann hefði fyrír orðit“. Eyjólfr kvaðst ekki mundu at þessu telja, ok bauð at leita um sættir í milli þeira. Steingrímr kvaðst nú sættast ef þeir vildi, enn sagði þó þat með, at eigi hefði þeir þá haldit sættina er líkara var til. Svá er sagt, at Eyjólfr sendi orð Áskatli, at þeir hittist at Laugum, ok sagði at Steingrímr vildi enn sættast á uxamálit. Áskatli þótti þat enn vænlegast, at taka sætt af Steingrími, ok mætti enn svá niðr falla ófriðrinn at sinni í milli þeira. Ok hann fór til fundar við Eyjólf. Var sú sættargerð þeira, at gjalda skyldi hundrað silfrs fyrir víg Herjólfs, enn Gnúpr ok Þorsteinn skulu fara utan, ok aldri útkvæmt eiga, ok þat efnir Þorsteinn; enn Steinn ok Hrafn skyldi vera utan þrjá vetr. Þessi sekt skal á falla hit þriðja sumar á Eyjafjarðarleið; þá skyldi þeir útlægir falla. Ok nú líðr sjá stund. Er ekki sagt frá viðskiftum þeira í þessu máli til leiðar hit þriðja sumar; ok þegar er sú stund er liðin, þá er þat

sagt, at Vémundr kögurr mælti við konu sína þegar eftir leiðina, at hon skyldi sjá um bú þeira, enn hann kvaðst mundu ríða til Eyjafjarðar ok þræll hans með honum. Nú ríða þeir til frændkonu Vémundar, er Þorgríma hét. Hon bjó á Vindheimum í Hörgárdal. Vémundr spurði at Gnúpi, ef hann væri heima í búi sínu. Hon kvaðst þat gerr vita um morgininn, ok segir at hann ætlaði at fara til Gása eftir fiskum, ok spurði, hvert Vémundr vill fara, enn hann kvaðst erendi eiga at finna Gnúp, ok kvaðst hann hitta vilja; ok nú fær hon Vémundi þræl einn, er Melkólfr hét; ok nú fara þeir Vémundr þrír saman, ok hitta Gnúp fyrir utan Laugaland á Melunum, ok váru þeir þrír saman, ok höfðu farit með honum þrælar hans tveir, ok þar sló þegar í bardaga. Þrælarnir börðust. Vémundr batt áðr hesta sína, ok kvað nú vera maklegan fund þeira, at þeir váru jafnmargir. Gnúpr kvaðst eigi mundu átelja þat. Hvárrtveggja þeira hafði skjöld. Þeir sóttust lengi, ok um síðir hjó Vémundr undan Gnúpi fótinn, ok nú stóð hann á knjám, ok bauð enn bardagann, enn Vémundr kvað þá hætta mundu at sinni, og nú sendir hann heim Melkólf, ok kvað hann vel hafa dugat. Vémundr ríðr nú ok þræll hans út á Gálmaströnd í Arnarnes, ok spurði at þeim Steini og Helga, mágum Steingríms; enn honum var sagt, at Helgi væri í Skagafirði at smíð,

enn Steinn var farinn út í Hrísey, til veggjahleðslu. Vémundr bað Galta skips, er þar bjó, at hann myndi ljá honum út til Hríseyjar, ok vildi at færi með honum Þorvaldr, son Galta, ok hann léði honum hvárttveggja. Fara þeir nú til eyjarinnar þrír saman, ok þar hitta þeir svein einn á eynni, ok spyrr Vémundr, hvers sonr hann væri, enn hann kvaðst vera son móður sinnar. Ok nú áttu þeir Vémundr kaup saman ok sveinninn, at Vémundr skal gefa honum höðnukið til þess at hann segi honum, hvárt Steinn ok húskarlar hans liggja at naustinu um nóttina eða heima á bænum. Sveinninn skal gneggja þar á höfðanum um kveldit, ef þeir fara til naustsins, enn fara hvergi, ef þeir væri heima. Ok um kveldit, er hann hafði rekit fé á brott, þá kom hann á höfðann fram, ok gneggjaði sem hann mátti mest. Nú þykkist Vémundr vita, at Steinn mun hafa farit til naustanna, ok bregða þeir nú við skjótt, ok fara hvatlega til naustsins, ok þá sá hvárir aðra, ok váru nú hvárirtveggja á ferð til naustsins sem þeir megu. Svá er sagt, at Vémundr skaut snærisspjóti, ok kom á skjaldarsporð Steins, ok nisti hann við rist honum skjöldinn. Steinn laust í sundr spjótsskaftit með öðrum fætinum, ok rann til naustsins síðan sem hann mátti. Vémundr bað hann eigi renna. Steinn gaf að því engan gaum. Ok nú er svá at segja, at Þorvaldr, sonr Galta ór Arn-

arnesi, fell í naustdyrunum fyrir Steini, ok þá vildi Steinn hlaupa út á ferjuna, ok ætlaði at verjast þaðan. Enn þá kemr Vémundr kögurr at í því, ok veitti Steini þegar banasár. Ok nú fara þeir Vémundr þegar á brott, ok hafa með sér lík Þorvalds. Ekki gera þeir at húskörlunum. Vémundr hittir nú Galta, ok segir honum tíðendin, ok réð honum þat, at fara til Laufáss á skipi með fé mikit ok alt skuldalið sitt, ok síðan í Reykjadal til fundar við sik, ok hét honum bótum fyrir víg Þorvalds sonar hans. Vémundr vildi fara hit iðra, ok ríðr hann í Kræklingahlíð, ok varð varr við, at Hrafn af Hóli var í einhverjum starfa ok vildi taka hesta sína, ok skera mön á; ok nú víkr Vémundr þangat ok kveðr Hrafn hafa sýnt sik í mótgangi jafnan við sik, ok þá frændr alla; segir hann nú skulu hafa fyrir þat nökkut, þótt eigi væri mikit. Hleypr síðan at honum Hrafni, ok hjó af honum höndina, ok kvað hann þó oflítit hafa. Snýr hann nú síðan heim norðr, ok segir alt af ferðum sínum. Enn þar er frá at segja nökkut, at húskarlarnir, þeir sem verit höfðu hjá Steini í eyjunni, þeir fara nú á fund Þorbjarnar föður hans, ok segja honum tíðendin. Hann bregðr við skjótt, ok ferr til Galta. Ok er hann kom þar, var hann allr á brottu, ok nú ferr hann þegar yfir fjörðinn, ok ætlaði at þeir Vémundr ok Galti myndi hafa farit báð-

ir samt. Enn Galti tók þat ráð, sem Vémundr lagði til með honum, ok var nú kominn á leið með lausafé sitt, ok ætlaði at flytja til Reykjadals; ok nú koma þeir Þorbjörn eftir Galta, ok þótti Þorbirni hann hafa mjök efldan Vémund til þessarra verka, er hann fekk honum bæði skip ok son sinn til fararinnar, ok kveðst þó skyldu bæta honum sonardauðann, með því at hann höggr Galta banahögg, enn tekr upp lausafét hans alt, ok flytr heim til sín. Nú spurðust víða þessi tíðendi. Svá er sagt, at Áskell sendir orð Eyjólfi, at þeir fyndist í Ljósavatnsskarði á Hálsi. Eyjólfr kom til mótsins. Sú var sættargerð þeira, at Gnúpr og Hrafn skyldu báðir bótalausir, er þeir hefðu ekki á brott farit, sem skylt var. Steinn falli ok óhelgr, enn víg Þorvalds skal vera til sýknu Helga Þorbjarnarsonar, enn Galta skal bæta hundraði silfrs. Þeir Vémundr ok Háls skulu falla óhelgir um Eyjafjörð, nema þeir fylgi Áskatli. Helgi skyldi ok falla óhelgr fyrir norðan Hnjóská, nema hann væri í för með Eyjólfi Valgerðarsyni.

14. Maðr hét Narfi. Hann var frændi þeira Vémundar, ok bjó í Laxárdal. Svá er sagt, at maðr hét Ha*ll*steinn ok var Þengilsson. Hann bjó á þeim bæ, er at Höfða heitir. Hann átti dóttur, er Þóra er nefnd. Hennar bað Helgi, son Þorbjarnar ór Árskógi, ok var hon honum föstnuð, ok ákveðin brullaupsstefna,

ok skal Hallsteinn inni hafa boðit. Svá er sagt, at Vémundr kom at máli við Narfa frænda sinn, ok taldi um fyrir honum, at honum væri þat til at kvænast, ok kveðst hann vera mundu fulltingsmaðr at, ef hann vill, ok nefnir til Þóru dóttur Hallsteins í Höfða. Narfi kvað þat vera óvænt stofnat, — „því at hon er áðr“, segir hann, „föstnuð Helga ór Árskógi“. „Enn líkar mér“, segir hann, „kvánfangit ef þú mátt ná til handa mér þessi konunni“. Ok um haustit fara þeir Vémundr tíu saman út í Höfðahverfi á þann bæ, er heitir á Bárðartjörn. Þar bjó sú kona, er Ísgerðr hét. Þeir taka þar gisting. Hon var mikil fyrir sér ok fjölkunnig mjök, ok svá er sagt, at hon var vinkona Vémundar. Hon lagði þau ráð til, at þeir færi til nausta ok biði þar, ef nökkura veiði bæri í hendr þeim um morgininn, ok kvað þá koma mundu brúðmennina. „Mun ek“, segir hon, „vera í umsjá um yðvart mál“. Ok nú fara þeir Vémundr sem fyrir þá var lagt.

Steinfiðr hét maðr; hann var fróðr maðr ok fjölkunnigr nökkut. Honum Steinfinni var boðit til boðsins til skemtanar mönnum. Svá er sagt, at brúðrin sat í dyngju sinni um daginn, ok margt kvenna hjá henni. Ok þá er búit var til at þær komi inn konurnar, þá sendi Hallsteinn húskarl sinn eftir þeim, at þær færi inn ór dyngjunni. Húskarlinn tók í hönd Þóru, ok

leiddi hana eftir sér; ok er þau kómu út, þá gerði á myrkr svá mikit, at þau máttu ekki sjá frá sér, ok þá var húskarlinn sleginn mikit högg meðal herðanna ok um höfuðit, enn bylr mikill kom at henni, svá at hon fauk í einu alt ofan til naustanna. Þá kom kall mikit í naustdyrnar, ok var um rætt, at þeir skyldi hafa hendr á henni Þóru, ef þeim væri svá mikit um at varðveita kost hennar, sem þeir höfðu látit. Þeir Vémundr hlaupa nú ór naustdyrum, ok fara á bak. Vémundr setr Þóru í kné sér, ok riðu þeir nú á brott með brúðina, ok fara þar til er þeir koma í Hnjóskadal, ok mjök svá til Þverár. Þar bjó sá maðr, er Gunnsteinn hét. Enn þá dvaldist ferð þeira, ok var þat af fjölkyngi Steinfinns, sem enn mun sagt verða síðar. Þeim Ha*ll*steini þótti í óvænt efni komit vera, þá er húskarlinn sagði þeim sögu sína, at hann var lostinn mikit högg. enn brúðrin á brott tekin, ok þá segir hann gera svá mikit myrkr, at aldri vissi hann hvert hon hvarf. Enn þeir Ha*ll*steinn þóttust þat vita, at af fjölkyngi myndi verit hafa myrkrit, ok af ráðum Vémundar ætluðu þeir þetta myndi verit hafa, ok ræddu margt um þetta sín á milli. Svá er frá Steinfinni at segja, at hann sat upp ok horfði í jörðina fyrir sik fram, ok mælti við engan mann. Þá spyrja þeir, ef hann þættist nökkut til vita, hvat af

Þóru var orðit. Enn hann kveðst þat gerla mega vita, ok sagðist þó eigi munu segja þeim, nema þeir gæfi honum til þrjár merkr silfrs.

Þeir sögðu, at þat þótti þeim litit til at vinna, ef nökkut mætti þá þessi svívirðing af þvást þeira máli. Enn Helgi segir þat fé vel komit, er honum var gefit. Steinfinnr sagði mörgum mein at heimskunni, ok kallar þat óvitrlegt, at þeir þóttust ekki til vita, hvat af brúðinni var orðit. Ok nú segir Steinfinnr, at Ísgerðr hafði þar komit, frá Bárðartjörn, ok rekit fótaskinn sitt um höfuð honum húskarlinum, — „ok af því varð myrkrit ok svá vindrinn, sá er henni feykti ofan til naustanna“. Hann segir, at þeir Vémundr höfðu þar verit í naustinu, — „ok tóku þeir við Þóru, ok reiddu brott“, ok nú kvað hann heldr mundu seinka ferðinni þeira Vémundar. Helgi fór nú við tuttuganda mann, enn þeir váru allir eftir, Hallsteinn bóndi ok Steingrímr ok Þorbjörn ór Árskógi, faðir Helga. Nú fara þeir Helgi, ok finna þá Vémund við Þverá, ok sló þegar í bardaga þar í brekkunni við þá Vémund ok hans förunauta. Þar fellu þrír menn af liði Vémundar, enn tveir af Helga. Húskarl Gunnsteins frá Þverá var þar skamt brott frá, er þeir börðust. Hann hljóp heim ok sagði Gunnsteini, til, enn hann fór þegar at skilja þá, ok sagði at hann myndi Vémundi veita, ef Helgi vildi

eigi frá hverfa með festarkonu sína. Ok nú skiljast þeir. Fór Helgi heim með konuna, ok gerði brullaup til hennar. Vémundr fór til Áskels, ok sagði honum til svá búins, ok varð Áskell illa við, ok þótti hann mjök dirfst hafa til þessa máls, ok kvað hann jafnan láta skamt á milli óspektanna. Ok nú sendir Áskell enn orð Eyjólfi Valgerðarsyni, at hann komi til móts við hann, ok fyndist at Hálsi; ok nú tala þeir um málin, ok var sú gerð þeira, at jafna saman vígunum, enn víg Narfa skal koma fyrir heimsóknina ok brotttöku konunnar með, enn hinir mennirnir fjórir skulu vera jafnir, er þar fellu.

15. Svá er sagt, at Helga Granadóttir hljóp nú frá búi Háls bónda síns, ok heim til föður síns, ok hitti ekki Áskel Háls ferr nú á fund Áskels, ok biðr hann eiga hlut at við Helgu, at hon færi heim aftr til bús síns. Enn Áskell sagðist mundu engan hlut at eiga með þeim, svá ferlega sem þau létu jafnan, ok kvað þau ekki vilja af því hafa, er þeim var ráðlagt.

Vémundr ferr nú einnhvern dag á Jarlsstaði til fundar við Örnólf rellu, ok falar gripi at honum, ok svá beiddist hann at taka mál af honum á hönd Steingrími um hálfa mörk silfrs þá er eftir hafði verit öxna verðsins, þeira er hann hafði selt Steingrími. Enn Örnólfr segist

eigi munu selja honum málit, nema Áskell vili þat. Þá beiddist Vémundr, at Örnólfr færi á fund Áskels með honum, ok vildi hann gjarna við taka málinu. Ok nú fara þeir á hans fund ok bera upp fyrir honum. Áskell kveðst eigi vilja, at Vémundr tæki við málinu af Örnólfi á hönd Steingrími, ok kvaðst vilja, at þeir Vémundr ok, Steingrímr ættist ekki ilt við, ef svá mætti vera. Örnólfr bað Áskel með fara, sem hann vildi, ok nú lét Áskell hann hafa tvær merkr silfrs; ok skiljast nú við svá búit.

Þat er sagt, at Vémundr kom at máli við konu sína einnhvern dag, ok segir, at hann myndi fara á brott erenda sinna, ok kvaðst eigi heim mundu koma í bráð; sagðist þá mundu fara til Vöðlaþings með Áskatli. Hann ferr nú heiman, ok þar til er hann kemr í Kaupang til manns, er Þórðr hét. Hann bjó á Völlum, ok var góðr bóndi. Enn nú nefndist Vémundr Björn, ok kvaðst vera reikunarmaðr einn, ok sagðist þar vilja bíða þings, ok beiddi hann bónda viðtöku þessa stund. Þórðr bóndi bað hann kaupa sér mat með sverðinu, því er hann hafði í hendi sinni. Hattarmaðr vill eigi vera vápnlaus, ok vill heldr vinna til matar sér torfverk. Bóndi þóttist þurfa at láta gera garð um tún sitt fyrir þingmönum, at eigi beitti þeir upp völlinn. Tók Björn nú við verkfærum; enn bóndi átti heimanferð fyrir höndum, ok

vísar hann nú gestinum á verkit, ok sagði honum, hvat hann skyldi vinna. Ok nú feldi Björn gaflhlað í búðartoft Steingríms, ok síðan rak hann þangat naut í búðartoftina, ok gerði þar sem hann mátti óhreinlegast. Nú koma þangat húskarlar Steingríms, ok skyldi tjalda búðina; enn þeir höfðu engi verkfæri haft með sér. Nú þótti þeim eigi vel í hendr sér búit, at toftin var full af torfi ok grjóti. Björn bauð at ljá þeim verkfærin, er hann fór með; enn þeir vildu þat gjarna. Nú segir hann þeim, at þar var rétt at grafa torfit á vellinum til búðarinnar. Enn þeir tóku þat ráð, ok þykkir þat starfminna enn sækja til lengra, ok gera nú svá, þar til er upp var ger toftin. Nú kom bóndi heim, ok taldi mjök á hönd Birni, er þetta hafði af hans völdum verit, ok sagði þar gert mikit jarðarspell ok lagabrot í þeima hlut. Enn Björn kvað svá mundu um verða búit, at bóndi mætti þessu vel una; tók nú ofan höttinn, ok kendi bóndi þar Vémund kögur, ok bauð hann at taka málit til meðferðar ok eftirkæru. Segir at þetta hefir af honum hlotizt, ok væri þat maklegast, at hann rétti hlut bónda. Ok nú handsalaði bóndi honum landit, ok er nú við hann at eiga um þetta mál. Húskarlarnir segja nú Steingrími til þessa, ok hann þóttist þegar vita, at þetta váru ráð Vémundar. Nú koma menn á þing, Áskell ok frændr hans. Þar

kom ok Steingrímr. Svá var sagt, at Steingrímr átti þann bróður, er Þorvarðr hét. Hann var Örnólfs son ok Yngvildar, er kölluð var allra-systir. Hann bjó á þeim bæ, er í Kristnesi heitir. Hann var vitr maðr, enn miðlungi þótti hann góðgjarn. Nú finnast þeir á þinginu, Áskell ok Steingrímr, ok segir Áskell Steingrími, at hann hafði tekit sök á hönd honum, enn Steingrímr sagði þat mundu með engum vandræðum verða skulu sinna vegna, ok bað Áskel fyrir ráða, þann veg sem hann vildi, ok galt Áskatli tvær merkr silfrs. Enn Áskell bauð Vémundi at hafa fé þat, enn hann vill eigi hafa fé Áskels. Áskell vill nú, at niðr falli sökin Vémundar við Steingrím, ok þetta lét Vémundr sér líka fyrir bæn Áskels, ok fara nú heim sáttir af þinginu.

**16.** Nú er frá því at segja, at Háls kemr einhverju sinni á fund Áskels ok berr upp vandkvæði sín fyrir honum. Segir, at varla þóttist hann mega búi halda, ef Helga kona hans kemr eigi heim, ok biðr Áskel nú hlut í eiga, ok vita, ef hon vildi enn láta at hans orðum. Áskell hét nú, at eiga hlut í með þeim, ef Háls vill því heita í móti, at láta batna samfararnar við hana. Svá er sagt, at Áskell bjóst til ferðarinnar með tuttuganda mann, ok var í ferð með honum Vémundr ok Háls; ok nú fara þeir, þar til er þeir koma þar sem

heitir Leyningsbakki, ok þá mælti Áskell, at þar vildi hann vera grafinn, þá er hann andaðist, ok þótti þar vera gott landslag, ok sagði at hann vildi ekki fé hafa með sér. Nú svara þeir frændr hans, at þess skyldi langt at bíða, at hann þyrfti niðr at grafa. Síðan aka þeir til Eyjafjarðar, ok upp með Eyjafjarðará, ok nær gagnvert Stokkahlöðum. Vémundr ok Háls riðu fram fyrir, ok sjá þeir, at menn ganga brott ór laugunni, ok kenna at þar var Steingrímr ok nökkurir menn með honum, ok þá mælti Háls: „Við hefir Steingrímr enn leitat, at þvá af sér svívirðing, er þú létt ljósta hann með sauðarhöfðinu, ok þó mun honum þat tregt veita, áðr enn hann fái alla af þvegit“. Ok nú segir Áskell, at honum þótti helzt troll toga tungu ór höfði honum er hann mælti slíkt; sagði, at meiri ván væri, at þeir hefði heyrt, hvat hann hafði mælt, er hann var forviðris, enn Áskell kveðst heyra í gegn veðrinu, ok var mjök löng stund fram til þeira Vémundar; enn þó kvað hann nú svá búit vera mundu. Þeir ríða nú í Eyjafjarðardal til Grana, ok váru þar um nóttina. Nú beiðir Áskell Grana, at Helga dóttir hans myndi verða í ferð með þeim, ok hét nú því á mót, at Háls skyldi betr við hana vera heðan af, enn áðr hafði hann verit; enn ellegar kveðst hann mundu heimta út peninga hennar, ok láta hana þá heim fara, ef eigi

betraðist um af hans hendi. Ok Grani vill enn gera, sem Áskell beiddi. Nú bjoggust þeir á brott þaðan snemma um morgininn, ok var Helga í þeira ferð, ok Grani lét aka Áskatli til Vöðlaheiðar. Enn er þau koma gagnvert Kroppi, þá sá þau þrjá tigu manna renna til árinnar, ok nú bað Áskell, at þeir skyldi fara undir stakkgarðinn, er þar var hjá þeim, ok æja hestum sínum. Enn síðan bað hann þá ganga fram á bakkann ok verjast þaðan, ef eigi væri alt fritt af Steingríms hendi, ok þótti nú vera mega, at eigi þyrfti nú at dyljast við, hvárt Steingrímr hefði heyrt fyrra dags, þat sem Háls mælti. Ok nú ganga þeir fram á bakkann. Enn svá er sagt, at áin var ísuð, ok var ótraustr ísinn á ánni. Áskell spurði þá hvat Steingrímr vildi, er hann fór svá hvatlega, enn Steingrímr kvað nú mál at efna heitstrenging sína, ok kvað nú fleiri munu gjalda Vémundar, enn þá er þess væri maklegir. Nú er svá sagt, at þar sló þegar í bardaga, er þeir váru komnir í skotmál. Þá sá Steingrímr, at seint mun at vinnast, meðan þeir gangast eigi nær enn svá, sem þá var, ok þykkir nú þat eina til, at þeir leiti yfir ísinn at þeim Áskatli. Nú mælti Áskell til Steingríms, ok bað hann varlega fara á ísinn, ok kvað hann ótraustan, enn Helgi ór Árskógi svaraði, ok kvað þá munu sára mjög, Áskel ok förunauta hans, ok hann

myndi fyrir því slíkt mæla, ok letja þá atgöngunnar. Þá segir Þorvarðr Örnólfsson, at honum þykkir atsóknin þeira Steingríms óvænleg. Þá tók Helgi ór Árskógi þat bragða, mágr hans, at hann stakk spjótskaftinu niðr á ísinn, ok hljóp svá á bakkann upp at þeim Áskatli. Háls hjó þegar framan í fang Helga, svá at hann fell á bak aftr út á ána, ok fekk þegar bana. Svá er sagt, at nú brast niðr spöngin undir þeim Steingrími. Sumir vilja þat segja, at Vémundr skyti til Steingríms með spjóti, þá er hann vildi upp ór vökinni á ísinn, ok yrði honum þat at bana. Enn sumir segja at hann druknaði þar í vökinni. Tveir menn druknuðu aðrir, enn Steingrímr; tveir menn váru ok drepnir af hans förunautum, Helgi mágr hans, ok einn maðr annarr. Svá er sagt, at Áskell bað þá nú hvata í brott, sem þeir mega. Ekki er þess getit, at hann týndi neinum manni í bardaganum. Ráðast þau nú til ferðar. Þeir ríða nú fyrír, Vémundr ok förunautar þeira, ok ræða um, at mjök vel hefði at borizt, er Steingrímr var af ráðinn, ok þótti þeim vel hafa gengit leikrinn. Frá því er at segja, at sá maðr hafði verit í ferðinni með Steingrími, er Þórir er nefndr. Hann var son Ketils flatnefs. Hann hafði rent fótskriðu yfir ísinn, ok leyndist þar, þá er hann sá, hversu Steingrími hafði farizt. Þar heitir Kárapollr,

sem hann var staddr. Nú er hann þóttist vita, at þeir Áskell myndi brott farnir frá ánni, þá hljóp hann undan ísinum ok upp á bakkana. Þá Vémund hafði nú mjök brátt borit undan fram. Þat er frá Þóri at segja, at hann hleypr nú fram eftir þeim Áskatli, ok er hann kom at sleðanum, þar sem þeir óku, þá hjó hann þegar til Áskels goða, ok kom í höfuðit. Hann snýr nú þegar aftr til árinnar, ok rennir enn fótskriðu yfir ísinn, ok ferr nú til sinna förunauta, ok sagði þeim frá sinni ferð. Þeim þótti hann hafa haft gott erendi. Fara þeir nú heim, ok una sinni ferð illa. Frá Áskatli er þat at segja, at hann bað Helgu binda um höfuð sér, ok ekki skyldi hon gera vart við um áverkann, ok kveðst gjarna vilja, at hér hlytist ekki ilt af, ef hann mætti því við koma. Ok hon gerði sem hann beiddi, ok gat ekki um þetta, ok vissu þau tvau ein þenna atburð. Þau kómust á Háls um aftaninn, ok um morgininn snemma vekr Áskell þá ok biðr upp standa hvatlega, ok kveðst heim vilja til dagverðar um daginn. Ok nú fara þau ok komast yfir Fljótsheiði. Nú sagði hann þeim, at hann hafði sár fengit, ok hversu þat hafði at borizt, ok kveðst fyrir því eigi fyrr hafa til sagt, at hann vissi kapp frænda sinna um þat, at þeir myndi eigi hafa skilit við svá búit, ef þeir vissi þá þegar. Enn hann kvaðst gjarna vilja, at engir menn hlyti

ilt af vígi hans, ok bað þá vera sáttgjarna frændr sína ok kvað þá þat bezt af at gera, at stöðva óhöppin sem mátti. Sagði ok, at hann þóttist þat jafnan gert hafa um þeira mál, at firra þá vandræðum, sem hann mátti, ok bað þá nú þess minnast um þenna hlut, er honum þótti svá miklu máli skifta. Segir ok, at hann vildi gerð þeira Eyjólfs Valgerðarsonar ok Hávarðs, ok hafði hann þegar sett ráðit alt fyrir Hávarði um gerðina, hvern veg hann vildi vera láta. Nú andast Áskell goði, ok þótti mönnum þat mikill mannskaði, því at hann hafði verit mikill höfðingi ok vinsæll. Nú veita þeir honum þvílíkan umbúnað, sem hann hafði fyrir sagt, ok þótti nú þessi tíðendi helzti fljótt at hendi hafa komit. Þessi tíðendi spyrjast nú víða, ok þótti öllum mikit at orðit í fráfalli slíkra manna. Þótt Áskell væri mörgum mönnum meir harmdauði enn Steingrímr, þá var þó hvárrtveggi mikill höfðingi.

Nú er svá sagt, at Eyjólfr sendi orð Hávarði, ok svá Þorsteini syni Áskels, ok Vémundi, ok öðrum frændum hans, þeim sem nökkurs váru verðir. Skyldi þeir koma á Möðruvöllu til sáttarfundar. Enn því er Skútu Áskelssonar ekki hér við getit, at hann var þá ekki á Íslandi, ok hafði hann verit utan um hríð. Ok nú koma menn til fundarins. Er svá sagt, at Einarr Konálsson, fóstri Eyjólfs,

átti mikinn hlut í sáttmálum millum manna. Er nú um leitazt, ef Þorsteinn eða frændr hans vildi sættir taka. Þorsteinn segir: „At því hefi ek jafnan hugat, þá er ek hefi verit við staddr, þá er faðir minn var við málaferli manna, at jafnan vildi hann firra menn vandræðum, heldr enn æsa þá fram at óhöppunum; ok svá mikinn hug sem hann lagði á jafnan at sætta menn, þá lízt mér“, segir hann, „sem gjarna myndi hann vilja, at hér gerðist eigi vandræði af á milli manna þessu máli, er hann tekr svá mjök sjálfan. Nú mun ek eigi hitta mér betra ráð, enn líkja sem mest eftir því, sem ek vissa, at hann gerði, ok mun eigi níta sættunum“. Kemr nú þar, at menn vilja, at Eyjólfr ok Hávarðr geri um málin eftir því, sem Áskell hafði beitt fyrir öndverðu. Nú er þeir höfðu sáttir á orðit á málit, þá biðja þeir Þorstein koma til sín ok aðra menn, þá sem þar váru við staddir. Var sú sættargerð þeira Hávarðs ok Eyjólfs, at vígin Áskels ok Steingríms skyldi á standast, enn hinir þrír förunautar Steingríms, er þar létust, skulu koma fyrir tilferðina þeira Steingríms, enn goldin aftr eyin mikla fyrir víg Helga ór Árskógi; ok váru nú veittar trygðir á milli manna, nema fyrir Skútu; hann var utan lands. Þórir skyldi fara utan, ok vera aldri í Norðlendingafjórðungi, meðan Fjörleifarsynir væri á lífi. Eyjólfr

seldi nú gripina í hendr Þorsteini ok Hávarði, þá er Áskell hafði honum selda eftir hrútshöfuðshöggit. Ok nú skiljast menn vel sáttir, ok undu nú vel þessum málalyktum.

Enn frá Vémundi kögur er þat at segja, at hann varð sóttdauðr, enn þótti þó vera hinn mesti garpr, meðan hann lifði.

## II.

## Víga-Skútu saga.

17. Þat er nú fyrst at segja, at Þorsteinn býr í Hvammi eftir Áskel föður sinn, ok var hann vinsæll maðr. Hann seldi af hendi goðorð þeira Skútu. Svá er sagt, at annat sumar eftir kom Skúta til Íslands, ok var hann með Þorsteini bróður sínum um vetrinn, ok var löngum hljóðr á þeim vetri, ok þykkir sér nær höggvit hafa verit, ok þóttist engar bætr haft hafa fyrir víg föður síns. Ok um várit eftir skiftu þeir bræðr fé sínu ok föðurarfi. Skal Skúta hafa lausafé ór skiftinu, ok hann var til þess ætlaðr, at hefna föður þeira, ef hann mætti, því at hann var í engum trygðum við menn um þessa sök. Enn Þorsteinn skal hafa landit í Hvammi, ok halda búinu. Nú kaupir Skúta sér land at Mývatni, ok bjó þar sem nú heitir á Skútustöðum. Gerðist brátt mikilhæfr

maðr í mörgu lagi, sem enn mun heyra mega síðar í sögunni.

Þorbergr hét maðr, ok var kallaðr höggvinkinni, ok ekki vinsæll við alþýðu manna. Hann átti tvá sonu; hét annarr Þorsteinn, enn hinn Ölvir enn spaki.

Geiri austmaðr bjó á Geirastöðum fyrir norðan Mývatn. Hann átti þrjá sonu, er enn eru nökkut við þessa sögn hafðir. Hét sonr hans *Örn*, annarr Glúmr, hinn þriði Þorkell. Þeir váru allir miklir menn fyrir sér.

Arnórr hét maðr, ok var Þorgrímsson, ok bjó í Reykjahlíð fyrir norðan Mývatn. Hans synir váru þeir Þorfinnr ok Böðvarr. Arnórr var mikill kappi ok góðr bóndi, ok jafnan er frá honum vel sagt, þar sem hann kemr við sögur ok málaferli manna.

Hallr hét maðr, er bjó at Sandfelli við Mývatn, skamt frá Geirastöðum. Hann átti dóttur, er Þorkatla hét.

18. Eitthvert sumar kemr skip af hafi í Húsavík, þó at svá bæri oftar at. Þat skip áttu bræðr þrír. Vagn hét einn, ok var kallaðr spjót, annarr Nafarr ok var kallaðr sax, Skefill hinn þriði, ok var kallaðr sverð. Þeir váru miklir menn fyrir sér. Svá er sagt, at hverr þeira bræðra átti þat vápn, sem við var kendr. Þeim þótti þau í bezta lagi sinnar eigu, ok létu sér aldri hendi frá ganga. Ok þat segja menn, at

öll þessi vápn væri forkunnar góð. Þeir váru kunningjar Glúms Geirasonar, ok ætluðu þangat til vistar til þeira feðga, Geira ok Glúms, því at Glúmr hafði boðit þeim þangat til vistar. Nú áttu þeir annríkt mjök, ok varð eigi tóm at sækja austmennina, sem ætlat hafði verit, ok þótti þeim feðgum sem þat myndi engu skifta, þótt þeir kæmi nökkurum nóttum síðar, enn þeir höfðu um rætt í fyrstu. Svá er sagt, at varð þess varr Þorbergr at Arnarvatni, ok ferr hann þegar til skips, ok bauð þeim austmönnum til sín. Enn þeir segja at þeir myni fara til Glúms. „Já“, segir Þorbergr, „er ekki þat, sem mik grunar, at nú mun vera liðinn sá tími er til var tekinn, at eftir þeim skyldi hafa farit verit“. Þeir sögðu, at svá var, — „kann vera“, segja þeir, „at Glúmi sé annsamt, ok eigi hann eigi tóm at koma eftir oss, enn hann mun þykkjast vita, at svívirðingarlaust mun vera“. „Enn hitt þætti mér líkara“, sagði Þorbergr, „at honum myndi þat í hug koma, at þeir væri lítt til færir at taka við frjálsum mönnum, þeim er nökkuru skifti, hversu við var gert, því at svá eru þeir feðgar fátækir at fémunum“, segir Þorbergr, „at nær er úti annarr biti, þá er annar er etinn“. Nú hlýða þeir nökkut á þetta, sem hann sagði, ok þar til taldi hann um fyrir þeim, at þeir játta, at fara þangat til vistar til Þorbergs. Ferr hann nú heim ok lætr vel yfir

sinni ferð. Nú er svá sagt, at Glúmr kemr til skips annan dag, ok sagðist þá vera kominn eftir þeim bræðrum, ok vildi þá heim flytja til sín. Enn þeir sögðu, at Þorbergr hafði þar komit um daginn áðr, ok sögðust nú vera ráðnir at fara þangat til vistar, ok kváðust nú eigi vildu því bregða. Þá svarar Glúmr, er þeir höfðu sagt honum umtalit Þorbergs, ok svá þat, hversu hann hafði á tekit þeim feðgum: „Engi mun þat kunna at segja, at honum Þorbergi verði féskortrinn. Enn fleiri munu þat segja, at hann láti færum mönnum verða gagn at sínu fé“, — ok þótti honum illa, er þeir skyldu vera með svá vándum manni, sem Þorbergr var. Nú lætr Þorbergr brátt koma eftir kaupmönnum ok lætr flytja þá heim til sín, ok var við þá forkunnar vel. Svá var sagt, at Þorbergr sendi Ótrygg heimamann sinn at færa út í eyjar fé þat, er slátra skyldi til jóla, ok svá naut ok kapla, ok áðr enn hann færi heiman, bað hann Ótrygg færa eina merina í hlöðu Glúms á náttarþeli, ok haga svá til, at engi yrði varr við. Nú fór hann sem fyrir var mælt, ok vissi þó engi, hvat þessu skyldi. Kemr heim síðan, ok segir honum til svá búins, ok nú þykkir Þorbergi hann hafa vel gert. Um morgininn kemr Þorbergr snemma inn, ok vekr menn upp, ok segir. at honum var horfit merhryssi gott, ok vill at menn fari at leita, — „ok mun svá eft-

ir at sjá", segir hann, „at af mannavöldum mun vera, ok get ek at stolit sé hrossinu". Þá svara sumir, at enga menn þóttust þeir sjá líklega til þess. „Eigi má þat vita", segir hann, „þar sem hér sitja þrotsmenn samtýnis hjá oss, ok eru þeir feðgar líklegastir til at valda þessu, Geiri ok synir hans, því at þeir eru áræðismiklir, ef þeir þurfa nökkurs við, ok munum vér þangat fara at rannsaka". Svá er sagt, at Þorkell Geirason var nú ekki hér við þessi mál, því at hann var útlendis. Nú biðr Þorbergr austmennina verða í ferð með þeim at rannsaka; kvað þá nú sjá mega, at því var vel ráðit, at þeir höfðu heldr haft þessa vistina, enn með Glúmi. Enn austmenn kváðu þat vera verra manns bragð, enn Glúms, at stela frá mönnum, ok sögðust eigi mundu þangat fara til at rannsaka. Er svá sagt, at Þorbergr ferr nú, ok menn með honum. Ferr hann nú, ok heldr djarflega, er hann þóttist vita, hversu takast myndi ferðin; ok koma nú til Glúms, ok beiða hann rannsóknar, ok þeir feðgar láta uppi rannsóknina. Leitar hann nú vannlega, ok hittir ekki, þar til er hann kemr at einhverri hlöðu, ok þar í hlöðunni fann hann merina, ok kvað þá vera verri menn, enn þeir létu yfir, eða margir aðrir, er þeir skyldu vera sannreyndir at þjófskap. Þá svaraði Glúmr ok kvað sér á þessu engan kunnleika vera, ok kvað hann vera

sjálfan líklegastan til að hafa þetta bragð gert, enn snúa nú síðan á aðra menn, ok kvað mönnum þat miklu kunnara, at hann var vándr maðr. Öllum þótti þetta illa vera orðit, því at þeir váru vinsælir menn frændr. Nú spurði Þorbergr, ef Glúmr vildi nökkuru bæta fyrir þetta, ok felli þar málit niðr, sem nú var komit. Enn Glúmr kvað það fjarri fara, at hann myndi hér neinu fyrir bæta, er hann mátti engan grun vita sér á hendr. Þorbergr kvað þó hér mundu verða nökkut fyrir at koma, þó at honum væri leiðent gert um bótina. Glúmr kvaðst því betr þykkja er meira kæmi fyrir, ef sá gyldi er maklegastr væri; ok nú skilja þeir ræðuna at sinni, ok ferr Þorbergr nú heim, ok þykkist vel hafa leikit. Spurðist nú þetta víða, ok þótti mönnum þetta illa orðit, því at fleiri menn unnu góðs hlutar Glúmi, enn Þorbergi, ok væntu enn, at hér muni önnur raun á verða um þetta mál, enn nú var fyrst orðrætt af alþýðu. Nú sitja hvárirtveggja í kyrðum um vetrinn.

Svá er sagt, at Þorbergr hittir Þorgeir goða, frá Ljósavatni, því at vinátta var milli þeira, ok spyrr hann ráða um þetta mál, hversu með skal fara. Segir, at hann þykkist þar eiga mikit traust um ráðagerðir sínar, þar sem hann var. Þorgeirr bauð at búa til málit á hönd Glúmi. Enn Þorbergr kvað þá þann upp kominn, sem honum var mest at skapi. Ferr nú

heim síðan; ok er váraði, bjóst hann at fara stefnuför til Glúms, ok biðr nú menn til fararinnar með sér. Hann ræðir um við vetrtaksmenn sína, ef þeir vilja verða í ferð með honum. Enn þeir váru þó tregir til, ok fóru þó um síðir við fortölur Þorbergs. Býst hann nú heiman, ok váru þeir átján saman. Þeir höfðu kalt veðr um daginn. Fara þeir nú, þar til er þeir koma á Geirastaði. Þeir Glúmr sátu við eld, þá er þeim var sagt, at mennirnir fóru at bænum. Nú hlaupa þeir til klæða sinna ok vápnast, ok ganga síðan í dyr út. Ok nú senda þeir eftir mönnum at veita þeim lið. Svá er sagt, at þeir Glúmr váru átta saman þar fyrir, þá er Þorbergr kom. Nú koma þeir Þorbergr at bænum, ok ríða þegar í túnit, ok stefnir Þorbergr þegar Glúmi um þjófskap. Svá er sagt, at þá er hann hóf stefnuna, hljóp hann Geiri ór dyrunum út, ok at honum Þorbergi, ok hjó til hans, enn Þorsteinn son Þorbergs brá við skildi, ok þá hljóp Glúmr at, ok hjó til Þorsteins, ok veitti honum þegar bana. Nú hlaupa út allir þeira menn ok til bardagans, ok nú veitir Þorbergr Geira sár á fæti. Þá kemr at Hallr frá Sandfelli við tíunda mann, ok fór þegar til með Glúmi, ok þeir níu, sem með honum váru. Ok nú var skamt at bíða, áðr enn Skúta kemr þar til með tíunda mann; ok nú ræðir hann til sinna manna, at þeir skulu ganga

á hæð nökkura, er þar var hjá þeim, ok vildi hvárigum veita, ok kvað þeim betr ganga sem skyldi; segir ok, ef sá yrði brott gerr af víg-unum, at þá myndi reynast brátt, hverr ríkastr væri at Mývatni. Þá kom Þorfinnr Arnórsson at ríðandi, ok ferr þegar til bardagans með Glúmi. Ok svá er sagt, at Þorfinnr hjó framan í andlit Þorbergi, ok var af því kallaðr höggvinkinni. Í þessu bili kemr at Arnórr ór Reykjahlíð með tólfta mann, ok gengr hann þegar í milli manna, ok skildi þá. Þar fellu allir austmennirnir. En sinn húskarl var fall-inn af hvárum. Enn Ótryggr var særðr til ó-lífis; ok græddi Glúmr hann, því at hann sagði hversu farit hafði um merina, þá er Þorbergr bauð honum at leiða hana í hlöðu Glúms, ok var nú bert illmælit af Þorbergs hendi við Glúm. Er nú leitat um sættir milli þeira, ok kom svá at þeir skulu gera um málin, Þorgeirr goði frá Ljósavatni ok Arnórr ór Reykjahlíð. Sú var gerð þeira, at á gengust vígin húskarlanna, enn áverki Ótryggs, er hann var særðr til ólífis, ok enn aðrir tveir menn líflátnir af liði Þorbergs, skulu koma fyrir áverka Geira; enn sá áverki, er Þorbergr hafði fengit, skal vera fyrir tilför-ina ok ill málaefni, er hann hafði með svikum at farit. Þeir váru ok allir drepnir austmenn-irnir, er með Þorbergi váru ok lágu þeira víg kyrr, svá at engi þeira var fé bættr. Þeir váru

brott gervir þaðan ór sveitinni, Geiri ok Glúmr, feðgarnir, ok er svá sagt, at Geiri bjó í Króksfirði á Geirastöðum. Svá er sagt, at Glúmr fekk Ingunnar Þórólfsdóttur Véleifssonar; — ok þótti Glúmr vera mikill maðr fyrir sér, sem enn má nökkut marka í þessum frásögum.

19. Þat er sagt, at Þorkell Geirason kom út um sumarit í Húsavík vetri síðar, enn þessir atburðir váru, er nú var frá sagt, ok fór hann til vistar til Ófeigs í Skörð. Ófeigr var þá átján vetra gamall, ok þat segja menn, at þeir Þorkell væri jafngamlir.

Maðr er nefndr Þorsteinn, ok var kallaðr varastafr. Hann bjó í Laxárdal. Hann var hólmgöngumaðr mikill ok illr viðreignar. Þat er sagt, at hann gerir heiman ferð sína einhverju sinni þess erendis, at biðja Þorkötlu, dóttur Halls frá Sandfelli. Enn Hallr sagði, at hann myndi eigi gifta dóttur sína svá vándum manni, sem hann var, ok kvað þat mörgum manni kunnigt vera, at varla fekst meiri ójafnaðarmaðr, enn Þorsteinn var. Nú bauð Þorsteinn Halli hólmgöngu. Sagði þá reyna mundu, hvárr ráða skal kosti konunnar. Enn Hallr nennir varla at ganga undan því, enn þóttist þó vera vanfærr at ganga í móti þvílíkum berserk, sem Þorsteinn var. Ok nú finnast þeir Hallr ok Þorkell Geirason, ok sagði Hallr Þorkatli, hvern vanda honum hefir til handa borit, ok svá, at

ráðin var hólmgangan með þeim Þorsteini varastaf. Þorkell kvað Hall nú missa Glúms bróður síns, ok sagði hann þá eigi mundu þurfa at ganga á hólm við Þorstein, — „ef hann væri hér, svá vingott sem með ykkr. var". Nú bauð Þorkell, at hann skyldi ganga á hólm fyrir hönd Halls, enn hann kvaðst þat gjarna vilja þiggja af honum. Hallr lét nú taka sverðit Skefilsnaut, ok er Þorkell skyldi á hólm ganga, fekk Hallr honum sverðit í hendr, ok kvað þat bíta mundu. Þat er nú at segja, at þeir Ófeigr ok Þorkell sömnuðu at sér mönnum, ok bjoggust nú til hólmsins, ok váru þeir saman fjórir tigir manna, ok helt Ófeigr skildi fyrir Þorkatli. Þorsteinn hafði ok fjóra tigu manna. Þorsteinn hét maðr, ok var kallaðr kvígr. Hann var vanr at halda skildi fyrir nafna sínum, ok svá var þá. Ófeigr hélt nú skildi fyrir Þorkatli, ok ganga þeir nú á hólminn. Er svá sagt frá viðskiftum þeira, at Þorkell hjó Þorstein banahögg, ok þegar er Þorsteinn var fallinn, þá mælti Ófeigr til Þorsteins kvígs, at nú vill hann, at þeir gangi á hólminn, ok reyni með sér, — „höfum vit nú áðr haft skemtan af þeira bardaga. Skulu vit nú skemta öðrum mönnum nökkura stund". Enn Þorsteinn vill fyrir engan mun í móti mæla, er honum var svá á hólm skorat; ok nú ganga þeir á hólminn ok lauk því máli svá, at Þorsteinn fellr fyrir Ófeigi. Svá er sagt, at Þor-

kell vill nú láta bera aftr sverðit í kumlit, þar sem þat var tekit til handa honum. Enn Hallr kvað þat fjarri skulu fara, at engi maðr skuli njóta svá góðs gripar, ok segir, at eigi skal aftr bera sverðit. Enn Þorkell réð, at sverðit var þangat borit. Fara menn nú heim af hólminum, ok þótti mönnum þat vera landhreinsan, at þeir nafnar váru drepnir. Svá er sagt, at um nóttina eftir ena næstu bar Þorkatli Skefil í drauma, ok kvað Þorkel munu vera góðan dreng ok þakkaði honum, hvé hann hafði drengilega dugat, ok svá sverðit haft. „Enn ef þú hefðir eigi viljat, at aftr hefði verit borit sverðit, þá myndir þú hafa goldit þess í nökkuru. Enn nú mun fara með okkr annan veg, því at nú skal hvárrgi illa hafa, svá vel sem þér hefir farit, ok vil ek gefa þér sverðit, því at ek þarf þat nú ekki, enn þú ert svá vaskr maðr, at ek ann þér allvel at njóta". Ok nú vaknar Þorkell, ok var þar komit sverðit, ok þótti honum allgóðr gripr, ok bar þat lengi æfi. Þorkell setti bú saman, ok bjó hann þar í hinum ytrum Skörðum, ok þótti hinn bezti bóndi. Spjótit Vagnsnaut átti síðan Þorvarðr Þorgeirsson. Saxit var ok upp tekit ór kumli Nafars, ok þóttu öll vápnín vera forkunnar góð, sem jafnan bar raun á, ef þau váru til nökkurs höfð. Enn eru hér nökkur merki til sögð.

Svá er sagt, at skip kom út við Knarrar-

eyri eitthvert sumar, ok Skúta ferr til skipsins, ok vá hann þar fyrstan mann í hefnd föður síns. Sá maðr hafði verit í ferð með Steingrími, þá er þeir Áskell börðust ok Steingrímr, sem sagt er fyrr í Reykdæla sögunni frá viðskiftum þeira. Annan mann drap hann litlu síðar er þar hafði verit á þeim fundi. Eftirmál var veitt um þessa menn báða, ok bætti Þorsteinn þá, bróðir Skútu, með sínu fé, sem rætt var í máldögum með þeim bræðrum. Enn ekki kunnu vér með sannindum at segja atburð um líflát þessarra manna. Enn þat vitum vér, at þetta var hin fyrsta hefnd Skútu eftir Áskel goða, föður hans.

20. Þórir, son Ketils flatnefs, er fyrr var frá sagt, at vá Áskel goða, hann varð sekr eftir víg Hróars Tungugoða sunnan um land, er hann hafði at verit með þeim Móðólfssonum í þeiri sveit, er heitir Skógahverfi, er þeir börðust þar sem nú heitir Hróarstunga; þat er í milli Fors ok Hörgs*lands*, ok milli lækja tveggja, er þar falla ofan af heiðinni. Svá er sagt, at Þórir ferr á fund Eyjólfs Valgerðarsonar, at vita um heraðs-vist norðr þar, því at hann var nökkut skyldr honum, ok þó lítt. Nú biðr hann Eyjólf at staðfestast þar í heraðinu, er hann kom út. Eyjólfr bað lýsa sýknu hans á Hegranessleið, ok taldi hann vera sýknan, ef engi talaði á móti, ok svo á Vöðlaleið. Svá var gert, ok

fekst þar hvártveggja sýknan, þegar er beizt var. Síðan skal biðja á Ljósvetningaleið, ok þótti Eyjólfi þat líkast, at þar myndi í móti mælt sýknu hans, enn taldi hann vera frjálsan, ef þar fengist sýknu l*ey*fit. Þar kom Eyjólfr til leiðarinnar ok svá Þorgeirr frá Ljósavatni, ok sat Þórir í millí þeira höfðingjanna. Svá er sagt, at Skúta kemr nú at máli við Þorstein bróður sinn, ok spyrr, hvárt hann vill heldr vinna á Þóri, eða setja ráðin til, ok sagði þá eiga honum mikla harma at gjalda, er hann hafði drepit föður þeira; — „skaltu fyrir því kjósa um“, sagði Skúta, „at ek mun gera þat, sem þú vill síðr, því at eigi mun auðvelt þykkja at svá búnu at komast yfir hann, ok eigi berr okkr at minni nauðsyn til, þótt torvelt sé at ná honum, at reka okkarra harma við hann“. Enn Þorsteinn þóttist til hvárskis vera vel færr; ok nú þóttist Skúta sjá, at þetta myndi verða meir til hans at taka, ok setti þau ráð til, at Þorsteinn skal bjóða Þorgeiri sætt fyrir sekt þess manns, er hann hafði fyrir ráðit, ok lúka þegar fyrir sakar fjölskyldar þeirar, er hann átti at annast. Ok nú verðr svá, sem hann setti ráð til, at Þorsteinn bauð fyrir váttum sættina, ok Þorgeirr kvaðst vilja, at Þorsteinn gengi til handsalanna, ok þó með fá menn. Skúta var þar með Þorsteini, ok þó duldist hann þar. Ok nú þegar er Skúta mátti at komast, þá hjó hann

til Þóris með öxinni Flugu, ok veitti honum banasár. Þá mælti Skúta: „Veiddi Fluga flatnefjunginn, þótt hann sæti á millum tveggja goðanna“. Eigi máttu nú lúkast handsölin fyrir þröng þeiri er þá var. Ok svá er sagt, at Skúta komst í brott ór þrönginni ok á bak hesti sínum, ok hleypti þegar út í skóginn, ok var bæði riðit ok runnit eftir honum, ok varð honum þó ekki nát, ok komst hann svá undan. Fara menn nú heimleiðis, ok urðu þeir Eyjólfr illa við þenna atburð ok Þorgeirr, því at þeir vildu hafa haldit hendi yfir manninum. Annan dag eftir, þá er smalamaðr Þorgeirs goða vildi hafa rekit fé sitt, þá hittir hann mann þann, er finna vildi Þorgeir, ok kvaðst vera sekr, ok vildi biðja hann dugnaðar ok viðtöku, enn þorði þó eigi at láta sjá sik, ok biðr hann at koma þangat í skóginn, enn hann kveðst mundu þar bíða, ok bað þó, at aðrir menn vissi ekki af þessu, enn Þorgeirr. Smalamaðr ferr nú, sem honum var boðit, ok segir Þorgeiri. Enn hann grunaði, hverju gegna myndi, ok fór nú til skógar með tíunda mann, ok lætr hann eftir mennina við skóginn, enn þeir fóru tveir einir í skóginn, Þorgeirr ok smalamaðr hans, ok fundu hvergi hinn seka manninn, ok fóru nú heim aftr við svá búit.

21. Nú er þar til at taka, at Grímr heitir maðr, er Þórðr gellir hafði sekðan um áverka

eitthvert sumar á þingi. Hann kemr á fund Þorgeirs einu sinni, ok biðr hann taka við sér, ok kvaðst mjök vera þurfandi dugnaðar, enn kvaðst þat hafa frétt, at Þorgeirr væri góðr drengr, og sagðist því fyrst hafa á hans fund sótt, at hann vænti af honum nökkurra hjálpræða, enn Þorgeirr kvaðst mundu veita honum ásjá, ef hann vægi Skútu. Nú kaupa þeir þessu saman. Síðan sendi Þorgeirr Grím til Þorbergs höggvinkinna, at hann réði honum ráð til at drepa Skútu. Sú var ráðagerð, at Grímr skal fara á fund Skútu, og biðja hann trúlegs dugnaðar, ok segja sér alla af hendi vera, ok at engu gagni vilja koma, ok biðja hann þarvistar ok ásjá, ok bað hann vera færivandan. Nú ferr hann sem fyrir hann var lagt, ok bar upp erendi sín fyrir Skútu, ok bað hann þarvistar ok ásjá, og kveðst mjög þurftigr vera, ok svá kemr, at Skúta tekr við honum, ok hét, at hann myndi þar vera um vetrinn. Ok þar var hann þann vetr, ok veitti Skúta honum vel vistina, enda kunni Grímr vel at þiggja, ok leitaði hann aldri til at vinna á Skútu. Um várit er þat sagt, at þeir fara til netja báðir saman einnhvern dag, Skúta ok Grímr, er þar váru í vatninu. Ok er þeir hafa farit um hríð, þá losnar skóþvengr Skútu, ok dvaldist hann at ok batt þvenginn, ok þá veitti Grímr honum tilræði ok hjó til Skútu. Enn Skúta var þann

veg búinn, at hann var í kufli ok hafði brynju undir kuflinum. Festi öxi Gríms í kuflinum, enn Skútu sakaði ekki, og nú greip hann Grím höndum, ok spurði, hvé hann var svá hverflyndr ok ótrúr. Enn hann segir þegar, at Þorgeirr hafði hann þangat sent, at drepa Skútu, ok nú bað hann sér griða, enn Skúta hét honum engu um þat; enn vita þóttist hann, at þetta váru ráð Þorgeirs. Svá er sagt, at Skúta færði Grím út í einn hólm í Mývatni, ok alnökðan. Síðan batt hann hann þar í hólminum við einn staur, ok kvað hann þar mundu búa verða um hríð, nema Þorgeirr byrgi honum. Nú ferr Skúta heim ok sendi Þorgeiri orð um þetta, enn Þorgeirr spurði, ef þeir vildi nökkut við hjálpa manninum. Enn þeir kváðust aldrei hirða, hvar hann var, ok kváðust eigi mundu duga honum, ok lét hann þar líf sitt í hólminum, og angraði mest sultr og mýbit, er hann var í engum klæðum.

22. Maðr hét Óláfr ok annarr Þorgautr. Þeir váru sekir menn, ok þó var þeim margt vel gefið. Þeir váru menn vænir ok kurteisir ok góðir fardrengir. Svá er sagt, at þeir koma einhverju sinni á fund Þorgeirs goða, ok báðu hann ásjá, ok var kaup þeira með sama móti og þeira Gríms hafði verit, at hann mun veita þeim ásjá, ef þeir dræpi Skútu, ok nú sendir hann þá til Þorbergs höggvinkinna, vinar síns,

með þeim erindum, sem fyrr, at hann gæfi enn ráð til at ná Skútu, ok nú koma þeir á hans fund, ok sögðu honum sín erendi, þau sem Þorgeirr hafði boðit til hans. Gott þótti Þorbergi, at Þorgeirr lét eigi fyrir vinnast um þetta mál. Kveðst að vísu enn skulu til gefa nökkur ráð. Nú var önnur ráðagerð hans, enn hit fyrra sinn. Þeir hafa nú varning nórænan með sér frá Þorbergs, ok skulu segjast hafa komit út á Eyrum suðr, ok teljast vera frændr þeira Skefils, ok segja, at því fóru þeir norðr þangat, at þeir vilja bæði heimta bætr fyrir vígin, ok svá fé þat, sem þeir höfðu átt bræðr, ok Þorbergr vildi eigi láta takast, — „skorið þá til vistar við Skútu og ásjá um mál ykkart. Farið fyrst suðr um vatnit, ok þaðan at húsi“. Ok nú fara þeir svá með öllu sem þeim var fyrir sagt. Koma nú á fund Skútu, ok bera upp erendi sín, ok tók hann við þeim, sem þeir beiddu. Svá var sagt, at þeir váru þar, ok var Skúta vel til þeira, ok hverjum manni líkar vel við þá. Ok um jól um vetrinn eða litlu fyrir jólin fellr þar váðmeiðr, ok kemr einhver kona at Skútu ok bað hann at gera, ok hann ferr til þegar, ok þeir með honum, vetrtaksmenn hans. Tekr nú Skúta, ok styðr herðum sínum undir mitt tréit. Enn þeir Óláfr og Þorgautr setja nú kvíslatré undir endana. Þá hjó Óláfr til Skútu, enn Skúta hljóp nú undan trénu, ok féll þat niðr á

milli þeira, ok kom eigi á hann höggit. Hann var þá vápnlauss, því at Fluga stóð við vegg. Þá hljóp Þorgautr at honum með reidda öxina, ok vildi þegar höggva til hans, ok nú þreif hann upp eitt tré, er lá hjá honum, ok laust við öxinni með víflinni, er konur váru vanar at hafa til þváttar, ok svá laust hann hart við at, öxin hraut ór hendi honum Þorgauti, ok þá er svá sagt, at Skúta greip þegar öxina, ok hjó þegar Óláf banahögg með þeiri öxi. Enn frá lífláti Þorgauts segja menn misjafnt. Sumir segja, at Skúta léti hann koma í Hrafnasker, ok sendi Þorbergi orð, at hann veitti honum nökkura björg, ef hann vildi. Enn sumir segja, at hann dræpi hann þegar, ok hvárt sem þat var heldr, þá hefir hann bana af fengit. Nú eignast Skúta fé þat sem þeir höfðu þangat haft. Nú verða þeir þessa vísir, Þorgeirr ok Þorbergr, ok þótti þeim miklu við auka sína svívirðing, er þeir fengu, því heldr, sem þeir lögðu meiri stund á at ná Skútu, ok una nú stórilla sínum hlut, enn létu þar fé mikit, ok þótti þeim þat þó miklu verra, er Skúta skal njóta mega fjárins, enn kunna þó ekki tilkall at veita, ok þóttust þá verða berir í svikum við hann, ef þeir kallaði til fjárins; ok varð nú af því þar niðr at falla þessi mál, sem þá var komit.

23. Þormóðr hét maðr, er bjó í Laxárdal á Mánahjalla. Hann var kvángaðr maðr, ok

hét kona hans Þorbjörg. Hon var föðursystir víga-Skútu. Þau Þormóðr áttu son ok var nefndr Eyjólfr. Hann var vænlegr maðr, ok óx þar upp heima með feðr sínum ok móður.

Maðr hét Þorsteinn. Hann bjó á þeim bæ, er á Mýri heitir. Hann var ok kvángaðr maðr, ok átti þá konu, er Þorgerðr er nefnd. Hon var systir víga-Glúms at Þverá ór Eyjafirði. Þau áttu þann son, er Bjarni hét. Hann var mikill maðr þegar á unga aldri, ok rammr at afli. Þau Bjarni váru því vön jafnan um haustum at fara til Þverár at heimboði, ok nú gera þau enn svá á einhverju hausti. Tekr Glúmr við þeim forkunnar vel, ok váru þar þá stund sem þeim líkaði. Enn er þau búast heim at fara, þá gaf Glúmr Bjarna frænda sínum hest rauðan sex vetra gamlan, ok kveðst mundu fá honum annan hest, ef nökkurir væri hvassari, enn sjá. Ok nú fara þau heim frá heimboðinu, ok setr Bjarni þegar hestinn til heys, ok var allvel varðveittr. Ok um sumarit eftir var honum mikil forvitni, hvé bítast vildi hestrinn. Ræddi hann um, at hann vildi etja við hest, er atti Þorkell Geirason ór Skörðum, ok var á kveðit, at þeir skulu etja at miðju sumri hestunum á Mánahjalla. Enn *þeir* feðgar áttu grán hest, föxóttan, ok seldu mönnum jafnan hross undan til slátrs, enn áttu ekki skap til at etja hestinum. Svá er sagt, at saman koma hestarn-

ir einhverju sinni, þeir Þormóðs ok Bjarna, ok bítast svá, at í blóði var hvárrtveggja. Húskarl Bjarna kemr nú á fund hans, ok segir honum frá, er hann hafði sét báða hestana albitna, ok kvað hvárntveggja hestinn vera alrauðan. Ok þá sendi Bjarni orð Þorkatli, at eigi myndi þeir etja hestunum, segir ok, hvat til bar, at hans hestr var nú ekki ötufærr. Þat ætlaði Bjarni, at þeir Eyjólfr myndi hafa att hestunum ok Þormóðr, faðir hans, ok því myndi þeir þann veg vera, at af manna völdum myndi orðit hafa, ok því bauð hann þeim *at* at átta vikum sumars. Enn Þormóðr bað Eyjólf son sinn fyrir ráða, hvárt etja skal eða eigi; enn hann vill etja láta. Nú váru hestarnir fram leiddir, ok váru góð vígin, þar til er gengnar váru ellifu lotur. Þá tekr hestr Eyjólfs undir kinnarkjálka á hesti Bjarna, ok helt þar lengi, þar til at Bjarni fór til, ok laust hestinn af takinu. Enn Eyjólfr snerist nú við ok laust hestinn, ok hraut stafrinn hart af hestinum, ok kom á öxl Bjarna, ok nú váru þegar skildir hestarnir. Gengr Eyjólfr at Bjarna ok mælti, at þetta *þykk*ir honum verr tekizt hafa, enn hann vildi, — „skal ek“, segir hann, „raun til gera, hvárt mér var þetta váðaverk, eða eigi. Nú vil ek“, segir hann, „gefa þér sex tigu geldinga til þess, at þú kunnir mik eigi um þetta, ok máttu þá skilja, at ek munda eigi vilja, at

svá hefði at borizt“. Bjarni kvaðst þessu litlu síðr valdit hafa. Þykkist hann nú vita, at þeir muni eigi att hafa hestunum. Fara menn nú síðan heimleiðis, ok um haustit at réttum drógu þeir Eyjólfr út sex tigu geldinga. Nú spyrr Þormóðr, hvat sauðir skuli þeir, sem út váru dregnir. Enn Eyjólfr kvaðst hafa gefit Bjarna sauðina. Þá segir Þormóðr: „Bæði ætla ek“, segir hann, „at höggit var mikit, enda er miklu launat“; — ok þegar eftir er hann hafði þetta mælt, þá snýr hann Bjarni at honum, ok hjó hann banahögg. Ok nú vill hann eigi þiggja geldingana. Eyjólfr var nú fámennr, svá at hann mátti ekki ná Bjarna, ok nú segir hann móður sinni, at hann mun finna Þorstein frænda sinn at um þetta mál, ok svá Einar Konálsson, ok beiða þá ásjá um með sér. Enn Þorbjörgu móður hans þótti mest traust að Skútu, ok kvað honum verr mundu þykkja, ef aðrir væri fyrr at sóttir, enn hann. Nú gerir hann svá, at hann hittir Skútu, ok segir honum sín ėrendi, ok hann tekr við honum forkunnar vel, ok hét þegar sinni ásjá um þetta mál. Tók hann nú við Eyjólfi. Nú ferr Bjarni á fund Glúms at Þverá frænda síns, ok segir honum vígit. Glúmr segir, at hann vill, at Bjarni sé þar með honum um vetrinn, ok til þess er lyki málum þessum, ok þótti vera gagnsakir í málinu. Bjarni sagði, at honum þótti lítilmannlegt at flýja bú sín, ok

fór hann af því heim. Enn þó vildi Glúmr, at hann hefði eigi heim farit á því máli. Eyjólfr vekr nú til við Skútu frænda sinn þrjá tíma um tilbúnað málsins, ok tók hann vel hit fyrsta sinn, ok kvað enn vera gott tóm til þess. Enn í annat sinn kvað hann munu finnast gagnsakir í málinu. Ok hit þriðja sinn, þá er Eyjólfr hafði þetta mál upp við Skútu, þá kvaðst Skúta vilja hefnd láta fyrir koma. Ok þá beiddist Eyjólfr at taka við málinu, enn hann hafði áðr Skútu í hendr fengit, enn hann varnaði honum þess, ok nú verða þeir frændr andorða um þetta, ok við þetta skilja þeir, at sinn veg þótti hvárum. Enn bráðlega eftir tal þeira ferr Eyjólfr heiman einn saman, ok þar til er hann kom á Mýri, ok nemr þar staðar undir garði einhverjum hávum. Ok nú sér hann, hvar Bjarni fór einn saman til sauðahúss, ok skal rýja sauði fyrr enn aðrir menn. Nú setr hann hurð fyrir húsit. Eyjólfr gengr nú þangat, ok þokar hann hurðinni frá dyrunum. Þá tók Bjarni til hendinni, ok vill láta fyrir dyrnar. Þat sér Eyjólfr, ok er svá sagt, at hann höggr af Bjarna höndina, fyrir framan úlfliðinn. Bjarni hljóp nú út með öxi, ok bað Eyjólf bíða sín, ok svá gerði hann. Ok þegar er Bjarni kom eftir, þá hjó hann til Eyjólfs með annarri hendi, ok þegar af honum skjöldinn, ok í jörðina niðr síðan. Þá hjó Eyjólfr milli herða Bjarna, ok var það bana-

högg. Nú ferr Eyjólfr á fund móður sinnar ok Skútu, ok sagði þeim til þessa. Svá er sagt, at nú líkar Skútu forkunnar vel, ok þykkir nú gott hlut í at eiga með honum, er hann vildi nökkut at manni vera sjálfr, ok kallar hans ferð góða vera.

24. Svá er sagt, at Þorgerðr móðir Bjarna ferr þegar á fund Glúms, bróður síns, ok segir honum þessi tíðindi, ok svá selr hon honum vígsmálit, ok biðr hann taka við eftirmálinu. Hann gerir svá. Glúmr harmaði þetta mjök, ok þótti vera ill tíðendi. Ferr nú á fund Eyjólfs Valgerðarsonar, ok segir honum atburðinn. Eyjólfr vill at þeir fari allir í mála tilbúnaðinn; kvað vera nauðsyn, at slík mál lægi eigi kyrr. Svá er sagt, at Glúmr ferr nú fyrir í njósn með tíunda mann til Hnjóskadals, ok þaðan til Gnúpsskarðs, svá í Bárðardal, ok átu dagverð þar í dalinum, at þess manns, er Áslákr hét. Þar var stafkarl einn á búi, ok þótti förunautum Glúms gaman at glettast við karl. Glúmr bað þá ekki glettast við hann meir enn hann vildi; kvað þat vera lítilmannlegt at erta gamalmenni, ok nú láta þeir hann lausan; enn karl fór þegar á brott, er hann mátti í sjálfræði vera, ok þar til er hann kom á þann bæ, er heitir í Ísólfstungu; enn þar bjó sá maðr, er Hávarðr hét, ok móðir hans. Nú sagði hann Hávarði, at allólíkr var hann þó öðrum mönnum Glúmr, ok

kvað hann engan einn hlut til þess hafa, at honum væri betr farit enn öðrum mönnum. „Mikit tekr þú af“, sagði Hávarðr, „eða hvat er nú svá nýtt um þetta“. Nú sagði karl honum, hvaðan hann var at kominn, ok hvé farit hafði með förunautum hans ok honum áðr, — „Glúmr átti hlut í með oss“ — ok lofaði hann Glúm í hverju orði, sem hann kunni, ok nú bað Hávarðr móður sína gefa karli mat, enn hann bjóst heiman ok fór á fund Skútu, vinar síns, ok sagði honum um ferðir Glúms, þat sem hann vissi til. „Vel þætti mér þat“, sagði Skúta, „at Glúmr kæmi hingat til vár, ok vilda ek gjarna, at hann fengi erendi, ef hann kemr hér“. Nú ríðr Glúmr yfir fjallit, ok hans förunautar. Svá er sagt, at maðr hét Gautr. Hann bjó þar, sem heitir í Gautlöndum. Hann átti góðan hund, er Flóki hét. Ok þat sama kveld gó Flóki einart á fjallit upp. Ok þá þóttist Gautr vita, at manna myndi ván af fjallinu ofan. Ok nú sendi hann þegar hjón sín öll til Skútu, ef hann þyrfti nökkut manna við. Ok nú er þeir Glúmr koma þar í nánd, heyrir hann mannamál, ok skilr, at nökkur njósn mun komin vera um þeira ferð, enn vildi eigi láta teppa sik þar, svá at hann mætti eigi þegar aftr snúa at hann vildi; ok snúa þeir nú aftr á leið, þar til er þeir finna Eyjólf ok förunauta hans á Hálsi. Skúta segir nú, at honum þótti Gautr minna hafa veitt sér í

njósninni, enn hann myndi vilja, þá er seinkaðist kváman Glúms. Þóttist hann nú vita, at Glúmr mun hafa orðit varr við mannafararnar, ok snúit þá aftr, er hann skildi njósnina komna vera fyrir þeim. Svá er sagt, at Skúta vill nú verja þeim vaðit á fljótinu ok hafði hann nær hundraði manna, áðr enn þeir kómu til móts við hann Einarr ok Þorsteinn, bróðir hans, eftir orðsending Skútu. Nú koma þeir Eyjólfr ok Glúmr til vaðsins með tvau hundruð manna, ok því nær var sagt, at þeir Skúta hefði ok, því at Arnórr ór Reykjahlíð veitti honum. Þat er sagt, at þetta var við Eyjarvað, ok váru nú sínum megin hvárr með flokkana. Eyjólfr talar til Glúms, at rétt var, at búa þar mál til, er þeir mætti framast komast, svá at þeim væri óhætt. Ok nú íhugar Glúmr málit, ok fekk hann nú þat ráð, at þeir skulu heyjast við, Skúta og þeir Eyjólfr. Enn Már, son Glúms, er þá var átján vetra gamall, skal ríða til Mývatns við tíunda mann, at stefna Eyjólfi Þormóðssyni. Hann kom þar snemma um morguninn, ok barði á hurð. Enn Hávarðr ór Ísólfsstungu var þar þá, ok gekk hann þá til hurðarinnar. Enn Már rak á honum spjótit Hávarði, ok vá hann þar, enn síðan stefnir hann Eyjólfi. Eftir þat ferr hann á fund föður síns, ok segir honum til, hvat hann hefir at sýst á þeirri stundu, sem hann hefir á brottu verit.

Vel líkar þeim Glúmi ok Eyjólfi förin Más, ok báðu hann hafa þökk fyrir. Segja nú Skútu, at Hávarðr mun eigi bera oftar njósnina. Skúta skaut nú yfir vaðit snærisspjóti, ok kom á þann mann, er Þrándr hét. Hann var góðr bóndi, ok er svá sagt, at hann fekk þegar bana. Nú mælti Eyjólfr, at þar væri þann veg farit mönnum í hvárumtveggja stað, at mannskæð myndi verða deilan þeira, ok nú eiga þeir hlut í, Eyjólfr ok Einarr, at þeir myndi vilja sættast á málit, ok þar kom, at þeir játtuðu báðir þeira ummælum þessarra mála. Enn sú var sættargerð þeira Eyjólfs ok Einars, at stafshöggit, er Eyjólfr laust Bjarna, ok orðin Þormóðs skulu óhelga hann sjálfan. Eyjólfr skal vera utan þrjá vetr, ok fara þá til búa sinna, er hann kemr aftr. Bjarna skal bæta hundraði silfrs; þat skal Glúmr láta koma í hendr Þorgerði systur sinni, enn móður Bjarna. Enn þat var ráðit á laun, at Skúta skal fá Þórlaugar, dóttur Glúms, ok skal Skútu svá heima standa hundraðit, at Glúmr gyldi því minni heimanfylgjuna. Enn þó vissi þat ekki fyrst alþýða manna, ok nú skiljast þeir at sinni vel sáttir. Svá er sagt, at Skúta bað Þórlaugar, ok fekk hennar. Þá var Álfildr önduð, er Skúta hafði fylgt áðr, ok Kolli hafði átt á Sauðanesi. Þat segja menn, at Þorlaug hafi átta þrjá bændr. Fyrst átti hon Skútu, þar næst þann mann, er

Eldjárn hét, ok var kallaðr hinn mildi; hann var farmaðr ok góðr drengr. Síðast átti hana Arnórr kerlingarnef, ok eru göfgir menn frá þeim komnir, ok þótti hon vera mikill skörungr.

25. Nú er þat fyrst at segja, at Þorgeirr son Þóris flatnefs kemr at máli einhverju sinni við Þórodd goða at Hjalla í Ölfusi, frænda sinn, at hann gæfi honum nökkut ráð til þess, at koma Skútu til alþingis, ok þóttist Þorgeirr eiga at sjá þar til föðurhefnda við Skútu. Þóroddr kvað eigi mundu batna við hans kvámu. Enn sjá þykkist hann bragð til þessa; segir, at búðir þeira standa hit næsta fyrir vestan á, ok nú gaf hann þat ráðit til, at þeir skulu hafa búðartoft Skútu fyrir gang um sumarit, ok svá bað hann Þorgeir reisa þar upp ás, ok skera á karlhöfða á endanum, — „ok væntir mik“, segir Þóroddr, „at Skúta mundi koma til þingsins at sumri, ef þann veg er með farit, því at svívirðing mun honum at þykkja, þá er hann veit“. Þessa meðferð hefir Þorgeirr, sem nú var frá sagt. Ok er menn koma heim á heruð, var mjök fjölrætt um þetta, hvárt Skúta mun þola Þorgeiri þessa svívirðing, ok þykkir þat hvergi ólíkara, at hann myndi hefna vilja, svá sem hann er áðr farinn við flesta menn, þó at minna væri til gert enn nú var. Þat er sagt, at kemr þetta til eyrna Skútu, ok lét hann

sem hann vissi eigi, alt þar til er menn búast til þings annat sumar eftir. Þá ferr hann á fund Arnórs ór Reykjahlíð, ok segir honum, at hann vill, at þeir ríði til þings um sumarit. Ok nú samna þeir at sér mönnum; ríða heiman, sem leiðir liggja til þingsins. Enn er þeir koma á völluna efri, þá bað Skúta Arnór ríða til búðar með liðinu, enn hann kveðst eiga annat erendi af út at snúa. Nú reið Arnórr með flokkinn til búðar Skútu, ok tjaldaði búðina. Enn Skúta snýr þangat, sem hann sá mann ganga með viðarbyrði, ok nú skiftir hann klæðum við þenna mann, enn tekr upp byrðina, ok gengr vestr yfir á með, ok hefir viðaröxina í hendi sér. Þeir hlaupa nú at, menn Þorgeirs, ok föluðu viðinn, enn færa hann í reikuð. Ok nú sér hann Þorgeirr þetta ok bað þá vera láta. Ok þá er hann átti hlut í þessu, þá fell ofan byrðrin, ok í því reiðir hann upp öxina Skúta, ok veitti Þorgeiri þegar banasár. Nú hljóp Skúta þegar til sinna manna, ok fara þeir á bak, ok riðu brott af þinginu. Fara nú þar til, er Skúta var kominn ór allri hættu; þá ríðr Skúta heim til bús síns. Enn Arnórr snýr aftr til þingsins með allan flokkinn, ok svá til búðarinnar. Mál eru nú til búin á hönd Skútu, ok Glúmr galt fyrir hann hundrað silfrs þar á þinginu. Fara menn nú heimleiðis. Ok er þeir finnast Skúta ok Glúmr, sagði Glúmr

honum, hvar þá var komit, at sætt var á málit, ok hann hafði goldit fyrir vígit Skúta sagði, at þat myndi hann aldri gert hafa, ef hann hefði ráðit, ok kveðst honum eigi þökk fyrir kunna. Glúmr kvað hann meiri svívirðing af mundu hafa fengit, ef eigi hefði þetta verit at gert, sem nú var frá sagt, ok þótti sinn veg hvárum, sem jafnan váru þeir eigi samlyndir mágar.

Eldjárn hinn mildi Áskelsson kom út á skipi sínu í Eyjafjörð nökkuru síðar. Hann var farmaðr mikill, ok hann kemr á fund Glúms, ok sitja þeir á tali allan dag, svá at engi vissi, hvat þeir töluðu. Ok litlu síðar sendi Glúmr mann til Mývatns, ok bauð hann Þorlaugu dóttur sinni til boðs, ok bað hana hafa gripi sína með sér, ok svá nökkut lausafé. Enn sumir menn vilja þat segja, at Skúta sendi hana heim til Glúms, þá er versnaði með þeim, ok þóttist Skúta gera þat til svívirðingar Glúmi. Enn hin frásögn er hér höfð, at Skúta væri eigi heima, þá er sendimaðr kom eftir Þórlaugu, ok var hann farinn norðr á Strandir at rekum. Hon ferr nú á fund föður síns at hans orðsendingu. Nú urðu menn brátt varir við, hvat verit hafði í talinu þeira Glúms ok Eldjárns, því at þá gifti hann Þorlaugu dóttur sína Eldjárni, ok fóru þau þegar á brott ok utan, ok þótti mönnum þetta vera mikil tíðendi, ok þótt-

ust vita, at Skúta myndi þessa hefna, ef hann mætti því við koma.

**26.** Ásbjörn hét maðr. Hann var frændi Þorlaugar ok ónytjungr mikill. Hann varð sekr á várþingi í Skagafirði. Hann kemr nú á fund Skútu ok biðr hann dugnaðar, því at þau Þorlaug höfðu veitt honum fyrri ásjá. Ok Skúta hét honum ásjá, ef hann færi sendiför hans til Glúms. Ásbjörn kveðst eigi vilja vera flugumaðr Skútu; sagði þat eigi vera hans færi. *Skúta sagði:* „Þú skalt fara á hans fund, ok mæla þessum orðum, at þú þykkist þurfandi, at hann gerist forsjámaðr ráðs þíns, ok seg, at þitt vandræði er mikit, er þú hefir beðit af vígaferlinu, ok get ek, at þann veg beri til um fund ykkarn, at Glúmr sé í þingreið. Enn hans skaplyndi er þat, at hann er maðr þrautgóðr ef menn þurfa hans, ok enn mætti svá verða, ef þú gerir þitt mál líklegt; enda viti hann, at þú ert hjálplauss; ef hann mælir, at þú farir til Þverár, ok bíðir hans þar, til þess er hann kemr heim af þinginu, þá skaltu svá svara, at „meir er þrengt mínu máli, meðr því at hugr býr lítill í brjósti“; seg, at þú hræðist mennina, ok vildir heldr koma á hans fund, er þú hittir hann einn saman; ok meðr því at Glúmr er armvitigr ok vel skapi farinn, kann vera at þar leggi hann til nökkut ráð; ok þess skaltu biðja, at finna hann í Mjaðmárdal, er gengr

upp frá bænum at Þverá, ok sel hans standa. Lát *þér* þar sýnast, sem þú munt hugboðit hafa, at finna hann at ákveðnum degi ok stund. Ok ef þetta gengr fram, skaltu þess njóta frá mér, ok mun ek þá veita þér dugnað, enda vinnr þú þat eina til, at þér samir vel", — ok þessu játtar Ásbjörn. Svá er sagt at hann hittir nú Glúm, þá er hann var kominn á leið á Öxnadalsheiði, ok ríðr hjá honum, ok segir sitt erendi, ok þau orð öll, er áðr váru sögð. Glúmr kveðst eigi þat vita, at hann ætti honum góða hluti at launa, — „enn fyrir þá sök, at þú *seg*ir þik vinlausan, ok lætr, at hér liggi við líf þitt, þá vil ek, at þú farir norðr til Þverár, ok bíðir þar minnar heimkvámu". Hann svarar: „Vel er leyst vandræðit ok mikilmannlega, enn þó hefi ek eigi dirfst til at sækja þangat, er margir menn eru fyrir, ok aldri örvænt, hvar óvinum mætir". Glúmr svarar: „Þú ert blauthugaðr. Enn at þú skilir, at ek vil þér hjálpir veita, þá kom þú í Mjaðmárdal at ákveðinni stundu til selja minna, því at þar mun eigi fjölmenni fyrir". Hann svarar: „Þann kost hefir þú boðit, er mér líkar". Skiljast þeir nú. Ferr Glúmr til þings, enn Ásbjörn ferr til Skútu, ok segir honum, hvar komit er. Skúta segir: „Vel hefir þú leyst þitt erendi, ok ver nú með mér". Enn er at líðr þessum tíma, þá býst Skúta heiman ok þeir Arnórr með þrjá

tigu manna. Þeir ríða nú norðan, ok koma vestr yfir Vöðlaheiði ok á hjalla þann, er heitir Rauðahjalli. Þar stíga þeir af baki. Þá mælti Skúta til Arnórs: „Nú munu þér eiga hér dvöl um hríð; enn ek mun ríða inn með hlíðum, ok vita, ef nökkut verðr til fengjar. Langt hefir nú verit síðan er vér höfum hitt menn ór heruðum“. Hann ríðr með vápnum sínum, ok sér, er hann reið í dalinn, at maðr ríðr neðan eftir dalnum upp frá Þverá, mikill, í kápu grænni, ok kennir hann þar Glúm. Þá stígr Skúta af hestinum. Hann hafði vesl yfir sér tvískift svart ok hvítt. Hann lét hestinn í rjóðr eitt, ok gengr síðan upp til selsins, ok var Glúmr þá kominn í selit. Þat var þann dag, er þeir skyldi finnast, Glúmr og sendimaðr Skútu. Skúta hafði Flugu í hendi ok hjálm á höfði. Þar segja menn eigi einn veg frá. Sumir segja svá, sem hér er sagt, at þat væri öx, ok héti Fluga, enn sumir segja, at þat væri sverð, ok héti Fluga, enn hvárt sem heldr var, þá hafði Skúta þat vápn jafnan í hendi, ok svá var nú þetta sinn. Nú gengr Skúta at selsdyrunum, ok laust á vegginn, ok víkr síðan hjá selinu aftr. Glúmr gekk þá út, ok hafði ekki í hendinni, ok sér nú eigi manninn. Hann snýr þá hjá selinu, ok kom í hug, at maðrinn var ódjarfr, at hann myndi eigi traust til bera, at ganga at selsdyrunum. Nú víkr Skúta milli

hans ok dyranna, ok er Glúmr sér þat, ok kennir manninn, þá hopar hann undan, enn árgljúfr váru nær selinu. Skúta biðr hann bíða. Glúmr segir, at þat myndi mælt, at eigi væri fjarri, hvárr þeira betr væri vígr, ef þeir eru jafnbúnir til, — „enn eigi vil ek ganga á vápn þín“, — ok hopar hann at gljúfrinu. Enn Skúta leitar þar ofan, er ganga mátti, ok sér í gljúfrinu, hvar kápuna rak ofan. Hann hleypr at, ok leggr til kápunnar; þá heyrir hann, at mælt er yfir honum uppi: „Þat er lítil fremd“, segir svá, „at spilla klæðum manna“. Skúta leit upp, ok kennir þar Glúm. Hafði hann vitat raunar, at þar var tó undir, er hann fór ofan, ok réð hann því til, at hann sá eigi færi at bíða. Þá mælti Skúta: „Á þat áttu at minnast, Glúmr, at nú hefir þú runnit, ok beðit eigi Skútu“. „Satt er þat“, segir Glúmr, „enn vilja munda ek, at þú rynnir eigi skemra, áðr sól settist í kveld“. Þá kvað Glúmr þetta:

Halfs eyris met ek hverjan
hrísrunn fyr á sunnan;
vel hafa viðir skógar
vargfœðanda borgit.

Þar skilr með þeim. Ferr Glúmr heim, ok samnar liði, og segir, hvert vélræði var fyrir hann sett af óvina hendi; lézt ok vilja, at þat mætti brátt gjaldast. Hann fær á lítilli stundu sex tigu manna, ok ríða síðan upp í dalinn.

Skúta gekk til hests síns, ok reið með hlíðinni, ok gat nú at sjá, hvar fjöldi manna reið, ok veit, at þat má honum eigi endast, ef þeir fá staðit hann; leitar nú ráðs, brýtr af skaftinu spjótit, ok hefir fyrir staf; tekr af hestinum söðulinn, enn snýr veslinu, ok reið nú at sauðum, ok hóar fast á féit. Nú koma þeir eftir honum, förunautar Glúms, ok spyrja, ef hann hefði sét mann nökkurn skörulegan ok með vápnum ríða fram um leitit. Skúta kvaðst sjá, at maðrinn fór hvatlega, ok dró þá í sundr, er leitit bar í milli þeira. Þeir spyrja, hvat er hann hét. Skúta segir: „Ek heiti margr at Mývatni, enn fár í Fiskilækjarhverfi". Þeir sögðu: „Af skætingu viltu svara oss ok spotti". Skúta segir: „Ek kann aldri sannara at segja". Ok þá skilr með þeim. Þat er sagt, at Skúta tekr nú vápn sín, ok reið hvatlega til sinna manna. Enn hinir finna Glúm ok segja honum at þeir fundu þann mann, er þeim svaraði með spotti ok kvaðst heita margr í Mývatnshverfi, enn fár í Fiskilækjarhverfi. Glúmr segir: „Nú hefir yðr orðit ráðfátt nökkut. Þar hafi þér hitt Skútu, eða hvat mátti hann sannara segja, því at í Mývatnshverfi er hverr skúti við annan, enn í Fiskilækjarhverfi hittir hvergi skúta, ok hefir nú nær lagt með oss, ok eftir skulu vér enn ríða", — ok koma nú at hjallanum, ok eru þeir Skúta þar fyrir. Enn þar var ein-

stígi upp at ganga, ok er þar betra at verja með þrjá tigu manna, enn sækja at með sex tigu. Þá mælti Skúta: „Svá er nú, Glúmr, at þú hefir kost til gefit, at sækja eftir mér. Má nú vera, at þú þykkist þín eiga í at hefna fyrir undanhaldit, því at allknálega heltu undan, ok bart gott áræði til at hlaupa í gilit“. Glúmr segir: „Satt er þat, at mér leizt þat ráð. Enn kunnir þú ok hræddr at verða, þá er þú lézt vera sauðamaðr Eyfirðinga, ok leyndir vápnum þínum, ok ætla ek at eigi rynnir þú skemri leið“. Skúta segir: „Hversu sem hér til hefir verit, þá sæk nú at með hálfu fleira lið, enn vér munum hér bíða, ok eltast eigi lengra“. Glúmr segir: „Ek ætla, at vér munum nú skilja at sinni. Verðr nú virt sem má í hvárn stað“. Nú ríðr Glúmr heim til Þverár með sínum mönnum, ok ekki bjó hann þetta mál til. Skúta kveðst ætla, at eigi myndi honum auðit verða, at koma Glúmi fyrir, ok sagði, at þat myndi undan bera, at hann yrði honum at skaða. Ok ferr hann nú heim við sínum mönnum.

27. Nú er þat fyrst at segja, at Þorbergr höggvinkinni gerir heiman ferð sína til fundar við þann mann, er Arnórr hét, — hann var at ok smíðaði skot um skála Skútu, — ok gaf honum hálft hundrað silfrs til, at hann skyldi leyna þeim mönnum þar í skotinu hjá sér, er

annar hét Játgeirr, enn annar Eyjólfr. Þeir váru sekir menn, ok hafði Þorbergr þá sent til at vinna á Skútu. Ok nú var þetta kaup þeira, Arnórs ok Þorbergs. Eigi var Skúta heima, þá er Þorbergr hafði þar komit. Hann kemr nú heim, ok var honum vel fagnat, sem líklegt var. Gengr Skúta nú til, ok lítr á smíðina Arnórs, ok hefir hann ekki vápna í hendi. Arnórr telgdi þá með knífi, enn tálgöxin lá þar hjá honum. Nú hléypr ofan þilit ok mennirnir fram. Þykkist Skúta nú sjá bragð þeira. Varð honum nú þat fyrir, at hann þreif upp tálgöxina, ok hjó hann Arnór banahögg, ok kvað hann eigi oftar sik svíkja skuli, ok nú kallar Skúta á sína menn ok segir þeim, hvert vélræði var fyrir hann sett. Enn húskarlar hans hlupu til ok drápu flugumennina. Enn Skúta hefir silfrit þat, er Arnórr hafði haft af Þorbergi höggvinkinna. Þetta mál var til búit á hönd Þorbergi til Eyjarþings, ok var þar sæzt á málit. Skal Þorbergr gjalda fyrir fjörráðit hálft hundrað silfrs, enn Þorbergr skal fara á brott þaðan ór sveitinni, ok til Lundarbrekku í Bárðardal, ok þótti þá líklegra til, at af myndi taka óþokkann milli þeira, ef þeir sætist eigi svá nær, sem áðr hafði verit. Ok færir Þorbergr þegar bú sitt.

28. Maðr er nefndr Auðgísl. Hann var frændi Þorbergs höggvinkinna, ok hinn mesti

ónytjungr þótti hann vera. Hann kemr einhverju sinni á fund Þorbergs, frænda síns, ok skorar á hann til nökkurra tillaga við sik. Enn Þorbergr kvað hann eigi verr til fallinn at afla sér fjár enn sik, ef hann hefði þrifnað til. Enn fá kveðst hann mundu til utanferðar honum, ef hann vægi Skútu. Enn Auðgísl kveðst litlu verra eigu at launa Skútu, enn honum, enn kvaðst þó nær mundu honum leggja ef hann vildi. Ok nú setti hann sjálfr þau ráð til, at hann mun brjóta fatakistu Þorbergs, ok taka á brott feld hans ok kyrtil ok sverð, enn ganga síðan fyrir hann, ok heitast við hann sjálfan at taka meira, ef hann vildi eigi þetta gefa honum, enn fara síðan til Skútu, ok biðja hann ásjá, ok sagði hann eigi gruna mundu, ef hann færi þann veg með. Þorbergr kvaðst þetta þykkja féfrekt, enn kveðr þó líklegt, at svá myndi ganga, ok vill hann fyrir því þenna kost. Svá ferr Auðgísl með sínu máli, sem áðr var frá sagt, ok kemr á fund Skútu, ok beiddi hann viðtöku ok ásjá. Spurt hafði Skúta, at sönn var saga hans, ok tók hann við honum. Svá er sagt, at Skúta hafði látit gera sér lokrekkju; enn þar var svá um búit, at ketill var upp yfir rekkjuna, ok reist upp haddan yfir katlinum, ok váru þar á festir hringar til þess at eigi mætti svá at koma rekkjunni, at Skúta yrði ekki varr við; af því var haddan upp reist,

at hann vaknaði við, ef hon felli. Ok jarðhús átti hann undir rúmi sínu, ok annan jarðhússmunna í sauðahúsinu. Ekki vissu þetta fleiri menn, enn Skúta ok fóstra hans, er Sigríðr hét, at væri þann veg um búit, ok svá unni hann henni mikit, at hann trúði henni einni, at vita með sér slíka hluti. Enn er Auðgísl hafði þar verit hálfan mánuð, var þat eina nátt, at Skúta gekk ór rúmi sínu, ok læsir hlemminum, er hann kemr aftr til rúmsins, ok leggst svá niðr. Síðan réð Auðgísl til, er hann var sofnaðr, ok sté í rekkjugolfit, ok þegar hljóp niðr undir honum golfit. Þá fell haddan á katlinum, því at hann kom við festina, ok nú vaknar Skúta í því bili við þetta alt saman, ok nú leggr hann á Skútu miðjan. Enn Skúta bregðr upp fætinum, ok leggr hann í fótinn á honum. Nú hljóp hann þegar upp, ok veitti honum banasár, enn tekr nú til sín gripina, þá er Þorbergr hafði átt, ok eftir leitar hann við Þorberg, ef þetta væri nökkut af hans ráðum; enn hann kvað þat fjarri fara, ok kvað Auðgísl hafa stolit frá sér gripunum, ok barit á honum á svá gert ofan. Nú bjó Skúta þetta mál ekki til, ok fell þetta þar niðr.

29. Einhverju sinni kom Þorbergr á fund Þorgeirs goða, ok sagði, at honum þótti eigi vel veita við Skútu. Þóttist fá mikit manntjón af honum, ok engar bætr fengit, ok biðr nú

Þorgeir, at eiga hlut í um sínar sakar, at Skúta yrði af ráðinn. Honum kvaðst illa hugr um segja, enn játar þó at vita, hvernig til vlll takast um sinn. Um várit at várþingi samnar Þorgeirr at sér mönnum, ok fór upp í Reykjadal á laun, ok hafði tvau hundruð manna til Lauga, ok á nú at sitja þar fyrir Skútu, þá þegar hann ríðr til Eyjarþings. Skúta hafði sex tigu manna, ok vissi hann enga ván til ferðar Þorgeirs. Nú sér Skúta hrossfjölda mikinn, ok þykkist eigi vita, hverju gegna myndi. Bað nú Arnór ór Reykjahlíð at vera fyrir liðinu, enn hann vill ríða til húss at Reykjnm. Nú fór hann til bæjarins einn saman, ok síðan at hrossum Þorgeirs, ok hittir hann þar einn mann af liði Þorgeirs, er gætti hrossanna. Sá maðr sagði alt, hvat gegndi um ferð Þorgeirs, ok spurði, ef hann vissi nökkut af Skútu, enn hann kvað þat fjarri fara. Nú spurði Skúta, hverir þar sæti í brekkunni stund frá þeim, enn maðrinn kvað þann heita Vestmann, er fyrir þeim var, ok í litklæðunum var, enn hinir tveir fengnir honum til fylgdar við hann — „ok skulu þeir“, segir hann, „njósna um ferð Skútu, því at Þorgeirr vill finna hann“; ok nú skilja þeir, ok ríðr Skúta fram hjá þeim Vestmanni, Hann var í kufli, ok nú fleygir Skúta til Vestmanns spjóti, ok kvað hann mega nú sjá þann mann, sem hann hefði áðr at leitat.

Spjótit kom á Vestmann miðjan, ok fekk hann þegar bana. Skúta hleypti nú á brott ok til sinna manna, enn hinir fóru á fund Þorgeirs, ok segja honum til svá búins. Nú eggjar Þorbergr mjök, at ríða eftir Skútu, enn Þorgeirr vill þat ekki, ok kvaðst ekki oftar til leita við Skútu. Þetta mál var nú búit til Eyjarþings, ok sættust þeir á þinginu. Guldu þeir Þorsteinn hundrað silfrs fyrir víg Vestmanns. Þá lét Þorgeirr þat til, *er* hann *náði* bótunum, at hann skyldi aldri sitja um líf Skútu síðan. Ok nú fara menn heim af þinginu, ok váru nú allir sáttir, ok efndi Þorgeirr þat vel, at hann setti fjörráð fyrir Skútu..

30. Svá er sagt, at þeir kæmi at máli við Þórodd goða Eyvindarson, frænda sinn, synir Þóris flatnefs. Hét annarr þeirra Þórðr Illugi, enn annarr Björn. Þeir báðu hann ráðagerðar til at drepa Skútu Áskelsson, því at hann hefði drepit föður þeira ek bróður. Þóroddr vill nú þreifa um þá, ok þóttist ger vita, hvat þeir váru, ok þótti honum Þórðr Illugi ólíklegr til hefnda, ok bað þá koma önnur misseri í þat mund, ok sagðist þá mundu ger vita híbýli víga-Skútu, ok sagðist þá heldr mega vita, hverja meðferð hafa skyldi. Brott fara þeir at sinni bræðr, ok ætla at vísu at koma á hans fund á nefndri stundu, ef nökkut mætti þeir reka réttir sinna svívirðinga. — Nú kemr Þór-

oddr at máli við þann, er Þorgrímr hét. Hann var Óttarsson Þorgrímssonar, ok systrungr Þórodds at frændsemi. Nú segir hann, at hann var heitbundinn í við þá bræðr, enn frændr sína ok sonu Þóris flatnefs, at kunna at segja þeim nökkut af híbýlum víga-Skútu af Mývatni, ok ráðit þeim ráð til hefnda eftir föður sinn ok frændr, — „enn mér er það ókunnigt“, segir hann, „at svá búnu. Nú trúi ek þér bezt at fara með mínum erendum norðr þangat, enn þat skal vera með því möti ok tilstilli, at ek vil“, segir Þóroddr, „at þú látir þik áskilja við einhvern húskarl minn, ok *skaltu* vinna á honum ok hlaupa síðan norðr til Skútu, ok biðja hann ásjá ok skaltu fiflast á Sigríði, fóstru hans, ok gefa henni margt, enn tala aldri um Skútu við hana, ok far til þings at sumri ok finn mik“. Þorgrímr mælti mjök í móti, enn fór þó með öllu, sem Þóroddr hafði honum boðit; vinnr nú á húskarlinum, ok hleypr nú norðr á brott á fund Skútu, ok bað hann viðtöku. Enn Skúta segir, at honum þótti kynlegt, at hann fór norðr þangat, ok sagði sér margt vera sagt torsóttlegt frá Þóroddi. Tók þó við honum, ok var hann þar vel haldinn. Hann tekr sér brátt af at skipta við Sigríði, fóstru Skútu, ok gat ástir hennar, því at Skúta bannaði þat ekki, enn þó grunaði þat um Þorgrím Skúta, at eigi myndi trúr vera. Enn þó var hann þar

um vetrinn, enn um sumarit vill hann fara til þings, at hitta Þórodd. Ok nú ferr hann ok segir Þóroddi til þessa, þat er hann mátti af vita um háttu Skútu, ok þótti Þóroddi eigi færi á um sinn. Illt þótti Þorgrími at starfa í þessu, því at Skúta var vel til hans. Þóroddr réð þeim Illuga ok Birni at fara til Ölvis hins spaka, ok biðja hann ráðs at vinna Skútu. Síðan fara þeir ok finna Ölvi. Réðst hann þegar til ferðar með þeim. ok haga svá til, at þeir koma til híbýla Skútu um nátt, ganga þeir Illugi ok Björn í jarðhúsit með ljósi, enn Ölvir var hjá jarðhúsmunnanum. Þeir ganga nú eftir jarðhúsinu, ok koma at þar, sem um festina var búit, ok nú skáru þeir festina, ok létu síga hóglega niðr hödduna. Nú lúka þeir upp jarðhúsmunnanum, ok þá kom kaldr blær á Skútu ór jarðhúsinu, ok vaknar hann við, ok stóð nú upp, ok í því bili lagði Illugi spjóti á Skútu. Enn Skúta hjó yfir höfuð Illuga ok í höfuð Birni, ok mælti í því, at eigi hefði allir haldinorðir verit, ok nú var hann þó því sári særðr, er hann leiddi til bana. Illugi bar nú Björn bróður sinn á brott af jarðhúsinu, ok var hann mjök sárr. Ferr hann nú síðan á brott, ok þeir Ölvir allir saman, ok andaðist Björn bráðlega af því sári, sem Skúta hafði veitt honum. Þorgrímr bauð nú Sigríði með sér at fara, enn hon ásakaði hann mjök um þetta, ok kvað þá Skútu

hafa ójafnt við haft, — „er hann trúði þér vel, enn þú hefir nú svikit hann"; ok þó ferr hon nú brott með honum á þeirri nátt, ok giftist honum síðan. Nú er þat sagt, at mál var til búit um víg Skútu, ok varð Þórðr illhugi sekr um vígit Skútu, ok skal hann vera utan þrjá vetr. Enn þeir halda upp bótum fyrir ráðin ok tilförina vígs Skútu, Þóroddr goði ok Ölvir hinn spaki, sonr Þorbergs höggvinkinna. Ok váru nú sáttir at kalla.

Þótti mörgum mönnum þat eigi fyrr hafa at hendi borit, enn líklegt var, um málit Skútu, at hann væri af ráðinn. Enn þó er þat eina satt af honum at segja, at hann var vitr maðr ok hinn mesti fullhugi, ok margir gengu ekki betr, enn til jafns við hann, þótt miklir þættist fyrir sér vera, enn eigi þótti hann öllum jafnaðarmaðr vera. Höfum vér nú hér lok þessarrar frásagnar, ok þakki nú hverr, sem vert þykkir.

# VIÐBÆTIR.

## I.

### Úr Landnámu.

*III. 19.*

Þorsteinn höfði hét maðr; hann var hersir á Hörðalandi; hans synir váru þeir Eyvindr ok Ketill hörðski. Eyvindr fýstist til Íslands eftir andlát föður síns, enn Ketill bað hann nema báðum þeim land, ef honum sýndist síðar at fara. Eyvindr kom í Húsavík skipi sínu, ok nam Reykjadal upp frá Vestmannsvatni; hann bjó at Helgastöðum ok er þar heygðr. Náttfari, er með Garðari hafði út farit, eignaði sér áðr Reykjadal, ok hafði merkt á viðum, enn Eyvindr rak hann á braut ok lét hann hafa Náttfaravík. Ketill fór út at orðsendingu Eyvindar; hann bjó á Einarsstöðum; hans son var Konáll og Þorsteinn, faðir Einars, er þar bjó síðan. Sonr Eyvindar var Áskell goði, er átti dóttur Grenjaðar; þeira synir Þorsteinn ok víga-Skúta. Dóttir Eyvindar var Fjörleif.

*III. 18.*

Hann (þ. e. Gnúpa-Bárðr) átti mörg börn; hans son var Sigmundr, faðir Þorsteins, er átti Æsu, dóttur Hrólfs rauðskeggs; þeira dóttir var Þórunn, er átti Þorkell leifr, ok var þeira son Þorgeirr goði at Ljósavatni. Annarr son Bárðar er Þorsteinn, faðir Þóris, er var á Fitjum með Hákoni konungi, ok skar rauf á oxahúð, ok hafði þá hlíf; því var hann Leðrháls kallaðr; hann átti Fjörleifu Eyvindardóttur; þeira synir váru þeir Hávarðr í Fellsmúla, Herjólfr at Mývatni, Ketill í Húsavík, Vémundr kögurr, er átti Halldóru, dóttur Þorkels svarta, ok Áskell ok Háls. Hann bjó á Helgastöðum.

*III. 20.*

Máni hét maðr; hann var fæddr í Ömd á Hálogalandi; hann fór til Íslands ok braut við Tjörnes, ok bjó at Mánǫ́ nökkura vetr; síðan hrak Böðólfr hann á braut þaðan, ok nam hann þá fyrir neðan Kálfborgará, milli Fljóts ok Rauðaskriðu, ok bjó at Mánafelli.

*III. 14.*

Maðr hét Þórðr slítandi; hann nam Hörgárdal upp frá Myrká ok ofan til Dranga öðrummegin. Hans son var Örnólfr, er átti Ingvildi allra-systur; þeira synir váru þeir Þórðr ok Þorvarðr í Kristsnesi ok Steingrímr at Kroppi.

*III. 17.*

Þengill mjöksiglandi fór af Hálogalandi til Íslands; hann nam land at ráði Helga út frá Hnjóská til Grenivíkr. Hann bjó í Höfða. Hans synir váru þeir Vémundr, faðir Ásólfs í Höfða, ok Hallsteinn, er þetta kvað, þá er hann sigldi af hafi, ok frá andlát föður síns:

Drúpir Höfði,
dauðr er Þengill,
hlæja hlíðir
við Hallsteini.

*III. 20.*

Geiri hét maðr norrænn, er fyrstr bjó fyrir sunnan Mývatn á Geirastöðum; hans synir váru Glúmr ok Þorkell. Þeir feðgar börðust við Þorberg höggvinkinna, ok feldu Þorstein son hans; fyrir þau víg váru þeir gervir norðan ór sveitum. Geiri sat um vetr á Geirastöðum við Húnavatn. Síðan fóru þeir í Breiðafjörð; ok bjoggu í Geiradal í Króksfirði. Glúmr fekk Ingunnar, dóttur Þórólfs Véleifssonar. Þeira börn váru þau Þórðr, er átti Guðrúnu Ósvífrsdóttur, ok Þorgerðr, er átti Þórarinn Ingjaldsson; þeira son Helgu-Steinarr.

*IV. 2.*

Son Una (ɔ: danska) ok Þórunnar var Hróarr Tungugoði; hann tók arf Leiðólfs allan, ok var it mesta afarmenni. Hann átti dóttur Há-

mundar, systur Gunnars frá Hlíðarenda; þeira son var Hámundr enn halti, er var enn mesti vígamaðr. Tjörvi enn háðsami ok Gunnarr váru systursynir Hróars. Tjörvi bað Ástríðar mannvitsbrekku Móðólfsdóttur, enn bræðr hennar Ketill ok Hrólfr synjuðu honum konunnar, enn þeir gáfu hana Þóri (ɔ: flatnef) Ketilssyni; þá dró Tjörvi líkneski þeira á kamarsvegg, ok hvert kvöld, er þeir Hróarr gengu til kamars, þá hrækti hann í andlit líkneski Þóris, enn kysti hennar líkneski, áðr Hróarr skóf af. Eftir þat skar Tjörvi þau á hnífshefti sínu ok kvað þetta:

Vér höfum þar, sem Þóri
þar var sett við glettu,
auðar unga brúði
áðr á vegg of fáða;
nú hefk rasta karms ristit —
réð ek einn fyrir því meini —
hauka skofts á hefti
Hlín ölbækis minu.

Hér af gerðust víg þeira Hróars ok systursona hans.

# Vísuskýring.

**Víga-Glúmr:** Ek met hverjan hrísrunn fyrir sunnan á halfs eyris. Skógar viðir hafa oft borgið vel vargfœðanda.

Eg met hvern hrísrunn fyrir sunnan ána á við hálfan eyri. Skógrinn hefir oft borgið bardagamanninum.

# Leiðréttingar.

Bls. $81_{16}$: komist les *komizt*.
Bls. $58_{9}$: sögu les *sögn*.
Bls. $58_{11}$: sér les *sér*.
Bls. $75_{24}$: atti les *átti*.

# Nöfn.

# Samtal.

## I.

*Ari:* Ert þú áskrifandi að Íslendinga sögunum, Jón, eða hann Þórður bróðir þinn?

*Jón:* Þórður bróðir minn hefir keypt þær síðan þær byrjuðu að koma út, og er víst ekki á því að hætta við þær; honum þykir vænna um þær en svo. Og jeg er nú að hugsa um að verða áskrifandi að þeim bráðum; mig langar til að eignast þær allar.

*Ari:* Mjer þykir þú hafa skildingaráð, kunningi, að geta snarað út i einu níu eða tíu krónum fyrir það, sem út er komið af sögunum. Um framhaldið er allt öðru máli að gegna, því sögurnar eru svo ódýrar, að engan munar um að kaupa það, sem árlega kemur út af þeim.

*Jón:* Heldurðu að jeg ætli að kaupa þær allar í einu? Nei, ekki alveg. Jeg kaupi þær náttúrlega svona smátt og smátt eptir kringumstæðum, þangað til jeg er búinn að ná í allt, sem út er komið af þeim.

*Ari:* Jeg er hræddur um, að þú fáir þær ekki með eins góðu verði og hinir, sem verið hafa áskrifendur að þeim frá upphafi.

*Jón:* Jú, alveg með sama verði. Allir geta fengið sögurnar nú og framvegis með því verði, sem á þeim stendur prentað, á hvern hátt sem þær eru keyptar. Það hefir verið auglýst optar en einu sinni.

*Ari:* Jæja. Einmitt það. Þakka þjer fyrir upplýsingarnar, kunningi. Jeg held jeg hætti þá að striða við hann Stefán á Hrauni, sem aldrei lánar manni bók nema með ónotum, — og reyni að eignast sögurnar sjálfur á sama hátt og þú.

*Jón:* Þetta líkar mjer að heyra.

Verð: 30 aur.

# Íslendinga sögur.

17.

# Þorskfirðinga saga.

Bjó hefir til prentunar
**Valdimar Ásmundarson.**



Reykjavík.

Kostnaðarmaður: Sigurður Kristjánsson.

1897.

# ÞORSKFIRÐINGA SAGA.

---

BÚIÐ HEFIR TIL PRENTUNAR

VALD. ÁSMUNDARSON.



**REYKJAVÍK.**

**ÐARMAÐUR:** ***SIGURÐUR KRISTJÁNSSON.***

**1897.**

# FORMÁLI.

Þorskfirðinga saga eða gull-Þóris saga er áðr gefin út af dr. Konráði Maurer í Leipzig 1858 og síðan hefir Þorleifr Jónsson gefið hana út í Reykjavík 1878.

Það er til eitt handrit á sögunni á skinni, nr. 561 4to í safni Árna Magnússonar, enn í það vantar bæði í miðju sögunnar og að aftanverðu.

Í útgáfu Þorleifs Jónssonar eru þessar eyður fyltar eftir handritum úr Breiðafirði, enn hann getr ekki um aldr þeirra og lýsir þeim ekki. Enn með því að líkindi eru til, að sagan muni vera allgömul í þessari mynd, hefir þótt réttast, að fylgja útgáfu Þorleits Jónssonar, með því líka að sagan kemr þá í heilu líki. — Kaflinn í miðri sögunni, í 10.—11. kap., sem hér er settr inn, er einkendr með klemmum [ ] að framan og aftan.

Í útgáfu Þorleifs Jónssonar er sagan nefnd gull-Þórissaga, enn í útgáfu Konr. Maurers ‚Die Gull-Þórissaga oder Þorskfirðingasaga', og með því að sagan er einnig nefnd Þorskfirðinga saga í handritum, þá hefir þótt réttast að halda því nafni.

## TÍMATAL.

| | | |
|---|---|---|
| Utanför gull-Þóris . . . . . . . | fyrir | 920. |
| Bardagi við Steinólf . . . . . . | um | 930. |
| Söguiokin . . . . . . . . . . . | um | 940. |

# Þorskfirðinga saga.

Þórólfr hét maðr, sonr Örnólfs fiskreka. Hann bjó í Mostr; því var hann kallaðr Mostrarskeggi. Hann var blótmaðr mikill ok trúði á Þór. Hann fór fyrir ofríki Haralds konungs hárfagra til Íslands, og sigldi fyrir sunnan land; hann sigldi fyrir norðan Snæfellsjökul ok inn á á fjörð einn mikinn ok gaf honum nafn ok kallaði Breiðafjörð. Hans son hét Hallsteinn, er nam Þorskafjörð ok bjó á Hallsteinsnesi. Hann blótaði þar til er Þórr sendi honum öndvegissúlur, ok gaf þar til son sinn. Eftir þat kom tré á land hans sex tiga ok þriggja alna langt ok tveggja faðma digrt. Þar heitir nú Grenitrésnes, er tréit kom á land. Hallsteinn hafði herjat á Skotland, ok tók þar þræla þá, er hann hafði út. Þá sendi hann til saltgerðar í Svefneyjar. Þar hafði Hallsteinn þrælahag við. Hallsteinn átti Ósk dóttur Þorsteins rauðs; þeira börn váru þau Þorsteinn surtr, er fyrstr fann sumarauka, Þórarinn ok Þuríðr. Grímkell hét frilluson Hallsteins ok bjó á Grímkelsstöðum út frá Gröf. Þessir menn kómu til Íslands með Hallsteini:

Hrómundr, er síðan bjó í Gröf; Valgerðr hét kona hans, enn Þorsteinn sonr. Eyjólfr hinn auðgi kom til Íslands með Hrómundi ok bjó í Múla í Þorskafirði; Hallgerðr hét kona hans, enn Valgerðr systir; hon var fríð kona. Þorgeirr hét maðr, er bjó í Þorgeirsdal. Þessir váru allir vinir Hallsteins. Böðmóðr í Skut var víkingr mikill, ok óeirinn mjök; hann var son Þorbjarnar loka, Eysteinssonar, Grímkelssonar, Önundarsonar fylsennis. Þeir váru synir Böðmóðs: Þorbjörn loki, er nam allan Djúpafjörð ok Grónes, ok Vígbjóðr, faðir Steins mjöksiglanda, er Hítdælir ok Skógnesingar eru frá komnir. Með Þorbirni loka kómu út: Styrkárr, er hann gaf land í Barmi til móts við Hallstein; dóttir Styrkárs hét Kerling ok heldr margkunnig. Helgi hét bróðir Styrkárs, er land keypti at Hjöllum í Þorskafirði; hans synir váru þeir Þórarinn ákafi ok Þrándr hinn mikli. Helgi var virðingamaðr ok þó ekki dæll við alþýðu. Þorgils hét son Þorbjarnar loka; hann bjó á Þorgilsstöðum í Djúpafirði; þeir feðgar váru miklir fyrir sér ok ættstórir. Úlfr hinn skjálgi son Högna hins hvíta nam Reykjanes alt milli Þorskafjarðar ok Hafrafells; hann bjó á Miðjanesi; hans synir váru þeir Jörundr ok Atli hinn rauði. Með Úlfi kom út sá maðr, er Hallr hét, ættstórr ok mikilhæfr; hann bjó á Hofstöðum við Þorskafjörð, ok reisti þar hof mikit, því at

Úlfr var engi blótmaðr. Hallr var mikill höfðingi, ok hnigu þar margir til hans. Rauðr hét son hans, ok bjó í Rauðsdal milli Hofstaða ok Berufjarðar. Annarr hét Hyrningr; sá var yngri. Þuríðr drikkinn bjó á Kinnarstöðum, ok átti land inn til Músarár; hon var mörgu slegin ok gerði manna mun mikinn. Synir hennar váru þeir Þorsteinn ok Þórhallr, efnilegir menn. Bera hét ekkja, er bjó í Berufirði; hon átti þrjá sonu; Björn var elztr. Þórarinn krókr nam allan Króksfjörð meðal Hafrafells ok Króksfjarðarmúla. Með honum kómu út suðreyskir menn: Gilli, er bjó á Gillastöðum, göfugr maðr; Ketilbjörn hét son hans, hinn vænlegsti maðr. At Hafrafelli bjó hólmgöngu-Kýlan, enn Naðr bjó í Naðrsdal; Ásmundr hét hans son. Hallvarðr hrísi bjó á Hrísahváli. Már hét son hans. Oddr skrauti hét maðr, er út kom vestr í Vaðli. Hann var son Löðvís konungs á Gautlandi ok Víeru hinar þungu, Guðbrandsdóttur af Járnberalandi. Oddr kaupir lendr í Þorskafjarðarskógum at Þuríði drikkinni, ok bjó at Uppsölum; hann fekk Valgerðar, systur Eyjólfs í Múla; þeira son var Þórir, manna mestr ok fríðastr sýnum. Grímr hét son Eyjólfs. Gils skeiðarnef nam Gilsfjörð ok bjó at Kleifum; hans synir váru þeir: Heðinn í Garpsdal ok Herfinnr í Múla; dætr hans váru þær Hallgríma ok Þorbjörg knarrarbringa ok Ingibjörg. Óláfr belgr bjó í

Óláfsdal. er Ormr mjóvi rak ór Óláfsvík, enn Sléttu-Björn ór Belgsdal; hans synir váru þeir Þorgeirr ok Jósteinn ok Þorvaldr. Steinólfr hét maðr ok var kallaðr (hinn) lági; hann var son Hrólfs hersis af Ögðum; hann nam land milli Grjótvallarmúla ok Klofasteina, ok bjó á Steinólfshjalla í Fagradal. Hann átti Eirnýju Þiðrandadóttur. Þorsteinn ok Helgi váru synir þeira, enn Arndís dóttir, ok Þuríðr, er Sléttu-Björn átti. Knöttr ok Þjóðrekr váru synir þeira. Steinólfr var rausnarmaðr mikill í búi ok hafði fjölment; enn er honum þótti þrönglent fyrir sunnan fjörðinn, nam hann Steinólfsdal í Króksfirði ok gerði bú í Bæ. Hann skipaði dalinn vinum sínum. Grímr frændi hans bjó á Völlum; Hergils hét son hans. Heimlaug völva bjó á Völustöðum í Kambsheiði, enn Steinólfr bægði henni, ok var hon fyrir því óvin hans. Þórarinn krókr taldi sér dalinn, er Steinólfr hafði skipat ok kallaði hann þat sitt landnám, því at svá var, ok gerðist af því fjandskapr með þeim Steinólfi, svá at þeir drápust þar fyrir. Vaði hét maðr; hann var skáld gott; hann var frændi Odds ok kom út með honum; hann bjó á Skáldstöðum í Berufirði. Óttarr ok Æsa váru börn hans ok váru bæði mannvænleg.

2. Þá er þessir hinir ungu menn óxu upp, er nú váru nefndir, lögðu þeir leika með sér á Berufjarðarísi, ok var með þeim fóstbræðralag

mikit. Þórir Oddsson var sterkastr jafngamall, ok allar íþróttir hafði hann umfram sína jafnaldra. Ketilbjörn gekk næst honum um allan vaskleik. Þeir tóku fiska ór vatninu, ok báru í læk þann, er þar er nær, ok fæddust þeir þar; sá heitir nú Alifiskalækr. Þar varð í veiðr mikil, ok taldi Hof-Hallr sér veiðina, enn Þuríðr drikkinn taldi sér ok sínu landi ok frelsti hon sveinunum. Enn um vetrinn léku þeir knattleika á Þorskafjarðar-ísi, ok kómu þar til synir Hallsteins ok Djúpfirðingar, Þorsteinn ór Gröf ok Hjallasveinar. Þeir fyrir sunnan Þorskafjörð gerðu Þóri at fyrirmanni fyrir örleiks sakir ok allrar atgervi; enn vestanmenn vildu eigi þat ok ýfðust við honum allir, nema Hallsteinssynir. Skip kom út um sumarit í Breiðafirði á Dögurðarnesi, ok hét Bárðr stýrimaðr, frændi Odds ok félagi, þá er þeir höfðu í hernaði verit. Bárðr sendi til Odds, ok fluttist síðan til Þorskafjarðar við fimtánda mann; fimm váru íslenzkir menn með honum, ok réðust þeir í brott til heraða sinna. Enn Bárðr vill tvívegis fara, ok beiddi sér manna, svá at hann væri færr. Þar réðst til Þórir ok þeir níu fóstbræðr ok svörðust allir í fóstbræðralag; skyldi hver þeira annars hefna; þeir skyldu saman eiga fengið fé ok ófengið, þá er þeir fengi, jafnt ok til ynni, ok var Þórir fyrirmaðr þeira, þá Ketilbjörn, Þórhallr og Þorsteinn Drik-

kinnarsynir, Hyrningr Hallsson, Björn Beruson, Ásmundr Naðrson, Már Hallvarðsson ok Óttarr Vaðason. Þeir réðust til skips með Bárði, ok urðu vel reiðfara ok tóku Þrándheim. Þá réð Haraldr konungr hárfagri fyrir Noregi; með honum var Sigmundr Löðvisson, föðurbróðir Þóris. Hann fundu þeir ok beiddu hann tillaga, því at þeir höfðu eigi meira fé enn til skotsilfrs um jól fram. Sigmundr latti þá at vera með konungi, — „ok er þar ilt félausum mönnum“. Hann sendi þá norðr á Hálogaland til Úlfs vinar síns, ok sagði gott þar fjár at afla í skreiðfiski. Sigmundr fekk þeim róðrarferju ok Rekhall skósvein sinn til fylgdar ok tvá leiðsögumenn aðra: Þránd lang ok Hróa hinn digra, bróður hans. Þeir kómu um haustit norðr á Þrándarnes til Úlfs, ok tók hann vel við þeim fyrir orðsending Sigmundar, enn kvað þó undarlegt þykkja, at Sigmundr sendi Þóri frænda sinn til slíkra féfanga, ok kvað sér svá á hann lítast sem hann mundi eigi fiskimaðr verða, ok meiri þroski mundí fyrir honum liggja, ef hann heldi lífi, — „enn þat er líkast, at gifta fylgi ráði Sigmundar, ef til er gætt“.

3. Þat var einn dag, at þeir félagar reru at fiski, ok kómu síð at landi. Úlfr gekk í móti þeim; ok er þeir höfðu búit um skip sitt, sá Þórir, hvar eldr var, nær sem lýsti af tungli, ok brá yfir blám loga. Þórir spurði, hvat lýsu

þat væri. Úlfr segir: „Ekki skulu þér þat forvitnast, því at þat er eigi af mannavöldum“. Þórir svarar: „Því mun ek þó eigi vita mega, þótt troll ráði fyrir“. Úlfr kvað þat vera haugaeld. Þá grófst Þórir eftir, enn Úlfr segir at lyktum ok mælti: „Agnarr hét berserkr son Reginmóðs hins illa; hann lét gera haug þenna ok gekk þar í með skipshöfn sína alla ok mikit fé annat; hann verr hauginn með trollskap síðan, svá at engi má nær koma; enn margir eru dauðir, er til hafa komit at brjóta, eða ella hafa þeim orðit önnur skyrsi, ok eigi vitum vér, hvárt hann tryllist dauðr eða kvikr“. Þórir mælti: „Vel er nú mælt, ok þat er nú drengilegra, at afla þar fjár enn róa til fiska ok þar skal til hætta“. Úlfr latti hann mjög ok allir félagar Þóris, ok kvað Úlfr eigi hlýða mundu, at farit væri. Þórir kveðst eigi at síðr fara mundu. Svá er sagt, at Ketilbjörn einn vildi fara með Þóri, ok bar engi annarr áræði til hans félaga. Þeir áttu at fara í fjallshlíð nökkura til haugsins, ok er þeir kómu upp í hlíðina, laust í móti þeim svá miklu fárviðri, at hvárgi mátti upp standa· Þeir höfðu milli sín eitt snæri, ok gekk Þórir fyrir, meðan hann mátti. Enn um síðir tók upp hvárntveggja, ok kastaði ofan fyrir hlíðina, ok nú festir snærit um stein einn mikinn, enn þeir váru ákafa móðir, ok lágu þar til þess er svefn fell á þá·

Þá dreymdi Þóri, at maðr kom at honum, mikill, í rauðum kyrtli ok hafði hjálm á höfði ok sverð búit í hendi; hann hafði um sik digrt belti og þar á góðan kníf ok glófa á höndum; var þessi maðr mikilúðlegr og virðulegr. Hann mælti reiðulega til Þóris ok stakk á honum döggskónum ok bað hann vaka ok mælti: „Ills manns efni ertu, er þú vill ræna frændr þína; enn ek vil“, sagði hinn komni maðr, „gera til þín verðleikum betr, því at ek em bróðir feðr þíns ok sammæðr við hann; ek vil gefa þér gjafir til þess, at þú hverfir aftr ok leitir annarra féfanga. Þú skalt þiggja at mér kyrtil góðan þann er þér man hlífa við eldi ok vápnum, ok þar með hjálm ok sverð. Ek skal ok gefa þér glófa þá, er þú mant enga fá slíka, því at liði þínu mun óklaksárt verða, ef þú strýkr þeim með; þessa glófa skaltu á höndum hafa, þá er þú bindr sár manna, ok man skjótt verk ór taka. Kníf ok belti læt ek hér eftir, ok þat skaltu jafnan á þér hafa. Ek mun ok gefa þér tuttugu merkr gulls ok tuttugu merkr silfrs“. Þórir þóttist svara, at honum þótti þetta of lítit af svá nánum frænda ok ríkum, ok lézt eigi aftr munu hverfa við litla fémútu, - - „vissa ek eigi“, segir Þórir, „at troll væri mér svá nær í ætt, áðr þú sagðir mér. Enn engrar eirðar ættir þú af mér ván, ef eigi væri frændsemi með okkr“. Agnarr segir:

„Seint munu þín augu fyld verða á fénu, ok því máttu vorkynna mér“, sagði Agnarr, „at mér þykki féit gott, því at þú munt ærit mjök elska féit áðr lýkr“. Þórir segir: „Ekki hirði ek um illspár þínar; enn þiggja vil ek, at þú vísir mér til meiri févánar, ef þú vilt þitt fé undan þiggja“. „Heldr vil ek þat“, segir Agnarr, „enn deila illdeildum við þik. Valr hét víkingr, er átti gull mikit; hann bar féit undir helli einn norðr við Dumbshaf ok lagðist á síðan ok synir hans með honum, ok urðu allir at flugdrekum; þeir hafa hjálma á höfðum ok sverð undir bægslum. Nú er hér kalkr, er þú skalt drekka af tvá drykki, enn förunautr þinn einn, enn þá verðr eftir þat er má“. Síðan vaknar Þórir, ok váru þessir hlutir allir þar í hjá honum, er Agnarr gaf honum. Ketilbjörn vaknar ok hafði heyrt alt þeira viðrmæli, ok svá sét, hvar Agnarr fór; hann bað Þóri taka þenna kost. Eftir þat tók Þórir kalkinn ok drakk af tvá drykki, enn Ketilbjörn einn; þá var enn eftir í kalkinum; Þórir setti þá á munn sér ok drakk af alt. Nú fell á þá svefn; Agnarr kom þá enn ok ávítaði Þóri, er hann hafði alt af drukkit kalkinum, ok kvað hann þess drykkjar gjalda mundu hinn síðara hlut æfi sinnar. Agnarr segir þeim fyrir marga hluti þá er fram kómu síðar, ok lagði ráð til með Þóri, hversu hann skyldi vinna hellinn Vals víkings.

4. Eftir þat vitkuðust þeir ok vakna; fóru heim síðan. Þeir sögðu Úlfi, hvat fyrir þá hafði borit ok báðu hann vísa sér til hellis Vals. Úlfr latti þá þeirar ferðar ok bauð þeim fé til at þeir færi eigi, ok segir engan aftr hafa komit, þann er farit hafði, enn kvað ilt þykkja, at þeir menn týndist, er Sigmundr vin hans hafði sent honum. Enn Þórir vill fara fyrir hvern mun, ok litlu síðar ráðast þeir félagar til ferðar ok fara norðr fyrir Finnmörk þar til er þeir koma norðr fyrir Blesaberg; svá hét fjallit þat er hellir Vals var í, enn þat er norðr við Dumbshaf; þar fellr á mikil í gljúfrunum fram af bergi og alt út í sjá. Þórir kendi þá, at þeir váru þar komnir er honum var til vísat. Þeir fóru á bergit ok höfðu þann umbúnað, er Agnarr hafði kent þeim; hjuggu upp tré mikit ok færðu limarnar fram af berginu ok báru grjót á rótina; síðan tóku þeir kaðal ok festu við limarnar. Þá bauð Þórir förunautum sínum að fara ok hafa fé þat er fengi; enn engi þeira bar traust til at ná hellinum, þótt engi væri önnur hætta enn sú, ok báðu þeir hann frá hverfa. Þórir segir: „Eigi mun nú þat verða; er þat líkast, at ek hætta á ok hafa ek fé skuldlaust slíkt er fæst“. Þeir létust eigi mundu til fjár kalla ok sögðu hann ærit til vinna, ef hann næði. Þeir fundu at Þórir var allr maðr annarr enn hann hafði verit. Þórir

fór af klæðum sínum ok gerði sik léttbúinn; hann fór í kyrtilinn Agnarsnaut ok tók glófana, beltit ok knífinn ok línu mjóva, er Agnarr fekk honum; hann hafði snærisspjót, er faðir hans gaf honum; gekk hann svá fram á tréit; þá skaut hann spjótinu yfir ána, ok festi þat öðrum megin árinnar í viðinum; eftir þat fór hann í festina ok lét línuna draga sik af berginu undir forsinn; ok er Ketilbjörn sá þat, lézt hann fara vilja með Þóri, ok kvað eitt skyldu yfir þá ganga; ferr hann þá ofan með strenginum. Þórhallr Kinnarson kveðst ok fara vilja, enn Þrándr langi kvað Sigmund þat eigi spyrja skulu, at hann þyrði eigi at fylgja þeim, er hann hafði þó heitit sinni liðveizlu. Þórir var nú kominn í hellinn, ok dró þá til sín hvern er ofan kom. Bergsnös nökkur gekk fram við sjóinn alt fyrir fossinn ok fóru þeir Björn Beruson ok Hyrningr þar á fram ok þaðan upp undir forsinn; þeir höfðu þar tjald hjá snösinni, því at eigi mátti nær vera forsinum fyrir skjálfta ok vatnfalli ok regni. Þeir Þórir tendruðu ljós í hellinum ok gengu þar til er vindi laust í móti þeim ok sloknuðu þá login. Þá hét Þórir á Agnar til liðs, ok þegar kom elding mikil frá hellis-dyrunum, ok gengu þá um stund við þat ljós, þar til er þeir heyrðu blástr til drekanna. Enn jafnskjótt sem eldingin kom yfir drekana, þá sofna þeir allir; enn þá skorti eigi ljós, er

lýsti af drekunum ok gulli því, er þeir lágu á. Þeir sáu hvar sverð váru ok kómu upp hjá þeim meðalkaflarnir; þeir Þórir þrifu þá skjótt til sverðanna, ok síðan hlupu þeir yfir drekana ok lögðu undir bægsl þeim ok svá til hjartans. Þórir fekk tekit hjálminn af hinum mesta drekanum, ok í þessarri svipan þrífr hinn mesti drekinn Þránd lang ok fló með hann út ór hellinum ok þegar hverr at öðrum ok hraut eldr af munni þeim með miklu eitri. Nú sá þeir er úti váru, at glæddi ór forsinum; þeir hlupu ór tjaldinu, enn drekarnir flugu upp ór forsinum, ok sá þeir Björn, at einn drekinn hafði mann í munni sér; þóttust þeir þá vita, at allir mundu þeir látnir, er í hellinn höfðu farit. Hinn mesti drekinn flaug lengst, sá er manninn hafði í munni, ok er þeir flugu upp yfir bergsnösina, hljóp hann Björn þá upp á bergit ok lagði málaspjóti á drekanum. Enn er hann hrepti áverkann, þá hljóp ór sárinu mikit blóð í andlit honum ok fekk hann af því skjótan bana, enn blóðit ok eitrit kom á fót Hyrningi, ok sló þar í æði-verk, svá at hann mátti trautt standast. Nú er at segja frá Þóri ok hans félögum, at þeir afla sér mikils fjár í hellinum, svá at þat var margra manna fullfengi í gulli ok mörgum dýrgripum; er svá sagt, at þeir hafi á þriðja dag verit í Valshelli; þar fann Þórir sverðit Hornhjalta, er Valr hafði borit. Síðan las Þór-

ir sik fyrstr upp ok dró upp fé ok þá félaga sína. Tók hann þá fót Hyrnings ok strauk með glófunum ok tók þegar ór allan verkinn. Nú skyldi Þórir skifta fénu, ok varð einn hlutrinn ávalt mestr ok fór svá nökkurum sinnum. Þá mælti Ketilbjörn: „Fóstbróðir“, sagði hann, „þú hefir mest unnit til fjár þessa; nú vil ek gefa þér minn hlut“. Þá mælti Þórhallr þvílíkum orðum. Þórir varð all-léttbrúnn við þetta ok varðveitir nú féit; enn skift var gullinu Agnarsnaut með félögum Þóris ok hefir hverr þeira mörk gulls; hann gaf ok sinn grip hverjum þeira; Hyrningi gaf hann sverðit Agnarsnaut. Eftir þat fóru þeir aftr til Úlfs ok vildi Þórir segja frá tíðindum. Þeir dvöldust um hríð með Úlfi ok gerði Þórir þá járnviðjur um kistur sínar ok læsti vandlega Valshellisgull ok helt alla sína félaga á sinn kost þann vetr.

5. Enn eftir þat fóru þeir suðr til Þrándheims ok fundu þar Sigmund; var þat við jól. Þórir sagði Sigmundi frá ferðum þeira, enn Sigmundr bað þá þegar eftir jólin fara ór ríki Noregs konungs. Hann sendi þá ór Þrándheimi ok fekk þeim eyki austr um Kjöl til Jamtalands ok svá til Gestrekalands; þaðan fóru þeir á Elfarskóg ok ætla til Svíþjóðar. Sá skógr er fjögurra rasta ok tuttugu breiðr, og vissu eigi, hvar þeir fóru. Þeir sá fyrir virki hátt, ok er þeir kómu þar, hófu þeir Þóri upp á spjótaodd-

um; þá krækti hann öxi sinni upp á virkisvegginn ok las sik svá upp. Lauk hann þá upp virkinu fyrir félögum sínum; gengu þeir þá inn með öll föng sín. Þórir lauk upp skálanum, ok váru þar tólf manna rekkjur ok tvær mestar. Virkit var örugt vígi. Þórir bað þá vörð halda ok svá gerðu þeir. Enn litlu síðar sá þeir tólf menn mjök víglega ríða at virkinu ok váru tveir mestir. Þeir spyrja, er til kómu, hverir svá djarfir væri, at taka virkit með valdi. Þeir Þórir sögðu til sín, ok spurðu, hverir komnir væri. Sá nefndist Hauknefr, er svaraði, enn annarr Hama; hann var af Helsingjalandi, enn Hauknefr af Gestrekalandi. Þeir báðu þá Þóri út ganga, enn Þórir segir, at hann vill berjast við jafnmarga menn, — „ok skulu tveir af vorum mönnum berjast við tvá yðra menn"; þeir vilja þat. Þórir ok Ketilbjörn börðust við tvá af stigamönnum ok hjó sitt högg hvárr þeira, ok varð hinum þat þegar at bana. Eftir þat börðust þeir allir ok var þat harðr atgangr; enn svá lauk, at þeir fellu allir nema tveir, Hauknefr ok Hama; þeir váru þá mjök sárir. Þórir bauð Hauknef grið ok báðum þeim ok því játtu þeir skjótt. Síðan gengu þeir til handa ok félags við Þóri ok skiftu at jafnaði öllu því fé, er þar var, ok fóru af skóginum, er þeir váru búnir, fyrst til Svíþjóðar, enu þaðan til Gautlands ok fundu

þar Löðvi jarl son Æsu hinnar örðugu Löðvisdóttur. Hann gekk þegar við frændsemi við Þóri, er hann sagði ætt sína; þeir váru þar landvarnarmenn um hríð og gerðust víðfrægir.

6. Æsa hét dóttir jarls; hennar bað Gautr berserkr, mikill kappi; hann var sænskr at ætt. Með honum var Geirr hinn gerzki, ok höfðu mikla sveit. Enn jarl vill eigi gefa konuna. Þá gengu þeir Þórir á hólm við berserkinn ok höfðu sigr. Þá vildu félagar þeira hefna ok sló þá í bardaga ok varð hin harðasta orrusta; enn svá lauk, at þeir drápu þá alla víkingana, er í móti risu, enn eltu hina ór landi. Þrjá vetr var Þórir í Gautlandi. Þá tók jarl banasótt. Hann gaf Þóri kaupskip ok bað hann fara til Íslands; enn Hauknef gaf hann dóttur sína ok þar með ríkit, ok var hann þar eftir, enn Þórir fór til Noregs; hann sendi Rekhall til Englands með annat skip. Þeir Þórir fóru til Íslands ok kómu út í Döguðarnesi. Þar kom Steinólfr hinn lági til skips, ok brá mjök við, er hann sá Þóri; þar var ok Kjarlakr gamli ok bað hann Steinólf mág sinn eiga gott við Þóri; kvað honum þungt falla mundu, ef hann gerði svá, — „því at þínar fylgjur mega eigi standast hans fylgjur“, sagði Kjarlakr. Steinólfr falar sverðit góða at Þóri; enn Þórir vill eigi selja, ok bauð at gefa honum eins manns herneskju. Enn Steinólfi þótti þat líkt ok ekki,

ok lagðist lítt á með þeim. Þórir vill þá í brott, því at honum þótti þeir ærit liðmargir. Þeir tóku sunnanveðr, ok ætla til Þorskafjarðar; þá gekk veðrið til landsuðrs ok austrs, ok bar þá vestr undir Flatey. Þar bjó Hallgríma dóttir Gils skeiðarnefs; hennar synir váru þeir Hergils, er síðan bjó í Hergilsey, ok Oddr. Þá sá Þórir Ingibjörgu dóttur Gils skeiðarnefs, ok fanst honum mikit um hana þá stund, er þeir dvöldust í Flatey. Þeir heldu þaðan til Knarrarness; þat er á framanverðu Reykjanesi, ok þá fekk þat nafn. Þá bjó Breiðr í Gröf; þar heitir nú á Breiðabólstað. Þar gengu félagar Þóris af skipinu, þeir er fyrir sunnan Þorskafjörð áttu heimili, nema Ketilbjörn ok Þórhallr; þeir vildu eigi við Þóri skiljast.

7. Meðan er Þórir var utan, hafði andazt Oddr faðir hans. Var þá uppgangr Hof-Halls sem mestr, svá at hann sat nær yfir hvers manns hlut ok virðing. Hann deildi um hoftoll við Reyknesinga. Hann vildi ok heimta toll fyrir vestan Þorskafjörð; enn Hallsteinn ok þeir Reyknesingar höfðu reist Þórs-hof vestr þar, síðan tréit hit mikla hafði rekit á land hans, er hann eftir blótaði, ok lögðu þeir þar til tolla; váru af því dylgjur miklar með þeim Halli. Hallr hafði ok í brott rekit móður Þóris, Valgerði, ór búi sínu, enn sett þar niðr Þorbjörn stokk, ísfirzkan mann, mikinn kappa ok Ask-

mann hinn þunga; hann bjó á Askmannsstöðum út frá Skógum. Þórir helt vestr fyrir Þorskafjörð skipi sínu ok lendi við Grenitrésnes. Þar fann hann Hallstein ok aðra bændr, ok buðu þeir Þóri land inn frá Gröf milli á tveggja. Hallsteinn fekk honum búfé ok Þuríði dóttur sína til forráða; gekk Þórarinn son Hallsteins á skip með Þóri ok váru þeir fimtán á skipi, enn Hallsteinn fór hit efra með búferli Þóris ok váru margir saman. Koma þeir Þórir fyrr, ok ryðja skipit þar er nú heitir Búlkáróss.

8. Nú er þar til at taka er Hyrningr Hallsson kom heim ok sagði alldrengilega frá för þeira Þóris. Hallr mælti: „Ólíkr ertu orðinn mér, er þú vilt vera hlutræningr fyrir Þóri, eða þá er þú settist eftir við hellinn ok fylgdir honum eigi, ok víst eigi uni ek því, at Þórir siti einn yfir Valshellis-gulli“. Hyrningr kvað hann þess vel hafa aflat. Hallr kvaðst eigi hirða um auvirðisskap hans ok safnar at sér þrim tigum manna þá er hann sá för Þóris. Hann ferr fyrir innan Þorskafjörð ok fundust þeir við Búlkárnesós. Kallar Hallr þegar til gullsins við Þóri, enn hann synjar þverlega. Hallr veitir þá snarpa atgöngu. Hann hafði gullrekit spjót í hendi; hann hleypr í flokk Þóris, ok lagði snart fram, enn fyrir varð Þórarinn Hallsteinsson ok stóð spjótit í gegnum hann.

Þórarinn gekk á lagit, ok hjó yfir Hall ok þann banahögg, er næst honum var; þar fellu þrír menn af Halli, áðr þeir Þórir ok Ketilbjörn fengu vápn sín, ok nú sjá þeir Hallr, at Hallsteinn ok hans menn váru komnir ofan á brekkuna ok veita Þóri. Hlaupa þeir Hallr nú til hesta sinna. Þá vá Þórir mann, enn Ketilbjörn annan; bar þá Hall undan ok hans menn. Þeir Hallsteinn ok Þórir hlaupa nú í bátinn ok nær fjórum tigum manna, ok reru yfir fjörðinn ok fundust þeir Hallr þá við Vaðilseyri. Tókst þá þegar athlaup ok vá Þórir einn mann. Hallr bauð þá sætt, ok kom því svá, at hann seldi Hallsteini sjálfdæmi, fyrir víg Þórarins; enn hann gerði tvau hundruð silfrs; enn menn þeir, er fellu við Búlká, skyldu koma fyrir tilför; enn sá er Þórir vá á Vaðilseyri var fé bættr, ok kom þar fyrir Uppsalaland, ok skyldi alt ógert, ef Hallr heldi eigi sættina. Fór Hallr við þetta heim ok undi illa við. Hyrningr sagðist eigi vildu með honum vera ok réðst í Berufjörð til lags við Beru, ok var með henni þar til synir hennar vönduðu um. Enn síðan gerði hann bú á Hyrningsstöðum ok bjó þar til elli. Hann helt jafnan vingan við Þóri, ok þat fé hafði hann mest, er Þórir gaf honum, því at hann náði engu af Halli föður sínum.

9. Þórir reisti bæ mikinn, þar er nú heitir á Þórisstöðum, ok setti þar saman mikit bú;

var hann hinn .mesti rausnarmaðr. Allir fóstbræðr hans fóru til feðra sinna. nema Þórhallr ok Ketilbjörn. Þuríðr Hallsteinsdóttir var bústýra Þóris, ok lagði Ketilbjörn hug á hana. Þórir átti son við Valgerði konu Hrómundar í Gröf, ok hét sá Atli. Hauknefr hafði gefit Þóri hest kinnskjóttan ungan; hann var gauzkr hlaupari, ok var alinn á korni vetr ok sumar; þessum hesti reið Þórir yfir Þorskafjörð, hvárt er var flóð eða fjara, ok var hann gersemí mikil. Þórir hafði sæmdir miklar af búi sínu ok ferð sinni ok fé því, er hann hafði út haft; hann bað Þuríðar dóttur Hallsteins goða til handa Ketilbirni fóstbróður sínum, ok fekk þann kost, ok gerði bú í Tungu í Króksfirði. Enn stundum var hann með Þóri. Enn er Þórir hafði einn vetr búit, fór hann til Kleifa ok með honum Gilli ok Vaði skáld ok fóstbræðr hans. Þórir bað Ingibjargar Gilsdóttur. Enn er þeir sátu at málum þessum, þá lét Gils bóndi enga menn ná at fara út til Óláfsdals, því at hann vildi eigi at Þorgeirr ór Óláfsdal yrði varr við, því at hann var biðill hennar Ingibjargar, ok hafði lagt við hana mikla ást. Gils lét þá þegar brúðlaup gera ok helt þar öllum komandi mönnum meðan veizlan stóð. Enn er Þórir fór í brott með konu sína, þá fara menn út með Gilsfirði til Saurbæjar, þeir er at boðinu váru, ok fundu sauðamann ór Óláfsdal ok sögðu hon-

um gjaforðit Ingibjargar. Sauðamaðr fór heim ok sagði þeim feðgum. Þorgeirr vildi drepa boðsmennina, ok kvað firn í, at þeir váru leyndir svikum slíkum; enn Óláfr bað eigi óverða gjalda, ok bað hann heldr gjalda Þóri. Enn er þeir sá, at Þórir reið út um teig fyrir vestan fjörð, þá báru þeir eigi áræði til at ríða eftir þeim. Fór Þórir nú heim með konu sína ok tókust þar ástir góðar. Þau áttu son, er Guðmundr hét ok var hann allbráðgerr. Hann fæddist upp með Eyjólfi í Múla, ok gaf hann honum stóðhross hálf við Grím son sinn; þat var litföróttr hestr með ljósum hrossum. Grímr Eyjólfsson var mikill ok eldsætr, ok þótti vera nær afglapi; enn er hann reis úr fleti, var hann í hvítum vararváðarstakki ok hafði hvítar brækr ok vafit at neðan spjörrum; því var hann vafspjarra-Grímr kallaðr. Engi maðr vissi afl hans; hann var mjök ósýnilegr.

**10.** Þórir eignaðist Flatey eftir Hallgrímu ok hafði þar sæði, enn Hergils son hennar bjó í Hergilsey, sem fyrr er ritat; hann var faðir Ingjalds, er þar bjó síðan, ok hann barg Gísla Súrssyni, ok fyrir þat gerði Börkr hinn digri af honum eyjarnar, enn Ingjaldr fór í Þorskafjarðardali, ok bjó á Ingjaldsstöðum. Hans son var Þórarinn, er átti Þorgerði, dóttur Glúms Geirasonar; þeira son var Helgu-Steinarr. Þorgeirr í Óláfsdali lét sér stórum illa líka til Þór-

is um konumálit. Hann vissi at fátt var með þeim Steinólfi ok Þóri. Því gaf Þorgeirr Steinólfi fé til, at hann veitti Þóri umsátir, ef færi yrði á, ok er þeir höfðu ráðit samband, fann Þorgeir Hall af Hofstöðum, ok bað hann ganga í málit með þeim, enn hann varð glaðr við ok bað þeim heill duga, er fyrstr réði ráðum til skamma Þóri, enn kvað þó ilt við hann at eiga fyrir harðfengi ok fylgdar þeirar, er hann hefir; enn þat ráð gerði Hallr, at þeir skyldu ráða af einhvern fóstbróður hans. Hallr hitti þá Askmann ok hólmgöngu-Kýlan, ok gaf þeim þrjár merkr silfrs, at þeir dræpi Má Hallvarðsson, ok því hétu þeir at leita við, ef þeir mætti. Litlu síðar fór Askmaðr til móts við Kýlan, ok taka vápn sín ok fara til Hrísahváls. Askmaðr hafði króksviðu í hendi; hann fór til húss ok sagði Mávi, at uxi lá í mýri, ok bað hann upp draga. Már kvað hann fara munu at nökkuru illu ok sagðist eigi trúa munu lygi hans. Askmaðr kvað eigi kynlegt, at hann þyrði eigi at ganga í Valshelli, er hann þorði eigi at bjarga fé sínu, þótt hann fylgdi honum til. Þá hljóp Már upp, ok tók vápn sín, hjálm, skjöld ok sverð. Enn er þeir váru á leið komnir, lofaði Askmaðr hann mjök ok vápn hans. Már gerði svá. Askmaðr brá sverðinu ok blés í eggjarnar áðr hann lét laust. Nú koma þeir í mýrina, ok þegar hleypr Kýlan upp ór einum runni ok sótti at Mávi í

ákafa. Askmaðr skopar um hit ytra ok vildi krækja af honum skjöldinn. Már hjó hart ok tíðum, enn sverðit beit ekki. Þá kastar hann skildinum, enn þreif sverðit báðum höndum. Hann hjó á öxl Kýlans svá hart, at lamdist axlarbeinit, ok jafnskótt hjó Kýlan í móti ok kom á hendr Mávi ok tók af báðar í úlfliðum. Már rann þá á Kýlan ok spenti um hann stúfunum. Þá hljóp Askmaðr á bak Mávi ok lagði á meðal herða honum, svá at fram kom í brjóstit. Þar fell Már, hinn bezti drengr, ok huldu þeir hræ hans ok sögðu Halli hvar komit var; hann lét vel yfir. Eftir þat fóru þeir heim ok lagðist Kýlan í rekkju ok ónýtti höndina. Hallvarðr var heima, er hann frá lát sonar síns; hann var þá til engis færr. Þá sendi hann mann til Þóris at segja honum tíðendi; hann svaraði fá um þetta. Enn litlu síðar fóru þeir Þórir ok Ketilbjörn ok Kinnarsynir til Hafrafells ok fundu Kýlan í dyrum úti. Þeir beiddu bóta fyrir víg Más; enn hann svarar illa ok rak aftr hurðina í klofa. Þeir tóku stokk ok brutu upp hurðina, ok fundu hvergi Kýlan, enn fundu laundyr á bak húsinu; hlupu þeir út ok sáu at Kýlan var kominn upp í fjall. Þeir runnu eftir honum, ok þar til, er vatn varð fyrir þeim; þar hljóp Kýlan á út, enn Þórir skaut eftir honum spjótinu, því er faðir hans hafði gefit honum, ok kom í milli herða Kýlans ok kom

hvártki upp síðan. Eftir þat fóru þeir heim. Þá ræddi Þórir um at hann vildi finna Askmann; ok er þeir kómu á bæ hans, váru aftr hurðir. Þar váru lítil hús; viðköstr var fyrir dyrum. Þeir Þórir ruddu viðinum á hurðina, ok báru eld í; tóku húsin skjótt at brenna, ok er fallin váru flest húsin ok menn gengu út, þeir er grið váru gefin, sjá þeir Þórir, at svín tvau hlupu einsvegar frá húsunum, gyltr og gríss. Þórir þreif einn raft ór eldinum ok skaut logbrandinum á lær galtanum ok brotnuðu báðir lærleggirnir, ok fell hann þegar; enn er Þórir kom at, sá hann at þar var Askmaðr. Gekk Þórir af honum dauðum, enn gyltrin hljóp í skóg, ok var þat Katla. Hon kom til Uppsala ok sagði Þorbirni tíðendin; enn hann fór þegar á fund Halls ok segir honum. Þeir Þórir tóku fé alt, þat er Askmaðr hafði átt ok fluttu heim með sér á Þórisstaði. Enn er Þorbjörn stokkr kom á [Hofstaði, safnaði Hallr mönnum ok fór til móts við þá Þóri; fundr þeira varð fyrir neðan Rauðsdal. Hallr hjó með sverði til Þorsteins Kinnarsonar; kom það högg á fótinn ok risti niðr á kálfann. Þar fellu þrír menn af Halli. Eftir þat sneri Hallr undan, enn þeir Þórir eltu þá um stund, ok hurfu síðan aftr ok heldu heimleiðis.

11. Þat verðr þessu næst til tíðenda, at vár eitt á einmánuði rak hval í ey þeiri, er

Hvallátr heitir; þat var þá eyðiey ok átti gull-Þórir eyna. Þórir fór til ok skar hvalinn, flutti suman heim, enn gaf heraðsmönnum sínum suman. Mikit lá þar enn eftir óskorit hvalsins. Þetta fréttir Steinólfr í Fagradal; ferr hann þá til, ok mannar út áttæring; ok er þeir kómu í eyna, váru þar fyrir nökkurir Reyknesingar at hvalskurðinum. Steinólfr ok hans félagar létu ófriðlega, ok þorðu hinir, er at hvalskurðinum váru, eigi at verja þeim hvalinn ok hopuðu undan. Báru þeir Steinólfr þá hvalinn til skips ok hlóðu ok lögðu síðan brott frá eynni. Vindr var á sunnan ok fór heldr vaxandi. Enn er þeir kómu inn um eyjar, sjá þeir, at skip ferr í móti þeim; kenna at þat er Þórir ok Þorskfirðingar ok svá hvárir aðra. Þeir Þórir fella seglit; enn með því at skriðr mikill var á skipunum, runnust þau hjá. Þórir skaut spjóti ok varð fyrir sá maðr, er næstr sat Steinólfi; fell hann dauðr útbyrðis. Var þá við því búit, at í baksegl slægi hjá Steinólfi ok ógreiddist honum ferðin. Enn fyrir sakir þess, at þá var komit ofviðri ok sjógangr mikill, gátu þeir Þórir eigi veitt þeim eftirför. Steinólfr komst með nauðung til Akreyja; hafði hann þá rutt skipit at mestu af hvalnum. Beið hann við eyjarnar til þess er veðrit lægði; helt hann þá heim ok sagði sínar farar eigi sléttar.

12. Þórir sitr nú um hríð heima í búi sínu.

Steinólfr í Fagradal undi hið versta við för sína í Hvallátr. Hann sendir nú flugumenn til höfuðs Þóri ok gerir Hof-Halli orð ok biðr hann at leggja á ráð með þeim. Þeir váru fimm saman. Þeir fóru um nótt til Hofstaða, ok tekr Hallr þeim forkunnar vel eftir orðsending Steinólfs. Hann sendir þá til Rauðs sonar síns í Rauðshól og biðr þá at sitja um líf Þóris. Váru þeir um hríð hjá Rauði á laun. Einhverju sinni átti Þórir leið inn í Gilsfjörð til Kleifa. Fór Ketilbjörn með honum. Tekr Gils bóndi við þeim tveim höndum ok sitja þeir þar í góðum fagnaði hinn næsta dag. Þeir Rauðr höfðu njósnat um ferð þeira ok svá hvé nær þeir mundu aftr heim snúa. Þórir ok Ketilbjörn riðu nú frá Kleifum. Þeir kómu at Gróstöðum út frá Garpsdal; þar bjó Gró Geirleifsdóttir, er Óttarr son Bjarnar hins austræna hafði átta. Hon var hinn mesti kvenskörungr ok aldavin Þóris. Hon bauð Þóri þar at vera, ok kvað sér segja svá hug um, at eigi væri alt sem tryggilegast af hendi Hof-Halls ok Steinólfs í Fagradal. Þórir kvað sik eigi saka mundu — „ok mun ek fyrr“, segir hann, „standa yfir höfuðsvörðum þeira Halls ok Steinólfs, enn þeir fái mér nökkut mein unnit“. Eftir þat ríða þeir frá Gróstöðum. Rauðr ok flugumenn Steinólfs sátu fyrir þeim fóstbræðrum við veginn niðr við fjörðinn. Ok er þeir Þórir kómu ofan

á hálsinn Þorskafjarðar megin, mælti Ketilbjörn: „Hvat blikar þar við veginn niðr at sjá til fjarðarins? svá þykkir mér sem þar komi upp skildir eigi færi enn átta; mun hér ófriðr fyrir, ok hygg ek, at þeir vili nú, at til skarar skuli skríða með oss". Þórir mælti: „Eigi munu vit hopa undan, fóstbróðir, ok víst höfum vit fyrr í mannraunum verit ok þeim eigi minnr geigvænlegum enn þessi er; ok er eigi til reynt, hvárt nökkurir þessara manna þurfa um sár sín at binda um þat lýkr". Nú ríða þeir fóstbræðr þar at, er fyrirsátrsmenn váru fyrir. Spruttu þeir þegar upp ok tókst þar hin harðasta orrusta. Rauðr eggjar fast sína menn ok segir þat skömm mikla, ef einir tveir menn kæmist ór höndum svá margra, ok kvað þá nú eigi skyldu frá tíðendum hafa at segja. Skiftust þeir brátt höggum við, ok er þar skjótt frá at segja, at Þórir feldi þegar tvá menn ok Ketilbjörn einn, ok svá lauk, at Rauðr ok einn flugumanna stóð uppi. Flugumaðrinn hljóp þá sem fætr toguðu á leið til Hofstaða.] Ketilbjörn sneri eftir honum ok fekk eigi náð honum. Enn Rauðr veik þá upp á hálsinn ok Þórir eftir honum. Þeir fundust við túngarð í Rauðsdali ok börðust alldjarflega, því at Rauðr var frækinn maðr, enn svá lauk, at Rauðr fell fyrir Þóri. Eftir þat sneru þeir Þórir heim ok höfðu setr á Þórisstöðum. Enn síðan var leitat um sættir

af Úlfi hinum skjálga, ok sættust at því, at líkt var látit víg Rauðs ok áverki Þorsteins, enn fyrirsátin kom í mót þeim mönnum, er fellu af Halli. Eigi vildi Þórir sættast við Þorbjörn um fjártakit, ok kvað þá skyldu greiða með sér í tómi. Lét Þórir nú heim fara alla sína fóstbræðr, ok var nú kyrt um hríð.

13. Þar er nú til að taka, at Guðmundr son Þóris óx upp í Múla með Eyjólfi, þar til er hann er níu vetra gamall; hann var þá ákafamikill ok sterkr. Hann fór þá heim til föður síns, ok nú fór svá fram um hríð, at hann þroskaðist heima. Þat var einn dag, at Þórir kvaddi hann til ferðar með sér ok riðu inn með Þorskafirði, ok stefndu til Uppsala. Þorbjörn var úti ok kendi för Þóris. Hann mælti við Örn son sinn: „Hér ríðr Þórir ok son hans, ok mun ætla að hefna þess, er vér tókum féit; nú vil ek, at þú farir sem skjótast á Hofstaði ok segir Halli, at hann komi til liðs við mik; enn ek mun á meðan verjast ór húsunum, ok munu eigi skjót umskifti verða með okkr Þóri“. Örn hefir sik þegar frá bænum. Þetta sér Þórir ok mælti við Guðmund: „Maðr rennr þar út frá bænum á Uppsölum, ok mun sá sendr til Hofstaða til Halls; far þú eftir honum ok dvel hann“. Hann sneri eftir Erni ok bað hann bíða. Örn nam staðar ok reiddi upp öxi mikla, er hann hafði í hendi. Guðmundr hljóp af baki

ok rann at honum með spjótit ok lagði í gegnum hann. Enn Örn gekk á lagit, ok hjó til hans ok yfir öxlina ok brotnaði í sundr öxarskaftit, enn hyrnan kom í herðarblað Guðmundi ok varð hann lítt sárr. Eftir þat fell Örn þar á götunni, ok heitir þar nú Trollagata. Þórir reið heim á bæinn at Uppsölum, enn Þorbjörn stóð í dyrum með vápnum. Gekk Þórir upp at dyrunum, enn Þorbjörn lagði spjóti til hans, enn Þórir hjó þat af skafti. Þá brá Þorbjörn sverði ok hjó til Þóris ok kom í hjálminn, enn sverðit brotnaði undir hjöltunum. Þá brá Þórir Hornhjalta ok hjó til Þorbjarnar, enn hann tók tveim höndum skjöldinn ok bar upp við, er at honum reið höggit, ok tók í sundr skjöldinn fyrir neðan mundriðann. Eftir þat hopar Þorbjörn inn undan ok lauk hurðinni í klofa; sveif hann þá til stofunnar ok kom aftr hurðinni ok bar þar fyrir slíkt, er hann fekk til. Þórir braut upp útihurðina ok hljóp svá til stofudyranna; hjón Þorbjarnar stóðu við hurðina; enn Þorbjörn reif upp stokk ok reisti undir skjáinn ok fór þar út ok dró upp stokkinn, ok helt síðan upp til fjalls. Þórir braut upp stofuhurðina ok saknaði Þorbjarnar; hljóp hann þá út skyndilega ok sá för Þorbjarnar; helt Þórir eftir honum, ok varð fundr þeira á hjalla einum. Varðist Þorbjörn þaðan alldrengilega með stokkinum, því at vápn hans höfðu verit eftir í stof-

unni; enn svá lauk, at Þorbjörn fell fyrir Þóri, ok heitir þar nú Stokkshjalli. Guðmundr kom þá at, er Þorbjörn var fallinn; þeir huldu hræ hans, ok fóru heim eftir þat í bæinn ok tóku gripi hans alla, ok svá þá, er Þórir átti, ok fóru heim síðan. Þorbjörn hafði verit ísfirzkr at ætt ok kyni ok bjó bróðir hans í Laugardal, er Þórðr hét. Litlu síðar fór Þórir á fund Þórðar ok bar sakir á hendr honum um þat, at hann hafði sendan Þorbjörn suðr þangat á föðurleifð Þóris, slíkr ójafnaðarmaðr sem hann var. Þeir sættust með því, at Þórir skyldi einn um gera. Lét hann þá í faðma fallast víg Þorbjarnar ok gripatakit, enn gerði sér til handa löndin bæði í Þorskafjarðarbotni ok Uppsali fyrir þann fjandskap, er hann hafði í hlaupit með Halli; enn Örn var bættr hundraði silfrs.

14. Þórir seldi landit at Uppsölum Þorgerði í Þorgeirsdal, því at hon þóttist eigi búa mega fyrir beitingum Helga á Hjöllum. Þorgerði hafði átta Þorgeirr, er Þorgeirsdalr er við kendr. Þá tók Þórir við Þorgeirsdal ok beitti Helgi eigi at síðr. Þat vandist á at Þórisstöðum, at þar hurfu gymbrlömb tvau grákollótt hvert vár ok höðnukið tvau með sama lit. Þat var eina nótt um várit, at Þórir mátti eigi sofa. Hann gekk þá út ok var regn mikit. Hann heyrði jarm þangat er stíat var. Þórir gekk þangat ok sá á réttargarðinum, at þar lágu kið tvau

bundin ok lömb tvau, enn í rétt sátu konur tvær; þær léku at hnettafli, ok var taflit alt steypt af silfri, enn gylt alt hit rauða. Þær brugðust við fast ok urðu hræddar mjök. Þórir fekk tekit þær ok setti niðr hjá sér, ok spurði, því at þær legðist á fé hans. Þær buðu alt á hans vald. Hann spurði, hverjar þær væri. Þat var önnur Kerling, dóttir Styrkárs í Barmi, enn önnur kveðst vera dóttir Varða ofan ór Varðafelli, ok nefnist hon Flagðkona, enn hin Hamhleypa. Þórir gerði þá sætt með þeim, at þær hefði sauði með sér, enn hann taflit ok þat er fylgdi Enn á tuglunum taflpungsins var gullbaugr settr steinum, enn annarr silfrbaugr var í borðinu. Þetta alt tók Þórir ok skildu við þat; þá sætt helt Brosa vel, enn Kerling illa. Með þeim Eyjólfi í Múla ok Helga á Hjöllum var fjandskapr mikill um beiting, ok beittu Hjallamenn fyrir Eyjólfi bæði tún ok eng. Þat var einn veðrdag góðan, at menn váru at heyverki í Múla, at þeir sá, hvar maðr reið sunnan yfir Þorskafjörð ok at garði í Múla; enn því var þessa viðgetit, at þessi maðr var öðruvís búinn enn þeir menn, er þar riðu hversdaglega. Hann hafði hjálm á höfði, enn skjöld á hlið gyltan; hann reið í steindum söðli ok hafði öxi rekna á öxl nær alnar fyrir munn. Hann reið ákafa mikinn, ok var hestrinn mjök móðr; ok er hestrinn kom í garðshliðit, var hann

staðþrotinn. Þá hljóp maðrinn af baki ok setti öxina í höfuð hestinum ok var hann þegar dauðr. Hann tók eigi af söðulinn ok gekk heim eftir þat. Eyjólfr bóndi spurði hann at nafni. Hann kveðst Gunnarr heita, austfirzkr maðr at ætt, enn kveðst Þóri finna vilja. Hey mikit lá á völlunum um daginn, er hirða skyldi, enn naut Helga af Hjöllum gengu í því. Gunnarr spurði því at eigi skyldi reka nautin ór vellinum. „Ekki þykkir oss þat tjóa“, segir Eyjólfr, „því at jafnskjótt eru aftr rekin nautin sem vér rekum í brott“. Gunnarr segir: „Þat þykki mér yðr skömm mikil, venzlamönnum Þóris, at sitja ójöfnuð bændum hér í Þorskafirði“. „Þann veg ræðir þú um“, segir Eyjólfr, sem þér sé ókunnigt skaplyndi Helga eða Þórarins ákafa sonar hans“. Gunnarr segir: „Eigi ætla ek at ganga ónærr fyrir skaplyndi þeira“. Hann hljóp til nautanna, barði ok elti út með sjónum sem gata lá ok ofan fyrir einstigi þat, er var við ána. Grímr var úti staddr son Eyjólfs ok telgir kylfu. Hann segir feðr sínum um nautin ok spurði, hvárt engi maðr skyldi fylgja þessum manni. Eyjólfr kveðst letja hvern sinna manna at fylgja honum. Grímr kvað engum tjóa mundu, at letja sik ok hljóp þegar eftir Gunnari með kylfuna. Enn er Gunnarr kom í einstigit, var þar fyrir Þórarinn ákafi með fimtán menn ok vilja þegar aftr reka nautin. Gunnarr sækir

þá at í ákafa, enn þeir ráða fast í mót. Helgi sat á hesti fyrir utan ok eggjar þaðan liðit. Þar vá Gunnarr Þórarin ok tvá aðra, enn Grímr ok drap einn; Gunnarr kastaði steini fyrir brjóst Helga, svá at hann fell af baki ok lömdust bringspelirnir; fór hann við þat heim ok lá í rekkju lengi. Enn meðan þetta bar at, tók Eyjólfr söðul af hesti Gunnars ok söðlar tvá hesta; hann bað þá Grím ok Gunnar fara til Þóris, — „ok segit honum þessi tíðendi ok biðit hann ásjár“. Eftir þat fara þeir á Þórisstaði ok sögðu honum til ok leita ráðs við hann. Þórir tók ekki mjök á þessum tíðendum ok bað þó Grím fara til sín. „Enn eigi vil ek taka við Gunnari“, segir hann, „því at þær einar spurnir hefi ek frá honum, at hann hafi meiri verit í hreysti enn hamingju. Enn hér er svá mönnum varit, at vér þurfum meir umbótamenn enn þá at auki vár vandræði“. Grímr kveðst við Gunnar aldri skyldu skilja, — „því at hann varð til þess at reka skömm af oss, ok var þat þó eigi minni þín skylda enn hans eða mín“. Þá mælti Þórir við Guðmund son sinn, at hann skyldi fara í Múla eftir fé ok mönnum. Er þá rekit alt fé Eyjólfs' á Þórisstaði. Gunnarr rak ok þangat fjóra tigu geldinga, er Helgi átti. Enn Þórir vill eigi at síðr reka hann á brott. Enn Grímr vill Gunnari fylgja, enn Guðmundr Grími. Sá Þórir þá hvar komit var ok

bað þá alla þar vera, enn kvað sér þungt hug um segja, hversu at til tækist, er bæði var ván ófriðarins vestan ok sunnan. Þat var nökkuru síðar, er synir Helga eggjuðu hann til hefnda, Frakki ok Blígr; þeir bjuggu í Frakkadal í Kollafirði; Kálfr ok Styrr váru fylgdarmenn þeira; þeir váru allir á laun á Hjöllum ok sátu um Þóri. Þeir urðu þess varir, at Þórir fór at skera mön á hrossum sínum ok Guðmundr son hans með honum. Þeir Frakki ok Blígr fara til móts við þá ok kom Blígr fyrst at. Hann lagði þegar til Þóris, sem hann var at mönskurðinum ok hafði hengt skjöldinn á hlið sér. Lagit kom í skjöldinn ok rendi af út ok kom í nára hestinum, ok þar á hol; fell hann þegar dauðr niðr. Enn Þórir snerist við fast ok laust Blíg með skærahúsanum ok kom í ennit, enn hann fell á bak aftr ok varð hola fyrir húsanum. Bað hann þá Guðmund gæta hans. Þórir tók þá sverð sitt ok hljóp á mýrina ok vá þar Frakka; heitir þar síðan Frakkamýrr. Guðmundr vá Blíg í lækinum, er síðan heitir Blígslækr. Þeir Kálfr ok Styrr tóku undan. Þórir gat náð Styr á brekku upp ok drap hann; þar heitir nú Styrsbrekka. Enn Guðmundr elti Kálf ofan í Kálfárgljúfr ok dó hann þar. Ekki vill Þórir bæta þessi víg, enn fyrir víg Þórarins ákafa galt hann Þorgeirsdal ok váru þeir Helgi þá sáttir at kalla.

15. Þat verðr nú næst til tíðenda, at Gils skeiðarnef tók sótt ok andaðist; enn mágar Þóris buðu honum til erfis; þeir buðu honum ok at hafa slíkt af búfé, er hann vildi, því at Þórir þurfti þá mikils við um slátrfé, er hann hafði fjölment. Þórir bjóst til ferðar þessar ok Guðmundr son hans, Ketilbjörn, Gunnarr, Grímr ok allir fóstbræðr Þóris; þar var ok Gilli hinn suðreyski; þeir váru tuttugu saman, er þeir riðu inn með Gilsfirði. Þar fann Þórir Þórarin krók; hann bað Þóri fara varlega. Þá var sem mestr fjandskapr með þeim Steinólfi, því at þeir deildu um Steinólfsdal. Þórir bað Þórarin halda njósnum til, ef hann yrði varr við nökkurar skipaferðir. Nú sat Þórir at erfinu. Enn þeir feðgar í Óláfsdal sendu orð Steinólfi, at hann léti Þóri þá eigi undan komast. Steinólfr sendi orð Kjarlaki ok sonum hans, ok kómu þeir þann dag margir saman, er Þórir skyldi ríða frá erfinu. Gengu þeir Kjarlakr ok Steinólfr á róðarskútu eina mikla, er Steinólfr átti, við fjóra tigu manna, ok reru til Króksfjarðarness ok stefndu fyrir sunnan nesit. Þórarinn krókr bjó í Nesi; hann sá för þeira, ok grunar, at ófriðr muni vera; reið hann þegar um Geiradal ok safnar mönnum. Þeir Óláfr ok Þorgeirr gengu á skip við nökkurum mönnum ok reru yfir Gilsfjörð ok lendu við Langeyri út frá Gróstöðum, ok heldu þaðan njósnum um ferðir Þóris.

Þeir Steinólfr lendu fyrir sunnan Króksfjarðarnes ok sendu sex menn upp undir Múla; var þar Blígr ok Árni ok fjórir menn aðrir; skyldu þeir þaðan hyggja at mannaferðum. Þórir varð heldr seinn frá heimboðinu. Hann dvaldist í Garpsdal um hríð; þar bjó Halldórr Heðinsson. Halldórr gaf Þóri uxann Garp, er dalrinn var við kendr; var hann þá fimtán vetra gamall. Enn Þórir gaf Halldóri bauginn Brosunaut. Hann reið nú ór Garpsdal ok kom á Gróstaði. Gró húsfreyja segir honum um skipin. Þórir gaf henni gullbaug; enn hon sendi þegar mann í Garpsdal, at segja Halldóri, at meiri ván sé, at Þórir þurfi manna við. Þeir Þórir riðu út með hlíðum. Þá sá þeir sex menn vera fyrir múlanum, vápnaðir. Litlu síðar sá þeir, hvar þar fóru Kjarlakr ok Steinólfr neðan frá skipi ok váru skjaldaðir. Þórir bað sína menn af baki stíga ok dró á sig glófana Agnarsnauta, ok vill nú fara höndum um þá, enn Völu-Gunnar keyrir hestinn sporum fram hjá þeim ok reið hina neðri leið. Hann sá sex menn fyrir sér; þar váru þeir Blígr ok Árni ok þeira félagar; þeir réðu þegar í móti honum. Gunnarr skaut spjóti til Árna, áðr hann hljóp af baki, ok kom spjótit í fang honum ok þegar í gegnum hann. Eftir þat hlaupa þeir at Gunnari, er eftir váru, ok sækir Gunnar þá fimm. Enn þeir sá þá, hvar þeir Óláfr ok Þorgeirr fóru neðan í brekk-

una milli sín ok þeira Þóris ok hlupu þá fjórir förunautar Blígs í lið með þeim, enn Blígr tók undan með rás ok fekk Gunnarr tekit hann í mýri einni ok drap hann þar, ok heitir þar Blígsmýrr ok Blígssteinn þar sem hann var kasaðr. Í þann tíma finnast þeir Þórir ok Þorgeirr, ok eru þar nítján hvárir; slær þar þegar í bardaga ok snýr Þórir at Þorgeiri ok höggr til hans með Hornhjalta ok kemr á öxlina, ok sníðr af höndina fyrir utan geirvörtuna. Óláfr faðir hans stóð at baki honum ok kom blóðrefillinn í brjóst honum ok rendi ofan í kviðinn, svá út fellu iðrin ok létust þeir þar báðir feðgar af þessu höggvi. Ketilbjörn varð þegar manns bani, er þeir fundust, ok í þessu kómu þeir Kjarlakr ok Steinólfr með þrjá tigu manna. Þá kom Gunnarr at ok barðist alldjarflega. Þórir bað sína menn hlífa sér ok gæta sín sem bezt; tókst þá eigi mannfallit skjótt. Þá kom Halldór til liðs við Þóri við tólfta mann. Þeir börðust nú um hríð; urðu menn sárir af hvárumtveggjum, ok þá kómu njósnarmenn þeira Steinólfs ok segja, at eigi mundi færi menn ríða inn fyrir Króksfjarðarmúla enn fimm tigir; þeir sögðu ok mikit lið ríða frá Gróstöðum. Þá kallaði Steinólfr á sína menn ok biðr þá halda til skipa ok láta þau gæta sín; snúa þeir Kjarlakr þá útundir bakkana ok til skipa sinna, enn hinir hlupu eftir þeim. Skipit var uppi

fjarat. Þeir Jósteinn hrundu fram skipinu, enn Þorvaldr bróðir hans helt uppi bardaganum á eyrinni við Þóri. Völu-Gunnarr kom at þar er Jósteinn hafði flotat skipinu, ok hjó hann sundr í miðju við saxinu, enn brýndi upp skipinu. Þeir Þórarinn koma þá á eyrina, er Þorvaldr var fallinn ok flestir allir hans menn. Hann bað menn hætta at drepa niðr forystulausa menn, — „höldum heldr eftir þeim Steinólfi ok látum nú sverfa til stáls með oss“. Þórir kvað þá fyrr ná mundu skipum sínum enn þeir yrðu teknir. Þórarinn kveðst eiga teinæring, — „er marga menn mun bera, ok eltum þá suðr yfir fjörð“. Þórir bað hann ráða, enn kveðst svá hugr um segja, at þá væri bezt at skilja. Enn Þórarinn vill ekki annat enn at fara eftir þeim. Reið hann heim til skips við tuttugasta mann, enn Þórir gekk á skip með nökkura menn. Menn Þóris váru bæði sárir ok vígmóðir ok gekk seint róðrinn. Enn Þórarinn sótti ákaft róðrinn ok hans menn, er þeir váru hvíldir. ok drógu skjótt eftir þeim Steinólfi. Kjarlakr bað þá eigi undan róa, at þeir hyrfi fyrir þá aftr, er eftir sóttu, — „því at vera kann, at þeir nenni eigi at bíða hinna, er eftir róa, ok mætti áðr umskifti verða áðr félagar þeira kæmi eftir“. Knútr bóndi á Knútsstöðum sá at þeir Steinólfr reru fyrir landit. Hann kendi skipit ok sendi þegar menn í Fagra-

dal ok stefndi mönnum til naustanna. Hann fór ok þangat með sína menn. Steinólfr stillir svá til um róðrinn, at þeir yrðu mjök jafnskjótir til lands ok Þórarinn með sínum mönnum. Gengu þeir Kjarlakr þegar upp frá skipi ok námu staðar á ströndunni. Þórarinn eggjaði þá sína menn til uppgöngu; váru þeir tuttugu, enn þeir Steinólfr hálfr þriði tigr. Þar varð harðr bardagi á eyrinni, ok er þeir höfðu skamma stund barizt, kom Knútr við fimtánda mann ok veitti Steinólfi ok sneri þá skjótt mannfallinu á hendr þeim Þórarni ok fell hann þar ok níu menn með honum, enn fimm af Steinólfi. Þeir hlupu á kaf er eftir váru, ok tóku þeir Þórir þá af sundi, er þeir kómu eftir, ok drógu upp í skip sitt. Þeir Gunnarr ok Ketilbjörn vildu þegar at landi leggja; enn Þórir bannar þeim ok heldr Gunnari, enn Ketilbjörn hljóp í framstafn ok dró at sér skip Steinólfs. Skutu þeir þá við forkum ok fluttust frá landi. Þeir Steinólfr hlupu þá ofan á fjöruna ok eggja Þóri upp at ganga á land; enn hann kvað—„þeim meira mundu fyrir verða, at standa yfir höfuðsvörðum mínum“. Reri hann þá vestr yfir fjörð með bæði skipin enn hinir þóttust eigi skipakost til hafa at róa eftir þeim. Þórir lendi við Langeyri, ok lágu þar níu menn dauðir ok allir af Óláfsdælum. Þorvaldr var græðandi ok var í brott fluttr. Sex menn váru þar dauðir, er þeir höfðu fyrst

fundizt. Enn lið þat er Steinólfr hafði sét margt fara frá Gróstöðum, þat váru naut Gró ok breiddi hon klæði á hornin. Enn mannföll þessi eru sögð eftir kumlum þeim, er fundin eru þar er bardagarnir hafa verit. Eftir þessi tíðendi fór Þórir heim til bús síns ok fóru þá menn í millum og varð griðum á komit um síðir. Eigi var þessi sætt í saksóknir færð, því at þessi tíðendi urðu fyrr enn Úlfljótr flutti lög til Íslands út.

**16.** Þórir sat í búi sínu ok hafði fjölmenni mikit. Kvikfé hans gekk mjök í landi Hrómundar í Gröf, enn þar fyrir var Þórir því vanr, at hann gaf Hrómundi gelding hvert haust, enn lamb á várum. Þat fé varð gamalt ok gekk með mörkum Þóris. Þat var eitt haust, at Þórir vandar um við rétt, ok varð þeim at orðum. Enn er Völu-Gunnarr heyrði orð þeira, hljóp hann upp at Hrómundi ok hjó til hans ok varð þegar at vígi. Þessu varð Þórir svá reiðr, at hann rak Gunnar í brott ok fór hann þá í Múla til þeira Gríms. Enn þeir gáfu honum bólstað í Þorskafjarðardal, þar er nú heitir á Gunnarsstöðum ok gerði hann þar bú, enn var stundum með Ketilbirni.

**17.** Þormóðr hét maðr norðlenzkr. Hann stökk norðan fyrir víga sakir. Hann kemr á Hjalla til Helga ok skorar á hann til vistar. Enn Helgi játti at taka við honum, ef hann sætti áverkum við Þóri, ef hann kæmi í færi.

Þessu játar Þormóðr. Enn þat var litlu síðar, at Þórir reið Kinnskænum gamla yfir Þorskafjörð. Þormóðr var við sétta mann, ok var fólginn í þangi, þar er Þórir skyldi á land ríða, ok er hann reið af vaðlinum, hljóp Þormóðr upp ok lagði til hans, ok kom lagit í síðu hestinum ok hljóp millum rifjanna. Þórir hljóp af baki hestinum; enn hestrinn ærðist ok hljóp út á sjóinn. Þórir brá sverði ok hjó Þormóð banahögg. Þá hlupu þeir Helgi ofan í fjöruna ok skaut Þórir spjóti í gegnum þann er fyrstr fór. Enn er þeir Helgi sjá, at tveir eru fallnir, snýr þá síns vegar hverr þeira. Þórir hljóp eptir Helga, ok elti hann út til Kálfár, ok vá hann undir Helgasteini út frá Hjöllum. Eftir þat fór Þórir heim. Þar heitir nú Þormóðstangi, er hann fell við sjóinn, enn Hesttangi þar er Kinnskær kom á land. Þórir var nú varr um sik ok lét upp halda virkinu. Þá lét Þuríðr drikkinn gera rekkju gagnvert dyrum ok kvað sér þá mundu fátt á óvart koma. Eigi sættust þeir Styrkárr ok Þórir á víg Helga. Enn þat var nökkuru síðar, at Styrkárr gekk á skip með húskarla sína tíu. Þar var Kerling í för með þeim dóttir hans. Þau fóru leynilega suðr yfir Þorskafjörð ok kómu á Hofstaði til Halls. Styrkárr skorar á hann til liðs. Hallr brást við skjótt ok fara þegar við fimtánda mann. Þeir váru nú allir saman sex ok tuttugu. Kerling hafði

ráð fyrir liði þeira ok hon hafði huliðshjálm yfir skipinu, meðan þau reru yfir fjörðinn til Þórisstaða. Þau gengu frá skipi ofanverða nátt ok gekk Kerling fyrst í virkit, því at þegar spratt upp lássinn fyrir henni, er hon kom at; ok er hon kom í virkit, hljóp at henni gyltr mikil ok svá hart í fang henni, at hon fór öfug út af virkinu ok í því hljóp upp Þuríðr drikkinn ok bað Þóri vápnast, segir, at ófriðr var kominn at bænum. Þeir Þórir hlupu upp ok klæddust, tóku vápn sín ok váru tólf saman. Tekst þar bardagi í virkinu; þeir Þórir urðu sárir mjök, því at vápn þeira bitu ekki. Þá sá Þuríðr drikkinn, at Kerling fór um völlinn at húsbaki, ok hafði klæðin á baki sér uppi, enn niðri höfuðit, ok sá svá skýin á milli fóta sér. Þuríðr hljóp þá útaf virkinu ok rann á hana ok þreif í hárit ok reif af aftr hnakkafylluna. Kerling tók í eyra Þuríði báðum höndum ok sleit af henni eyrat ok alla kinnfylluna ofan, ok í því tóku at bíta vápn Þóris ok manna hans, ok urðu þá mjök skeinusamir. Fellu þá sumir menn Halls, enn sumir flýðu ofan ór virkinu. Börðust þeir þá á leiðinni ofan til sjóvarins; enn svá lauk, at þeir kómust á skip um síðir; enn eftir lágu fimm menn, enn tveir fellu af Þóri. Þær Þuríðr ok Kerling váru báðar óvígar. Eftir þat leitar Hallsteinn um sættir með þeim Styrkári ok Þóri. Varð þat at sætt, at

víg þeira Helga skyldu ástandast heimsókn ok fjörráð við Þóri. Síðan var saman jafnat mannalátum öðrum ok bættr skakki. Hallr var ekki í þessi sætt ok fór hann suðr yfir fjörð; er hann í Fagradal með Steinólfi um hríð. Þeir bera nú saman ráð sín, ok gaf Hallr þat ráð til, at þeir sæti um líf Ketilbjarnar. Kvað hann þá mest aðra hönd af Þóri, ef honum yrði nökkut. Heldu nú njósnum um, hvern tíma Ketilbjörn væri heima í Tungu. Enn þat var háttr Ketilbjarnar, þá er hann var heima, at hann helt njósnum ofan til Bæjar. Með honum var Ásmundr Naðrsson ok Völu-Gunnarr.

18. Enn um haustit litlu fyrir vetrnætr fengu þeir Steinólfr ok Hallr njósn af því, at Ketilbjörn var heima. Þeir gengu þá á skip fimtán saman, Steinólfr ok Hallr, Loðinn ok Galti fylgdarmenn þeira. Þeir róa vestr yfir fjörð ok lendu í Laxárós. Þar kom til móts við þá Grímr af Völlum ok Hergils son hans; þeir váru tíu saman. Þeir fóru upp til Tungu um nóttina ok varð engi maðr fyrr varr við, enn þeir höfðu tekit bæinn á þeim. Þar var fyrir Ketilbjörn ok Ásmundr Naðrsson ok þrír menn aðrir. Gunnarr hafði riðit áðr um daginn vestr á Þórisstaði, ok er hann var þar kominn, spyrr Þórir, hvaðan hann væri at kominn. „Frá Ketilbirni“, segir hann. „Eigi ertu auðnumaðr“, segir Þórir, „því at svá dreymdi mik í

nótt, at hann mundi þurfa manna við“. Gunnarr segir: „Þat þykkir mér undarlegt, er þú sitr heima, kappi slíkr sem þú þykkist vera, enn hinn kærsti vin þinn eigi í hlut ok þurfi manna við“. Þórir segir: „Hafa skal gott ráð, þó at ór refsbelg komi“. Bað hann þá taka Kinnskæ hinn unga; ríða þeir þaðan sex saman um nóttina, Þórir ok Guðmundr, ok Kinnarsynir tveir ok Völu-Gunnarr; enn ór Múla fór Grímr ok þrír menn aðrir. Þeir riðu nú tíu um nóttina suðr yfir Þorskafjörð. Nú er at segja frá Ketilbirni, at þeir fundu eigi fyrr enn húsin váru tekin á þeim; þeir Ásmundr tóku vápn sín. Gekk Ketilbjörn út í dyrrin ok sá at eldr var borinn at dyrum. Hann spyrr, hverir fyrir eldinum ætti at ráða. Steinólfr kvaðst fyrir eldi ráða. Ketilbjörn mælti: „Hér mun þér þykkja skaplegr fundr várr; eða skal nökkurum mönnum leyfa útgöngu?“ Steinólfr bað konur út ganga, enn eigi fleiri. Eftir þat gengu þær út, enn eldr tók at leika um húsin. Þeir Ásmundr og Ketilbjörn gengu undan einn vegg ok kómust þar út; hlupu þeir Steinólfr ok Hallr þangat ok slógu hring um þá. Þar váru þegar drepnir þrír menn af Ketilbirni; enn hann vá tvá menn. Ásmundr hljóp at Halli, ok hjó til hans; enn maðr hljóp fyrir hann ok fekk sá bana. Þá hljóp Ásmundr út yfir mannhringinn, enn Ketilbjörn annan veg. Hallr hljóp eftir Ás-

mundi ok hans félagar, enn Steinólfr eftir Ketilbirni. Ásmundr hljóp á hól einn ok varðist þaðan. Þeir Hallr gengu upp á hólinn, enn Ásmundr réð í mót ok hjó til Halls; hann brá við skildinum. Þá hjó einn af Halls mönnum til Ásmundar ok kom á hjálminn. Hann rasaði við höggit, ok lagði sverðinu til þess er hjó, ok þegar í gegnum hann. Eftir þat hjó Hallr til Ásmundar, ok kom á hálsinn, svá at af tók höfuðit: var hann þar dysjaðr ok heitir þar Ásmundarhváll. Enn Ketilbjörn hljóp út til árinnar; enn þar var svá háttat, at steinn stóð í ánni ok var Ketilbjörn þar vanr at hlaupa á steininn ok þaðan yfir ána, enn þat var eigi annarra manna hlaup. Þat heitir síðan Ketilbjarnarhlaup. Þeir Steinólfr runnu eftir honum til árinnar. Ketilbjörn hljóp á steininn ok gat eigi festan sik á steininum; hljóp hann þá aftr yfir ána, ok í því kom Steinólfr at, ok hjó á fótinn svá at af tók í öklaliðnum. Ketilbjörn fell eigi við höggit ok hneykti þá í mót þeim ok vá tvá áðr hann fell. Eftir þat fóru þeir Steinólfr heim til bæjarins ok fundust þeir Hallr þar. Þeir ræntu þar fé nökkuru ok fóru síðan ofan með ánni ok ætla til skipsins. Þórir kom í Tungu litlu síðar enn þeir Steinólfr váru brott farnir. Varð hann þá víss þeira tíðenda, er þar höfðu gerzt. Þórir varð allreiðr ok keyrði hestinn sporum í ákafa, ok svá hverr at öðrum.

Þórir varð skjótastr. Hann gat farit fjóra menn af liði Steinólfs ok drap þá alla; enn er hann kom á bakkana, váru þeir Steinólfr á skip komnir. Þórir eggjar Steinólf á land at ganga. „Nú munu vér herma orð yður, at þar skal meira fyrir verða at hefna Ketilbjarnar, enn at vér göngum á land upp undir vápn yður", segir Steinólfr. Þórir mælti: „Ek veit eigi, hvers mér verðr af auðit um hefnd eftir Ketilbjörn; enn hafa skal ek vilja til". Þeir Steinólfr reru út til Króksfjarðarness. Þórir sneri á Völustaði í Kambsheiði; þar bjó Heimlaug völva. Þórir gaf henni fingrgull ok bað hana liðveizlu ok ráðagerðar. Hon lagði þat til ráðs, at hann fari fyrst at heygja Ketilbjörn, enn kveðst mundu gera honum njósn, ef hon frétti nökkut til tíðenda. Þórir gerir sem hon lagði ráð til. Þeir Steinólfr lágu undir Króksfjarðarnesi, þar til er Þórir reið aftr. Gengu þeir Grímr þar af skipi; fór Grímr heim, enn Hallr í Bæ. Þá sendi Heimlaug orð Þóri fram í Tungu, at Grímr var heim kominn. Riðu þeir Þórir þá á Völlu, ok brutu þar upp hurðir; gengu inn síðan. Þeir Grímr fengu vápn sín ok vörðust drengilega; var þar hin harðast atsókn, því at Þórir var allreiðr ok lauk svá, at Grímr fell ok húskarlar hans tveir, enn Hergils son hans komst út um laundyr ok varð Gunnarr varr við hann ok hljóp eftir, ok vá hann þar, er nú heita Her-

gilsstaðir. Eftir þat riðu þeir Þórir í brott, ok er þeir váru skamt komnir, sjá þeir þrjá menn ríða frá Bæ ok var einn í blári kápu. Þat var Hallr, Loðinn ok Galti. Þórir keyrir þegar hestinn sporum, er hann sá þá, ok ríðr frá sínum mönnum. Hann gat farit þá hjá Steinólfsdal, ok varð þó eigi höggfæri við Hall. Þórir skaut eftir honum spjóti, ok kom í söðulbogann, og þegar í gegnum hann, ok svá í bak Halli. Hann snaraðist við ok kipti í brott spjótinu. Þá hjó Galti til Þóris; enn Hallr reið undan sem hann mátti. Þórir hljóp þá af baki, ok er svá sagt at hann hamaðist þá hit fyrsta sinn. Galti var ok hamrammr ok var þeira atgangr hinn harðasti. Fór Galti þá undan, enn Þórir sótti eftir. Loðinn þóttist engan hlut at mega eiga, ok reið hann eftir Halli; enn þar kom, at Þórir bar af Galta. Þar heitir nú Galtadalr. Þá hljóp Þórir á hestinn ok var mjök móðr. Hann reið þá at leita Halls, ok fann hann örendan við túngarð á Hofstöðum. Hann hafði látizt af sári því er Þórir hafði veitt honum, ok fallit þar af baki. Þórir fór til móts við félaga sína; riðu síðan heim vestr yfir Þorskafjörð. Hann bauð Hyrningi sætt eftir feðr sinn; enn hann tók því vel. Fór hann á Hofstaði ok tók þar við búi ok var hann betrfeðrungr; var hann aldri í mótgangi við Þóri.

19. Steinólfr sat í búi sínu ok þóttist þungar fréttir hafa um fjörðinn. Hann var svá varr um sik, at hann var aldri fyrir vestan fjörð nætrgestr; hann setti annan mann fyrir búið í Bæ, at annast þar um. Þórir sat nú um kyrt, ok var honum allmikill hugr á at finna Steinólf, enn þóttist eigi föng á hafa, at sækja hann suðr um fjörð fyrir liðsafla sakir. Þat var eitt haust, at Steinólfr fór vestr yfir fjörð. Þeir váru tíu á skipi ok ætla þegar heim aftr. Enn er þeir váru vestr komnir, hljóp á útsynningr með stormi, ok máttu þeir eigi þann dag aftr fara. Enn er Heimlaug völva vissi þat, sendi hon mann til Þóris ok bað hann skjótt við bregða, ef hann vildi Steinólf finna, enn hon kvaðst mundu ráða, at veðrit felli eigi. Þórir reið þegar heiman, ok vill eigi mönnum safna, því at hann hugði, at þá mundi njósnir koma Steinólfi, ef nökkur dvöl yrði á. Þeir fara nú heiman: Guðmundr son hans, Völu-Gunnarr ok Kinnarsynir tveir. Þuríðr móðir þeira segir, at meir var ferð sjá ger með ráði Heimlaugar enn sínu, at fara við svá fá menn í hendr Steinólfi. Þórir kvað nú eigi at síðr fara skulu. Þeir fóru heiman átta, ok vaf-spjarra-Grímr ór Múla ok maðr með honum. Enn er þeir kómu suðr yfir Þorskafjörð, sendi Þórir orð Óttari fóstbróðr sínum í Másdal. Hann kom til hans við annan mann. Þeir riðu tólf

inn til Steinólfssdals. Enn þeir Steinólfr höfðu farit tíu til at festa hey upp í dalinn. enn aðrir tíu váru heima. Heyit stóð víða um dalinn ok váru þeir mjök dreift um dalinn. Enn er þeir Þórir sjá, hvað þeir höfðust at, skildust þeir ór reiðinni til at henda þá. Váru þá hleypingar miklar. Steinólfr kallar á sína menn, ok bað þá heim halda til Bæjar ok láta húsin gæta sín, ok er þeir kómu heim at túngarði, þá váru þeir tólf; kvaðst Steinólfr þá eigi lengra renna vilja; höfðu þá látizt fimm menn Steinólfs. Þeir kómu fyrst eftir Kinnarsynir, Grímr ok þrír menn aðrir. Þórhallr hjó þegar til Steinólfs ok kom á fótinn; varð þat mikit sár. Enn Steinólfr lagði til hans ok kom á hann miðjan. Þórhallr gekk á lagit upp at höndum honum ok hjó enn til hans ok veitti honum mikit sár- Í því kom Þórir at, ok váru þá fallnir þrír menn af þeim Þórhalli. Þórir barðist þá djarflega. Enn þenna sama dag reið Atli son Úlfs hins skjálga norðan yfir heiði við fimtánda mann. Hann varð varr við fundinn, ok fór til ok reið þegar til meðalgöngu, ok kvaðst þeim veita mundu, er at hans orðum mundu gera, ok þar kom at hann fékk skilið þá, því at hvárirtveggja váru mjök sárir. Þar létust þrír menn af Þóri, enn fimm af Steinólfi. Þar heitir Grásteinsdæld, er þeir börðust, upp frá Bæ. Atli fylgir þeim Steinólfi heim í Bæ ok váru þar bundin

sár þeira. Þeir Þórir riðu vestr heim ok váru allir sárir ok engi maðr komst ósárr af þeim fundi. Um daginn eftir fór Steinólfr heim suðr til Fagradals, ok lá lengi í sárum um haustit ok greri seint. Enn um vetrinn sló í verk, ok rifnuðu aftr þau er gróin váru, ok dó hann af þeim sárum. Þórir hafði ok mjök sárr orðit, ok greru hans sár skjótt. Enn eftir þenna fund tók Þórir skapskifti; gerðist hann þá mjök illr viðfangs. Þat haust hurfu kistur þær, er hann hafði gera látit at Valshellis-gulli, ok vissi engi síðan, hvat af þeim væri orðit.

20. Nú er frá því at segja, at til hefnda eftir Steinólf var Þorsteinn son hans ok þeir feðgar Sléttu-Björn ok Þjóðrekr, dótturson Steinólfs. Atli Úlfsson leitaði um sættir með þeim, ok vildu Saurbæingar eigi sættast, ef eigi færi þeir utan, er mest höfðu gengit at vígum þeim. Þórir vildi eigi utan fara. Var Steinólfr bættr fé miklu; enn Guðmundr ok vafspjarra-Grímr, Völu-Gunnarr ok Óttarr ok Þorsteinn Kinnarson skyldu utan fara ok vera brott þrjá vetr. Skip stóð uppi á Borðeyri í Hrútafirði ok þat hafði Þórir frétt. Hann reið heiman ok til Gilsfjarðar, svá norðr heiði til Bitru ok þaðan til Hrútafjarðar, ok kom á Borðeyri ok tók þeim far. Eftir þat reið hann heim hinn sama veg ok hann fór norðr, ok flutti þá síðan til skips alla ok fekk þeim fararefni nóg. Eftir þat reið

Þórir heim ok sat um kyrt. Enn þeir fóru utan ok kómu til Noregs. Þá réð Hákon konungr Aðalsteinsfóstri fyrir Noregi ok var þat á öndverðum hans dögum. Þeir Guðmundr ok hans félagar váru í Noregi um vetrinn; fóru síðan um sumarit eftir í hernað ok reyndust hinir hraustustu menn ok fengu góðan orðstír ok unnu mikit sér til frægðar. Þeir váru fjögr sumur í hernaði, enn á vetrum með Hákoni konungi ok mat hann þá mikils.

21. Þrándr hét maðr; hann var Hallbjarnarson; hann stökk ór Noregi fyrir víga sakir ok fór til Íslands. Hann kom út í Dýrafirði. Hann átti brátt sökótt við menn fyrir víg ok óróa þar vestra, ok fór hann þaðan. Hann kom til Styrkárs í Barmi, ok var Styrkárr þá orðinn hrumr af elli. Þrándr skorar á hann til viðtöku. Styrkárr mælti: „Kost geri ek þér á því; ef þú vegr gull-Þóri, þá mun ek taka við þér ok gefa þér fé mikít“. Þrándr játar því, ok ferr nú á Þórisstaði ok hitti Þóri ok skorar á hann til viðtöku. Þórir mælti: „Svá hafa fregnir af þér farit, at þú aukir mjök vandræði, ok er mér þat ekki hent; hefi ek ok spurt, at þú komt til Styrkárs í Barmi, ok mundi hann hafa tekit við þér“. Þrándr mælti: „Enga viðtöku fekk ek hjá honum; enn heyrt hefi ek, at þú værir góðr drengr ok rausnarmaðr mikill. Nú mun ek þat til baka

bera, ef þú tekr eigi við mér“. Þórir mælti: „Fast sækir þú þetta mál, ok mun ek við þér taka“. Þrándr þakkar honum ok dvelst þar um hríð ok hugnast öllum vel til hans. Þat færði Þrándr sér vel í nyt. Eigi virðist honum gott at eiga við Þóri, ok þótti hann hafa tekit mjök skapskifti eftir því, er hann hafði heyrt með sönnu sagt af Þóri áðr; þó var Þórir jafnan vel til Þrándar. Nú er stundir líða sitr Þrándr um líf Þóris ok fekk þó eigi færi á honum lengi. Þat var eina nótt, at Þrándr fór ór rekkju sinni ok at lokrekkju, er Þórir svaf í. Þórir hafði gengit út at gæta til veðrs. Þrándr gekk í lokrekkjugólfit, enn myrkt var mjök ok opin hurðin fyrir lokrekkjunni. Þrándr beið þar nú, ok kom Þórir ok varð eigi varr við hann, því at hann grunaði ekki Þránd. Þórir legst nú niðr ok sofnar. Þá lagði Þrándr á hann miðjan. Þórir hafði vafit fast um sik fötin. Ingibjörg kona hans lá fyrir ofan hann. Þórir vaknar við, þá er lagit gekk gegnum fötin, ok þreif til yfir um hönd Þrándar í einni svipan ok varð ekki sárr. Þórir kreisti fast hönd Þrándar, svá at spjótit losnaði, ok tók Þórir þat. Síðan keyrði Þórir Þránd niðr fall mikit, svá at hann lá lengi í óviti; ok er hann raknaði við, spurði Þórir hann, hví hann hefði sýnt sér ótrú þessa. Þrándr sagði hit sanna frá ok síðan bar Þórir hann

út ok lagði spjótinu í gegnum hann. Daginn eftir reið Þórir á fund Styrkárs ok færði honum Þránd dauðan, ok bar sök á hann um fjörráðin. Styrkárr bætti fé nökkuru fjörráðin ok skildu þeir Þórir sáttir; reið Þórir heim, enn Styrkárr lét heygja Þránd. Um þann tíma dó Þórðr bróðir Þorbjarnar stokks í Laugardal vestr. Hann átti sonu tvá; hét hinn eldri Agnarr, enn hinn yngri Þorgeirr; þeir váru fríðir sýnum ok miklir fyrir sér ok tóku þeir föðurarf sinn ok gerðust góðir bændr; létu þeir jafnan mikit yfir sér ok þóttu eigi vera jafnaðarmenn; sátu þeir mjök yfir hlut manna vestr þar.

22. Þat var eitt sinn at Sléttu-Björn hitti Kjarlak ok áttu þeir tal saman. Sléttu-Björn kvaðst eigi una við þau málalok, er orðið hafi með þeim Þóri, ok bað Kjarlak setja nökkur ráð til. Kjarlakr mælti: „Þau ein hafa orðit skifti vár við Þóri, at vér hafim hinn verra hlut af haft, ok máttum vér nú vel una við málalokin eftir víg Steinólfs, ór því sem ráða var; þykki mér betra, at eiga ekki við hann; þó mun ek nú til leita, ef færi gefst á“. Eftir þat skilja þeir. Svá bar til nökkuru síðar, at Halldórr goði í Garpsdal bauð Þóri til heimboðs við þriðja mann; var Atli sonr hans annarr. Enn er Þórir var at heimboðinu, reið hann í Múla til Herfinns ok var þar eina nótt.

Kjarlakr hafði njósn af þessu. Þá nótt, er Þórir var í Múla, reið Kjarlakr at heiman við sétta mann. Þorgrímr hét bróðir Kjarlaks; hann bjó at Brunná. Kjarlakr hitti hann um nóttina í hvílu ok bað hann liðs. Þorgrímr klæddist þegar ok fór með Kjarlaki við fimta mann ok riðu þeir ellifu saman inn með Gilsfirði. Eigi treystust þeir, at gera heimsókn at Múla ok riðu til Búðarár hjá Garpsdal ok biðu þar ok bundu hesta sína. Smalamaðr frá Múla sá til mannanna, hvar þeir fóru. Hann sagði frá því heima, ok kvaðst eigi hafa þekt mennina, enn þó mundi þat ófriðarmenn. Þórir kvaðst eigi at síðr ríða mundu. Herfinnr bauð at fylgja honum. Þórir kvað þess eigi þurfa. Síðan reið Þórir um daginn frá Múla ok skildu þeir Herfinnr með vináttu. Enn er Þórir kom á skeiðit við Búðará, hlupu þeir upp hinir. Sá var í litklæðum, er fyrstr fór. Þórir skaut spjóti at þeim, ok kom á þann miðjan, er var í litklæðunum, ok í gegnum hann; enn þat var Þorgrímr bróðir Kjarlaks. Hestar þeira Þóris váru á harða skeiði, ok bar þá fram hjá þeim Kjarlaki. Sá, er næst komst, var húskarl Kjarlaks; hann lagði til Atla; enn Atli sló af sér lagit ok hjó hann banahögg. Einn maðr varð fyrir hesti Þóris, ok fell um koll ok varð undir honum sverð hans, ok meiddist hann til bana. Bar þá Þóri undan, enn þeir Kjarlakr treystust

eigi at sækja eftir, ok sneru þeir til hesta sinna ok riðu heim, ok höfðu förunauta sína þá hina dauðu með sér ok undu hit versta við. Þórir var at heimboði í Garpsdal um hríð ok reið síðan heim. Litlu síðar sendi Kjarlakr til Þóris ok beiddist bóta fyrir víg Þorgríms bróður síns, ok hét þá at sitja aldri framar um líf Þóris, ef hann fengi bætrnar. Þórir galt tvau hundruð silfrs ok kvað Kjarlak vel hafa leitat; enn hinir tveir kómu fyrir atförina við Þóri. Þat efndi Kjarlakr, at hann sat aldri framar um Þóri eða lagði fjörráð við hann. Ekki undi Sléttu-Björn betr enn áðr, enn varð nú svá at láta vera, ok er eigi getit, at hann hafi gert til Þóris þar eftir. Af honum er komin allmikil ætt hér á landi; hann var hit mesta afarmenni.

23. Svá er sagt, at þeir bræðr synir Þórðar í Laugardal, Agnarr ok Þorgeirr, fara á fund Þorkels auðga í Alviðru í Dýrafirði ok biðja hann liðveizlu at drepa gull-Þóri; kváðust á honum eiga at hefna Þorbjarnar stokks ok Arnar sonar hans. Þorkell mælti: „Eigi mun Þórir verða ykkr auðsóttr, ef hann verðr varr við, ok vandasamt þykki mér þetta; þó mun ek til leggja nökkut, er þit hafit mik heimsótt, ok vil ek senda flugumann til Þóris". Þorgeirr mælti: „Eigi sé ek mann til þess". Þorkell mælti: „Ek mun sjá fyrir því; enn

annat ár í þetta mund mun ek hafa nökkut svá um sét, at hægra mun ykkr at veiða Þóri þá enn nú". Þeir bræðr þakka honum heit sín ok fara nú heim. Þorkell hittir nú Önund ráðamann sinn; hann var skyldr Þorkeli ok hafði vaxit upp með honum ok unnust þeir mjök. Þorkell biðr hann leita til, ef færi gefist á Þóri, ok segir honum ráðagerð sína ok þeira bræðra. Önundr mælti: „Engi heillaþúfa hefir Þórir orðit þeim, er gert hafa á hluta hans, eða setit um líf hans, ok heldr eigi á ek honum neitt ilt at launa, ok vil ek eigi vera í neinum fjörráðum við hann". Þorkell mælti: „Því hefir þú heitit mér, at gera vilja minn í hverju er væri; enn nú þykki mér þú allmjök bregða þat". Önundr mælti: „Eigi munt þú þurfa at bregða mér þessu, ok skal ek at vísu fara; þó segir mér svá hugr um, at ek hljóti bana af þessu". Skilja þeir nú talit, ok hinn næsta dag eftir, gengr Önundr at Þorkeli með brugðit sax ok hjó til hans ok særði hann allmiklu sári, ok lézt Þorkell bregðast reiðr við ok reka Önund í brott, ok fór hann þá þaðan ok létti eigi ferð sinni fyrr enn hann kom á Þórisstaði ok var þar um nótt. Um morguninn gekk hann á tal við Þóri ok bað hann viðtöku, ok segir honum, at hann hafi orðit missáttr við Þorkel ok at hann hafi sært hann sári miklu ok hafi Þorkell rekit sig í brott. Þórir hafði heyrt fregn

af þessu, enn ekki af ráðagerðinni, ok grunaði hann ekki. Hann mælti til Önundar: „Spurt hefi ek, at sönn er saga þín, ok mun ek við þér taka; enn þó er vandhæfi hér á, at ek gerist nú óeirinn í skapi, at bágt er við mik at lynda, ok er mér þat eigi sjálfrátt“. Önundr segir: „Eigi mun ek ertast við þik, ok því heldr varast, er ek veit þetta“. Þórir mælti: „Eigi veit ek, hvárt þú stýrir happi miklu, því at mér sýnist þú eigi gæfusamlegr“. Skilja þeir nú talit, ok var Önundr þar þau misseri ok hugnaðist Þóri vel til hans ok öllum þar. Önundr gekk á fjall með húskörlum Þóris um haustit ok hugði at landslagi ok varð hann því vel kunnigr. Nú líðr vetrinn ok gætti Önundr mjök at háttum Þóris; hann varð þess varr, at Þórir fór einn nökkurum sinnum framarlega í Djúpadal fram ór Djúpafirði ok dvaldi þar lítit. Enginn vissi, hvat hann gerði þangat, nema Ingibjörg kona hans, ok sagði hon þat engum. Nú líðr fram á várit; þá reið Þórir vestr í Alviðru til Þorkels auðga ok fekk þar góðar viðtökur ok var hann þar um nótt. Þá leitar Þórir um við Þorkel, ef hann vildi taka Önund í sátt, ok bauð hann fé til. Þorkell tók því vel ok semja þeir þetta með sér, ok grunar Þóri ekki um svikin ok gefr hann Þorkeli fim merkr silfrs ok fór síðan heim ok segir Önundi hvar komit var. Önundr þakkar hon-

um með mörgum fögrum orðum, ok bjóst nú at fara heim til Þorkels. Þórir gaf honum gjafir at skilnaði ok bað hann vel fara. Önundr reið nú vestr til Laugardals ok finnr þá bræðr. Þeir taka vel við honum, ok spyrja hann nú um hætti Þóris. Hann segir slíkt er hann vissi ok um ferðir hans í Djúpadal, — „ok þætti mér vænst“, segir hann, „at sitja um Þóri, þá er hann ferr þangat, ok mun ek kunna leiðir“. Þeir tóku vel undir þat, ok fara nú á fund Þorkels, ok segja honum hvar komit var. Hann kvað nú vel stofnat, — „ok vil ek nú at Önundr sé eftir með mér“. „Eigi skal þat“, segir Önundr, „svá fast sóttir þú eftir at koma mér í þetta mál, at ek mun eigi við þá bræðr skilja, fyrr enn nökkut um skipast“, ok varð nú svá at vera sem Önundr vildi, ok fór hann heim með þeim bræðrum. Þeir fara heiman litlu síðar ok Önundr með þeim, ok safna mönnum ok verða saman átján, ok fór engi njósn af þeim. Þeir váru kyrrir um daga, enn á ferð um nætr, ok fóru seint. Önundr var fyrir ferðinni, því að hann kunni allar leiðir. Þeir koma í Djúpadal ok nema staðar á völlum nökkurum framarlega í dalnum. Þar eru þröng og ógurleg gljúfr öðrum megin við vellina. Önundr bað þá bíða þar, — „enn ek mun fara á fund Þóris“. Þeir gera nú svá; enn Önundr ríðr á Þórisstaði. Honum er þar vel fagnat, ok er hann

þar um nótt. Um morguninn eftir bjóst Þórir at ríða í Djúpadal. Hann bað Atla son sinn með sér fara, ok fór hann ok tveir húskarlar. Ingibjörg kona Þóris spyrr hann at, hví hann hafi menn með sér. Þórir mælti: „Vera má at nökkut beri nú til tíðenda, er þú sér eigi; grunar mik um þat, þó at ek fái ekki at gert“. Síðan reið Þórir á stað, ok mintist áðr við konu sína ok bað hana vel lifa. Önundr vildi fara með Þóri, ok leyfði hann honum þat, ok kvaðst vána hann sér trúan. Önundr kvaðst svá reynast skyldu. Nú ríða þeir, þar til er þeir koma á vellina. Þar spretta þeir bræðr upp ok menn þeira ok hljóp Önundr af baki ok í lið með þeim. Þá mælti Atli: „Undan vil ek ríða, faðir, ok hætta eigi til við þenna liðsfjölda“. Þórir mælti: „Fyrr skal ek lífið missa enn undan flýja, þó at ek sę nú gamall“. Stíga þeir Þórir þá af baki. Hinir veittu þeim harða atsókn, enn þeir verjast ágætlega. Húskarlar Þóris höfðu hvárr mann fyrir sik ok fellu svá báðir. Þórir vá tvá menn ok Atli aðra tvá. Önundr sótti hart at þeim ok þeir bræðr. Þórir mælti til Önundar: „Sé ek nú ráð yðar, ok hefir þér illa farit, at svíkja mik í trygðum; mun nú ok verða endi á æfi minni; enn skamma tíma skalt þú eiga at fagna þessum svikum“. „Þat er illa þá“, segir Önundr, Þórir hjó þá í höfuð honum ok klauf hann at endilöngu.

Enn í því bili hjó Agnarr af Þóri hægri höndina í úlfliðnum. Þórir kastaði þá skildinum ok tók sverð sitt í því at þat fell niðr með hendinni; varðist hann þá svá lengi með vinstri hendinni at undrum gegndi, ok vá þá enn tvá menn. Agnarr snarast at, ok hjó þá af honum vinstri höndina í úlfliðnum. Þórir brást fast við, ok sló Agnarr með hægri stúfnum ok fell hann í öngvit. Þórir hljóp þá at gljúfrunum ok sló stúfnum við hellu mikilli, svá at hon hrökk til. Þá sá þeir, at kisturnar, er Valhellis-gull var í, váru þar undir. Þórir stakk handarstúfnum sínum í hvárn kistuhring. ok steyptist fram af í gljúfrit í fljótri svipan ok sá þeir hann eigi framar. Atli hljóp á bak hesti sínum ok reið sem hvatast heim á Þórisstaði ok sagði tíðendin, ok þótti þetta mikit. Varð Þórir mörgum harmdauði ok eigi sízt konu hans. Agnarr raknaði við, ok fóru þeir bræðr þaðan sem skjótast ok riðu vestr ok undu illa sinni ferð.

24. Agnarr lá lengi í sárum um sumarit eftir höggit ok dó um sumarit, þá er liðnir váru sex vetr frá falli Steinólfs. Ingibjörg ekkja Þórir bjó á Þórisstöðum, ok Atli son hans. Þat sumar kómu út: Guðmundr Þórisson, Völu-Gunnarr, vafspjarra-Grímr, Þorsteinn Kinnarson ok Óttarr vestr í Dýrafirði, ok riðu heim á Þórisstaði frá skipi. Síðan fóru þeir vestr í Laugardal, ok hitta Þorgeir; Guðmundr drap hann,

ok síðan drápu þeir alla hina, er í atför höfðu verit við Þóri. Eftir þat riðu þeir heim. Þat varð uppvíst, at Þorkell auðgi hafði verit í fjörráðum við Þóri; fóru menn þá í milli ok kómu sætt á með Þorkeli ok sonum Þóris, ok galt hann mikit fé; skaði þótti honum at Önundi, enn varð at hafa svá búit, ok allir fellu þeir óhelgir, er í atförinni váru við Þóri, enn Þórir var bættr miklu fé, ok lauk svá viðskiftum þeira Þorkels. Guðmundr bjó á Þórisstöðum til elli, ok er mikil ætt frá honum komin. Atli bjó í Gröf ok váru þeir bræðr mikilmenni. Völu-Gunnarr bjó á Gunnarsstöðum, enn Grímr í Múla langa tíð, enn Þorsteinn á Kinnarstöðum. Þar heita nú Leikvellir, er Þórir fell. Enn um hann veit engi framar at segja eftir þat, er hér var sagt, ok er þat ætlan manna, at hann hafi lagzt á gullkistur sínar ok brugðizt í ormslíki, ok var þat lengi síðan, at menn sáu dreka fljúga ofan í Gullfors ok yfir gil þat, er hann sást hverfa ofan í. Þórir hefir verit einn með hraustustu mönnum hér á landi; sá hann ok flest fyrir fram ok var vitr maðr ok engi ofsamaðr, alt þar til er lund hans spiltist, ok hefir hann þá goldit þess síðasta drykkjs, er hann drakk af kalki Agnars, sem hann hafði sagt honum fyrir. Ok lúku vér þar gull-Þóris sögu.

# Nöfn.

## Leiðréttingar.

Bls. 46. **Hergilsstaðir les** ***Hergilsgrafir.***
Bls. 47. **fóstbróðr les** ***fóstbróður.***

## Grettis saga

verður gefin út á næsta ári, að öllu forfallalausu; enda er menn farið að lengja eptir henni, sem vonlegt er, því hinar fyrri útgáfur hennar eru óvíða til meðal almennings, en allir hafa mestu mætur á sögu þessari, eins og rjett er.

Það hefir verið haldið að útgáfa hennar stæði til verulegra bóta, og því hefir verið beðið eptir nýrri og vandaðri útgáfu af henni, sem leggja mætti til grundvallar. Slík útgáfa er nú í vændum og vinnur að henni hollenzkur maður, *Boer* að nafni, sem einnig hefir gefið út Örvar-Odds sögu.

Það er því mjög gott að vita til þess, að dátturinn á útgáfu Grettis sögu leiðir af sjer það, að ánægjanleg trygging er fyrir því, að útgáfan verði svo vönduð sem kostur er á.

20/2 '97.

*Sigurður Kristjánsson*

Verð: 45 aur.

Íslendinga sögur.

18.

# Finnboga saga.

Búið hefir til prentunar

**Valdímar Ásmundarson.**



Reykjavík.

Kostnaðarmaður: Sigurður Kristjánsson.

1897.

# FINNBOGA SAGA.

BÚIÐ HEFIR TIL PRENTUNAR

**VALD. ÁSMUNDARSON.**



REYKJAVÍK.

OSTNAÐARMAÐUR: *SIGURÐUR KRISTJÁNSSON.*

1897.

# FORMÁLI.

Finnboga saga hins ramma er hér gefin út eftir útgáfu þeirri af þessari sögu, sem Hugo Gering gaf út og prentuð er í Halle 1879. Áðr hefir saga þessi verið gefin út tvisvar sinnum: fyrst í Khöfn 1812 ásamt með Vatnsdæla sögu og með danskri þýðingu og heitir: Vatnsdæla saga ok saga af Finnboga ramma. Vatnsdølernes Historie og Finnbogi hiin stærkes Leovnet. Bekostede af Jacob Aal, Ridder af Dannebroge og Ejer af Nefs Jernværk. Udgivne af Mag. E. C. Werlauff, Professor og Biblioteksecretaire. Norskr maðr, Hans Paus, hafði löngu áðr búið söguna undir prentun. Síðan var saga þessi gefin út á Akreyri af Sveini Skúlasyni 1860 eftir útgáfu Werlauffs.

Hugo Gering hefir gefið söguna út eftir handritinu 132 fol. í safni Árna Magnússonar (Möðruvallabók). Það handrit er talið skrifað á miðri 14. öld. Á því eru einnig: Njáls saga, Egils saga skalla-Grímssonar, hin sama sem lögð er til grundvallar í útgáfu Finns Jónssonar, sem fylgt hefir verið í útgáfu Egils sögu í þessu safni, Bandamanna saga, Kormáks saga (lögð til grundvallar við útgáfu Kormáks sögu, eins og hún er í þessu safni), víga-Glúms saga, Droplaugarsona saga, Ölkofra þáttr, Hall-

**freðar saga vandræðaskálds, Laxdæla saga (lögð til grundvallar við útgáfur Laxdælu) og Fóstbræðra saga. Þar að auki er sagan til í tveimr skinnhandritum í Árna safni 510,4, og 162 B fol. (brot), og ennfremr fjöldi pappírshandrita.**

**Af aldri handritanna má ráða, að saga þessi er allgömul og ennfremr má ráða það af vísu í Íslendingadrápu Hauks Valdísarsonar, sem er frá 13. öld, að sagnir eða saga um Finnboga hinn ramma eru frá söguöldinni. Vísa Hauks er þannig:**

**Rauð Finnbogi fríða**
**Fjölnis glóð í blóði,**
**hinn er hjálms við runna**
**hart gekk framm hinn rammi;**
**og háraddar hræddir**
**hrings ófáir gingu**
**fyr þrymsvelli þollar**
**þeim sárjökuls geima.**

**Enn því verðr ekki neitað, að Finnboga saga er óáreiðanleg að því leyti, að í henni eru miklar tímavillur, enn svo er um fleiri sögur vorar, sem þó þykja allgóðar og yfirleitt er álitið að hafa sannsögulegt gildi. Finnboga saga kemr mest við Vatnsdæla sögu, enn Vatnsdæla saga er heldr ekki áreiðanleg að tíma ákvæðunum, þegar aftr í hana kemr.**

**Það er því engin ástæða til að ætla, að Finnboga saga hafi eigi við söguleg sannindi að styðjast, þótt frásögnin sé allmjög færð úr lagi og blandin ýmsum tilbúningi ritarans, enda er sagan rituð nokkuð seint.**

Það er fyrst, að Finnbogi hinn rammi er ekki rétt ættfærðr í sögunni. Landnáma segir þar öðru vísi frá: „Loðinn öngull hét maðr, hann var fæddr í Ongley á Hálogalandi; hann fór fyrir ofríki Hákonar jarls Grjótgarðssonar til Íslands ok dó í hafi; enn Eyvindr son hans nam Flateyjardal upp til Gunnsteina ok blótaði þá; þar liggr Ódeila á milli ok landnáms Þóris snepils. Ásbjörn dettiáss var son Eyvindar, faðir Finnboga ens ramma [föður Narfa, föður Yngvildar, móður Jódísar, móður Höllu, móður Þorgils, föður Geirnýjar, móður Valgerðar, móður Helgu, er átti Snorri Markússon á Melum]". Það sem hér stendr milli hornklofa er viðbót Melabókar af Landnámu. Eftir henni á sonr Finnboga að hafa heitið Narfi, enn þessi Narfi er hvergi netndr í Finnboga sögu, og eru þar þó taldir upp synir hans og þeir ekki fáir. Það er því sjálfsagt rangt, með því Landnáma segir hann Eyvindarson og rekr ætt hans bæði upp og niðr. Það er einnig rangt, að Þorgeirr Ljósvetningagoði væri móðurbróðir Finnboga, enn líklega hafa þeir verið skyldir, og báðir vóru þeir háleyskir að ætt.

Guðbr. Vigfússon, sem manna bezt hefir borið saman viðburðina í Íslendingasögum og rannsakað tímatalið, segir svo í ritgerð sinni um það efni í Safni til Sögu Íslands I, 378: „Vér skulum ekki fara hér mörgum orðum um sögu Finnboga; að koma henni, hvað tímatal snertir, saman við Vatnsdælu, getr engum komið til hugar að bera við. Finnbogi er hér látinn fara utan 18 vetra, og er sagt að þá væri Hákon jarl í Noregi (eftir 970); síðan fór hann til Grikklands, og enn liðu þó margir vetr eftir

útkomu Finnboga, áðr deilur hans hófust við Ingimundar sonu; enn þær eru látnar vara langt fram yfir kristni, og það fram yfir daga Guðmundar ríka, og fram á daga Eyjólfs halta, sonar hans (fram undir 1030). Að þessu þarf nú engum orðum að eyða. Alt fyrir þetta mega menn þó ekki fella alt of harðan dóm á þessa sögu. Ætt Finnboga er háleysk og hamrammir menn margir í henni, og trúmenn miklir, og þaðan hyggjum vèr með vissu að Finnbogi hafi borið viðrnefni sitt „hinn rammi“ o. s. frv.

Af þessum orðum Guðbr. Vigfússonar má sjá, að hann vill ekki fella gildi Finnboga sögu fyrir það, þótt tímatalið sé ruglingslegt í henni og þótt hún sé auðsælega blandin missögnum nokkurum.

Það má nú telja víst, að Finnbogi hafi gerr verið norðan úr Flateyjardal fyrir víg, og eins að hann hafi átt í þeim deilum við Ingimundarsonu, sem báðar sögurnar Vatnsdæla og Finnboga saga segja frá með líkum atvikum. Þá má og telja það rétt, að Finnbogi hafi verið gerr héraðsrækr á Húnaþingi og farið síðan norðr á Strandir, í Trékyllisvík. Þetta eru meginþættir sögunnar og þarf ekki að véfengja þá. Öðru máli er auðvitað að gegna um sögu Urðarkattar, bjarnardrápið, Álf aftrkembu, förina til Grikklands o. s. frv. Hvað Jón konung á Grikklandi snertir, þá var keisari uppi þar syðra um þessar mundir með því nafni, Johannes Tzimiskes (969—976), og hefir söguritarinn ef til vill þekt nafn hans.

Frá sögustöðum virðist Finnboga saga segja nokkurn veginn rétt og nákvæmlega, bæði norðr í Þingeyjarþingi og vestra. Þannig segir sagan rétt frá landslagi í grend

við Finnbogastaði á Ströndum, þar sem sagt er frá reið Vermundar hins örva heim að Finnbogastöðum. Vegr sá sem sagt er að Brandr hafi riðið, hefir legið úr Selárdal við Steingrímsfjörð og ofan í Trékyllisvík, og er ekki farinn á síðari tímum, enn hans sér enn merki. Lýsingin kemr vel heim við þenna forna veg.

Eftir gömlum munnmælum átti haugr Finnboga hins ramma að vera á Finnbogastöðum, enn sagan segir hann vel kristinn og að hann hafi látið byggja þar kirkju. Reyndar er fult eins líklegt, að Finnbogi hafi ekki lifað fram yfir kristni.

## TÍMATAL.

| | |
|---|---|
| Fæddr Finnbogi rammi . . . . | um 925—30. |
| Finnbogi fer að Borg . . . . . . | um 950. |
| Deilur við Ingimundarsonu . . | milli 950—60. |

# Finnboga saga.

Ásbjörn hét maðr. Hann var kallaðr dettiáss. Hann var Gunnbjarnarson, Ingjaldssonar; mikill maðr var hann ok sterkr ok vænn at áliti; hann bjó í Flateyjardal á bæ þeim, er heitir á Eyri. Ásbjörn var kvæntr maðr ok átti Þorgerði systur Þorgeirs Ljósvetninga goða. Hon var kvenna vænst ok skörungr mikill; var þá ríki Þorgeirs bróður hennar sem mest ok sona hans. Ásbjörn var norrænn at ætt ok enna ágæztu manna; hann hafði stokkit út hingat fyrir valdsmönnum, ok þoldi eigi þeira ójafnað ok endemi, sem margr annarr gildr maðr. Ásbjörn hafði goðorð um Flateyjardal ok upp til móts við Þorgeir mág sinn. Brettingr hét maðr. Hann bjó á Brettingsstöðum í Flateyjardal; hann átti þá konu, er Þóra hét; þeira son hét Þorsteinn, annarr Grímr, þriði Sigurðr. Maðr hét Ingi; hann bjó at Jökulsá í dalnum; Sigríðr hét kona hans; þau áttu tvá sonu; hét annarr Þórir, enn annarr Grímr. Þessir váru allefnilegir ok gervilegir menn ok hraustra

manna. Var Ásbjörn landnámsmaðr, ok svá þeir, er fyrr váru nefndir. Ásbjörn átti dóttur, er Þórný hét; hennar bað austmaðr sá er Skíði hét; Ásbjörn vildi eigi gifta hana. Þá er Ásbjörn var riðinn til þings um sumarit, hafði Skíði tekit í brott meyna með ráði Þorgerðar móður hennar. Hann flutti hana til Noregs, ok gerði þar brullaup til hennar; var hann mikilhæfr maðr, ok átti frændr ágæta ok hina beztu kosti. Enn þá er Ásbjörn kom heim af þingi, varð hann reiðr mjök, at mærin var brott tekin, bæði Þorgerði ok austmanninum; var hann fályndr ok fastlyndr ok enn mesti ólundarmaðr, ef hann yrði reiðr.

2. Nú líða nökkur misseri frá því; ok eitthvert sinn reið Ásbjörn til þings með menn sína. Þá mælti hann til Þorgerðar: „Nú ætla ek til þings at ríða eftir vanda, enn ek veit, at þú ert með barni, ok mjök framat; nú hvárt sem þat er, þá skal eigi upp ala, heldr skal bera út þetta barn“. Hon sagði, at hann mundi þat eigi gera, — „svá vitr ok ríkr sem þú ert, því at þetta væri hit óheyrilegasta bragð, þó at fátækr maðr gerði, enn nú allra helzt, er yðr skortir ekki góz“. Ásbjörn segir: „Þat var mér þá í hug, er þú fekt í hendr Skíða austmanni Þórnýju dóttur okkra utan mína vitund, at ek skylda eigi fleiri börn upp ala til þess, at þú gæfir í brott fyrir utan

minn vilja; ok ef þú gerir eigi eftir því sem ek segi, muntu missmíði á sjá, ok allir þeir er af mínu boði bregða, eða eigi sem ek vil vera láta". Síðan reið hann til þings. Litlu síðar fæðir Þorgerðr sveinbarn; þat var mikit ok þriflegt og fagrt mjök; allir lofuðu þat þeir er sá, bæði konur ok karlar. Nú þótt Þorgerði þætti barnit fagrt, ok ynni mikit, þá vildi hún þó láta út bera, því at hon vissi lyndi Ásbjarnar bónda síns, at eigi myndi vel duga utan hans ráði. Síðan fékk hon menn til at bera út barnit, ok búa um sem vandi var á. Þessir menn báru barnit ór garði út, ok lögðu niðr milli steina tveggja, ok ráku yfir hellu mikla, ok létu flesk í munninn barninu, ok gengu síðan brott.

3. Maðr hét Gestr. Hann bjó þar sem heitir at Tóftum. Syrpa hét kona hans; hon hafði fóstrat Þorgerði fyrr meir, þá er hon var barn, ok unni henni mikit; ok lét hana fara með sér, þá er hon var gipt, þangat á Eyri. Var hon vel kunnandi alt þat, er hon skyldi gera; hverju kykvendi var hon leiðilegri at sjá ok lítit var Ásbirni um hana, ok þótti hon ærit nær ganga Þorgerði; fyrir því lét hon Syrpu brott fara ok gifti hana Gesti. Átti hon lítit fé, eða ekki áðr annat enn þat, er Þorgerðr lagði til hennar, enn hann átti þó eigi mikit. Gestr hafði it mesta kvánríki, því at hann var mannæli mikit ok veslingr. Svá er sagt, at þann

sama dag, er Þorgerðr varð léttari, sendi Syrpa bónda sinn at vita sér um brúngras, því at hon gerði mart fóstru sinni þat er hon þurfti at hafa. Svá bar til þann dag, er hann hljóp um grjót ok haga, þá heyrði hann barnsgrát; ferr nú ok snoðrar einart um hvern stein, ok þar til er hann finnr barnit; þrífr upp síðan ok sýnist allfagrt; hann kastar í stakkblað sitt og hleypr heim til Syrpu, slíkt sem hann getr farit, ok hirðir ekki um þat, er hann var eftir sendr. Syrpa spurði hann, hví hann færi svá geystr. Hann kvaðst fundit hafa barn nýfætt — „ok hefi ek ekki sét jamfagrt“. Syrpa bað hann sýna sér; ok er hon sá, þóttist hon vita hver ætt hans var. Síðan bað hon, at hann tæki skinnfeld þeira ok bæri innar à stofu ok skal ek leggjast niðr — „ok láta sem við eigim barn þetta“. Hann kvað engan því mundu trúa — „ok er þat miklu þriflegra at sjá enn okkr sé líkt“. Hon bað hann þegja, ok eigi þora annat at segja enn þat er hon vill. Síðan bað hon hann fara á Eyri, ok biðja Þorgerði at fá sér þat er hon þurfti at hafa; ok hann fór þegar.

4. Gestr kom á Eyri, ok sagði Þorgerði, at Syrpa fóstra hennar hefði barn fætt, ok kvað hvárki vera mat né hvíluklæði. Þorgerði undraði þetta mjök, ok hugði, at fóstra hennar myndi svá gömul, at hon mundi eigi barn mega eiga; hefir um þetta fátt orða, enn lætr fara slíkt er

hon þurfti. Syrpa var hin hraustasta, ok vildi ekki at aðrar konur þjónaði henni; tekr hon af allan búnað af barninu, þann sem á var, ok var sá miklu ágætari enn hon þyrði at hafa; tók hon tötra, ok bjó um sem herfilegast. Þat fréttist nú hvárttveggja, at barn þeira Ásbjarnar ok Þorgerðar var út borit, ok þótti þat óheyrilegt bragð svá ríkra manna ok göfigra sem þau váru, svá þat, at Syrpa hafði barn fætt, ok þótti þeim mönnum ólíkendi, er vissu aldr hennar. Ásbjörn kom heim af þingi, ok váru honum sögð þessi tíðendi; lét hann vel yfir, ok var nú gott samþykki með þeim hjónum. Svá er sagt, at þau Gestr ok Syrpa ala upp barnit. Vex hann svá skjótt, at varla þóttu líkindi á: svá var þat barn fagrt ok frítt, at allir hugðu þat, at aldri ættu þau Gestr þat barn. Þá spurði Gestr Syrpu, hvat sveinn þeirra skyldi heita. Hon kvað þat maklegt, at hann héti Urðarköttr, þar sem hann var í urðu fundinn. Hann vóx dagvöxtum. Syrpa gerði honum söluváðarbrækr ok hettu; hana girði hann í brækr niðr; krækil hafði hann í hendi, ok hljóp svá úti um daga; hann var þeim þarfr í öllu því er hann mátti; þau höfðu mikla ást á honum. Þá er hann var þrévetr, var hann eigi minni enn þeir at sex vetra váru gamlir. Urðarköttr rann oft til fjöru; ok vóru fiskimenn vel til hans, ok hendu mikit gaman at honum; hafði hann

jafnan góðar hjálpir heim til fóstru sinnar Syrpu. Oft kom hann á Eyri, ok var þar óvinsæll fyrir griðkonum Þorgerðar; barði hann á þeim eða krækti fætr undan þeim með staf sínum, enn þær báðu honum ills, ok váru harðorðar mjök oft; sögðu þær Þorgerði; hon lagði fátt til, ok bað hann skyldi njóta fóstru sinnar Syrpu, ok vera vel við hann. Aldri berr hann svá fyrir augu Ásbjarnar, at hann láti sem hann sjái hann, ok æmtir honum hvárki vel né illa, enn allir aðrir undruðu hann, ef hann væri sonr þeirra Gests ok Syrpu, svá ámátleg sem þau váru bæði, enn hann var bæði mikill ok fríðr ok vel knárr. Oft bað Syrpa, at hann skyldi eigi koma á Eyri, — „því at mér segir þat hugr, at þar muna ek nökkut ilt af hljóta, enn mér tjóar þat eigi at banna þér“. Urðarköttr kvað eigi svá vera myndu. Líðr nú þar til at hann var sex vetra; þá var hann eigi minni enn þeir at tólf vetra váru, ok at engu óþrosklegri.

5. Svá er sagt, at Urðarköttr rann til fjöru einn dag, sem hann var vanr, at finna fiskimenn; váru þá flestir at komnir, enn sumir reru at utan. Þeir höfðu vel fiskt, ok köstuðu af skipum. Þeir höfðu tekit einn ferelning bæði mikinn ok góðan, ok köstuðu honum í flæðarmál, ok mæltu: „Urðarköttr, félagi, taktu ok drag upp fiskinn“. Hann mælti: „Vili þér gefa mér fiskinn, ef ek fæ upp dregit“? Þeir

kváðu hann verðan vera at hafa, ef hann léki þat, ok jáðu því allir. Urðarköttr var í skinnstakki ok söluváðarbrókum, ok alt af neðan brókunum; gekk hann bertættr hvern dag. Hann hafði snæri um sik hvern dag ok hettu sína yfir utan. Hann hleypr út í lárnar ok bregðr í fiskinn öðrum enda á snærinu, enn annan hefir hann um herðar sér, streitist nú mjök ok gengr stundum á enn stundum ekki; allir horfðu á ok hlæja at honum; hann fer ekki at; svo lengi sem hann hefir at verit, gengr honum betr ok betr, þar til er hann fær upp dregit. Var þar bratt er hann fór upp. Síðan hljópu þeir at, ok tóku af honum fiskinn, ok vilja eigi halda við hann, enn hann undi illa við. Fór hann ok sagði Brettings sonum, ok bað þá duga sér. Þeir gengu þegar til fiskimanna ok báðu þá lausan láta fiskinn, ok halda sammæli við Urðarkött; þótti öllum hann hafa vel til unnit ok þó með ólíkindum. Varð svá með atgangi þeirra, at hann náir fiskinum, ok verðr feginn mjök, ok streitist nú af nýju við fiskinn, ok dregr hann heim í tún til Syrpu fóstru sinnar; hann færir þeim fiskinn ok urðu þau stórlega fegin. Þetta fór víða um sveitir, ok var mikit orð á syni þeira Syrpu ok Gests; undruðust allir, hví þau skyldi eiga svá ágætan son, sem öllum sýndist sjá maðr, ok fannst mönnum mikit um er hann sá ok heyrðu

sagt frá; leituðu þau alla vega við at torkenna hann sem þau máttu; ok líðr nú svá fram nökkura vetr.

6. Svá er sagt, at vinskapr mikill var með þeim Ásbirni ok Þorgeiri goða ok mágsemd; gerði hvárr öðrum veizlur, ok skiftust þeir góðum gjöfum við, ok svá berr at eitthvert haust, at Ásbjörn bauð Þorgeiri mági sínum til sín, ok hann kemr með marga menn, ok tók Ásbjörn við honum vel með mikilli blíðu; var þar veizla hin bezta. Urðarköttr hafnar ekki vanda sínum um kvámur á Eyri; hleypr hann þangat hvern dag, ok svá gerði hann enn þenna dag, er þeir sátu at veizlunni. Hann er nú umfangsmikill, ok glímir við griðkonur; þær taka nú fast á móti honum, ganga at honum fjórar, ok varð nú mikit hark; hann dregr þær innar í stofuna ok gangast þar at fast; þetta þótti mönnum mikit gaman at sjá atgang þeira. Svá lauk hann við, at hann feldi þær allar, ok lék þær illa. Ok þá er þau höfðu lokit leik sínum, stóð hann á gólfinu í búnaði sínum; var þat skinnstakkr ok krækill, er hann hafði hvern dag í hendi. Þorgeirr horfði á hann langa stund, ok mælti síðan við Ásbjörn: „Hverr er sveinn sjá, er hér er kominn“? Ásbjörn sagði; „Þat ætla ek son þeira Gests ok Syrpu frá Tóftum“. Þorgeirr mælti: „Þat er ólíklegt, ok má þat ekki vera“. Þá

kallar hann á Urðarkött; hann gekk þegar til hans ok settist niðr á einn stokk, er stóð fyrir honum. Þorgeirr mælti: „Hverr ertu skinnstakks sveinn“? Hann segir: „Ek heiti Urðarköttr, ok em ek son þeira Gests og Syrpu, er búa hér út at Tóftum“. Þorgeirr segir: „Hversu gamall maðr ertu, Urðarköttr“? Hann kveðst vera tólf vetra gamall. Þorgeirr mælti: „Þú ert mikill maðr ok gervilegr, ok svá vel skapaðr at jöfnum aldri, at ek hefi engan höfðingja son sét jafnan þér fyrir allra hluta sakir“. Þá mælti Ásbjörn bóndi: „Þat mantu þá mæla mágr, er þú sér Syrpu ok Gest, feðgin hans, at þau sé allóhöfðingleg, því engi mun sét hafa slík svín sem þau eru bæði, ok er þat undr, er þú talar við engan mann nema Urðarkött; skil ek þat, at þér þykir mikils um vert þat er hann er fagrt skapaðr“. Þorgeirr roðnaði mjök, ok mælti: „Þat hygg ek mér mikla þörf at tala hér um nökkut, enn þó er þat mitt hugboð at þér liggi eigi minna við hér um at tala“. Þorgeirr frétti enn Urðarkött: „Viltu fara eftir þeim Gesti ok Syrpu? Seg at ek vil finna þau“. Hann kveðst eigi fara mundu — „veit ek at þú lætr, sem þú munir fá mér aðra móður eða föður; munu þau þér enga þökk fyrir kunna, enda veit ek eigi, at mér sé önnur móðir betri eða faðir enn þessi, þótt þat væri meir til metnaðar“. Síðan var maðr sendr eftir þeim, ok vildu

þau eigi fara. „Mun þat nú fram koma“, sagði Syrpa, „sem mér hefir lengi hugr sagt, at hann Urðarköttr myndi ilt af því hljóta, er hann hljóp þangat á Eyri hvern dag, ok lét sem þat eitt væri at gera at harkast þar“. Nú er Þorgeiri sagt, at þau vildi eigi fara. Þá mælti Þorgeirr: „Ger nú fyrir mína bæn, at þú lát þau hingat koma, enn ek skal veita þér þat, er þú biðr mik“. Urðarköttr mælti: „Eigi mun ek þat gera nema þú heitir því, at þau fari eigi hryggri af þínum fundi enn þau koma“. Þorgeirr jáði því at kaupa vel við þau. Eftir þat fór hann heim, ok bað þau fara með sér — „skal ek því heita, meðan ek er á dögum, at ykkr skal eigi fé skorta, ef ek verð nökkurt sinn meira góz ráðandi enn nú em ek“. Syrpa segir: „Ekki mun gera við at sporna; þat mun fram koma, sem betr er, þó at okkr þykki móti skapi, ok skal fara víst“. Ok er þau kómu á Eyri settust þau niðr á einn stól fyrir Þorgeiri, ok Urðarköttr milli þeira. Þá mælti Þorgeirr: „Þat er hugarboð mitt, Syrpa, at Urðarköttr sé ekki ykkarr son. Er hér ekki seinna um at gera, enn annathvárt seg sem háttat er, ok hafit þar fyrir þökk ok vináttu mína, ella verðr þú at þola harðendi, ok verðr þó satt at segja“. Syrpa mælti: „Svá fremi er upp komit, at sá mun nú grænstr at segja satt, ok eftir því sem farit hefir“. Síðan sögðu þau sem

orðit var, enn allir hlýddu vel til þeir (er) hjá váru. Þorgeirr mælti: „Þat ætla ek, at þit munit nú satt segja“. Þá frétti Þorgeirr Þorgerði, hversu langt frá því væri, er hon fæddi barn. Hon kvað liðit hafa tólf vetr. Hann spyrr, hvárt hon léti út bera. Hon kvað svá verit hafa. „Hví gerðir þú þat“? segir Þorgeirr. Hon sagði, at hon þyrði eigi — „fyrir reiði ok grimmleik bónda míns Ásbjarnar; váru þetta hans ráð, ok unna ek svá mikit sveininum, at ek vilda gjarna hafa upp fætt“. Þorgeirr mælti til Ásbjarnar: „Viltu mágr við ganga þessum unga manni, at hann sé þinn son, ok taka hann heim til þín, ok halda hann sem sjálfan þig“? Ásbjörn segir: „Þat veit ek eigi, hverr hann á, enn þat má ek at gefa honum mat sem öðrum mönnum, ef þér sýnist þat ráð“. Þorgeirr mælti: „Ertu eigi föðurlega við hann eða lætr hann hafa þat, er hann vill, þá skilr þat okkra vináttu, því at eigi kann ek at sjá, ef hann berr eigi snögt af þínum frændum og mínum. Enn þeim Syrpu skal fá tólf hundruð fríð fyrir fúlgu Urðarkattar; skal ek gjalda hálft, enn þú hálft; skal þeim at þessu hafa vorðit en mesta sæmd ok gæfa“. Fara þau Gestr heim ok líkar allvel. Urðarköttr er nú eftir á Eyri, ok uppdubbaðr ok rifit af honum þat er hann hafði áðr, ok fengin beztu klæði, ok þóttist engi hafa sét jafnfríðan

mann, ok at öllu vel skapaðan. Þótti nú öllum Þorgeirr hafa aflat þeim ennar mestu sæmdar ok gæfu; ok eftir þetta ferr Þorgeirr heim með föruneyti sitt. Skiljast þeir mágar vel. Er Urðarköttr nú heima á Eyri; er Ásbjörn fár við hann, ok þó vel, enn móðir hans veitir honum alt þat, er hann vill, með hinni *mestu* blíðu; venst hann nú við íþróttir allar þær er karlmann má prýða. Svá ferr fram um *hríð*; líða af þau misseri.

7. Þess er getit, (at) um várit ríðr Ásbjörn til þings eftir vanda. Er þat sagt, at með nautum væri graðungr þrévétr, ok enn versti viðreignar; máttu konur varla mjólka fyrir honum; hann var með öllu mannýgr. Einn morgin kvámu griðkonur inn æpandi, ok sögðu, at graðungrinn hefði slegit niðr mjólkinni — „ertu þar hinn ragi Urðarköttr, ok er sem engi *maðr* sé, þar sem þú ert, þó at nökkurs þurfi við". Ámæla þær honum í hverju orði ok hrekja. Urðarköttr mælti: „Því betr at hann ferr verr með yðr, ok man ekki batna við þat, þó at þér illyrðið mik". Þær hlaupa at honum, ok mæltu: „Far þú enn góði Urðarköttr, ok hjálpa oss við". Lofa þær hann þá í hverju orði. Hann mælti þá: „Miklu er þetta líkara ok athæfilegra át biðja mik vel til, ok skal nú *fara at* vísu". Stendr upp ok gengr þangat, sem nautin váru. Þegar graðungrinn sá hann, réðst

hann í móti honum; var hann hyrndr mjök, ok ætlaði at kasta honum af hornum sér. Hann þrífr hornin sinni hendi hvárt, ok eigast við lengi svá hart, at jörðin gengr upp fyrir þeim. Svá gengr Urðarköttr at fast, at hann snarar af honum höfuðit, kastar um hrygg, ok var þá í sundr hálsbeinit; gengr síðan á brott. Húskarlar gerðu til graðunginn. Ásbjörn kom heim, ok var honum sagt frá þessu; hann lagði fátt til; öllum þótti þetta hit mesta þrekvirki orðit af tólf vetra gömlum manni. Nú fréttir þetta maðr frá manni, nær ok fjarri. Hann var fálátr hversdaglega; gaf hann at fám hlutum gaum, utan fór með leik sínum bæði nætr ok daga. Gerðist Ásbjörn við hann fleiri ok fleiri, svá sem hann sér at hann er afbragð annarra manna. Líða nú þessi misseri, ok sitja nú í kyrðum.

8. Á einhverju hausti gerist þat vandi Urðarkattar, at hann gekk út hvert kveld, er yfir kom, enn eigi inn fyrr enn langt er af nótt; vita menn nú eigi hvat hann gerir. Einn aftan kom hann inn; þá var Ásbjörn kominn í sæng ok alt fólk hans. Urðarköttr gekk at sænginni ok spurði: „Hvárt sefr faðr minn eða eigi“? Hann kveðst vaka, — „eða hvat viltu“? Hann segir: „Ek hefi gengit út sjau kveld í samt, ok sét ena sömu sýn hvern aftan, enn þat veit ek eigi hvat þat er. Nú vilda ek, at þú gengir út ok hygðir at, því at þú ert skygn

maðr“. Ásbjörn stóð upp, ok gekk út með honum. Urðarköttr mælti: „Ek sé lýsu nökkura til hafsins, svá sem ek sé lengst; þykkjumst ek vita at þat er nökkurs konar eldr“. „Hvers getr þú til“, segir Ásbjörn, „at vera muni“? „Eigi veit ek“, segir Urðarköttr, „því at ek em ungr, ok kann ek á fá skyn; enn heyrt hefi ek sagt af þeim mönnum, er illa eru staddir á sjó, at þeir brenni vita, ok sjái þar langt til. Ek þóttumst í fyrsta kveld gerzt sjá, enn svá hefir minkat sem á leið“. Ásbjörn segir: „Þetta er líklega getit, eða hversu viltu nú með fara“? Hann segir: Þat vilda ek, at þú léðir mér skútu þína ok menn með; vil ek forvitnast til, hvat þetta er“. Ásbjörn kvað svá vera skyldu. Urðarköttr bjóst þegar í stað, ok bar út á ferjuna þat er honum þótti nauðsynlegast þurfa at hafa; fara húskarlar þrír, ok hann enn fjórði; þeir róa út at Skjálfanda, enn Urðarköttr stýrði. Þá er þeir hafa róið um stund, þá mælti Urðarköttr: „Nú skulu þér stýra enn ek skal róa ok vita, hvárt nökkut vill fram ganga“. Þeir gerðu svá; fór einn til stjórnar, enn Urðarköttr reri einn. Þat sjá þeir, at honum gengr miklu meir enn hinum þremr. Hann rær lengi ok gekk mikit. Þá mælti Urðarköttr: „Nú skulu þér róa, enn ek mun stýra“. Þeir gerðu svá; þeir taka at róa enn hann stýrði. Ok er þeir hafa róit um stund, þá hljóp upp

einn þeirra ok mælti: „Þat er bæði er við þolum hart til, er vér róum í alla nótt, enda mun nú mikit eftir taka, því at ek hygg at vér sjáim hval nýsprunginn“. Urðarköttr kvaðst ætla, at þat væri eigi hvalr, enn þó munu vér eigi upp gefa róðrinn. Ok er þeir nálgast, kenna þeir, at þat er kaupskip, ok er þá harla mjök sígit. Þeir stinga at stafni, ok bera festar upp í skipit. Síðan ganga þeir upp í skipit; sjá þeir, at vitinn hefir brendr verit, ok var þá brunnit mjök tréit; þeir þykkjast sjá, at þar mun hörð atkoma. Tekr Urðarköttr í höfuð manni einum ok finnr at sá er dauðr; allir menn á skipinu eru dauðir. Hann gengr fram eftir skipinu, ok á þiljunum sér hann hvar stendr silkitjald, ok vel búit húðfat er í tjaldinu. Urðarköttr gengr at, ok tekr á manninum, er þar lá í húðfatinu; hann kennir, at sjá maðr mun lifa. Hann frétti þá: „Hvárt lifir þú góðr maðr“? Hann kvað þat satt vera. Urðarköttr segir: „Hvert er heiti þitt eða hvaðan eru þér? Enn þat þykkjumst ek sjá, at þér mynið af hafi komnir vera, þótt eigi hafi greitt til tekizt“. Hann segir: „Ek heiti Finnbogi, enn Bárðr faðir minn, ok er hann víkverskr maðr; eða hverr er sjá maðr, er oss er kominn at finna“? Hann segir: „Ek heiti Urðarköttr“. Finnbogi mælti: „Þat er undarlegt nafn“. Þá frétti Urðarköttr: „Hvat mun fleira lifa manna

yðvarra á skipinu enn þú“? Hann kvað þá níu á lífi, er hann fór at sofa. Urðarköttr frétti: „Hvat hefir yðr mest angrat“? Hann segir, at fyrst hefði þeim angrat stórviðri, enn síðan bæði drykkleysi ok matleysi — „hefir ok margt at bilat reiða várum, brutum stýrit, enn skipit fult af austri“. Urðarköttr lét bera menn þá er lifðu út í skútuna; svá margir váru þeir sem Finnbogi hafði sagt; skorti þar eigi mjólk ok aðra hluti þá, er þeim váru skjótastir til lífs, þótt hann hefði vitat fyrir hvers við þurfti. Þá mælti Urðarköttr: „Nú skaltu Finnbogi fá mér lykla þá sem at ganga kistum yðrum, ok skal taka gripi þá alla er beztir eru“. Þeir gerðu svá. Urðarköttr var mikilvirkr, svá hann hljóp aftr ok fram eftir skipinu, ok valdi þat af öllu sem honum þótti bezt, ok bar út í skútuna svá sem hún mátti við taka. Síðan þeir váru búnir reru þeir brott, ok halda sama logni þar til þeir kómu á Eyri. Gengr Ásbjörn móti þeim ok fagnar þeim vel. Þótti þetta hafa orðit hin mesta gæfuferð, ok lætr þeim veita hjálpir ok skipar þeim á bæi. Finnbogi fór á Eyri ok tveir menn aðrir. Sat Urðarköttr dag ok nótt at næra þá. Er þat sagt, at allir menn deyja þeir er á skipinu váru, nema Finnbogi; hann hresstist, ok er enn vænsti maðr, bæði mikill ok sterkr; hann átti ágæt vápn, sverð ok skjöld, hjálm ok brynju; var hann stýrimaðr

ok átti at taka fé alt eftir háseta. Er hann þar um vetrinn vel haldinn. Urðarköttr var honum fylgisamr. Þeir selja varnaðinn um Flateyjardal ok norðr um Kinn; líðr af vetrinn ok verðr ekki fleira til nýlundu á þeim misserum.

9. Hrafn hét maðr; hann var ungr maðr ok frændi Ásbjarnar ok heimamaðr; hann var frár mjök. Hann kom aldregi á hest, hvert sem hann fór. Þat er sagt, at þeir Finnbogi ok Urðarköttr ráðast heiman um várit, ok ætluðu at heimta saman skuldir þeira norðr um dali, ok riðu þeir tveir; enn Hrafn litli hljóp fyrir. Ríða þeir til Ljósavatns um kveldit; tekr Þorgeirr við þeim báðum höndum, ok býðr þeim þar at vera svá lengi sem þeir vildi. Þeir töluðu mart ok váru glaðir ok vel kátir. Sá Þorgeirr, at Finnbogi var enn ágæzti maðr at öllu ok vel skapaðr. Ok um daginn eftir verða þeir síðbúnir, ok ríðr Þorgeirr á leið með þeim ofan með Djúpá, ok ríða þeir Finnbogi í Fell um kveldit; þar bjó þá drauma-Finni son Þorgeirs; var hann spakr maðr ok vitr; hann var eigi sammæddr við aðra sonu Þorgeirs; hann var finskr at móðurkyni ok hét Leikný móðir hans. Hann tók harðla vel við þeim; marga hluti tala þeir spaklega. Um morgininn bað Finnbogi þá ríða snemma,—„skulu vér þá dveljast hér hjá yðr, er vér förum aftr, því at mér virðist Finnr vitr maðr". „Lítill kostr

er nú við yðr at taka", segir Finni, „enn þó mun minni er þér farið aftr". Síðan riðu þeir út frá Felli; ok er þeir hafa skamt riðit, mælti Finnbogi: „Næsta gerir mér kynlegt". Urðarköttr sá til hans, ok mælti: „Stígum af baki, því at ek sé, at þú ert fölr mjök, ok má vera þá at af þér hafi". Þeir gerðu svá; létu hestana taka niðr; ok er stund leið, bað Finnbogi þá ríða, ok kvað af sér hefja; ríða út á fellit, ok koma undir einn stein mikinn. Þá mælti Finnbogi: „Hér munu vér við nema, ok má vera, at hér gerist nökkut til tíðenda í várri ferð". Stíga af baki, ok skjóta tjaldi af steininum fram; sezt Urðarköttr undir höfuð honum. Þá mælti Finnbogi: „Þat er líkast at til eins dragi um oss félaga, at engi várr komist með lífi til Noregs; enn þér Urðarköttr hefir vel farit til mín ok allra vár. Mundu þat sumir menn mæla í mínu landi, at þik hefði happ hent í þessum fundi. Með því at ek vinnumst eigi til þér at launa, þá skal eigi af draga þat er til er. Hér eru vápn þau, er faðir minn gaf mér; vænti ek, þótt þú komir til Noregs eða á önnur lönd nálæg, færðu eigi betri. Nú vil ek þau gefa þér ok þar með fé þat, er þú hafðir af skipinu, þat er ek átta, ok þat er ek tók af hásetum at lögum. Þá vil ek gefa þér nafn mitt; ok er ek ekki spámaðr, enn þó get ek, at þitt nafn sé uppi meðan veröldin er bygð;

má mér þat mest sæmd ok mínum frændum, at svá ágætr maðr taki nafn eftir mik, sem ek skal ætla at þú verðir, með því at mér verðr lítit líf ætlat". Hann þakkaði honum vel þessa gjöf. Eigi sat hann lengi yfir honum áðr hann dó. Finnbogi sendi Hrafn til Fells; kemr Finnr þar, ok grófu hann niðr undir steininum, ok er hann síðan kallaðr Finnbogasteinn. Síðan fóru þeir heim í Fell. Kvað Finnr hafa farit eftir getu sinni — „sá ek þat, þó at maðr væri vænn ok vel mentr, at þó var hann nú feigr". Er Finnbogi þar nú með Finni frænda sínum nökkurar nætr. Síðan ríða þeir upp til Ljósavatns, ok sögðu Þorgeiri frænda sínum tíðendin, ok hverja sæmd hann hafði fengit. Varð Þorgeirr þessu harðla feginn. Hann kvaðst fyrir löngu þat hafa honum sagt, at hann mundi afbragð annarra manna verða. Sitja þeir frændr nú harðla glaðir ok vel kátir. Lét Þorgeirr nú heimta saman fé þat er hann átti. Síðan riðu þeir á Eyri allir samt. Kann þá maðr manni at segja, hverr afburðarmaðr hann er annarra manna. Þykkir þeim Ásbirni ok Þorgerði nú gott til at frétta, því at honum vill nú flest til virðingar ok sæmdar. Ríðr Þorgeirr heim, enn Finnbogi sitr heima með feðr sínum á Eyri ok vel haldinn.

10. Þat sama sumar kom skip af hafi. Því skipi stýrði sá maðr, er Bárðr hét, víkverskr

at kyni; þetta skip kom á Knarrareyri. Bárðr stýrimaðr fór til Ljósavatns, ok þá vist með Þorgeiri goða. Þenna tíma réð Hákon jarl fyrir Noregi; var þá virðing hans sem mest ok ríki. Þenna vetr var Bárðr á vist með Þorgeiri. Finnbogi var þar jafnan, því at frændsemi þeira var hin bezta. Um várit sagði Finnbogi Þorgeiri frænda sínum, at hann vildi utan fara um sumarit með Bárði stýrimanni. Þorgeirr mælti: „Þó at oss þykki góð hérvist þín, frændi, þá mun ekki tjá at telja þik, því at þat mun fyrir liggja. Enn þat hygg ek þik hafa af frændum þínum, at þeir hafa mjök orðit fyrir áleitni af mönnum ok öfund, enn þó muntu þykkja enn frægsti maðr, hvar sem þú kemr“. Síðan riðu þeir á Eyri, ok bera þetta upp fyrir Ásbirni. Hann kveðst gjarna vildu, at hann væri heima heldr hjá honum — „nú af því at hann mun ráða vilja ferðum sínum, þá vil ek eigi gera þetta móti honum heldr enn annat“. Þeir réðu honum far með Bárði stýrimanni; gerðist hann stýrimaðr at hálfu skipinu. Þá er þeir váru búnir, fluttu þeir Ásbjörn ok Þorgeirr til skips þat er Finnbogi átti; hann hefir ekki mikit fé. Skiljast þeir nú með kærleikum miklum. Kippa þeir nú upp akkerum ok sigla í haf, enn þá er þeir höfðu siglt nökkur dægr, tekr af byri, ok gerir á fyrir þeim hafvillur, ok vita þeir eigi hvar þeir fara. Þar

kemr, er haustar, ok stærir sjóinn. Ok einn tíma berr þá ór hafi ok at landi; var þat síð dags. Þeir sá ekki nema björg ok boða stóra, svá at brast í björgunum. Nú með því at veðr stóð at landi harðla mikit, keyrir þar at skipit ok brýtr í spán; týnast menn allir, utan Finnbogi kemst einn á land með vápnum sínum ok húðfati. Þar var forlendi lítit, ok sér hann ekki nema björg ok hamra. Hann gengr nú með björgum þeim nökkura hríð, ok þar at sem kljúfast björgin, ok þar fell ofan lækr í sjá, ok þar leitar hann upp á björgin, ok við færleik hans kemst hann upp, ok var þá myrkt af nótt. Hvárki skorti frost né vind; fraus at honum klæðin öll; þar var harðla snjámikit; kastaði hann nú húðfatinu á bak sér, ok gengr á land upp; ok er hann hefir gengit um hríð, kennir hann eldsdaun ok litlu síðar kemr hann at bæ einum. Þat var mikill bær ok veglegr. Hann setti niðr húðfatit, ok gengr heim at dyrum, ok heyrir hann þat, at mart manna er inni; þeir sitja við elda; hann lýstr á dyrrin. Maðr tók til orða ok bað, at einnhverr sveina gengi til dyra; þeir kváðust eigi hirða, þótt svá berði allar nætr. Finnbogi laust annat högg, ok var þat sýnu meira; þessi bað þá lúka upp dyrum. Þeir kváðust eigi þat mundu gera, þó at troll beri allar nætr. Hann sló höggit þriðja, ok svá hart, at öllum brá við. Búandi hljóp

upp við, ok kvað þá eigi meðalóvini vera, er þeir vildu eigi til hurðar ganga, þó at menn kveddi, — „mun sá einn úti vera, er betra mun inni þykkja í slíku sem nú er“. Síðan tók hann öxi í hönd sér ok gekk til dyra. Hann heilsar gestinum ok frétti hann at nafni. Hann kvaðst Finnbogi heita, ok vera Ásbjarnarson ok íslenzkr maðr. Bóndi segir: „Hvé nær komtu hér til lands“? Finnbogi segir: „Ek kom hér í kveld“. „Þú munt hafa haft harða landtöku“? sagði bóndi. Finnbogi kvað brotit skipit, — „enn týndust menn allir ok fé, enn ek kom einn á land, eða hvar hefir oss at landi borit“? Bóndi segir: „Yðr hefir borit at Noregi, heldr norðarla við Hálogaland. Enn sá bær, er þú ert at kominn, heitir á Grænmó“. Þá fréttir Finnbogi: „Hvat heitir bóndi sjá“? Hann segir: „Ek heiti Bárðr“. „Ertu hér formaðr á Hálogalandi“? Hann kvað svá vera. Þá spurði bóndi: „Hversu gamall maðr ertu, Finnbogi“? „Ek em nú fimtán vetra“. Bóndi mælti þá: „Engan hefi ek sét slíkan sextán vetra gamlan, ok vera mun þér fleira vel gefit enn vöxtr ok vænleikr, eða er hann íslenzkr faðir þinn“? „Nei“, segir Finnbogi, „hann er heðan af Hálogalandi ættaðr“. Bóndi segir: „Ertu son Ásbjarnar Gunnbjarnar sonar dettiáss“? „Þat er satt“, kvað hann. Bóndi segir: „‚Þaðan er mér úlfs ván, er ek eyrun sék‘; er

þat þó ráð at ganga inn, ok vera hér í nótt". Finnbogi gerði svá; var tekit við vápnum hans ok klæðum, ok váru honum fengin þurr klæði. Var alt fólk við hann vel kátt. Um morguninn var Bárðr snemma á fótum, ok vakti Finnboga upp — „er þat sýnna at fé sé upp rekit nökkut". Finnbogi stóð upp, ok gengu til sjávar, ok var sem Bárðr gat, at mestr þorri var á land rekinn fjárins; lét Bárðr alt heimfæra, ok svá at duga sem hann ætti sjálfr, ok var þat stórmikit fé. Bárðr bauð Finnboga þar at vera svá lengi sem hann vill. Var hann þar um vetrinn; sat í góðu haldi, at eigi vantaði. Bárðr veitti honum harðla vel. Þar var mannmart ok hin mesta gleði. Finnbogi var góðr af fénu, enda skorti þá eigi til, með því at hann var stýrimaðr ok tók fé alt eftir skipara sína, sem þá váru lög til þann tíma.

11. Sú nýlunda varð þann vetr á Hálogalandi, sem oft kann verða, at björn einn gekk þar ok drap niðr fé manna, ok eigi gerði hann annarstaðar meira at enn á Grænmó; ok svá kemr, at Bárðr stefnir þing, ok gerir björninn sekjan, ok leggr fé til höfuðs honum; ok eftir þat gera menn til hans jafnan, ok verðr hann eigi unninn, ok gerist hann illr viðreignar; drepr hann bæði menn ok fé. Þat er sagt, at Bárðr bóndi átti sætr, ok var langt milli bæjar ok sætrs; lét hann þar geyma um vetrum fjár

síns; varð honum því skaðasamt, at björninn lá þar jafnan, ok þorðu menn aldri at ganga til fjárins utan fjöldi manns færi. Eitthvert kveld talaði Bárðr við sína menn, at þeir skyldi búast móti birninum hverr eftir sínu megni, með vápnum, — „því at á morgin skulu vér fara at birninum“. Sumir skeftu exar, enn sumir spjót, ok búa alt þat, er þeim mætti at gagni verða. Um morgininn váru menn snemma á fótum ok hverr piltrinn með sínu vápni. Nú er at segja frá Finnboga. Áðr um kveldit, þá er menn váru í svefni, stendr hann upp, ok tekr vápn sín; gengr hann út á spor þau, er liggja til sætranna; þat var bragð hans, at hann gekk öfugr, ok hendi sporin alt þar til er hann kemr til sætranna. Hann sér hvar björninn liggr, ok hefir drepit sauð undir sik, ok sýgr ór blóðit. Þá mælti Finnbogi: „Stattu upp bersi, ok ráð móti mér; er þat heldr til nökkurs enn liggja á sauðarslitri þessu“. Bersi settist upp ok leit til hans, ok kastar sér niðr. Finnbogi mælti: „Ef þér þykki ek otmjök vápnaðr móti þér, þá skal ek at því gera“. Tekr af sér hjálminn, enn setr niðr skjöldinn, ok mælti: „Stattu nú upp, ef þú þorir“. Bersi settist upp ok skók höfuðit; lagðist niðr aftr síðan. Finnbogi mælti: „Þat skil ek, at þú vilt, at vit sém jafnbúnir“. Kastar sverðinu frá sér, ok

mælti: „Svá skal vera sem þú vill, ok statt nú upp, ef þú hefir þat hjarta sem líklegt væri, heldr enn þess kvikendis er ragast er“. Björninn stóð upp ok byrsti sik, ok gerðist mjök ófrýnlegr, hljóp at Finnboga, ok færir upp hramminn, ok ætlar at ljósta hann með, ok í því er hann hefr sik upp, hleypr Finnbogi undir hann framan. Þeir gangast at lengi, ok gengr upp fyrir þeim flest þat, er fyrir þeira fótagangi varð; traðkit varð mikit, ok varð sú endalykt, at hann gengr björninn á bak aftr, ok braut í sundr hrygginn í honum, ok býr um hann sem áðr. Síðan tók hann vápn sín ok gekk heim eftir þat, ok er mjök stirðr, legst niðr í sæng sína, ok lætr sem hann hafi sofit. Litlu síðar tók Bárðr á fótum honum, ok var þá ferðar búinn, sem fyrr var frá sagt; hann frétti, ef Finnbogi vildi fara með honum. Hann kvaðst þat gjarna vilja. Síðan fóru þeir ok kómu til sætranna; sjá þeir, at björninn liggr þar ok hefir sauð undir. Þá bauð Bárðr förunautum sínum at vinna til fjár, ok ganga at birninum. Þat vildi engi þeira ok eigi nær koma, því at þeir hopuðu skjótt. Bárðr mælti: „Þat veit ek eigi, með hverjum hætti er um björninn, því at ek sé hann ekki hrærast; með því at ek gerða hann sekjan, þá er þat maklegt, at ek gangi fyrstr at honum“. Síðan snarar hann fram djarflega. Síðan sér hann at björn-

inn er dauðr; þá þyrpast þeir at, ok skorti þá eigi atgang. Bárðr sá hvergi særðan björninn; leitar nú at ok finnr brotinn hrygginn í honum. Bárðr mælti: „Þetta er fáheyrt bragð eða verk, ok hefir engi háleyskr maðr þetta gert, ok muntu Finnbogi hafa þetta unnit“. Finnbogi segir, ok biðr hann hafa þat fyrir satt, er hann vill: „Ek þykjumst þat víst vita“, segir Bárðr, „eða hversu fórtu at?“ Finnbogi segir: „Þat skiftir öngu, eigi muntu svá vinna né þinn sonr“. Bárðr kvað eigi auðfengna menn til slíks verks, — „nú skal ek heimta þetta fé saman sem ek eiga sjálfr til handa þér“. Síðan flógu þeir björninn, ok fóru heim eftir þat. Líðr nú vetrinn ok verðr engi nýlunda önnur. Bárðr veitti Finnboga hvern dag öðrum betr. Ok þá er váraði gerðust siglingar miklar fyrir Hálogalandi bæði norðr ok suðr. Finnbogi tók þat í vanda sinn, hvern dag er hann var mettr, gekk ofan á björgin, ok sat þar hvern dag ok horfði á sigling manna. Þótti þat gaman, at sjá fögr skip á margan hátt.

12. Þat var einn dag, at Finnbogi gekk fram á björgin; hann sá at einn maðr reri sunnan með landi á skútu mikilli; hann var mikill maðr og grepplegr; hann var á rauðum skarlazkyrtli, ok digrt silfrbelti hafði hann um sik, með slegnu hári; var þat bæði mikit ok fagrt, ok lá niðri á herðum honum. Svá reri hann

handstinnar, at honum þótti fljúga fram skútan. Ok hann kallar á hann. Þá reri hann nær þegar. Finnbogi spurði, hvat hann héti. Hann gaf upp róðrinn, ok sagði honum, at hann héti Álfr ok kallaðr aftrkemba. „Hvaðan ertu?“ segir Finnbogi. Álfr sagði honum, at hann réði fyrir þeiri ey er Sandey héti, — „ok em ek mægðr við jarlinn; á ek Ingibjörgu systurdóttur hans; nú skal eigi fleirum orðum á glæ kasta, svá at ek hafa ekki í mót. Hverr er sá maðr, er svá er spurull?“ Finnbogi sagði til sín ok föður síns. Álfr segir: „Hefir þú drepit skógarbjörninn þeira Háleygjanna?“ Hann kvað þat satt. Álfr frétti: „Hversu fórtu at því?“ Finnbogi segir: „Engu skiftir þik þat, því at eigi muntu svá drepa“. Álfr mælti: „Hverr Ásbjörn er faðir þinn“. Finnbogi segir: „Hann er Gunnbjarnarson norrænn maðr at kyni“. Álfr spurði, hvárt hann væri detti-áss kallaðr. Finnbogi kvað þat satt vera. „Þá er eigi kynlegt, þótt þú látir digrbarklega; eða hversu gamall maðr ertu?“ Finnbogi segir: „Ek em seytján vetra“. Álfr mælti: „Vertu eigi annarra seytján vetra jafnmikill ok sterkr sem þú ert“. Finnbogi segir: „Þat er sem verðr til þó, enda muntu dauðr áðr, eða hvert skal fara?“ Hann sagði at hann skyldi norðr á Mörk ok heimta skatt. Finnbogi frétti, hví hann færi einn samt. „Ekki þarf ek fleiri manna til þessa“. Finn-

bogi frétti: „Nær skaltu norðan?“ Álfr segir: „Þat skal á hálfs mánaðar fresti eða því nær“. „Viltu flytja mik“, segir Finnbogi, „norðan heðan, þá er þú ferr aftr?“ Álfr segir: „Svá lízt mér á þik sem þú megir vel róa svá undir þér sjálfr, ok mun ek við þér taka þá er ek ferr norðan; eða hvat viltu suðr í land?“ Finnbogi segir: „Ek við finna Hákon jarl; fór ek því af Íslandi“. Álfr mælti: „Þú munt fara sæmdarför; muntu vera íþróttamaðr mikill sem þú átt kyn til; munu vit skilja nú at sinni“. Bað hann Finnboga vel fara, ok hvárr annan. Fór Álfr norðr með landi, enn Finnbogi gekk heim, og sagði Bárði viðræðu þeirra; svá þat, er hann ætlaði suðr með honum. Bárðr kvað hann því eigi mundu ráðit hafa, ef hann hefði vitað —„uggi ek at illa takist til, því at Álfr er enn versti maðr ok svikráða fullr; dugir honum þat, er hann er mægðr við jarlinn ok er hirðmaðr hans; verða menn af því að þola honum margan ójafnað“. Finnbogi kvað vel duga mundu, — „skaltu, Bárðr, annast fé mitt, ok sjá fyrir slíkt sem þú vilt“. Líðr þar til er Álfs var norðan ván.

13. Á þeim degi sem Álfr hafði sagt at hann mundi norðan koma, bjó Finnbogi sik af Grænmó. Hann hafði með sjer húðfat sitt, ok þá gripi, sem honum þótti nauðsynlegast þurfa. Þeir höfðu skamma stund beðit, áðr Álfr reri

norðan; var skútan mjök sett. Álfr endir vel orð sín, ok stingr þar stafni at; þeir kvöddust vel. Síðan gekk Finnbogi út á skútuna, ok þótti Álfi niðr ganga við skútan, ok mælti: „Þat sé ek á húðfati þínu, at eigi mun þér silfrfátt verða til lukkunnar, þá er þú kemr til Hákonar jarls“. Eftir þat skilja þeir Finnbogi ok Bárðr með blíðu; enn þeir Álfr halda suðr með landi svá sem gengr. Ok er Álfr hafði róit um hríð, bað hann Finnboga róa. Hann gerði svá. Álfr sat ok stýrði. Finnbogi reri svá, at Álfi þótti eigi kyrr standa skútan, þá er hann reri. Þeir töluðust mart við. Frétti Finnbogi, hvárt þeim mundi heim ganga í Sandey um kveldit. Álfr segir: „Hér er ey í milli, ok em ek vanr at vera þar um nótt, þá er ek ferr norðan, enn þá kem ek heim annan morgin til dagverðardrykkju árla“. Finnbogi segir: „Hversu skjótt skal suðr með skattinn?“ Álfr segir: „Ek mun dveljast heima um hríð“. Síðan kómu þeir í eyna, ok var þar hellir mikill fyrir ofan malarkambinn. Álfr mælti: „Nú skulu vit gera okkr fyrir sem minst ok bera ekki af skútunni; skaltu ganga at framstafni, enn ek at skut, ok berum svá upp í hellinn skútuna; svá gerðu þeir, ok bjuggu vel um. Eftir þat skiftu þeir verkum með sér. Finnbogi sló upp eld, enn Álfr tók vatn. Finnboga gekk seint at gera eldinn, ok loga illa skíðin; berr hann á

eldinn mikit, ok blés at fast; þá heyrir hann hvin upp yfir sik; þá slöngdi hann sér af út öðrum megin hjá eldinum; var Álfr þar kominn, ok ætlaði skjótt um at ráða við Finnboga. Hann hljóp upp ok undir Álf; var hann afrendr at afli; ganga þeir at lengi; tekr þá eldrinn at brenna, ok sér um allan hellinn. Finnbogi sér hvar einn steinn var í innanverðum hellinum; hann var hvass ofan sem egg; þar vildi Álfr færa hann at. Finnbogi forðast þat ekki; ok er þeir kómu at steininum, hleypr Finnbogi yfir upp ok kippir at sér við með afli, og brýtr bringubein hans á steininum, ok lætr Álfr þar lífinu meðr ósæmd, sem hann var verðr.

14. Síðan bjóst Finnbogi þar um, ok svaf af nóttina við góðar náðir. Um morgininn gerir hann þat ráð, at hrinda fram skútunni; tekr vápn sín. Síðan heldr hann skútunni suðr með landi slíkt sem ganga mátti; eigi létti hann fyrr enn hann kom í Sandey snimma morgins. Ok er hann kemr til Sandeyjar, ganga menn í móti honum, því at þeir kendu skipit, ok ætluðu at Álfr mundi á vera. Finnbogi gekk upp í móti þeim; þeir heilsuðu honum vel, ok spurðu hann tíðenda. Hann kveðst engi kunna at segja. Finnbogi spyrr, hvar Ingibjörg væri. Þeir sögðu at hon væri í skemmu; hann bað þá fylgja sér þangat; ok er hann kom þangat, heilsaði hon honum ok spurði hverr hann væri. Hann nefndi

sik ok föður sinn. Hon spurði, hvárt hann hefði á Hálogalandi drepit björninn. Hann kvað svá vera. Hon mælti: „Hversu fórtu at bana honum?" Finnbogi segir: „Engu skiftir þik þat; eigi mun þinn son svá drepa". Ingibjörg mælti: „Var Ásbjörn detti-áss faðir þinn?" Hann kvað svá vera. Hon mælti svá: „Eigi er kynlegt, at þú sér ágætr maðr, eða með hverjum fórtu norðan?" Hann segir: „Ek fór með Álfi norðan, bónda þínum". „Hvar skildust þit?" „Hér norðr", segir hann, „í ey þeiri, at hann er vanr at vera, þá er hann ferr hér á milli; nenti hann eigi at róa hegat, ok ætlar hann þegar á fund Hákonar jarls. Hann sendi mik eftir Ragnhildi dóttur sinni, ok þat með til jartegna, at hon hefði þess oft beðit ok aldri fyrr fengit, enn nú kvað hann hana fara skyldu". Hon segir: „Veit ek at þetta er satt, enn þó þykki mér þat undarlegt, at hann hefir sent ókunnan mann slíks erindis. Nú skaltu eta ok drekka; síðan skaltu vita þitt erindi". Hann gerir svá. Ingibjörg fór til tals við dóttur sína, ok frétti, ef hon vildi fara með þessum manni. Hon bað hana ráða. Síðan bjó hon hana sem hon kunni bezt, ok bar á hana gull ok silfr ok alla ena beztu gripi, þá er hon átti til; ok er þau váru búin, fylgir Ingibjörg þeim til skips; tók Finnbogi Ragnhildi í fang sér ok bar hana út á skútuna, enn hann settist til ára. Þá mælti

Ingibjörg: „Þótt þú hafir, Finnbogi, farit með flærð ok hégóma, þá vara þik at þú gerir ekki meyjunni til miska; enn þótt þú gerir annat illa, eða hafir gert, þá er þér þetta skjótast til dauða“. Hann reri á brott. Þá mælti Ragnhildr: „Með hverjum hætti er, Finnbogi, um sögn þína?“ Hversu skildu þit faðir minn?“ Hann segir: „Svá skildu vit, at hann er dauðr“. Hon mælti þá: „Nú þarf eigi at spyrja fleira; flyt mik aftr til eyjar minnar, ok mun sá grænstr“. Finnbogi sagði: „Því tók ek þik á brott, at þú skalt með mér fara“. Þá tók mærin at gráta. Finnbogi mælti: „Vertu kát, því at ekki skal ek níðast á þér; verðr sem má um mína framferð aðra“. Síðan koma þau til eyjarinnar fram fyrir hellinn, ok bar hann út á skip fé þat er þar var eftir orðit. Nú tekr mærin at gleðjast. Síðan hann var búinn, reri hann suðr með landi, ok þegar hann kemr til hafnar, skortir hann eigi menn til þess er hann vill; gefr hann fé til beggja handa. Eigi léttir hann fyrr sinni ferð enn hann kemr á Hlaðir þar sem jarl réð fyrir. Gekk Finnbogi þegar upp í bæinn með Ragnhildi, til herbergis þeira systrdætra jarls, Úlfhildar ok Ingibjargar. Þar var tekit við henni báðum höndum. Þær spurðu hverr sá var, er svá mikit afbragð er annarra manna. Finnbogi sagði til sín. Þær mæltu: „Mikinn trúnað hefir Álfr lagt undir

þik, er hann hefir fengit dóttur sína þér í hendr, enda muntu ágætr maðr vera". Finnbogi mælti: „Gerit svá til meyjarinnar sem hann hafi mér allvel trúat". Síðan bað hann þær vel lifa. Þær mæltu, at hann skyldi svá fara. Finnbogi leigði sér skemmu, ok bar þar inn í þat er hann átti. Hann helt mart manna með sér.

15. Einnhvern dag gekk Finnbogi fyrir jarl ok kvaddi hann vel. Hann tók kveðju hans, ok spurði, hverr sá maðr væri enn mikli ok enn vænlegi". Hann segir: „Finnbogi heiti ek, ok em ek son Ásbjarnar detti-áss, er margir menn kannast við hér í Noregi, enn móður-kyn mitt er út á Íslandi, enn Þorgeirr Ljósvetninga goði er móðurbróðir minn". Jarl mælti: „Full-vel ertu ættaðr. Eru mér kunnir frændr þínir, ok eru eigi hvers manns makar við at eiga, eða vartu á Hálogalandi í vetr?" Hann kvað svá vera. „Deyddir þú björninn?" Hann kvað þat satt vera. „Hversu fórtu at því vápnlaust?" segir jarl. „Eigi varðar yðr þat; enn eigi munu þér bana svá öðrum birni". Jarl frétti: „Með hverjum fórtu norðan?" Finnbogi segir: „Ek fór norðan með Álfi aftrkembu mági yðrum". Jarl mælti: „Hvar skildust þit?" Finnbogi segir: „Hann var eftir í eyju einni". „Hví var hann þar eftir?" segir jarl. „Ek vá hann", segir Finnbogi. Jarl setti rauðan sem blóð, ok mælti: „Hví vartu svá ódauðahræddr eftir slík

stórvirki, at þú fórt á minn fund? Eða vissir þú eigi þat, at engi maðr var mér kærri í landinu, enn Álfr mágr minn ok hirðmaðr?" „Því drap ek hann", segir Finnbogi, „at mér þóttu nógar sakir, því at hann vildi deyða mik; enn ek vissa þat, at eigi lagði verri maðr linda at sér í Noregi enn Álfr var. Nú fór ek á yðvarn fund af því, at ek vilda bjóða mik til fylgdar ok framgöngu í stað Álfs, utan níðingsverk þau, er hann sparði ekki at gera, vil ek engi vinna, enn framgöngu ok drengilega vörn ætla ek jafnbjóða yðrum mönnum flestum". Hákon jarl mælti: „Þat munu flestir menn mæla, at mér sé mislagðar hendr, ef þú kemst með lífi brott frá mér eða klaklaust, enn þó látum vér marga fá harðindi, þó at lítit vinni til eða nær ekki; enn þó at Álfr væri ójafnaðarmaðr ok illmenni kallaðr af sumum mönnum, þá skaltu þat vita, at engi maðr í landinu var meir við mitt skap enn hann, ok mér líkari um alla hluti enn hann var". Finnbogi mælti: „Ekki skal yðr leyna því, at ek hefi tiltekit; ek tók brott ór Sandey Ragnhildi Álfsdóttur, frændkonu yðra, ok er hon hér komin á yðvart vald". Jarl mælti: „Eigi hefi ek sét eða heyrt jafndjarfan mann þér; er þar annathvárt, at þú ert fól, eða þú þykkist eiga meira undir þér enn oss varir. Nú þykki mér þér 'ofgott at deyja svá skjótt; skulu vér hafa gaman ok skemtan

at reyna þik í smáleikum, ok verð þú á burtu ok lát mik ei sjá þik fyrr enn ek sendi eftir þér". Síðan gekk Finnbogi út til herbergis síns, lét taka sér drykk, ok helt sik glaðan vel ok sína menn.

16. Þat var einn tíma, at jarl blés til húsþings, ok lét hann bera út stól sinn á miðjan völl. Síðan lét hann kalla Finnboga til sín, ok er hann kom þar, þá mælti jarl: „Hér er, Finnbogi, piltr einn, er þú skalt glíma við; þarftu ekki at hlífast við, því at ekki skal hann hlífa þér". Finnbogi sá hjá stólinum hvar stóð einn blámaðr, ok þóttist hann eigi hafa sét leiðilegra mann. Síðan bjuggust þeir til fangs, ok varð sá atgangr bæði harðr ok langr; þóttist Finnbogi þat sjá, at þessi var magnaðr ekki lítt. Steinn stóð á vellinum harðla mikill, ok þar vildi hann færa Finnboga at; hann lét þá berast at steininum; ok er þeir kómu at, þá snarast Finnbogi frá, ok gengr hann á bak aftr blámanninn, ok setr hrygg hans á steininn, ok brýtr í sundr. Þá mælti jarl: „Þat muntu ætla, Finnbogi, at verða skaðasamr mínum mönnum". Finnbogi segir: „Þat ætla ek, herra, at fleiri kalli þetta tröll enn mann". Jarl bað hann brottu verða,— „ok kom eigi á minn fund fyrr enn ek sendi orð eftir þér". Finnbogi fór brott, ok helt sik vel ok stórmannlega; hafði aldri færi menn með sér enn tólf. Var ok engi

sá maðr í hirð jarls, at eigi þægi góða gjöf af honum; varð hann af þessu víðfrægr ok vinsæll; hafði hann af höndum greitt fé þat, er Álfr hafði með farit ok norðan flutt; var jarli sagt, at þat væri vel af höndum greitt ok meira enn vandi var á. Jarl fann Ragnhildi frændkonu sína, ok fagnaði henni vel, ok spurði hana, hvárt Finnbogi hefði gert vel til hennar. Hon sagði, at Finnbogi hefði þat vel gert við hana, sem mestu varðaði. Báðar frændkonur jarls, Ingibjörg ok Ragnhildr, báðu Finnboga griða ok friðar; þær sögðu þat höfðinglegt bragð, at gefa honum líf, þótt hann hefði illa gert. Jarl var enn reiðasti við þeira meðalgöngu, ok var eigi hægt at fýsa hann vel at gera, þá er hann var ráðinn í illa at gera. Líða nú nökkurar vikur þaðan frá er þau höfðu til talazt.

17. Einn tíma lét jarl kalla Finnboga til sín. Ok er hann kom fyrir jarl, þá mælti jarl: „Eigi skaltu fleirum mönnum eyða fyrir mér; nú skaltu reyna sund við alidýr mitt; þarf nú ekki at leyna þik því, at ek ætla, at dýr þetta skyli deyða þik; enn ef svá ólíklegt verðr, at þú vinnr yfir dýrit, þá man þér meira ætlat enn flestum mönnum öðrum“. Þetta þótti mönnum enn mesti mannskaði, ok hörmuðu þat bæði konur ok karlar. Björninn var bæði mikill ok sterkr; hann kunni mannsmáli. Jarl fór ofan til sjóvar með allri hirð sinni. Finnbogi býst nú

til sunds, ok er hann legst frá landi, bað jarl, at dýrit legðist eftir honum. Björninn lagðist niðr fyrir fætr honum, ok vildi eigi fara. Jarl eggjaði dýrit, ok bað hann ekki hlífast við. Síðan lagðist hann eftir Finnboga. Þar mátti sjá langan leik ok harðan ok stór köf. Þat fann Finnbogi, sem líklegt var, at hann þoldi ekki niðri sem björninn; sér hann, at honum mun eigi duga, ef hann verðr ráðlauss fyrir. Hann hafði einn tygilkníf á hálsi sér, er móðir hans hafði gefit honum. Hon kvað sér þat minjagrip, ok bað hann svá til geyma sem hamingja muni fylgja. Ok einn tíma, er þeir váru niðri báðir, þá tekr hann annarri hendi knífinn, enn annarri tekr hann saman skinnit undir bæginum; stingr nú knífinum fyrir framan slíkt er hann má taka, lætr síðan hlaupa aftr skinnit yfir benina, blæðir þá inn, ok mæðir dýrit skjótt; ok svá verðr með öllu umfangi þeira, at Finnbogi deyðir björninn. Leikr hann þá á svá marga vega sem maðr má framast ok á flesta vega á sundi leika. Urðu allir menn þessu stórlega fegnir. Finnbogi ferr þá til lands, ok gengr fyrir Hákon jarl. Hann mælti þá: „Hefir þú deyddan björninn?“ Finnbogi kvað þat satt. Jarl mælti: „Mikill ertu fyrir þér og ólíkr öllum mönnum þeim er komit hafa á mínum dögum af Íslandi. Skal nú þat kunnigt gera fyrir öllum mönnum,

at allar þær sakir, er þú hefir gert við mik ok aðra menn í Noregi, skulu þér upp gefast, ok þat með, at engi skal slíka sæmdarferð hafa farit til mín, sá er jafnmikit hefir afgert. Kom nú í stað Álfs, ok ver mér hollr ok trúr, sem þú hefir áðr boðit". Finnbogi þakkar jarli vel þessi orð, ok allir menn urðu þessu stórlega mjök fegnir. Þeir sögðu þat sem var, at í fám seytján vetra mundi slíkt mannkaup sem honum. Finnbogi gengr nú til hallarinnar með hirðinni. Hákoni jarli virðist hann vel, ok at jólum gerðist hann hirðmaðr, ok er engi sá með jarli, at meira framgang hafi enn Finnbogi; er hann þar í góðu haldi um vetrinn með Hákoni jarli.

18. Um várit eftir bar saman orðræðu þeira jarls ok Finnboga. Jarl spurði, hvat hann vildi at hafast um sumarit. „Nú muntu vilja fara til Íslands; ferr yðr svá flestum, þegar þér komizt í gildi við höfðingja eða í kærleika við þá, vili þér þegar á brott". Finnbogi segir, at honum væri ekki þat í skapi at skilja svá skjótt við Hákon jarl. Jarlinn segir: „Meðr því, at þú ætlar með oss at vera, hefi ek þér sendiför ætlat. Maðr hét Bersi, ok ættaðr hér í Noregi; hann var hirðmaðr minn ok kaupmaðr mikill. Svá bar til, at hann varð fyrir fjársköðum, ok týndi öllu sínu gózi; síðan bað hann mik ljá sér fé nökkut, ok ek léða honum tólf

merkr brendar. Eftir þat fór Bersi enn hvíti á brott, ok aldri hefir hann aftr komit síðan á sjau vetrum. Nú er mér sagt, at hann sé kominn út í Grikkland, enn þar ræðr fyrir konungr sá, er Jón heitir, ok ágætr höfðingi. Nú hefir Bersi gerst hirðmaðr Jóns konungs ok vel virðr; nú vil ek senda þik eftir fénu; vil ek nú hafa hálfu meira, eða höfuð hans ella. Nú þó at ek sé ríkr ok víðfrægr, þá em ek þó ekki vinsæll af höfðingjum í öðrum löndum; þykkir ek vera nökkut harðráðr ok hölzti svikall. Má ek eigi vita, hversu Jón konungr tekr þínu máli fyrir mínar sakir. Veldu af mínum mönnum þat er þér þykkir líkast, ok bú at öllu þína ferð sem bezt". Svá gerði Finnbogi. Hann bjó skip sitt vel, ok valdi af liði jarls þat er honum þótti bezt til fallit; ok er hann var albúinn, þá gekk hann fyrir jarl, ok mælti: „Einn er hlutr, er ek vil biðja yðr". „Hvat er þat?" segir jarl. „Þess vilda ek biðja yðr, herra, at þér létið Ragnhildi frændkonu yðra hér hjá yðr vera vel haldna, ok sendit hana eigi heim til Sandeyjar, ok eigi giftið þér hana meðan þér fréttið mik á lífi". Jarl kveðst því honum heita mundu;—„má vera, at þú hafir þat hugsat, þá er þú tókt hana brott úr Sandey". Jarl gaf honum gullhring þann er stóð mörk ok skikkju hinn bezta grip, ok væri þat tígnum manni sæmileg gjöf at þiggja.

19. Síðan lét Finnbogi í haf, ok greiðist vel

þeira ferð, ok kómu við Grikkland. Ferr Finnbogi hljóðlega, ok tekr sér herbergi skamt frá konungs atsetu. Þeir hafa kaupstefnu við landsmenn. Grikkland var þá vel kristit. Finnbogi frétti, at Bersi var með konungi vel haldinn. Ok þat var einn dag, at Finnbogi bjóst á konungs fund; tekr vápn sín, ok býst vel harðla. Þeir ganga tólf saman fyrir konung. Finnbogi kvaddi konung; hann tók vel kveðju hans, ok spurði hverr hann væri. Finnbogi sagði til sín. Hann kvaðst ættaðr í Noregi ok á Íslandi. Konungr mælti: „Þú ert stórmannlegr maðr ok munt vera mikils háttar maðr á þínu landi, eða á hvern trúir þú?“ Finnbogi segir: „Ek trúi á sjálfan mik“. Konungr segir: „Hversu gamall maðr ertu?“ Finnbogi segir: „Ek em nú átján vetra gamall“. Konungr mælti: „Svá lízt mér sem margir treysti á minna, þeira er á þann hátt trúa sem þú; eða hvert er erindi þitt hingað?“ Finnbogi segir: „Mik sendi jarl sá, er Hákon heitir ok ræðr fyrir Noregi; er ek hirðmaðr hans; enn hann á fé at þeim manni, er Bersi heitir ok er hirðmaðr yðvarr“. Segir hann konungi allan útveg þann sem á var. Konungr mælti: „Heyrt hefi ek getit Hákonar jarls, jafnan at illu, enn aldregi at góðu; hugði hann undarlega, at hann mundi fá þess manns höfuð, er ek vildi halda; ok svá sem þat er, Finnbogi, at þú hefir oss heimsótt um langan veg, enn

ert afbragð annarra manna, þeirra sem hér hafa komit norðan ór löndum á mínum dögum, þá er nær at ek gera fyrir þín orð nökkurn útveg þann, er þér mætti vel líka; nú skulu þér hér í vetr vera, ok eigið frjálslega kaup við vára menn". Finnbogi þakkar konungi þessi orð, ok fór heim til síns herbergis, ok eru þar um vetrinn vel haldnir.

**20.** Um várit gekk Finnbogi fyrir konung; kveðst þá vildu vita sitt erendi. Jón konungr kvað svá vera skyldu. Síðan stefndi konungr þing, ok kom þar Bersi ok mart annarra manna. Þá mælti konungr: „Áttu, Bersi, fé at gjalda Hákoni jarli?" Hann kveðst eiga honum at gjalda tólf merkr brendar—„ok ætla ek aldri at gjalda honum". Konungr segir: „Nú skal gjalda honum þegar í stað". Hlýtr Bersi nú at greiða féit, enn konungr leggr til hálfu meira ok fær Finnboga þat eigi síðr. Þá mælti konungr: „Þat skaltu vita, Finnbogi, ok þeir menn sem hér eru, at ek geri þetta fyrir þín orð; enn þess vil ek þik biðja, at þú veitir oss þat, at vér sjáim nökkura aflraun þína, með því at ek veit, at þú ert um fram aðra menn at afli búinn, ok taktu síðan við trú". Finnbogi mælti: „Þat vil ek heita þér, ef þessi boðskapr kemr norðr í lönd, þá skulu fáir taka þann sið fyrr enn ek, ok alla til eggja þá er á mín orð vilja hlýða". Konungr sat á stóli ok tólf menn hjá

honum, sex til hvárrar handar. Finnbogi stóð fyrir konungi; hann var ágætlega búinn, ok undruðust allir menn hans fegrð ok kurteisi. Finnbogi gekk at stólnum ok hefr upp á öxl sér, ok gengr út ór mannhringinum, ok setr þar niðr stólinn á völlinn. Allir undra þessa manns afl. Konungr gaf Finnboga gullhring, er stóð tíu aura, sverð ok skjöld, ena beztu gripi. „Hér með“, segir konungr, „vil ek lengja nafn þitt, ok kalla þik Finnboga enn ramma; er þat mín ætlan, at þitt nafn sé uppi meðan heimrinn er bygðr; skaltu vera fullkominn várr vin, hvárt sem vit finnumst nökkuru sinni eða aldri heðan frá“. Eftir þat bjóst Finnbogi enn rammi á brott með sínu föruneyti; skilja þeir konungr enir beztu vinir. Léttir Finnbogi eigi fyrr sinni ferð enn hann kemr heim í Noreg; tók jarl við honum forkunnlega vel, ok þótti hans ferð vorðið hafa hin bezta, fengit fé mikit ok sæmd af Grikklands konungi. Býðr nú jarl Finnboga með sér at vera, ok setr hann it næsta sér, ok virði engan mann fyrir hann fram; ok er nú kallaðr Finnbogi enn rammi. Hann er nú með jarli um sumarit áfram í góðu yfirlæti.

21. Þat var einn tíma, at Finnbogi kom at máli við jarl, ok bað hann fara til Sandeyjar at sætta þau Ingibjörgu, — „ok vil ek þat til skilja með atgöngu yðvarri, at ek fái Ragnhildar dóttur hennar, enn unna henni sæmdar fyrir

dráp Álfs bónda hennar". Jarl játi þessu blíðlega, ok sendi menn í Sandey til Ingibjargar; bað hana gera veizlu móti sér; enn hon bað, at Finnbogi kæmi eigi til þeirar samkundu,—„því at ek má eigi sjá þann mann, er mér hefir slíka skapraun gert sem hann". Jarl kveðst á það mundu hætta. Síðan búast þeir jarl og Finnbogi, ok fara til eyjarinnar með marga menn. Enn er þeir koma til eyjarinnar, þá var þar mannfjöldi mikill, ok búin hin bezta veizla. Þegar jarl fann Ingibjörgu frændkonu sína, varð hann einn at ráða þeira í milli, hvárt er henni þótti vel eða illa. Finnbogi sendi eftir Bárði bónda á Grænmó; kemr hann þar með mikit fé, er Finnbogi átti. Gerir jarl mikla fésekt fyrir víg Álfs aftrkembu, ok hér eftir festir hann Finnboga Ragnhildi frændkonu sína; skal þetta fé fylgja heiman Ragnhildi, ok lætr Ingibjörg sér þetta vel líka, með því maðrinn er hinn ágætasti, enn hon sér fullan vilja jarls um þetta. Taka nú at auka veizluna öll saman, ok er Ragnhildr á bekk sett með fjölda kvenna, ok eru menn nú glaðir ok kátir. Eftir veizluna gaf Finnbogi jarli góðar gjafir, ok Bárði á Grænmó gaf hann hinar beztu gjafir, ok öllum ríkismönnum þeim sem þar váru gaf hann nökkura góða gjöf ok sæmilega. Sitr Finnbogi nú eftir í Sandey, enn jarl fór heim með liði sínu. Þau unnast mikit Finnbogi og Ragnhildr. Fyrir jól

um vetrinn fóru þau til jarls, ok þágu með honum veizlu um jólin. Enn eftir jólin bjóst Finnbogi til heimferðar, ok er þau váru búin, gekk jarl til strandar með þeim. Þá mælti Finnbogi: „Nú er svá með vexti, herra, at ek ætla út til Íslands í sumar ok vitja frænda minna ok föður míns ok annarra vina minna; hefir yðr vel farið til mín, herra, ok sæmilega; mun ek yðr kalla hinn mesta höfðingja, hvar sem ek kem“. Jarl segir: „Svá skaltu fara sem þú vilt í mínu orlofi; hefir hér eigi slíkr maðr komit at afli ok annarri atgervi ok kurteisi sem þú“. Jarl gaf Finnboga skip með rá ok reiða ok harðla fagrt; hann kvað hann eigi skyldu farþega annarra manna um Íslands haf, —„slíkt erindi sem þú hefir hingað haft á minn fund“. Finnbogi þakkaði honum með fögrum orðum alla þá sæmd, sem hann veitti honum. Skildu þeir með hinni mestu vináttu, ok þótti öllum mikils háttar, hversu jarl gerði við þenna mann um fram alla aðra, þá er með honum höfðu verit eða til hans komit, eða honum þjónat. Ferr hann nú til Sandeyjar ok sitr þar um vetrinn í góðu yfirlæti.

22. Um várit fór Finnbogi út til Íslands, ok skorti eigi fjárhlut góðan ok gripi ágæta; skiljast þau Ingibjörg hinir beztu vinir; heldu í haf, ok urðu vel reiðfara, ok kómu skipi á Arnareyri. Þat fréttist brátt, at Finnbogi var út kominn

með hinni mestu sæmd, ok fengit hina ágætustu konu af Noregi; ríðr þá Ásbjörn faðir hans til skips ok Þorgeirr Ljósvetninga goði. Þar verðr hinn mesti fagnafundr. Veitir Finnbogi frændum sínum og vinum með kappi. Síðan reið hann heim á Eyri, ok þangað lætr hann flytja varning sinn. Hvert barn varð honum stórlega fegit. Síðan sitr hann heima á Eyri með sæmd ok virðing í góðu yfirlæti.

23. Um haustit bjóst Þorgeirr við veizlu virðulegri. Þangat bauð hann Ásbirni ok Finnboga ok fjölda manns. Þar var ágæt veizla; ok eftir veizluna gaf Þorgeirr stórmannlegar gjafir. Hann gaf Finnboga frænda sínum stóðhross fimm saman fífilbleik að lit; þat var orð á, at sá væri hestr beztr í Norðlendinga fjórðungi. Ragnhildi gaf hann gullhring, er stóð mörk, belti ok skikkju góða, hina beztu gripi. Síðan fóru menn heim frá veizlunni. Finnbogi lét reka hrossin á Flateyjardalsheiði. Maðr hét Uxi; hann bjó þar er heitir at Heiðarhúsum; hann var hit mesta kofarn í skapi; hann var lítill ok vesallegr; hann átti dóttur Brettings bónda; þau áttu mart barna enn lítit fé; var hann óvinsæll af öllum mönnum. Finnbogi sitr nú heima á Eyri, ok svá er sagt, at menn verða nökkut svá til áleitni við hann, ok eru mest at því synir Brettings ok frændr þeira ok vinir. Þykkir þeim Finnbogi miklazt mikit af utan-

ferð sinni; þótti þeim engis manns getit nema Finnboga, síðan hann kom út. Þat er sagt, at Finnbogi átti þat fátt í eign sinni, at honum þætti meira um vert enn stóðhrossin; gekk hann jafnan ok strauk hrossunum. Uxi kratt jafnan um, ok þótti hrossin ganga sér mjök at meini; var hann jafnan óðmálugr ok illmálugr, enn Finnbogi gaf at því engan gaum. Ásbjörn átti hey mikil á heiðinni, ok lét aka þeim á vetrinn.

24. Þat var einn tíma, er þeir feðgar óku á heiðina, ok fór mart manna með þeim; ok er þeir koma á heiðina, þá gerðu þeir hlössin. Skjótt kemr Uxi þar, ok er stórorðr mjök við Finnboga; segir at hann mun at gera nökkut, ef hann geymir eigi betr stóðhrossanna. Síðan fara þeir heimleiðis, ok ganga fyrir eykirnir, svá hverr sem búinn var. Finnbogi var eftir ok Hrafn enn litli hjá honum; gerðu þeir hlassit. Hrafn enn litli bað Finnboga girða hlassit sem fastast. Finnbogi bað hann þá undir drepa; hann kveðst eigi þá dul sér ætla. Síðan Hrafn var búinn, lét hann ganga eftir förunautum sínum. Finnbogi dvelst eftir ok strýkr hrossum sínum, ok sker mön á hestinum, ok eftir þat gengr hann heimleiðis; ok er hann kemr út frá Heiðarhúsum, sér hann hvar Uxi hleypr með tveggja handa exi eftir honum, ok höggr þegar til hans, er hann kemr í höggfæri. Finnbogi

snýst at mót, enn Uxi höggr í klakann ok missir hans, ok fellr áfram, svá at hann liggr flatr. Hann sprettr upp skjótt ok höggr þegar til hans í annat sinn ok it þriðja. Finnboga leiðist nú ákefð hans, ok tekr af sér kápuna ok snarar saman, ok slær um fætr Uxa, enn hann fell snögt, ok kemr höfuðit á stein, ok fær hann þegar bana. Finnbogi finnr konu hans, ok segir henni tíðendin. Þótti henni þat skaði mikill. Finnbogi gaf henni gullhring þann, er stóð sex aura; bað hana þat hafa fyrst ok verja því til bjargar sér. Síðan fór Finnbogi heim ok fann föður sinn. Hann frétti, hvat Finnboga hefði dvalit. Hann sagði honum sem farit hafði. Ásbjörn kvað þá illa tekizt hafa, — „þótt maðr væri lítilsverðr, þá eru þeir þó til eftirmáls, at ek get sér þykkja misboðit í drápi Uxa. Get ek at margir láti nú til sín taka um þetta mál, þeir er honum vildu áðr ekki gagn gera“. Finnbogi kveðst ekki mundu þat óttast við þá sem til móts eru.

25. Um morgininn, þegar dagr var, fór hon ok sagði frændum sínum þetta víg bónda síns. Þeir Brettings synir urðu við þetta stórlega reiðir, búa þegar mál til ok fara á Eyri, ok lýsa vígi á hendr Finnboga, ok biðja hann bæta fé fyrir. Enn Finnbogi kveðst þeim engu vildu svara, — „því at hann hefir áðr mælt sér til óhelgi“. Síðan stefndu þeir Finnboga um víg

Uxa. Eftir þat riðu þeir til Eyjafjarðar á fund Eyjólfs Valgerðarsonar, er þá var mestr höfðingi í Eyjafirði; hann var ok skyldr þeim bræðrum, ok báðu þeir hann liðveizlu mót Finnboga ok þeim frændum. Hann hét þeim sínu fulltingi; ríða nú heim, ok þykkjast hafa fullnað ór málum; gerast nú örorðir ok illmálgir til Finnboga. Hann lætr sem hann viti þat eigi hvat þeir mæla. Síðan fundust þeir frændr, Finnbogi ok Þorgeirr. Þá segir Finnbogi honum þat sem í hafði gerzt. Þorgeirr kallaði betr vera, at hann hefði bætt nökkuru; kvað eigi gott at leggja sæmd sína fyrir slík mál, er þó eru eingis verð; fara nú til þings ok fjölmenna hvárirtveggju.

26. Síðan höfðu þeir fram málit á hendr Finnboga; enn með því at menn vissu, með hverjum hætti hann hafði drepit hann, þá eyddi Þorgeirr málit fyrir þeim, ok una þeir stórilla við sinn hlut, ok skilja við svá búit. Ríðr nú hverr til sinna heimkynna af þinginu. Ragnhildr hafði fætt barn um haustit; var þat sveinbarn bæði mikit ok frítt; þetta barn hét Álfr eftir föður hennar. Svá er sagt, at eftir þingit fara þau Finnbogi til Ljósavatns, því at Þorgeirr vildi, at þau væru eigi út þar; þóttist hann vita, at þeir mundi samkrækja, ef þeir sætist svá nær. Hrafn enn litli fór með þeim Finnboga. Ok um haustit fæddi Ragnhildr ann-

an svein, ok hét sá Gunnbjörn, ok var hinn fríðasti sýnum; veitti Þorgeirr þeim sem hann kunni bezt.

27. Svá er sagt, at á öndverðum vetri bjóst Finnbogi heiman ok Hrafn hinn litli með honum; ætluðu út á Eyri. Þorgeirr kvað óvarlegt, at fara þannig einslega við slíkan þykkjudrátt sem þeira í milli var. Finnbogi kvaðst óhræddr fyrir þat fara. Síðan fóru þeir tveir samt. Gekk Finnbogi með vápnum, hafði hjálm á höfði, skjöld á hlið ok girðr sverði, ok spjót í hendi. Ok er þeir kómu á utanverða heiðina, mælti Hrafn: „Sér þú nökkut til tíðenda, Finnbogi?“ Hann kveðst eigi þat sjá, at honum þætti tíðendum gegna, eða hvat sér þú til tíðenda?“ „Ek sé“, segir hann, „fram undan brekkuna at upp taka spjótsoddar fimtán, ok er þat ætlan mín, at fyrir þér muni setit vera; ok er þat mitt ráð, at vit snúim annan veg; mun engi á þik leita meðan þú veizt eigi hvat fyrir er“. Finnbogi segir: „Eigi munu vit þat af ráða; má þat vera, at þat sé glens þeira sveina, at vilja hræða okkr“. „Viltu þá“, segir Hrafn, at ek hlaupa á Eyri, ok segja ek föður þínum?“ „Þat vil ek eigi“, segir Finnbogi, „meðan þú veizt eigi, hvat þú skalt segja“. Síðan hljóp Finnbogi fram á kamb einn; var hann stórlega hár, ok mátti einum megin at sækja. Finnbogi hefir nú leyst upp steina nökkura. Þá

kómu þeir synir Brettings ok synir Inga; váru þeir allir sterkir at afli ok fullhugar, ok með þeim tíu menn aðrir, frændr þeira ok vinir, ok allir enir hraustustu menn. Finnbogi heilsar þeim öllum glaðlega ok spyrr, hvert þeir ætluðu. Þorsteinn kveðst ætla, at þá skyldi verða fundr þeira sá, at hann þyrfti eigi at spyrja, — „skal nú vita, hvárt þú ert því hraustari sem þú þykkist fyrir öðrum mönnum". Finnbogi bað þá at ganga fim bræðr ok reyna með sér; þeir neituðu því. Finnbogi bað þá gera þat er þeir vildi. Þorsteinn hljóp þá fram ok lagði til Finnboga með spjóti. Hrafn enn litli hljóp fram ok laust í sundr spjótskaftit. Þorsteinn brá sverði ok hjó til Finnboga; hann klauf skjöldinn öðrum megin mundriða, ok hljóp sverðit á, rist Finnboga. Hann sló Þorstein með steini ok fell hann þegar í óvit. Finnbogi hjó þá á hálsinn ok af höfuðit, ok í því lagði Sigurðr Brettingsson til Finnboga, þar sem hann var hlífarlauss fyrir, ok kemr þat í lærit, ok sker út í gegnum; þat verðr mikit sár. Finnbogi leggr þá í skjöldinn ok í gegnum hann, ok nístir hann niðr við klakann. Grímr hljóp þá fram með exi harðla mikla, ok ætlaði að færa í höfuð Finnboga; hann brá við skjaldarbrotinu ok drepr undir höggit, enn slær sverðinu á öxl Grími ok klífr hann í herðar niðr. Síðan gengu þeir fram synir Inga, Þórir ok Grímr; þeir

báðu menn at sækja drengilega. Þá mælti Finnbogi til Hrafns: „Far þú nú á Eyri til Ásbjarnar, því at nú veiztu, hvat þú skalt segja“. Hann brá við skjótt, ok fór slíkt sem fætr mega aftaka. Þeir sækja at Finnboga, enn hann verst vel ok drengilega. Er þat sagt, at þeir falla báðir synir Inga. Þeir sækja hann nú tíu, enn hann verst einkar vel ok drengilega. Þat er nú at segja frá Hrafni, at hann kom á Eyri, ok sagði Ásbirni þau tíðindi, sem vorðit höfðu; hann brá við skjótt ok fór með sétta mann þar til er þeir börðust. Var svá komit, at Finnbogi sat á kambinum, ok varðist svá með sverðinu. Þeir sóttu at honum þrír, ok allir sárir mjök. Þegar þeir sá Ásbjörn, forðuðu þeir sér ok leituðu undan. Finnbogi var mjök yfir kominn bæði af sárum ok mæði; hafði hann drepit þá tólf, enn þrír komust undan ok mjök sárir; heitir þessi kambr síðan Finnbogakambr. Eftir þat færði Ásbjörn Finnboga á Eyri ok græddi hann. Fréttist þessi atburðr, ok þótti mönnum undarleg vörn sjá, ok lofuðu mjök hans vörn ok hans frækleik. Þessa menn kölluðu þeir fallit hafa óhelga, enn Finnbogi verit saklauss ok varit hendr sínar. Síðan fór Finnbogi heim til Ljósavatns, ok sátu þar um vetrinn í góðum náðum, ok var nú alt kyrt ok tíðendalaust.

28. Um sumarit varð umræða mikil á þingi

um þessi mál; fylgdi Eyjólfr Möðrvellingr þessum málum þeira Brettings ok Inga ok margir menn með honum, enn Þorgeirr goði mót honum, ok þeir allir frændr Finnboga. Nú með því, at þeir frændr höfðu styrk mikinn, enn menn vissu, at Finnbogi hafði mikinn framgang af Hákoni jarli mági sínum, þá kom Eyjólfr engu fram um þessi mál, ok sættust þeir eigi. Þótti mönnum þat líklegt, at eigi mundi Finnbogi sparr af þeim frændum, ef hann sat þeim svá nær, at hann mundi drepa hvern er hann næði; varð þat at sætt um síðir, at Finnbogi væri ekki í Norðlendinga fjórðungi, utan hann færi at heimboðum til frænda sinna; játuðu þeir þessu, heldr enn þeir væri ósáttir; ok þegar af þingi ríðr hann til Víðidals, ok kaupir landit at Borg; var þat góðr bústaðr með gögnum ok gæðum, á jörðu ok í jörðu. Þegar þeir kómu heim, sögðu þeir Ragnhildi tíðendin, ok þótti henni allilt at fara á brott, ok eftir þat færðu þeir búit frændr, ok skorti ekki vetta. Menn tóku vel við Finnboga, ok þótti hann vèra enn ágæzti maðr, ok buðust honum margir til þjónustu ok sitt fé honum til þarfinda, ok þótti honum þar harðla gott. Ingimundr bjó at Hofi í Vatnsdal, ok var hinn mesti höfðingi; var þá uppgangr sona hans sem mestr, ok váru þeir hávaðamenn miklir; hét einn Þórir, annar Þorsteinn, þriði Jökull, ok váru hinir mestu garp-

ar; þeir urðu mest til áleitni við Finnboga, því at þeir þoldu þat eigi, at Finnbogi var framar látinn eða formentr þeim öllum öðrum, er þar váru vestr.

29. Þorvaldr hét maðr; hann var kallaðr moðskegg. Hann bjó svá nær Borg, at nær var ekki á milli, ok var þat kallat í Garðshorni. Hann var gamall ok óvinsæll mjök; hann þótti vera illmenni mikit, ok kallaðr eigi einhamr. Finnboga var lítit um hann, ok ætlaði þá ok þá at reka hann á brott, ok fórst þat fyrir; var hann torsóttr við at eiga ok leiðendr mjök; öllum var lítit um bygð hans. Líða nú stundir, þar til at Finnbogi hefir búit at Borg svá lengi, at son hans var annarr fim vetra, enn annarr þrévetr; váru þeir báðir efnilegir; var Álfr hávaði mikill, enn Gunnbjörn kyrlátr mjök. Þat höfðu þeir til gamans jafnan, at þeir fóru í Garðshorn ok glettust við Þorvald, ok gerðu honum marga bellvísi; hann var skapillr móti, ok kveðst skyldu berja þá. Þeim þótti því meira gaman sem hann var verri viðfangs. Ragnhildr bannaði þeim þetta oft, ok gerði henni þat ekki. Þat var einn dag er þeir kómu í Garðshorn, ok var hurð aftr, enn Þorvaldr var inni ok gerði hornabræklu mikla. Álfr kallaði hátt: „Er moðskegg inni? Lúktu upp hurðu“. Hann sagði: „Þit skulut aldri hér inn koma“. Álfr mælti: „Nú muntu gera

nökkut ilt, ok ertu hinn versti maðr sem sagt er ok eigi einhamr, ok ertu troll, þó at þú sýnist maðr". Þat þolir hann eigi, ok hljóp út, ok tók sinni hendi hvárn sveininn, slær niðr við steininum, svá at rýkr heilinn um. Þetta sér Finnbogi ok hleypr at þangat. Þorvaldr ræðst í mót honum; verðr þar atgangr bæði harðr ok langr; þótti Finnboga hann bæði illr ok harðr undir höndum, svá at honum þótti tvísýnt hversu fara mundi. Þat varð þó um síðir, at moðskegg fell. Svá var Finnbogi þá móðr orðinn, at hann náði eigi sverðinu, ok var þó harðla skamt frá honum. Síðan varð honum þat fyrir, at hann lagðist niðr at honum ok beit í sundr barkann í honum, ok svá hefir hann sagt síðan, at hann hafi eigi við meiri fjanda átt, enn honum þótti moðskegg vera. Þá er hann hefir fyrir honum sét, fór hann heim ok sagði Ragnhildi þessi tíðendi. Hon kvað þá farit hafa eftir hugboði sínu, þá er hon fór frá Ljósavatni. Síðan tók hon sótt ok lá í rekkju allan vetr, ok þetta alt saman þröngdi hana, þar til er hon deyr af. Eftir þetta unir Finnbogi lítt. Síðan fór hann norðr til Ljósavatns ok segir Þorgeiri frænda sínum þessi tíðendi. Þat sumar kom skip af hafi ok þau tíðendi af Noregi, at Óláfr konungr var kominn í land ok boðaði sanna trú, enn Hákon af lífi tekinn. Þá er þetta spurðist, fýstist Finn-

bogi utan, ok hugðist svá mundu helzt af hyggja þeim harmi, er hann hafði beðit. Þorgeirr latti hann utanferðar, ok bað hann heldr kvángast ok staðfesta ráð sitt, — „vil ek at þú biðir dóttur Eyjólfs á Möðruvöllum, er Hallfríðr heitir; mun þá yðar í milli verða góð vinátta“. Finnbogi bað hann ráða. Síðan safnast þeir saman frændr, ok ríða á Möðruvöllu; þeir biðja dóttur Eyjólfs til handa Finnboga. Hann svarar þeim málum vel, því at hann vissi hvert afbragð hann var annarra manna, ok hverja sæmdarför hann hafði farit til Hákonar jarls ok fengit hina ágæztu hans frændkonu; tekr hann þessu glaðlega ok heitr konunni. Síðan bjuggust þeir við veizlu; eru öxn feld ok mungát heitt, mjöðr blandinn, ok mönnum boðit; fór sú veizla vel fram ok stórmannlega, ok gáfu þeir frændum sínum ok vinum góðar gjafir. Ok at liðinni veizlunni ríðr Finnbogi vestr til Borgar í Víðidal með konu sína; takast nú ástir með þeim hjónum; var hon kvenna vænst ok skörungr mikill. Þá er þau höfðu verit ásamt ein missari, áttu þau son þann er Gunnbjörn hét; hann var harðla vænn snemmindis at áliti. Finnbogi hafði aldri færi menn með sér enn tólf þá er vel váru vígir.

**30.** Þorgrímr hét maðr, er bjó í Bólstaðarhlíð. Sigríðr hét kona hans, enn Þóra dóttir; hon var væn kona ok vinnugóð; var faðir hennar

auðigr at fé. Þat var sagt, at Jökull Ingimundarson riði oft í Bólstaðarhlíð til tals við Þóru. Var þat talat, at hann mundi biðja hennar eða taka hana frillutaki. Maðr hét Sigurðr; hann bjó at Gnúpi í Vatnsdal. Véfríðr hét kona hans; hon var skyld mjök konu Finnboga. Þorkell hét son þeira; hann þótti seinlegr nökkut; fríðr var hann sýnum, ok jafnan var hann at Borg, ok þótti hann þá brátt alþýðlegri fyrir sakir siðferðis; þeir bræðr Ingimundarsynir kölluðu hann fífl eða afglapa. Finnboga var vel til hans, ok helt honum mjök á loft fyrir sakir konu sinnar. Eitt sinn kom Þorkell at máli við Finnboga, ok sagði honum, at faðir hans vildi, at hann kvángaðist, — „ok þat með, at hann vildi at þú værir í umleitan, hvar til skyldi sníða“. Finnbogi sagði, at svá skyldi vera. Um sumarit lét Finnbogi Þorkel ríða til þings með sér; kom þar mannfjöldi mikill; fundust þeir frændr þar Finnbogi og Þorgeirr; tóku tali með sér, ok sagði Finnbogi honum skil á þessum manni, ok svá hvat þeir ætluðu at hafast at. Þorgeirr spurði, hvar þeir ætlaði til at ráða. Finnbogi kveðst ætla at biðja Þóru Þorgrímsdóttur í Bólstaðarhlíð. Þorgeirr segir: „Þat hygg ek, at Jökull ætli sér þann kost“. Finnbogi kvað þat kurr annarra, enn eigi sannindi. Þorgeirr mælti: „Slíkt er ekki at gera nema þú, frændi, sér ráðinn til at halda frændr þína

ok vini móti sonum Ingimundar". Finnbogi kvað þá hafa gert áleitni við sik,— „ok varðar eigi þó at vit reynim við þá". Eftir þingit ríða þeir norðr Finnbogi ok Þorgeirr á fund Þorgríms, ok hafa þessi orð frammi. Þorgrímr tók þessu máli seinlega, ok þótti maðrinn ekki skörulegr, þó at penningar væri nógir. Nú með því, at Þorkell var skyldr mjök Möðrvellingum, enn þótti höfuðbenda rammleg, þar sem Finnbogi var ok frændr hans, verðr þessu keypt með ráði þeira Þorgeirs ok samþykt þeira mæðgna; skyldi brullaup vera at tvímánaði sumars at Borg. Eftir þetta ríða þeir norðr, enn Finnbogi heim til Borgar, ok bað Þorkel þar vera þar til er þat færi fram sem ætlat er um brullupit áðr, ok ákveðit var. Piltar váru tveir á búi fátækir; hét annarr Þorsteinn, enn annarr Björn, ok þegar um morgininn verða þeir á brottu, ok létta eigi fyrr enn þeir kómu til Hofs, ok sögðu þeim bræðrum þessi tíðendi. Jökull mælti: „Hvat ilt mun Þorgrímr þat vita at sér eða dóttur sinni, at hann vill gefa hana slíku fífli ok glóp sem Þorkell er". Spyrjast þessi tíðendi nú, ok undrast allir, at Þorkell skal þenna kost fengit hafa; [þykkir Finnbogi fast fylgt hafa.] Einn tíma reið Jökull norðr í Bólstaðarhlíð, at finna Þóru vinkonu sína. Er þar vel við honum tekit. Spyrr Jökull eftir um gifting hennar. Hon segir svá sem ætlat var. Jökull mælti

þá: „Viltu nú fara heim með mér til Hofs? Skal ek því heita þér, þann tíma er vit skiljum, at þú skalt eigi hafa minna fé enn nú er þér ætlat til móts við Þorkel“. Hon segir: „Þess þarf nú eigi at leita, er þá var engi ván er þessu var ókeypt“. Jökull segir: „Þat vil ek heita þér, svá gott sem þú hyggr til at eiga fíflit, at þú skalt skamma hríð njóta, ef ek má ráða“. [Eftir þat ríðr Jökull burtu ok var í þungu skapi. Líða nú stundir fram, ok] einn tíma búast þeir Finnbogi ok Þorkell at ríða til Gnúps, ok hafa þaðan þat er þeir þurfa til boðsins. Ríða þeir þrír samt, enn Hrafn enn litli rann fyrir hestum þeira; fara sem leið liggr, þar til er þeir kómu til Gnúps; var þeim þar vel fagnat. Snemma morgins fór smalamaðr frá Hofi, ok sá ferð þeira. Hann sagði þeim bræðrum, at Finnbogi enn rammi lét ekki óvant yfir sér, er hann reið þar hjá garði, — „ok Þorkell brúðgumi, draglokan, með honum“. Þórir mælti: „Helzt má honum þat þeira manna, sem nú eru hér til“. Þenna dag hvarf Jökull á brott með annan mann.

31. Nú er þar til at taka, er þeir Finnbogi búast brott um daginn. Þeir höfðu þat með sér, sem þeir þurftu; rak Hrafn fyrir sér hestana, suma klifjaða, enn þeir riðu síðar. Ok þá er þeir riðu ofan at Hofi, stakk Hrafn við fótum. Finnbogi spurði, hví hann færi eigi. Hrafn

segir: „Ek sé hér fram undir brekkuna, hvar spjótsoddar koma upp, eigi færi enn tíu; er þat ætlan mín, at menn fylgi“. Finnbogi mælti: „Þat er þér mjök oft, at þú undrast þat, þó at þú sjáir menn; þykkir oss vel, hvar sem sveinar leika sér“. Ok er þeir ríða fram hjá, hleypr Jökull fyrir þá með tíunda mann. Finnbogi heilsaði honum vel, ok frétti hvat hann vildi. Jökull sagði: „Kalla má at ek eiga ekki erendi við þik, sem þó má vera er fyrir þat gangi. Þykki mér Þorkell ekki lítt hafa dregizt til óþokka við mik; beðit þeirar konu, er ek vildi umsjá veita; er honum þat ofdul, at ganga í mót oss frændum“. Finnbogi segir: „Þó at þér þykki Þorkell mágr minn ekki skjótlegr mjök, þá er hann þó ekki uppburðaminni um þat er til kvennanna heyrir enn þér garparnir“. Jökull leggr spjóti til Þorkels ok stefnir á hann miðjan; í því brá Finnbogi sverði ok hjó í sundr spjótskaftit milli handa honum. Finnbogi hljóp af baki ok mælti: „Mér skaltu nú fyrr mæta, Jökull, því at yðr mun forvitni á Vatnsdælum at vita, hvat ek má“. Jökull þrífr eitt spjót ok leggr til Finnboga í skjöld hans ok gekk í sundr spjótskaftit. Í þessi svipan þá hlaupa fram tveir menn, ok váru þeir bræðr þar komnir, Þórir ok Þorsteinn, ok gengu þegar í milli ok skildu þá. Þóttust þeir vita, þegar Jökull hvarf, hvat hann mundi fyrir ætlast. Hafði

hann tekit sér menn á næstum bæjum. Síðan þeir váru skildir, ríðr Finnbogi heim til Borgar, ok búast þeir við boði vel ok virðulega. Einnhvern dag ríðr Finnbogi til Hofs, ok býðr þeim Þóri ok Þorsteini til boðs með sér. Þeir þökkuðu honum vel ok kváðust gjarna vilja eiga gott við hann; enn sögðu Jökul stirðan í lyndi ok ómjúkan, — „munu vér annathvárt fara allir eða engi várr“. Ríðr Finnbogi heim eftir þat, ok einnhvern dag fyrir boðit ríða þeir til Borgar, Þórir ok Þorsteinn, at finna Finnboga, ok sögðu, at þeir mundu heima sitja um boðit. Finnbogi mælti: „Vel fari þit með ykkru máli“. Hann gaf Þorsteini sverð harðla vel búit ok hinn bezta grip, enn Þóri fingrgull, er vá eyri, ok kvað Hákon jarl hafa gefit sér mág sinn. Þeir þakka honum harðla vel ok ríða heim; hafði Jökull alt í spotti við þá bræðr sína. Svá er sagt, at þeir sitja at veizlunni at Borg, ok verðr ekki til tíðenda; ferr veizlan vel fram, ok at henni lokinni segir Finnbogi, at þau Þorkell skulu þar sitja um vetrinn hjá honum. Þorgrímr kveðst ætla, at Þóra mundi heim vilja með honum. Þóra segir: „Þetta kýs ek at vera hér hjá Finnboga; mun oss þat bezt gegna, at hafa hans ráð sem mest; enn ek skal koma faðir minn, þik at finna enn, þá er stundir líða“. Eftir þat ríða brott boðsmenn hvárratveggju vel sæmdir með góðum gjöfum.

32. Þat er eitthvert sinn, er Þorkell mælti til Þóru: „Nær ætlar þú at finna föður þinn, sem þú hézt honum“? Henni kvaðst harðla gott þykkja hann at finna, enn kvað þat hugboð sitt, at hon sæi eigi síðr fyrir hans kosti, þó at þau sæti eigi síðr heima þar enn rækist annarsstaðar. Þorkell segir: „Veit ek, at þú mælir þetta sakir vinar þíns Jökuls, enn ek óttast hann alllítit, ok skal ekki fara at síðr“. Ok einn morgin snemma var Þorkell á fótum, ok spurði Finnbogi, hvat hann skyldi. Hann kveðst skyldu ríða með Þóru norðr í Bólstaðarhlíð. Finnbogi kvað þat ráð, at ríða hvergi, — „veit ek at Þóra, vinkona mín, mun mik ráða láta“. Hon kvað það satt. Þorkell kvaðst ráðinn til at fara, ef Finnbogi bannaði eigi. Hann kvaðst eigi banna vilja, — „enn spurt hefi ek, at Jökull reið norðr til Skagafjarðar fyrir fám nóttum; þykki mér eigi vita mega, hversu ferðir yðrar berr saman“. Eftir þetta ríða þau vestan tvau saman, ok einn hlaupandi sveinn með þeim; ríða þar til er þau koma í Hlíð; var við þeim tekit harðla vel. Maðr er nefndr Þórarinn; hann bjó á Víðimýri í Skagafirði; hann var mikilmenni og goðorðsmaðr, ok átti son er Vilmundr hét. Þórarinn var skyldr þeim Hófssveinum, ok var hin mesta vinátta með þeim Jökli; enn öllum öðrum þótti Þórarinn it mesta illmenni ok ofmetnaðarmaðr mik-

ill. Jökull var þá kominn á Víðimýri. Ok er hann hafði þar eigi lengi verit, spyrr hann af hlaupandi mönnum, at Þorkell ok Þóra kona hans váru komin í Bólstaðarhlíð. Ok litlu síðar býst hann heim at ríða. Þórarinn undraðist, er hann vildi svá skjótt ríða; kvað hann slíkt gera undarlega ok ófrændsamlega við sik. Jökull kvaðst þá fara vilja. Þórarinn reið þá á leið með þeim vestr í skarðit til bæjar þess, er í Vatnshlíð heitir, ok eftir þat hverfr hann aftr, enn þeir ríða þrír saman þar til er þeir koma í Bólstaðarhlíð; var þá áliðinn dagr nökkut. Ein kona var úti, ok heilsaði vel Jökli; því at hon hafði oft sét hann. Hann spurði, hvárt Þorkell væri þar. Hon kvað svá vera. „Þá skaltu“, segir Jökull, „biðja hann út ganga. Seg at ek vil finna hann“. Hon gerði svá. Sátu þeir mágar í stofu; var fátt manna heima. Svartr hét nautamaðr Þorgríms bónda, bæði mikill ok sterkr. Þorgrímr bað Þorkel fara varlega. Þeir tóku vápn sín báðir ok gengu út. Þorgrímr var þá gamlaðr mjök. Þorkell heilsaði Jökli. Hann segir: „Þess skaltu nú víss verða, hversu heilan ek vil þik“, ok lagði til hans spjóti ok stefndi á hann miðjan; ok í því hljóp út Svartr nautamaðr, ok hafði stálhúfu á höfði mikla ok ákaflega forna ok skjöld fyrir sér, enn ekki hafði hann höggvápn annat enn hann reiddi mykireku sína um öxl. Ok er

Svartr sér athöfn Jökuls, slær hann þegar til hans með rekunni, ok í sundr spjótskaftit milli handa Jökli. Jökull bað hann fara þræla armastan. Svartr mælti: „Ef þú ríðr eigi skjótt á brott, skal ek slá annan við eyra þér". Þorkell lagði þá spjóti til Jökuls ok í skjaldarsporðinn, svá at hann klofnaði, ok hljóp spjótit í rist Jökli ok varð þat allmikit sár. Fylgdarmenn Jökuls sóttu at Þorgrími. Jökull hljóp þá at baki Þorgrími, ok hjó með sverði í höfuð honum. Hann hafði hjálm á höfði, ok beit eigi sverðit heldr enn með skíði væri slegit. Jökul undraði þetta mjök, því at þat sverð hafði hann reynt áðr allvel bíta. Þorkell lagði þá til fylgdarmanns Jökuls ok þegar í gegnum hann. Þá mælti Þorgrímr: „Þat er ráð, Jökull at ríða heim; mun þér þetta verða engi sæmdarför at sinni". Jökull sá, at þetta mundi svá fara, með því at hann mæddi mjök blóðrás, ok þat, at Svartr stóð með reidda rekuna ok var búinn at slá hann með, ok þótti honum þat mest svívirðing; ok við þetta alt saman stígr Jökull á bak, ok ríðr brott við annan mann, ok unir stórilla við sína ferð; kemr heim, ok er lengi áðr hann verðr græddr. Spyrjast nú þessi tíðendi, ok þykkir Jökull hafa ilt af beðit.

**33.** Þessu næst kom út skip af hafi í Hrútafjörð á Borðeyri, ok hét Bergr stýrimaðrinn, ok

kallaðr Bergr rakki. Hann var hinn gervilegsti maðr ok fríðr sýnum. Hann var kvángaðr, ok hét Dalla kona hans, ok var kvenna vænst ok kynstór, ok kvenna högust á alla hluti. Þessi Bergr var systurson Finnboga hins ramma, ok hét Þorný móðir hans, sú in sama at Skíði flutti á brott at óvilja Ásbjarnar föður hennar. Þegar Finnbogi frétti þat, ríðr hann til skips, ok fagnar vel Bergi frænda sínum; býðr þeim heim til sín, ok þat þiggja þau, ok fara heim til Borgar. Hallfríði fanst heldr fátt um við þau, enn Finnbogi var harðla glaðr, ok veitti þeim stórlega vel. Líðr af vetrinn, ok talast þeir við frændr, ok bað Finnbogi Berg þar vera lengi hjá sér, enn senda utan skip sitt, ok þat ráða þeir af. Fá mann fyrir skipit; var þat frændi Döllu, suðreyskr maðr at ætt, sem þau váru bæði.

34. Grímr hét maðr, er bjó á Torfustöðum. Hann var ungr maðr ok ókvángaðr; var faðir hans dauðr: hann var vel ættaðr, ok var gervilegr maðr; þau váru skyld mjök ok Véfríðr kona Sigurðar at Gnúpi. Grímr bað systurdóttur þeira bræðra at Hofi, ok þau ráð skyldu takast um vetrinn; er þá boðit mönnum til. Grímr var ok mjök skyldr Möðrvellingum, ok fyrir því bauð hann þeim Finnboga, ok öllum þeim sem þau vildu með sér fara láta. Þeir bræðr Þórir ok Þorsteinn buðu ok Finnboga;

hann kvað mága sína hafa boðit sér áðr, enn kvaðst kunna þeim þökk fyrir. Líða nú stundir ok vetrar; gerir veðr hörð, svá at rekr á hríðir. Ok þann sama dag, er til boðsins skyldi koma, búast þeir frændr Finnbogi ok Bergr, enn ekki var áreitingr, at fleira mætti fara. Síðan ráðast þeir til ferðar. Gekk Finnbogi fyrir þar til er þeir koma at Vatnsdalsá; var hon allólíkleg til yfirferðar; var krapaför á mikil, enn lögð frá löndum; þeir binda saman vápn sín, ok höfðu lokkápur fótsíðar. Bergr hafði engi orð um, enn þótti ólíklegt, at þeir mundu yfir komast. Ok eftir þat leggjast þeir til sunds báðir; bað Finnbogi Berg halda undir belti sér; legst hann svá, at hryðr um krapit, ok með færleik hans komast þeir yfir ána, ok ganga þar til er þeir koma til Hofs. Váru boðsmenn allir komnir; ganga þeir inn. Eldar váru stórir í eldaskálanum, ok sátu þar nökkurir menn á langknokkum; váru þeir þar allir bræðr. Kolr hét maðr; hann var ráðamaðr at Hofi, mikill maðr ok sterkr, ok hinn ódælsti. Þeir ganga nú innar hjá eldinum. Finnbogi gekk fyrir. Ok er þeir koma gegnt þar sem Jökull (sat), þá stingr hann höndum við Bergi, ok hrindr honum, ok stakar hann at eldinum, ok berr hann at honum Kol, er hann annast um eldinn eða eldana; hann hrindr Bergi þegar, ok bað hann eigi hlaupa á sik. Finnbogi sér

þat, ok þrífr annarri hendi loðkápuna milli herða Bergi, ok réttir hann upp annarri hendi með öllum vápnum, enn annarri hendi styðr hann á herðar Jökli, ok steðjar upp yfir hann með öllum sínum búnaði, ok kom standandi niðr, ok undruðust allir þenna færleik. Þeir hljópu þá upp bræðr ok tóku við vápnum þeira ok vásklæðum, enn fengu þeim þur klæði, ok eftir þat gengu þeir til bekkjar Gríms brúðguma. Sat Finnbogi á aðra hönd honum; fór veizlan fram it bezta ok at lokinni váru gjafir gefnar. Þórir gaf Finnboga stóðhross þau, er eigi váru í Vatnsdal önnur betri, enn Þorsteinn gaf honum hjálm ok spjót, góða gripi. Finnbogi þakkaði þeim vel. Ok er menn váru búnir, gekk Bergr enn rakki at Kol ok slær exarhamarshögg í höfuðit, ok fell hann þegar í óvit; hlaupa þá hvárirtveggju til vápna. Enn með því, at margir urðu meðalgöngumenn, þá skilja þeir at sinni. Ok um sumarit eftir kemr skip af hafi it sama, sem Bergr átti; ok þetta sama sumar skorar Jökull Finnboga á hólm, enn Þorsteinn Bergi enum rakka, ok þessu játa þeir, ok ákveða dag nær þeir skulu finnast. Ok er at þeiri stundu kemr, segir Dalla þeim frændum, at henni gazt ekki at þessi ætlan, — „skal ek gera þat veðr, at hvárki yðr né öðrum mönnum sé úti vært“. Finnbogi bað hana eigi þat gera; kvað þá skömm mundu

alla æfi upp vera, ef þeir gengi á heit sín, ok mundi þeim virt til hugleysis. Dalla kvaðst á þat hætta mundu heldr enn hon misti bónda síns. Ok eigi varð at hégóma. Svá mikil hríð kom á, at þat var með miklum ólíkendum, hverr stormr var eða snjáfall; var ok svá sagt, at Finnboga þótti allilt, enn þat ætlaði hann, at engi þeira mundi koma. Þá sitja þeir heima. Veðrit helzt þrjár nætr, ok er upp létti, þóttust menn engan stað sjá snjóvarins; þat spurðist ok, at þeir Hofssveinar höfðu komit á mótit, og þat með, at Jökull hafði reist Finnboga níð allhæðilegt, þar sem þeir skyldu fundizt hafa. Spyrjast nú þessi tíðendi, ok þykkir mönnum allmjök þetta hafa ávorðit fyrir Finnboga ok aftrdrepa mikil hans virðingar. Sjálfum honum þótti þetta svá ilt, at engan hlut hafði honum þann til handa borit, at hann yndi verr við, ok lagði hina mestu fæð á Döllu. Líðr nú af vetrinn. Þau Finnbogi áttu þrjá sonu; hét einn Gunnbjörn, annarr Þórir, þriði Eyjólfr, ok váru allir hinir vænlegstu menn.

35. Um sumarit býr Bergr skip sitt, ok ætluðu þau at sigla. Lætr Finnbogi flytja varnað þeira til skips. Þorkell ok Þóra váru þá með Finnboga. Ok er Bergr er búinn, ríða þeir Finnbogi ok Þorkell með honum; Hrafn hinn litli fór ok með nökkura klifjahesta; ríða þeir þar til er þeir koma mjök svá vestr af

hálsinum Hrútafjarðarhálsi. Hrafn hafði farit fyrr. Ok er þeir ríða ofan fyrir hálsinn, bíðr Hrafn þeira. Finnbogi spurði, hví hann færi eigi — „eða sér þú nökkut til tíðenda“? Hann kvað heldr þat,' — „ek sá hér undir brekkuna, ofan fyrir oss, at hestar tveir kómu fram meðr söðlum; þá hljópu fram tveir menn með vápnum, ok tóku hestana, ok leiddu upp undir brekkuna; er þat ætlan mín, at fyrir yðr muni setit, ok mun vera fleira manna enn ek hefir sét; er þat ráð mitt, at snúa aðra leið, ok eiga ekki við þá“. Finnbogi segir: „Þeir einir munu vera, at eigi munu fúsari mik at finna enn ek þá; verði fundr várr sem má; eigi skulu vér bera níðingsorð þetta sinn, svá at vér flýim fyrr enn vér þurfim, eða þolim óheyrilegar skammir“. Eftir þat ríða þeir á einn grjóthól; sjá þá hvárir aðra; var þar kominn Jökull Ingimundarson ok Þórarinn frændi hans, Vilmundr son hans, ok Kolr ráðamaðr; váru þeir tólf saman, ok allir hinir víglegstu. Þeir Finnbogi leystu upp steina nökkura þar til er þeir koma at. Jökull mælti þá: „Þat er nú ráð at minnast exarhamarshöggsins, Kolr“. Þá hljóp Kolr fram ok lagði spjóti til Bergs ok kom í skjöldinn; Bergr bar af sér skjöldinn við, ok í því lagði Jökull til Bergs ok í hálsstefnit frammi fyrir hóstinn; þetta sá Finnbogi ok brá sverði ok hjó í sundr spjótskaftit. Þór-

arinn sótti at Þorkatli, ok tveir menn með honum. Þorkell varðist vel ok drengilega, ok fell við góðan orðstír. Bergr lagði til Kols ok í gegnum skjöldinn ok fyrir brjóst Kol, ok fell hann á bak aftr, ok í því sló Finnbogi hann með steini í höfuðit, svá at í smán mola lamdist haussinn, ok fekk hann bráðan bana. Finnbogi lagði þá til Jökuls í gegnum skjöldinn ok svá lærit, ok varð þat allmikit sár. Vilmundr sótti þá at Bergi ákaft mjök ok tveir menn með honum. Bergr lagði til annars ok í gegnum hann; í því var annarr kominn upp at baki honum; Bergr snaraðist þá við, ok slæmdi til hans sverðinu annarri hendi ok tók sundr í miðju. Vilmundr lagði þá til Bergs, ok þat sér Finnbogi, at hann var hlífarlauss, ok snýrr þar til, ok í því leggr Vilmundr í gegnum Berg ok kippir at sér sverðinu. Bergr leit til, ok brosti at ok mælti: „Minni verðr nú liðveizla mín við þik, Finnbogi frændi, enn ek vilda, ok vel hefir þú alit mik í vetr". Hann vefr at sér klæðin ok sezt niðr. Finnbogi hleypr at Vilmundi ok klýfr hann í herðar niðr. Jökull leggr þá til Finnboga, enn annarri hendi slær hann með sverðinu ok af Bergi höfuðit. Finnbogi hjó til Jökuls, svá at í beini nam stað. Hrafn litli var sárr mjök, ok hafði drepit einn af fylgdarmönnum Þórarins goða. Þeir sóttu þá fim at Finnboga; hann hjó þá til beggja

handa, ok gekk í móti þeim it drengilegsta. Þórarinn gekk fast at móti; var hann fullhugi ok rammr at afli. Finnbogi sló hann með steini, ok kom utan á vangann, ok steyptist hann þegar; Finnbogi hjó eftir honum, ok tók hann sundr í miðju; varð hann þá mannskæðr. Ok er þeir höfðu barizt um hríð, þá sá þeir tíu manna reið, ok riðu ákaflega mikit; váru þeir þar komnir bræðr Jökuls, ok gengu þegar í milli þeira. Jökull var þá óvígr ok harðla mjök sárr; stóðu þeir fim upp ok allir mjök sárir. Finnbogi var mjök móðr enn ekki sárr. Þórir mælti: „Hér eru vorðin tíðendi mikil ok óþörf“. Finnbogi svarar: „Vorðin eru þau, at ek mun aldri bætr bíða, ok þat hafða ek ætlat nú, at vit Jökull mundim eigi oftar finnast þurfa, enn nú mun þat á yðru valdi“. Þórir kvað þá hætta skyldu; duga þeir þá at þeim mönnum, sem lífs var ván. Finnbogi flytr heim Berg frænda sinn ok heygir hann skamt frá Borg; stendr þar enn haugr hans. Spyrjast nú þessi tíðendi, ok þykkir fundr enn harðasti vorðinn, ok Finnbogi hafa enn sýnt þat, at hann er afburðarmaðr annarra manna í sinni framgöngu. Döllu þótti mikill skaði um bónda sinn; hon bað Finnboga fá sér Gunnbjörn son sinn til fóstrs; þótti sér þat yndi, at hafa með sér nökkurn Bergi skyldan. Enn með því at Finnbogi vissi, at hon var rík mjök ok stórauðig, ok þat

annat, at hon hafði sárt af beðit ok mikit af hlotit þeira fundi, þá lætr hann þat eftir hennar bæn; fær henni í hendr Gunnbjörn son sinn; var hann þá sex vetra eða sjau. Hann fekk henni ok í hendr fimtán hundruð mórend, ok fimtán vararfeldi, ok sendi Bárði á Grænmó. Eftir þat fór hon utan, ok átti enn bezta garð; skar hon þegar Gunnbirni skrúðklæði ok skarlat. Hon fór norðr á Grænmó, ok færði Bárði bónda gjafirnar; leizt Bárði allvel á sveininn. Ok þat var einn dag, at Bárðr spurði, hvárt Gunnbjörn vildi glíma við annan pilt. Hann bað Döllu ráða. Síðan glíma þeir þrjár lotur, ok þótti Bárði mjök jafni, ok bað þá hætta. Gunnbjörn kvaðst eigi hætta vilja, ok hleypr undir ok rekr niðr svá, at þegar gengu í sundr þrjú rifin í piltinum; hann kvaðst þá hætta vilja. Bárðr kvað ekki logit til föðursins, ok gaf honum gullhring, er stóð sex aura, ok kvað gott í vánum síðar, at hann mundi afbragðsmaðr verða; kvað þenna verit hafa fimtán vetra ok þó enn knásta, enn Gunnbjörn var þá átta vetra. Eftir þat fara þau á brott með enum beztum gjöfum. Vex Gunnbjörn upp með Döllu þar til at hann er tólf vetra; var hann þá svá mikill ok sterkr, (at hann þótti) mikit afbragð annarra manna. Rauðr hét víkingr, er beðit hafði Döllu, ok hafði Gunnbjörn fyrir sezt skarplega, ok hafði Rauðr brott farit í illu skapi. Nú er

svá komit, at Dalla fær Gunnbirni skip ok legst hann í hernað, ok er hverjum fræknari í framgöngu; herjar hann á víkinga, hvar sem hann kemr fram; ok at áliðnu sumri finnast þeir Rauðr víkingr undir ey einni; slær þegar í bardaga með þeim; hafði Rauðr dreka ágætan; var hann bæði harðr ok illr viðreignar; fellr lið af hvárumtveggjum. Þá mælti Gunnbjörn: „Viltu glíma við mik, Rauðr"? „Hversu gamall ertu"? segir Rauðr. „Ek em nú tólf vetra", segir hann. „Þá þykki mér til lítils vera eða engis at glíma við þik; enn þó skaltu ráða". Eftir þat taka þeir at glíma lengi, ok er Gunnbjörn aflaminni ok forðar sér meir. Rauðr sækr með ákefð ok þar til at hann mæðist. Gunnbjörn sækir þá eftir megni þar til er Rauðr fellr; Gunnbjörn hafði einn tygilkníf á hálsi, er fóstra hans hafði gefit honum; ok með því at hann hafði ekki vápn til, þá tekr hann þenna litla kníf ok sker af Rauði höfuðit með. Eftir þat tekr Gunnbjörn dreka þann enn góða ok alt þat góz, er Rauðr hafði átt, enn lætr fara menn í friði með sitt góz, ok kalla þeir hann enn bezta dreng. Ferr hann um haustit til fóstru sinnar; sitja þar um vetrinn glaðir; skortir eigi fé ok gott yfirlæti.

36. Svá er sagt, þá er kristni var boðuð á Íslandi, sá fagnaðr, er öllum hefir mestr vorðit, at engi varð fyrr til né skjótari enn Finnbogi

enn rammi at játa því með Þorgeiri móðurbróður sínum; var hann ok jafnan síðan formælandi þat at styrkja ok styðja, sem hinir ágætustu menn boðuðu; varð ok sjálfr vel kristinn. Þat er sagt eftir fall Bergs ins rakka, at Hallfríðr fæddi barn; lét Finnbogi þegar kalla eftir Bergi frænda sínum; unni hann honum einna mest sona sinna. Bersi hét maðr; hann bjó í Hvammi í Vatnsdal; hann var skyldr þeim Hofsveinum; höfðu þeir kvæntan hann ok lagit til fé með honum; hafði hann áðr verit hleypipiltr þeira bræðra; enn var nú vorðinn gildr maðr ok lagamaðr mikill. Þessi maðr eggjaði þá bræðr jafnan til mótgangs við Finnboga. Jökull lá lengi í sárum, ok varð þó heill. Þess er getit eitthvert sinn, at Finnbogi hafði riðit til Gnúps at finna Sigurð, ok áðr hann riði á brott, kemr hann í Hvamm at finna Bersa, ok mælti: „Svá er mér sagt, Bersi, at þú sér mjök spillandi um lyndi frænda þinna, ok mjök æsandi þá á hendr mér; enn þar sem þú ert lítilsverðr hjá þeim, þá skal ek svá finna þik eitthvert sinn, at þú skalt aldri þrífast“. Bersi segir: „Ek hefi lítit atgert hér til, enn þat skal vita ok til eiga at segja, at engi skal þér grimmari enn ek“. Finnbogi sat á baki ok reið at honum ok sló hann kinnhest, svá at þegar fell hann í óvit, ok kvað Finnbogi ekki vápn á hann berandi; bað hann svá annars verra

bíða; ríðr hann heim ok lætr kyrt um. Þat var einn tíma, at þau Finnbogi ok Hallfríðr ríða norðr til Ljósavatns; tók Þorgeirr við þeim báðum höndum, ok varð þeira kvámu stórlega feginn. Litlu síðar kom þar sendimaðr utan ór Vík, ok sagði Ásbjörn krankan mjök, ok bað Þorgeir koma út þangat, enn þau vissu eigi, at Finnbogi væri þar kominn. Eftir þetta ríða þau út öll saman; verðr alt fólk þeim stórlega fegit, ok var Ásbjörn mjök sjúkr; skipar hann til um þá hluti, sem hann vildi sín umráð standa láta; sagði, at Finnbogi átti fé at taka alt eftir hans dag, ok kvað honum unna stórvel at njóta; bað þau hjón gera þat tillæti við sik, at láta heita eftir honum; kvaðst þess vænta, at nökkur hamingja mundi fylgja. Eftir þat fá þeir honum prest at veita honum þá hluti, er hann þurfti nauðsynlega, ok síðan þröngir hann sóttin, svá at þar af deyr hann; bjuggust síðan brott með lík hans, ok fór fjöldi með utan þaðan. Ok er þeir ríða utan Flateyjardalsheiði, ok um kambinn Almannakamb, — enn annarr heitir Finnbogakambr, — þá bað Þorgeirr þá stíga af hestum sínum; var veðrit gott ok heitt, ok mæddust hestarnir undir börunum; þeir gerðu svá. Þá mælti Þorgeirr til Finnboga: „Með því frændi, at þat er líkara at frestist kvámur þínar norðr hingat, þá viljum vér biðja þik, at þú sýnir hér nökk-

ura aflraun, er bæði eru hjá frændr þínir ok vinir". Finnbogi spurði, hvat hann vildi helzt at hann gerði, eða vili þér at vér glímim? Þorgeirr kvað þat ekki gaman mundu vera. Finnbogi leggr þá af sér kápuna; var maðrinn bæði mikill ok veglegr, miðmjór ok herðibreiðr, limaðr manna bezt ok hærðr vel, hverjum manni fríðari ok hinn kurteisasti, ok allra manna hermannlegastr undir vápnum; ok þat viljum vér segja, at fáir eða engir muni sterkari verit hafa á Íslandi, þeira er einhamir hafa verit. Finnbogi gengr þar at sem einn steinn mikill stóð jarðfastr; hann hnykkir upp steininum, ok sýndist flestum mönnum ólíklegr til hafs fyrir vaxtar sakir; hann tekr tvá steina ok leggr á hinn mikla steininn, tekr upp alla saman á bringu sér, og gengr með eigi allskamt, ok skýtr niðr síðan, svá at steinninn, gekk eigi skemra niðr enn tveggja alna niðr í jörðina, ok heyrum vér þat sagt, at lítil merki sjái nú þess ens mikla steinsins, enn hina sjái tvá, er hann lagði á ofan. Þorgeirr bað hann hafa þökk fyrir, — „er þat líkast, at þessi aflraun, þó at þú kallir eigi mikla, sé uppi með Ísland er bygt ok þitt nafn kunnigt hverjum manni". Eftir þat búa þeir ferð sína, ok létta eigi fyrr enn þeir koma til Ljósavatns; var Ásbjörn jarðaðr ok þótti verit hafa it mesta mikilmenni. Enn þat varð ráð þeira, at vilja Þorgerðar, at hon skyldi búa á Eyri með

umsjá Þorgeirs bróður síns. Ok eftir þat býst Finnbogi heim með sitt föruneyti; þiggja þau þar ágætar gjafir, ok skilja með mikilli vináttu ok ríða þá til Eyjafjarðar; fann Hallfríðr þar frændr sína ok vini, ok þágu góðar gjafir. Síðan ríða þau vestr til Víðidals, ok koma heim til Borgar; varð alt fólk þeim stórlega fegit. Þann sama vetr fæddi Hallfríðr sveinbarn ok skyldi heita Ásbjörn, ok var enn vænlegsti, ok þegar hann var nökkura vetra sendir Finnbogi hann norðr á Eyri til Flateyjardals Þorgerði móður sinni; fæddist hann þar upp ok kvángaðist, ok var it mesta hraustmenni. Er þar komin mikil ætt frá honum ok stórmenni. Þau Finnbogi áttu ok son er Þorgeirr hét, ok kallaðr eftir Þorgeiri goða; ok þat vilja menn segja, at þau ætti sjau syni, ok alla ina efnilegstu menn ok ina hraustustu.

37. Á einu sumri kom skip í Hrútafjörð, ok átti sá maðr hálft, er Loðinn hét, enn hálft átti Gunnbjörn Finnbogason; ferr hann þegar heim til Borgar ok verða þau hjón honum stórlega fegin. Loðinn ferr til Hofs með annan mann, ok þá vist með Jökli. Gunnbjörn var hverjum manni meiri ok vænlegri, ok líkr mjök föður sínum; var hann þá fimtán vetra gamall. Svá er sagt, at leikar váru í Hvammi at Bersa, er fyrr var getit; svá var ok jafnan leikit at Hofi. Gunnbjörn reið jafnan til leika í Hvamm;

ok þótti Finnboga þat hvergi betr er hann fór jafnan einslega; bað hann gera annathvárt at fara eigi eða margmennari ella. Bersi var jafnan í illu skapi er hann kom, ok lét sem dólglegast. Þat var einn dag, er Gunnbjörn reið vestan til Hvamms til leiks ok fjórir húskarlar með honum; kómu þeir í Hvamm, ok var kominn fjöldi leikmanna. Þar var kominn Jökull frá Hofi ok hans menn ok var talat margt um glímur. Spurði Jökull, ef Gunnbjörn vildi glíma, — „muntu vera sterkr maðr sem faðir þinn“. Hann kvað lítinn knáleik sinn; kvaðst ok eigi vera gamall mjök. Þá mælti Bersi: „Þat þykkir oss ráð, at þeir Gunnbjörn glími ok Jökull; mun hann vera vel knárr, þar sem hann er son hans Víðdæla goða, at engir skulu nú þora til jafns at leika við; finnu vér þat Vatnsdælar, at Ingimundr er allr, er synir hans þola bæði sínar skemdir ok annarra frænda sinna“. Eftir þetta taka menn til leiks; var Gunnbirni skipat í móti Jökli; gengust þeir at fast ok gerðu langa lotu ok fell Jökull á kné. Þá var um rætt, at þeir mundi hætta ok kalla jafni. Jökull vill þat eigi, ok gerðu þeir lotu aðra, ok fell Gunnbjörn á kné. Þá gengu menn at ok báðu þá hætta. Jökull kvað ekki reynt vera. Eftir þat taka þeir til it þriðja sinn. Gunnbjörn leysir þá til ok hleypr undir Jökul, ok þrífr hann upp á bringu sér, ok setr niðr

innar við pallinn mikit fall. Þeir Jökull ok Bersi hljópu til vápna, ok váru haldnir; eftir þat skilja þeir leikinn; ríða þeir Hofsmenn þegar í brott ok svá Bersi. Gunnbjörn býst ok heim. Ingibjörg hét heimakona þar í Hvammi, væn ok vinnugóð, ok af góðum ættum; hon hafði jafnan vel tekit við Gunnbirni, ok þjónat honum jafnan er hann kom; gerði hann ok jafnan margtalat við hana; hon gekk at Gunnbirni ok bað hann eigi ríða ina sömu leið aftr, sem hann hafði þangat riðit—„ er þat ætlan mín at þeir siti fyrir þér". Hann kveðst þat eigi hirða, — „man ek ríða sem leið liggr bæði um Vatnsdal ok Víðidal, hvárt sem ek em lengr eða skemr á Íslandi". Ríða þeir brott ok þar til er gatnamót er, ok liggr þá önnur vestr til Vídidals; þar hlaupa menn upp fyrir þeim; var þar Jökull með hinn níunda mann. Hann bað Gunnbjörn af baki stíga— „skal nú vita, hvárt þú ert betr vápnfimr enn glímufærr". Gunnbjörn kvað hvárttveggi með litlu móti; hleypr hann af baki ok hans menn. Jökull lagði þegar til hans í skjöldinn. enn skjöldr hans var öruggr, svá at ekki gekk á. Gunnbjörn brá sverði ok hjó til Jökuls ok klauf allan skjöldinn öðrum megin mundriða; Jökull varð ekki sárr. Þar er til at taka sem Finnbogi er heima at Borg. Hallfríðr spurði um daginn, hvar Gunnbjörn væri. Finnbogi kvað hann farit hafa

til leiks; hon kvað slíkt undarlegt at láta son sinn fara svá einslega í hendr óvinum sínum, — „við slíka ójafnaðarmenn sem at eiga er“. Finnbogi kvað þat satt vera; bað Hrafn litla taka hest sinn; þat gerði hann; ríðr Finnbogi enn Hrafn hljóp fyrir; ríðr hann vestan sem leið liggr þar til er hann sér bardagann, ok í því er hann kom at, leggr Gunnbjörn til Bersa í gegnum skjöldinn ok svá í lærit, ok varð þat mikit sár. Þá lagði Jökull til Gunnbjarnar í skjöldinn, enn hann var svá harðr at ekki bítr á, ok stökk af upp spjótit ok í viðbeinit, ok í því kom Finnbogi at ok leggr til Jökuls, svá at þegar stóð í beini. Þá mælti Finnbogi: „Þat er nú ráð Bersi at ganga vel fram, ok gjalda kinnhestinn“. Hann hjó þá til Bersa, ok af höfuðit, svá snögt, at þat kom milli herða húskarli hans, svá at hann fell þegar í óvit. Eftir þat er Finnbogi svá ákafr, at hann höggr á tvær hendr, ok eigi létta þeir fyrr enn fallnir eru fim fylgdarmenn Jökuls, enn hann með öllu óvígr. Þá mælti Gunnbjörn til Finnboga: „Látum nú vera, fyrir því at þeir eru nú yfirkomnir, ok með öllu sigraðir; er þér gott við þat at una, at Jökull hefir jafnan með fjölmenni at þér farit, ok látit menn sína, enn borit sik aldri heilan af ykkrum fundi; mundi þat ok mál manna í Noregi eða annarsstaðar, þar sem þú ert mest ágættr af hreystiverkum, at

þér væri lítilræði í at skifta höggum við Vatnsdæla, þó at þú dræpir hvern at öðrum". Finnbogi gerir þetta eftir bæn Gunnbjarnar, at þeir skilja; eru þeir Jökull eftir fjórir lífs, ok allir mjök sárir, enn þeir feðgar ríða heim með sína menn. Spyrjast nú þessi tíðendi, ok er Jökull heim fluttr sárr mjök með sína menn.

38. Svá er sagt at austmenn verða þessu stórlega reiðir, er Jökull hafði setit fyrir Gunnbirni, ok fóru þegar á brott frá Hofi, ok váru at Gnúpi, þat sem eftir var vetrarins. Ok um sumarit eftir á alþingi er talat um mál þeira, ok þótti mönnum ekki þann veg mega framfara, at þeir dræpist einart niðr; ætluðu at Finnbogi mundi eigi fyrr létta, enn hann eyddi öllum þeim, at nökkurr þroski væri yfir, enn ætluðu ok við ofkapp Jökuls, at hann mundi aldri af létta, hvern mannskaða sem hann fengi þar til er umskifti yrði með þeim. Var þá leitat um sættir með þeim, enn Jökull vill engri sætt játa. Finnbogi vill ok enga bjóða; var þá óhægt með þeim saman at koma; enn með því at þeir Hofsmenn váru frændmargir, enn Þorgeirr dauðr móðurbróðir Finnboga, þá var þat ráð höfðingja, at Finnbogi var gerr í brott ór Víðidal, af því menn ætluðu at þeira vandræði mundu aldri fyrr losast enn aðrir hvárir leitaði undan. Fýsti Gunnbjörn föður sinn at fara utan; kvað hann þar mundu vel virðan

hvar sem hann kæmi. Finnbogi kvaðst ekki utan vilja, — „mun ek fylgja sonum mínum, menna þá ok hreysta eftir megni“. Svá er sagt eftir þetta, at Finnbogi selr Borgarland, ok ferr vestr í Trékyllisvík, ok býst þar um, ok reisir þar bæ fríðan. Enn þat sama sumar ferr Gunnbjörn utan með mikit fé, er faðir hans gaf honum; var þá Dalla önduð, ok tók hann þar við fé öllu eftir hana. Hann kvángaðist, ok átti þá konu er Ása hét, af hinum beztum ættum; varð hann ágætr maðr, ok umfram flesta menn um alla atgervi, ok er mikil saga frá honum. Þau Finnbogi og Hallfríðr áttu sjau syni; var Gunnbjörn elztr, annarr Eyjólfr, þriði Þórir, fjórði Ásbjörn, fimti Bergr, sétti Þorgeirr, sjaundi Þorgrímr; ok váru allir hinir vænlegstu menn. Finnbogi gerðist formaðr vestr þar, ok vildu svá allir sitja ok standa sem hann vildi, ok þótti þeim þar harðla gott. Þórir son Finnboga var jafnan með Möðrvellingum, frændum sínum, ok þat höfum vér heyrt, at hann væri með Eyjólfi halta í Melrakkahóls bardaga, ok var mikill maðr ok sterkr. Öllum sonum sínum fekk Finnbogi hina beztu kosti, því at hann var hverjum manni auðgari, ok átti betri gripi enn aðrir menn; var hann ok enn mesti skartsmaðr í búningi. Hrafn litli var með Finnboga meðan hann lifði, ok var bæði frár ok skygn ok glöggþekkinn. Finnbogi var bú-

maðr mikill, ok lét mjök sækja útróðra; var ok skamt at sækja, því at mjök svá mátti kasta á land. Finnbogi gerðist þá hniginn nökkut, ok var þó hinn gildasti; gerðist þá mjök fjölbygt í víkinni; var þá hálfr fjórði tögr bæja, bæði miklir ok góðir. Var þar stórlega fjölment; gerðist Finnbogi þar höfðingi ok stjórnarmaðr yfir því fólki, ok váru honum þar allir velviljaðir. Hann kallaði þann bæ á Finnbogastöðum, er hann bjó á, ok var bæði mikill ok skörulegr. Finnbogi lét gera kirkju mikla á bæ sínum, ok fekk prest til, ok helt hann vel ok sæmilega at öllu því er honum til heyrði.

39. Frá því er sagt eitthvert vár, at maðr kemr á Finnbogastaði til gistingar; var hann mikill maðr ok knálegr; hann gekk fyrir Finnboga ok kvaddi hann vel. Finnbogi tók kveðju hans, ok spurði hverr hann væri. Hann kvaðst Þorgrímr heita, ok vera vatnsdælskr maðr, ok vorðinn sekr á þingi. Finnbogi spurði, hverr hann hefði sektan. Þorgrímr kvað þá Hofssveina þat gert hafa. Finnbogi spurði, hvat hann ætlaðist þá fyrir. Hann kveðst eigi vita svá gerla; kvaðst hafa leitat til margra höfðingja, ok vildu honum engir ásjá veita, — „nú spurða ek at þú værir ágætari enn flestir menn aðrir, ok sýndist mér ràð at koma á yðvarn fund; nú vil ek biðja yðr viðtöku ok nökkurrar ásjá“. Finnbogi segir: „Ekki mun þat ráð-

legt at taka við sekum manni; hefi ek ok jafnan haft mikinn mótgang af Vatnsdælum, þó at ek hafi minna til gert enn haldit skógarmanni fyrir þeim; er þat nú bezt at skili með oss, þó at hvárirtveggju hafi mikit látit fyrir öðrum; eða ertu at nökkuru íþróttamaðr“? Hann kvaðst engi íþróttamaðr vera, — „enn ef ek skal allítit til finna, þá þykist ek garð leggja eigi verr enn annarr maðr; hefi ek ok þat mjök gert, ok hefir enn engi fallit, heldr setna þeir í jörð niðr“. Finnbogi segir: „Þat þyrfti hér mjök at gera; því at um túnit er engi garðr, enn mjök ágengt“. Þorgrímr bað hann til hætta, hvé honum gætist at; ok svá varð, at hann dvaldist þar, ok tók til garðlags, ok gekk þat bæði skjótt ok vel, ok sá Finnbogi þat er at þessu var hann vel hagr. Líðr á sumarit þar til er hann hefir gert um túnit; var þat tveggja mánaða verk, ok þótti öllum þeim sem sá it mesta mannvirki í þessum garði. Þorgrímr var góðr viðreignar ok fáskiftinn. Hann spurði þá Finnboga, hvat hann skyldi þá athafast, ok kvaðst gjarna þar dveljast vilja. Finnbogi kvaðst eiga gerði eitt; bað hann þangat fara, ok leggja þar garð um. Þorgrímr gerði svá. Líðr nú áfram. Ok einn dag gengr Finnbogi á gerðit. Þorgrímr fagnar honum vel; var þá ok mjök svá gert um gerðit. Hann undraði mjök skjótleik þessa manns ok hagleik. Hiti

var mikill um daginn, ok mælti Finnbogi: „Svá gerir mér þungt ok höfugt, at ek má víst eigi annat enn sofa“. Þorgrímr bað hann þá heim fara, ok sofa heima. Finnbogi kvaðst eigi mega við bindast, ok kastar sér niðr, ok vefr feldi um höfuð sér; sofnar hann þegar fast ok hraut mikinn. Þorgrímr gerði þá hark nökkut ok vaknaði Finnbogi ekki við. Þorgrímr hleypr þá at horninu í einum stað, ok kippir ór torfu ok þrífr upp sverð, ok hleypr at Finnboga þar sem hann lá ok höggr til hans sem hæglegast. Finnbogi svaf eigi jafnfast sem hann lét, eða Þorgrímr hugði, ok spratt upp í móti ok brá feldinum at sverðinu, ok snaraði af honum þegar. Þorgrímr hljóp þá undir Finnboga, ok þó at hann væri sterkr vel, þá átti hann þó eigi við sinn maka hér um, ok hafði Finnbogi hann skjótt undir, ok spurði þá, hvert eigi væri alt it trúasta, ok spurði hvers ráð þetta væri. Þorgrímr kvað nú eigi leyna mega, — „ok var þetta ráð Jökuls; þykist hann þungt hafa af beðit yðrum skiftum; nú vil ek biðja þik griða ok miskunnar um mitt mál“. Finnbogi segir: „Ekki óttast ek, at mér verði skaða auðit af þér, enn þar sem þú ert sendimaðr Jökuls slíks erendis, þá nenni ek eigi öðru enn umskifti verði með okkr“; tekr síðan sverðit, ok höggr af honum höfuð. Hafði Þorgrímr unnit mikit ok þarft fyrir Finnboga, enda var honum miklu

launat. Líða nú stundir, ok spyrr Jökull þetta, ok unir nú verr við enn áðr; enn Finnbogi sitr í búi sínu ok skortir eigi auð fjár ok góða virðing.

40. Á næsta ári eftir dráp Þorgríms kom maðr til gistingar á Finnbogastaði. Hann var bæði mikill ok sterklegr, svartr ok heldr illmannlegr; hann gekk fyrir Finnboga ok kvaddi hann. Finnbogi tók kveðju hans, ok spurði hverr hann væri. Hann kvaðst heita Þorbjörn, ok vera allra sveita maðr, — „kannast þá margir við ef heyra viðrnefni mitt; em ek kallaðr Sleggjufall. Finnbogi spurði, hvert hann skyldi fara. Hann kvaðst eigi vita gerla; kvað heldr harka fyrir sér—“ em ek vorðinn sekr, ok ferr ek nú svá sem leitandi þess höfðingja, er mik vildi halda. Finnbogi spurði, hverr hann hefði sektan. Hann kvað þá hafa þat gert Vatnsdæla, syni Ingimundar; kvaðst hafa barnat frændku þeira, — „er ek því hér kominn, at mér er mikit sagt af stórmensku þinni; vil ek biðja þik viðtöku ok ásjá“. Finnbogi segir: „Þú ert grunbruslegr maðr, ok veit ek eigi hvárt þú lýgr eða segir satt; verða oss vandsén ráð þeira Vatnsdæla, ok er mér ekki um at taka við þér“. Þorbjörn segir: „Þat er svá sem þér segið; em ek ok ekki dællegr maðr kallaðr, ok heldr gildr í flestum hlutum ok óvæginn; hafa ok margir þat fundit, at mik

hefir eigi áræði bilat, enn gerla veit ek hverr maðr þú ert, Finnbogi; er þat ekki mitt færi at stríða við þik; er ok ekki þat í ætlan, heldr hitt at þiggja at yðr nökkut heilræði ok ásjá um mitt mál". Finnbogi mælti: „Hvat er þér helzt lagit til íþrótta"? Þorbjörn segir: „Íþróttalauss em ek utan þat er ek þykist miklu gildari í verki enn aðrir menn". Finnbogi mælti: „Hvat er þér bezt hent at vinna"? Þorbjörn segir: „Slá þykist ek eigi minna enn þrír aðrir, þeir er þó eru gildir í verki; þyki mér ok þat bezt at vinna". Finnbogi segir: „Hvat mun varða, þó at þú dvelist hér um hríð, ok takir til sláttar. Er hér töðuverk mikit, ok gengr húskörlum stórlega lítt". Þorbjörn kvaðst þat gjarna vilja; bað hann búa sér ljá ok orf sterklegra enn öðrum húskörlum. Finnbogi gerði svá, ok tók Þorbjörn til sláttar, ok þótti mönnum þat með miklum ólíkendum, hvat hann gat slegit; sá Finnbogi þat, at hann hafði ekki í hóli gilt í frásögn um sláttinn; sló hann bæði mikit ok vel; var taðan svá loðin, at eigi varð minna af at bera; sló Þorbjörn jafnan at tveim megin, ok þótti líkari atgangr hans trollum enn mönnum. Ok er hann hafði lokit heimatöðunni, spurði hann, hvat hann skyldi þá at hafast. Finnbogi bað hann fara þá á gerðit; kvað hann þat flestum mest við taka. Fór hann á gerðit, ok lét þar ganga

sem heima. Öllum þótti heldr ódælt við hann, enn við Finnboga var hann enn mjúkasti, ok aldri fann hann, at Þorbjörn mundi um svikræði sitja. Ok þess er getit einnhvern dag, at Finnbogi gekk á gerðit; fagnaði Þorbjörn honum vel; var þá slegin mjök taðan, ok töluðust þeir við um stund. Þá mælti Finnbogi: „Nú er enn sem fyrr, svá syfjar mik hér, at ek má víst eigi upp standa, ok víst sækir at nökkut, ok skal sofa". Þorbjörn mælti: „Gangit heim bóndi ok sofið þar". Finnbogi kastar sér niðr á légarðinn, ok kastar á sik feldinum, ok sofnar þegar, ok hrýtr fast. Þorbjörn sleggja berst um fast á gerðinu; hann gengr at brýna ljá sinn, ok er hann hefir slegit um stund, rennir hann augum þar sem Finnbogi lá ok þykist vita, at hann mun fast sofnaðr vera. Gerir hark nökkut ok vaknar hann eigi. Eftir þat tekr hann at slá með ákefð. Í annat sinn hvetr hann ljá sinn ok gerir enn hark nökkut, ok sefr Finnbogi. Hann ferr síðan ok slær. It þriðja sinn hvetr sleggja ljá sinn ok miklu mest; var léinn bæði mikill ok sterkr sem hinir beztu knífar. Þorbjörn þykist nú eigi þurfa betra færi; hefir ekki annat vápn enn ljáinn, sprettr nú upp ok at Finnboga, þar sem hann lá, ok ætlaði skjótt um at ráða. Ok í því hefr hann upp sitt verkfæri ok ætlaði at reka á honum miðjum. Þá hleypr Finnbogi upp ok þrífr um

orfit ok ætlaði at snara af honum, enn þat gekk eigi fyrr enn þeir skifta því með sér. Kasta þá brotunum ok rennast á. Verða þar harðar sviftingar. Skilr Finnbogi þat, at hann man hljóta at kosta afls í móti þessum. Er þeira atgangr bæði langr ok harðr, enn svá lyktast, at Þorbjörn fellr. Finnbogi spurði þá, hvárt eigi væri alt it trúasta um hans þarkvámu. Þorbjörn kvaðst ætlat hafa að eigi skyldi svá hafa um skift með þeim. Finnbogi mælti: „Skil ek at þetta munu annarra ráð fyrir öndverðu". Þorbjörn kvað svá vera, ok kvað Jökul hafa sendan sik ok heitit sér frændkonu sinni með miklu fé, — „ef ek kæmi fram ferðinni. Nú vil ek biðja lífsgriða fyrir þat sem ek hefir illa gert. Mun ek ok eigi leita oftar yðr at svíkja". Finnbogi segir: „Þó at þú sér mikill ok sterkr, þá óttumst ek þó ekki, at þú verðir mér at skaðamanni, ok mun annat fyrir liggja. Enn þar sem þeir vilja enn ekki afláta svikræðum við mik, þá er þat líkast, at umskifti verði með okkr eftir tilgerðum yðrum allra saman". Þorbjörn segir: „Ekki skal ok biðja lengr; má enn aldri vita, hverir fyrir griðum eiga at ráða". Hann tekr þá ok veitir umbrot svá mikil, at Finnbogi hugði þat at hann mundi upp komast undir honum, enn ekki var vápn til reiðu. Finnboga var ekki um at láta hann upp, bregðr feldarblaði sínu at barka honum ok bítr í sundr.

Snarar síðan höfuð hans ok brýtr á bak aftr, ok linast hann heldr við slíkar byxingar. Síðan leitar Finnbogi at tygilknífi, er hann hafði á hálsi sér, ok getr veitt honum þar með bana. Ok var bæði, at hann hafði unnit mikit, enda hafði hann sláttukaup mikit. Váttaði Finnbogi þat síðan, at honum þótti tvísýnt verit hafa, hversu fara mundi með þeim, ok þótti hann verit hafa it mesta trollmenni við at eiga. Er þat gerði síðan kallat Sleggjufall. Fréttist þetta skjótt víða, þar sem Þorbjörn var kunnigr. Þótti mönnum Finnboga þetta hafa auðnusamlega tekizt við slíkan heljarmann sem at eiga var. Unir Jökull illa við ok þykir mönnum hann því verra af fá sem þeir Finnbogi eigast fleira við. Líða nú stundir ok er alt kyrt ok tíðendalaust. Sitr Finnbogi nú í búi sínu með góðri virðingu. Gerðust nú synir hans ágætir. Var Þórir jafnan með Möðrvellingum frændum sínum.

41. Nú skal þar til taka, at maðr kom á Finnbogastaði til gistingar, sem oft kunni til at bera. Finnbogi spurði þenna mann at nafni, enn hann kvaðst Vermundr heita, austfirzkr maðr at ætt. Kvað föður sinn þar búa. Þessi maðr var ekki mikill vexti, kviklegr ok skjótlegr. Hann bað Finnboga viðtöku, kvaðst vera sekr maðr ok kvað Brand hinn örva Vermundarson hafa sektan sik fyrir þat er hann veitti

manni áverka honum skyldum, — „enn ek á nú hvergi traust eða halds ván“. Enn Finnbogi kvaðst lítit gerast um hlaupandi menn ok þóttist illa á brendr lygðum þeira, — „enn þó heyrða ek getit þessa á sumri, at maðrinn hafði sekr vorðit; er Brandr ágætr maðr ok vinsæll, ok man þykja sér misboðit í, ef þú ert haldinn“. Þessi maðr sótti mjök eftir ok bað sér líknar ok ásjá, ok kvað marga sér þangat hafa vísat, enn kvaðst lítt at tekinn, ef engi hjálpaði honum. Finnboga þótti lítilmannlegt at synja honum, enn leizt maðr ekki geigvænlegr, þó at hann lygi, ok bað hann dveljast þar nökkurn tíma, ef hann vildi; kvaðst ætla, at Brandr mundi taka fé fyrir manninn, ok mundi eigi með kappi sækja er maðr var ekki mikilsháttar. Varð hann þessu feginn ok var hægr ok fylgjusamr Finnboga. Líðr sumarit ok mjök á vetrinn ok gerði færðir góðar. Fréttir Brandr þetta, at Finnbogi hefir tekit við manninum, ok sendir þegar menn á fund hans ok bað hann lausan láta manninn ok halda eigi með kappi fyrir sér; kvaðst vilja góðu við hann skifta ok upp gefa sakarstaðinn þann sem til heyrir, ef Finnbogi gerði þetta eftir hans bæn. Finnbogi kvaðst eigi nenna at láta hann lausan á vetrardegi; kvaðst vilja bjóða fé fyrir manninn, svá at Brandr þættist vel sæmdr af, ok kvað þá vel semja mundu þá er þeir fyndist. Fara nú

sendimenn aftr með þessum erendum, ok verðr Brandr stórlega reiðr, ok lét þau orð um fara, at Finnboga skyldi eigi duga at halda þann mann, er hann vildi sækja. Var hann hinn bráðasti ok kappsmaðr mikill, þegar honum þótti móti sér gert; kvað þá svá finnast skyldu, at Finnboga þætti þessu ver ráðit. Finnbogi lét sem hann vissi eigi, þó at hann heyrði slíkt talat, ok gerði enga breytni á háttum sínum. Líðr af vetrinn ok mjök svá sumarit, ok sitr Finnbogi um kyrt. Hann hafði jafnan mannmart með sér, ok lét flesta nökkut stunda. Lét mjök sækja sjóinn. Var þat auðvelt, því at skamt þurfti undan at róa. Þat var einn dag um haustit, at menn váru allir í brott af bænum, sumir á sjó, enn sumir til annarra nauðsynja. Finnbogi var heima ok Vermundr hjá honum ok ekki fleira karla. Þá mælti Finnbogi: „Svá er mér þungt í dag sem þá jafnan er at sækir nökkut, ok skal nú sofa í dag“. Vermundr mælti: „Svá segir mér hugr um sem Brandr muni eigi ljúga stefnuna, ok mun honum eigi ór minni munat, hvar ek em niðr kominn, ok er þat ilt, bóndi, ef þér komið í nökkura hættu fyrir mínar sakir“. Finnbogi kvað ekki þat vera mundu; kastar hann sér niðr ok sefr þegar. Þar var ekki langt mjök meðal fjalls ok fjöru; vóru þar hjallar þrír upp gegnt bænum, ok mátti þar einum megin at

ríða. Vermundr gekk út ok sást um. Hann sá upp á enn efsta hjallann, at annathvárt var hvirfilvindr, ella riðu menn mjök margir saman. Hann gekk þá inn ok gerði nökkut glamm ok vaknaði Finnbogi og spurði hvat hann vildi. Hann sagði hvat hann hafði sét. Finnbogi bað hann at hyggja, ok kvaðst sofa verða enn. Vermundr gekk út ok inn ok sá þá mannareiðina. Váru þeir þá komnir á miðhjallann. Hann gekk þá inn ok sagði Finnboga mannareiðina. Hann kvað þat vel vera mega, — „er hingat jafnan mikil ferð á haustum at skreiðarkaupum. Ok er nú ván þeira sem mest, enda má ek ekki annat enn sofa sem mik lystir“. Vermundr gekk brott, ok var úti um stund, kom inn ok sagði Finnboga, at þeir váru þá komnir á enn neðsta hjallann, — „ok ek kenda Brand enn örva Vermundarson með hálfan þriðja tög manna vel búna at vápnum; hefir þú vel ok stórmannlega mér veitt, sem guð þakki þér. Nú em ek lítils verðr hjá yðru sundrþykki. Vil ek miklu heldr ganga á vald Brands; er hann drengr góðr ok mun honum nökkurn veg vel fara; enn hann er enn mesti kappsmaðr þegar er þrályndir menn eru í móti“. Finnbogi segir: „Ekki munu vit hvata at því at gefast upp fyrir Brandi; munu vér áðr hafast orð við ok mun Brandr þiggja sæmileg boð, enn ef hann vill eigi þat, þá er slíkt sjáanda, enn ek er nú

fullsvefta ok skal eigi liggja lengr". Sprettr upp ok tekr vápn sín ok þeir báðir ok ganga út ok upp at brekkunum. Var þar gil mikit ok kambr at ofanverðu ok mátti einum megin at sækja. Gengu þeir Finnbogi þar á upp. Þeir Brandr sá mennina er heiman gengu ok þóttust þegar vita, at Finnbogi mundi vera, er bæði var mikill ok sterklegr, ok víkja þegar eftir þessum mönnum. Kvaðst Brandr ætla, at auðveldleg mundi verða þeira ferð. Hallfríðr hafði heyrt viðtal þeira Finnboga áðr þeir gengu heiman, ok sendi hon pilt á næstu bæi, at biðja menn þangat koma; svá ok mátti heyra kall á skipin; bað hon segja, at Finnbogi mundi manna við þurfa. Svá er sagt, áðr þeir koma, at Finnbogi hafði leyst upp steina nökkura, ok er Brandr kom at, fagnaði Finnbogi honum harðla vel. Brandr tók kveðju hans. Finnbogi spurði at erendum. Brandr kvað honum þau áðr kunnig vera; kvaðst sækja mann þann, er hann hafði sektan, enn kvað Finnboga hafa haldið með kappi móti sér; kvaðst nú ætla eftir at leita, þó at hann vildi halda, — „enn með því, Finnbogi, at þú ert ágætr maðr fyrir margra hluta sakir, þá vil ek bjóða þér nú sem í fyrstu, at þú látir manninn lausan ok nú í mitt vald. Man ek þá ekki kæra við þik um bjargir við hann, heldr heita þér minni vináttu ok liði, ef þú kant þurfa". Finnbogi segir: „Þetta er boðit

vel ok drengilega, sem ván er at þér, enn þar sem ek lét hann eigi lausan í fyrstu er yðr orð kómu til, þá vil ek þessu skjótt neita. Vil ek bjóða nú sem þá, at gjalda fé fyrir mann þenna ok þat umfram, at þú ráð sjálfr féskuldinni; nenni ek eigi fyrir metnaði, með því er hann hefir áðr verit með mér, at skilja nú ódrengilega við hann; man yðr ekki svá mikil slægja at drepa mann þenna, þó at þér fýsist þess“. Brandr segir, kvað mann ekki mikils háttar, — „enn með því at vér höfum riðit heiman alt hegat til þín þessa erendis, enn maðr mjök kominn á várt vald, er þat vænst, Finnbogi, er þú leggr mikit kapp á við þenna mann, er þér dragi þetta til dauða; man þá eigi þykja ekki várt erindi, er vér leggjum þik við velli“. Finnbogi kvaðst ekki þat óttast, — „er þat ráð mitt, Brandr, at þú gangir eigi fyrstr til atsóknar í móti mér; lát heldr menn þína í frammi, meðan húskarlar mínir vinnast til“. „Hvat húskörlum er þat?“ segir Brandr. „Sé ek ekki fleiri menn enn ykkr tvá þar upp standa“. Finnbogi segir: „Eru hér þó húskarlar mínir aðrir sex, ekki óknálegir, ok eru samnafnar mikl-ir, því at steinar heita allir. Nú láttu í móti þeim jammarga þína húskarla, ok vitum hvárir þar láti undan öðrum“. Brandr segir, kvaðst ekki mundu bleyðast fyrir því, þó at hann hótaði þeim grjóti. Er svá sagt, at til varð einn

af fylgdarmönnum Brands ok rann upp at þeim nöfnum, eða eigi síðr at Finnboga með fagran skjöld ok spjót ok ætlaði að leggja til Finnboga. Hann tekr við einum steini. Þessi maðr var sterkr, ok ætlaði at bera frá sér skjöld inn, enn húskarl Finnboga var skjótleikinn ok fór at snarpt; getr hann eigi staðizt atfarar hans ok fellr á bak aftr ok tumbar ofan í gilit ok fekk sá þegar bana. Finnbogi spurði Brand, hversu farit hefði með þessum. Brandr kvað sinn mann hafa ekki gott af fengit.

42. Svá er sagt, at Finnbogi lét þá fara húskarla sína sex ok hafði hverr mann fyrir sik. Finnbogi spurði þá Brand, hversu honum þætti at fara. Brandr kvað eigi mjök lasta þurfa. Finnbogi kvaðst vilja bjóða honum hin sömu boð sem fyrr, ok skildi þeir. Brandr kvað hann enn ekki óttast þurfa, ok kvað hann koma í meiri raun mundu um þat er þeir skildi. Finnbogi kvað eigi þat til bera, at hann óttaðist. Brandr bað menn sína fara kænlega ok ganga upp fleiri jafnfram ok sækja at skarplegar ok kvað þat skömm, at jafnmargir menn skyldu lengi þurfa at sækja tvá eina menn. Finnbogi brá þá sverði ok varðist vel ok drengilega; varð hann nökkut skeinusamari enn þeir hugðu til, ok er þeir höfðu barizt um hríð, þá mælti Finnbogi: „Menn fara þar neðan frá sjánum eigi

allfáir, vápnaðir, ok ganga snúðigt; er þat ætlan mín, at þessir menn muni ætla til liðveizlu við mik, enn í móti yðr, Brandr, ok er þá sem berr at, hvárir drjúgari verða". Brandr kvaðst aldri hirða um fiskifýlur hans, hvárt væri fleiri eða færi. Þá mælti Finnbogi: „Menn ríða þar enn, ok ei(gi) allfáir saman, innan með sjánum, ok heldr geyst; man þat enn vera af várum mönnum. Nú er þat bæn mín ok boð við þik, Brandr, at þú þiggir þann kost, sem ek hefir boðit; vil ek selja þér sjálfdæmi ok ráð einn sætt þann veg sem þér bezt þykir; er þat ætlan mín um þá suma, er þar eru í ferð, at ærit fari geystir, ef vér erum eigi áðr sáttir". Brandr leit til ok sá at öllum megin dreif lið at með geysingi; sumir hleyptu, enn sumir runnu, slíkt hverr sem mátti. Þá mælti Brandr: „Aldri hirði ek um fjörudýr yður, hvar þau fara, enn eigi ætla ek þetta spara þurfa, at vér ráðim einir; man þat mælt, at várt erendi verðr þó gott, ef vér tökum sjálfdæmi af þvílíkum manni sem þú ert, Finnbogi". Hann kvaðst þat gjarna vilja, ok bað hann þó hafa þökk fyrir; gekk þegar í mót honum ok tókust í hendr ok sættust at þeira manna vitni, er hjá váru. Var þat mjök jafnskjótt, at þeir höfðu fyrir skilit ok liðit dreif at. Váru þar synir Finnboga ok margir aðrir vinir ok frændr; váru þeir þegar svo ákafir, at þeir vildu veita Brandi atgöngu

ok drepa alla. Finnbogi gekk þá í milli ok sagði, at þeir váru sáttir; bað þá eigi veita sér ólið í sinni tilkvámu. Var svá með umtali Finnboga, at þeir sefuðust. Finnbogi bauð Brandi þá til sín ok þat þá hann; sátu þeir þar nær viku glaðir ok kátir; veitti Finnbogi þeim stórmannlega, ok eftir þat bjóst Brandr í brott. Finnbogi spurði þá Vermund, hvárt hann vildi heldr vera eftir eða fara með Brandi. Vermundr kvaðst heim fýsast — „er Brandr svá góðr drengr, at ek man vel kominn í hans föruneyti heðan af; hefir yðr stórlega vel til mín farit ok höfðinglega, sem guð þakki yðr. Býst hann þá til ferðar með Brandi. Finnbogi mælti þá til Brands: „Nær vili þér lúka upp gerð með oss?“ Hann segir: „Þat vil ek gera á þingi í sumar; þykir mér þat metnaðarsamlegust. at segja þar upp sætt okkrar“. Finnbogi bað hann fyrir ráða. Skilja þeir með blíðu. Ríðr Brandr heim í Austfjörðu ok fór Vermundr með honum; líðr af vetrinn ok um sumarit ríða menn til þings fjölment. Koma þar Vatnsdælar, Þorsteinn ok Jökull, ok þeir allir bræðr Ingimundar synir. Þar kom Brandr enn örvi ok Finnbogi enn rammi ok Eyjólfr halti mágr hans ok mart annat stórmenni. Þat var einn dag, at þeir Brandr ok Finnbogi fundust ok kvöddust blíðlega; spurði Brandr um málaferli þeira Vatnsdæla. Finnbogi kvað kyrt alt ok ákæru-

laust. Brandr bauð Finnboga at leita um sættir með þeim ok kvað þá fullkomna sína vini. Finnbogi kvaðst þat þiggja vilja, ok einn dag ganga þeir Brandr ok Finnbogi ok Eyjólfr með mikla sveit manna til búðar þeira Vatnsdæla. Fagnaði Þorsteinn þeim harðla vel ok tóku tal sín á milli. Hóf Brandr þegar þetta mál við Þorstein ok bað þá sættast við Finnboga ok kvað Jökul ekki hóf at kunna um áleitni við slíka menn. Brandr flutti bæði vel ok skörulega; keeðst þeim fylgja vilja er sættast vildi, enn þeim mótsnúinn, er í móti mælti, ok bauð sik til umdæmis með þeim. Jökull var tregr til, enn þó við umtal Brands ok þá miklu vináttu er með þeim var ok áeggjan bræðra sinna — enn þó þóttist hann ilt hafa af beðit í þeira skiftum, enn var ofbeldismaðr mikill ok fullhugi, — þá lyktast þó með því at þeir sættust heilum sáttuum. Skyldi Brandr þar einn skera ok skapa þeira í millum; gerði Brandr féskuld nökkura á hendr þeim bræðrum ok guldu skjótt ok rösklega. Er svá sagt, at síðan hafi þeir haldit vináttu sinni ok skiftust þeir Jökull ok Finnbogi gjöfum við. Finnbogi mælti þá til Brands — kvað hann þá eigi fresta þurfa lengr at lúka um gerð þeira í millum; kvaðst þat eigi vilja undan draga eða seinka lengr. Brandr segir þá: „Þó at þú sér vitr maðr, Finnbogi, þá þykist ek þar sjá sumt er þú sér alt; eigi

var ek svá heimskr, at ek sæi eigi at ek var fanginn ok allir mínir menn, þá er lið sótti at oss öllum megin með ákefð, þar sem oss gekk áðr illa við þik einn, ok líkara, at vér hefðim eigi sigrazt; var þat meir af ákefð minni ok ofbeldi, heldr enn ek sæi eigi hvar komit var eða hversu fara myndi. Nú ætla ek at eigi skal svá mikill munr með okkr, at ek geri fé af þér fyrir þat er þú gaft mér líf ok mínum mönnum; þóttist ek meira verðr ok þeir allir enn einn lítilsháttar maðr, þó at ek vildi fyrir metnaðar sakir hafa sæmd af málum við yðr. Nú man ek eigi minna launa lífgjöfina, enn heita þér fullkominni minni vináttu ok málafylgd við hvern sem þú átt, eða þínir synir, ok skal okkra vináttu aldri skilja, meðan við erum báðir uppi. Finnbogi þakkaði honum sína fylgd ok öll sín ummæli með fögrum orðum. Hann gaf Brandi gripi þá sem honum hafði gefit Jón Grikklands konungr. Var þat hringr, skjöldr ok sverð. Þakkaði Brandr honum stórlega vel ok skiljast þeir þá allir með hinum mesta kærleik ok blíðu.

43. Þeir Ingimundar synir buðu Finnboga at fara vestan ór víkinni ok kaupa aftr landit at Borg í Víðidal, enn hann vildi þat eigi; kvaðst honum þar þykja harðla gott; reið hann með flokk sinn á Finnbogastaði ok sat um kyrt, ok þótti enn hafa vaxit mjök af þessum málum

öllum saman. Finnbogi varð gamall maðr ok þykir verit hafa enn mesti ágætismaðr bæði á afl ok vöxt ok alla kurteisi; kemr hann ok við margar sögur ok þykir verit hafa hinn frægasti ok hinn ágætasti; hefir ok mörg stórvirki ok þrekvirki unnit, þó at hér sé fátt frá sagt. Er svá sagt, at hann bjó þar til elli ok varð sóttdauðr, ok liggr at þeiri sömu kirkju, er hann lét gera, ok svá Hallfríðr kona hans, enn synir þeira urðu allir ágætir menn ok sigldu milli landa, ok eru margar sögur frá hverjum þeirra. Váru þeir vel teknir með ríkum mönnum, hvar sem þeir kómu, ok þóttu vera af gildum ættum. Gunnbjörn Finnbogason kom aldri síðan til Íslands; gerðist hann ríkr maðr í Noregi, ok er þar mikil ætt frá honum komin. Finnbogi unni Bergi mest sona sinna; var þat af ást þeiri er hann hafði við Berg hinn rakka frænda sinn. Bjó hann eftir föður sinn á Finnbogastöðum ok þótti hann þaðra í sveitum gildastr bóndi ok formaðr annarra manna, enn bræðr hans aðrir váru mjök í förum, þar til er þeir staðfestu ráð sitt ok þóttu allir mikilhæfir menn. Ok lýk ek þar Finnboga sǫgu.



# Nöfn.

# Samtal.

II

*Ari:* Sæll vertu nú, Jón minn. Nú er jeg byrjaður á að kaupa Íslendinga sögurnar, eins og jeg var að ráðgera um daginn. Jeg skilaði nú Stefáni á Hrauni í gær Kormákssögu, sem hann hafði lánað mjer fyrir skömmu, og sagði honum um leið, að jeg myndi ekki biðja hann optar að lána mjer Íslendinga sögurnar, og þótti honum víst vænt um það.

*Jón:* Var það ekki náttúrlegt. Jeg lái Stefáni það engan veginn, þótt hann sje ekki viljugur á að lána bækur sínar Pjetri og Páli. Það er víst enginn greiði jafn-illa endurgoldinn í orði eða verki sem sá, að lána mönnum bækur til að lesa. Viðurkenningin er vanalega innifalin í því, að bækurnar eru skemmdar eða þeim er jafnvel algjörlega glatað fyrir eigendunum. Jeg hefi þekkt menn, sem ekki hafa látið sjer nægja að fá sjálfir bækurnar að láni, heldur hafa lánað þær enn öðrum út frá sjer, og þá getur nú stundum orðið erfitt að finna leiðina til eigandans með þær aptur.

*Ari:* Jú, þetta er hverju orði sannara. En jeg hefi aldrei skemmt neina bók fyrir Stefáni — aðrir hafa ekki lánað mjer bækur til að lesa — enda hefir hann aldrei kvartað yfir því; en hann vill bara ekki lána nokkrum manni nokkra bók, og á hann þó mikið til af þeim.

*Jón:* Alveg rjett. Það er auðsjeð að hann metur bækurnar sem dýrmæta eign og þykir vænt um þær, enda eru góðar bækur meira virði en margur ætlar.

*Ari:* Mikið satt. Þær skemta manni marga stundina, og margan fróðleik fær maður úr þeim. Það eru mínar beztu ánægjustundir þegar jeg les einhverja skemtilega bók; en einna mest gaman þykir mjer þó að fornsögunum okkar, kunningi, og öllum þeim ritum, er snerta sögu landsins.

*Jón:* Fallega sagt. Það ætti að vera heilög skylda hvers manns að þekkja sögu ættjarðarinnar.

Verð: 45 aur.

Íslendinga sögur.

19.

# Víga-Glúms saga.

Búið hefir til prentunar
Valdimar Ásmundarson.

Reykjavík.

Kostnaðarmaður: Sigurður Kristjánsson.

1897.

# VÍGA-GLÚMS SAGA.

BÚIÐ HEFIR TIL PRENTUNAR

VALD. ÁSMUNDARSON.



REYKJAVÍK.

STNAÐARMAÐUR: *SIGURÐUR KRISTJÁNSSON.*

1897.

# FORMÁLI.

Víga-Glúms saga hefir verið gefin út fjórum sinnum áðr. Fyrsta útgáfan er prentuð á Hólum 1756, og er nafn hennar: „Agiætar Formana Sögur. Eru aa þrick wtgeingnar ad Forlagi Hr. Vice-Lögmanssens Biörns Marcussonar". Í annað sinn er sagan gefin út á íslenzku og latínu með orðskýringum og heitir: „Víga-Glúms saga, sive vita Viga-Glumi. Havniæ 1786". Skýringarnar eru eftir Guðmund Pétrsson sýslumann († 1817). Í þriðja sinni er sagan út gefin í öðru bindi af Íslendingasögum, Khöfn 1830. Síðast er saga þessi gefin út í ‚Íslenzkum fornsögum' I ásamt Ljósvetninga sögu, Khöfn 1880, og hefir Guðmundr Þorláksson búið þá útgáfu til prentunar.

Eftir þessari síðustu útgáfu er sagan hér prentuð, og eru þar að kalla engar breytingar gerðar, nema í vísunum, svo sem tekið er fram í skýringum þeirra.

Sagan er gefin út eftir Möðruvallabók, 132 fol. í safni Árna Magnússonar, sem oft er getið. Guðmundr Þorláksson hefir fyrstr gefið handriti þessu þetta nafn, og hefir dr. Kålund tekið það upp í handritaskrá Árnasafns og kent á sama hátt mörg skinnhandrit við átthaga sína. Hóla útgáfan af Glúms sögu hefir verið prentuð eftir handriti, sem hefir verið nokkuð frábrugðið þeim handrit-

um, sem nú eru til af sögunni, og merkilegt að ýmsu. Sannar það meðal annars, að fram á 18. öld hafa geymzt hér á landi afskriftir af góðum handritum fornrita, og er því ekki þýðingarlaust, að gefa gætur að pappírshandritum, sem eru í söfnum hér á landi, eða í eign einstakra manna, þó þau sé ekki eldri enn frá 17. eða 18. öld, enda verða ýms merk fornrit eigi gefin út nema eftir handritum frá 17. öld, eða ætli þau sé nokkuð mætari fyrir það, þó þau séu geymd í Kaupmannahöfn, enn handrit frá sama tíma, sem geymd eru hér á landi?

Brot úr Glúms sögu, eftir skinnblöðum úr handritum frá c. 1400, eru prentuð aftan við útgáfu Bókmentafélagsins, enn ekki þótti eiga við að prenta þau hér, af því að safn þetta er eingöngu ætlað alþýðu, og er að eins textaútgáfur. Það er líka lítill munr á brotunum og textanum. — Enn vert hefði verið að athuga handrit þau af Glúms sögu, sem eru í handritasöfnum hér, enn það hefir heldr ekki verið gert.

Stafsetningin er hér sú reglufasta stafsetning, sem fylgt hefir verið í safni þessu; út af henni bregð ég að eins til að sýna einstakar einkennilegar orðmyndir. Í útgáfu Bókmentafélagsins er hvorki fylgt stafsetningu skinnbókarinnar, né reglufastri stafsetningu, heldr „farið bil beggja“, sem útgef. segir, og virðist sú meðferð ekki vísindalegri enn sú sem hér er fylgt.

Sagan er talin færð í letr um 1300 eða snemma á 14. öld.

Vísurnar hafa verið mjög aflagaðar, og hafa þær lítt verið skýrðar. Einstakar vísur eða vísuhelminga hefir

Konráð Gíslason fengizt lítið eitt við, enn Jón rektor Þorkelsson hefir gert meira að vísunum, sem sjá má af skýringum þeim sem prentaðar eru hér aftan við, þar sem getið er um lagfæringar og skýringar Jóns Þorkelssonar. Útgáfu Bókmentafélagsins fylgja engar skýringar. Hér er því í fyrsta sinni tilraun gerð til að skýra allar vísurnar í víga-Glúms sögu, svo að nokkurs sé vert, því að þótt vísurnar séu þýddar á latínu og orðskýringar fylgi í útgáfunni frá 1786, er lítið á því að græða.

Víga-Glúms saga er ein af hinum merkustu Íslendinga sögum, bæði af því að hún er vel rituð og forn að máli, og vísurnar upphaflegar, og af því að hún segir frá merkustu höfðingjum norðanlands á þeim tíma, er sagan gerist mest á (síðari hlut 10. aldar). Víga-Glúmr hefir verið einhver mestr höfðingi fyrir norðan land, vitr maðr og skáld, enda var hann stórættaðr, þremenningr við Óláf konung Tryggvason og Gizur hvíta. Afi hans Vigfúss hersir, Böðvars son, víkinga-Kára sonar, Sigurðar sonar bjóðaskalla, Hunda-Steinars sonar jarls.

Í víga-Glúms sögu 5. kap. er rakið öðruvísi. Þar stendr: Böðvarr hét maðr. Hann var son víkinga-Kára, ok bróðir Sigurðar, föður Vigfúss o. s. frv., sem líklega er misritað fyrir: Víkinga-Kára, *sonar* Sigurðar bjóðaskalla.

Svo segir í sögu víga-Glúms, að Glúmr hafi tuttugu vetr verið mestr höfðingi í Eyjafirði, enn aðra tuttugu svo, að engir komust til jafns við hann, og kemr þetta vel heim við vísu Glúms:

Máligr munat sælu

menbrjótandi hljóta
. . . . . . . . .
. . . . . . . .
þás . . . . . fjóra
fullkátir vér sátum
. . . . . . . . . . .
. . . . . tego vetra.

Hér segir Glúmr, að hann hafi unað vel hag sínum tjóra tigu vetra, hvort sem það á svo að skiljast, að hann hafi búið á Þverá allan þann tíma eða eigi. Sennilegast er það, sem Guðbr. Vigfússon ætlar, að Guðbrandr hafi eigi búið full 40 ár að Þverá, enn yfir 30 ár virðist hann hafa búið þar. Má því segja, að þetta komi alt vel heim við vísuna, sem á að vera ort þá er skriða hljóp á bæ Glúms í Myrkárdal, sex vetrum síðar enn hann flutti frá Þverá.

Víga-Glúmr kemr við ýmsar sögur; auk þess sem hans er getið í Landnámu, kemr hann við Reykdælu og Valla-Ljóts sögu; hans er og getið í Kristni sögu og er hann þar talinn með höfðingjum norðanlands 981.

Vigfúsar víga-Glúmssonar er og víða getið í sögum. Hann varð snemma farmaðr, og segir svo í broti því af víga-Glúms sögu úr Vatnsbyrnu, sem prentað er aftan við útgáfu Bókmentafél. af Glúms sögu (Ísl. forns. I 103) að hann „var hirðmaðr Hákonar jarls ok Eireks sonar hans ok enn kærsti vin“. Vigfúss var í Jómsvíkingabardaga; hann var og með Eiríki jarli í Svoldrarorrustu. Skömmu síðar virðist hann hafa farið til Íslands, um það leyti sem faðir hans dó eða litlu fyr, því hans er getið í mál-

um þeirra Guðmundar ríka og Þóris Helgasonar (1004 eða 1005). Er svo að sjá, að þeir Guðmundr ríki hafi verið vinir, því að Guðmundr segir við hann: „Slíka menn getr varla til vitrleiks sem þú ert, þótt menn eigi margra góðra kosti“ (Ljósvetn. 17. kap.). Ef til vill hefir Vigfúss ekki komið út fyr enn faðir hans var dáinn 1003. — Síðan fara engar sögur af Vigfúsi, enn hann staðfestist á Íslandi og hét sonr hans Bergr og er mikil ætt frá honum komin; rekr Haukr lögmaðr ætt sína til hans. — Vigfúss var skáld, og hefir ort drápu um Hákon jarl, enn af henni er ekki til nema ef til vill ein vísa.

Víga-Glúms sögu og Landnámu ber ekki saman um deilur þeirra Einars Þveræings og Glúms, eftir er hann er kominn að Þverbrekku. Um þetta atriði hefir séra Eggert Ó. Brím ritað fróðlega ritgerð: „Víg Gríms á Kálfsskinni eða Þorvalds í Haga“ í Tr. III 160—112, og hefir hann þar mjög skilmerkilega leyst úr þessari flækju. Hann telr frásögn víga-Glúmssögu að öllu réttari að öðru enn því, að höf. hennar hefir ruglazt í mannanöfnum, enn höf. Landnámu hefir kunnað betr ættirnar. Að öðru leyti vísa ég þeim til ritgerðarinnar sjálfrar, sem vilja kynna sér það efni betr.

Í staðlegum greinum virðist víga-Glúms saga vera mjög áreiðanleg, og lifa enn flest þau örnefni, sem sagan greinir. Má að ýmsu leyti telja hana með hinum beztu Íslendingasögum.

## TÍMATAL.

| | |
|---|---|
| Fæddr Ingjaldr Helga son ens magra | um 860. |
| Ingjaldr Helgason deyr . . . . . . | — 900. |
| Utanför Eyjólfs Ingjaldssonar . . . | — 925. |
| Útkoma Eyjólfs . . . . . . . . . | — 930. |
| Fæddr víga-Glúmr . . . . . . . . | — 935. |
| Eyjólfr deyr . . . . . . . . . . | fyrir 950. |
| Utanför Glúms . . . . . . . . . | um 950. |
| Glúmr kemr út vegr Sigmund og reisir bú að Þverá . . . . . . | — 951. |
| Víg Steinólfs . . . . . . . . . | — 982. |
| Fæddr Þorvaldr tasaldi . . . . . | — 980. |
| Bardagi á Hrísateigi . . . . . . | — 983. |
| Glúmr flytr frá Þverá . . . . . . | — 986. |
| Glúmr flytr af Möðruvöllum . . . . | — 987. |
| Glúmr býr í Myrkárdal . . . | um 987—98. |
| Glúmr fer að Þverbrekku . . . . | um 990. |
| Víga-Glúmr deyr . . . . . . . . | — 1003. |
| | eftir annari sögn: um 1025—30. |



# Víga-Glúms saga.

Ingjaldr hét maðr, son Helga hins magra. Hann bjó at Þverá í Eyjafirði. Hann var forn goðorðsmaðr ok höfðingi mikill, ok þá aldraðr mjök er sagan gerðist. Hann var kvángaðr maðr ok átti tvá sonu, Steinólf ok Eyjólf. Þeir váru menn vel mannaðir ok váru báðir fríðir sýnum. Ingjaldr var einlyndr ok fálátr, ódæll ok fasttækr. Hann lagði lítinn hug á kaupmenn; vildi ekki yfir sér hafa þeira ofsa, ok ef hann girnist af kaupmönnum nökkut at hafa, þá sendi hann aðra menn til, enn fór eigi sjálfr. — Skip kom enn eitt sumar í Eyjafjörð. Hreiðarr hét stýrimaðr, ættstórr; hann átti bú á Vors í Noregi, manna vaskastr ok vinsælastr. Eyjólfr Ingjaldsson var oft við skip um sumarit, ok áttu þeir Hreiðarr mart saman í vinfengi. Hreiðarr sagði honum, at hann vildi hér vistast um vetrinn; kveðst vera fúsastr til Ingjalds at frásögn annarra manna. Eyjólfr segir föður sinn ekki hafa þat í vanda lagt, enn þó lézt hann mundu um sýsla. Ok er hann kemr heim,

ræddi hann um við föður sinn, at hann skyldi taka við stýrimanninum, ok kvað ætla góðan dreng vera ok mikils verðan, ok tjáði málit fyrir honum vel um stýrimanninn. Ingjaldr svarar: „Ef þú hefir boðit honum áðr, hvat man þá tjá við at mæla? mun ek þá hljóta fé at kosta, enn þú munt hafa starf fyrir“ — ok lézt aldri útlendan mann með sér haft hafa, ok lézt enn ófúss vera. Þá segir Eyjólfr: „Eigi er enn við honum tekið utan þitt ráð; enn þat er ok bæði, at ek hefir lítt til ráða hlutazt, ok vill þú at ek ráða litlu, ef sá maðr skal hér eigi vist hafa, er ek hefi hegat boðit“. Ingjaldr svarar: Nú skaltu ok ráða þessu sem þú vill, at stýrimaðr fari hegat við annan mann, ok vil ek ekki á leggja við hann fyrir þínar sakir, enn þú skalt hafa allan starfa fyrir þeim, enn ek mun kostnað fram leggja“. Hann svarar: „Þetta líkar mér vel at svá sé“. Ferr hann annan dag ok hittir Hreiðar ok segir honum málavöxt. Hann lætr vel yfir; er hann þagat fluttr með varning sinn. Ok er þeir höfðu verit eigi lengi, þá varð Hreiðarr varr við, at þar skyldi vera jólaveizla fjölmenn. Ingjaldr var fár við hann ok þó vel. — Einn dag kallar Hreiðarr Ingjald í útibúr, þar sem varningr hans var inni, ok hann gerir svá. Þá mælti Hreiðarr ok bað hann velja af varninginum þat er hann vildi. Ingjaldr lézt engis girnast fjár hans, enn kallar honum vel

fara. Hreiðarr svarar: „Ek hefi þó hugleitt nökkut, hvat þú þarft af oss at þiggja. Ek hefi komit á nökkura bæi hér í Eyjafirði, þá er beztir eru, ok sé ek engi herbergi slík sem hér. Enn skálabúnað hefir þú eigi svá góðan, at eigi sé þvílíkr á öðrum bæjum". Hann tók ór sínum hirzlum svá góðan skálabúnað — ok gaf Ingjaldi — sem engi hafði betri áðr komit hegat til Íslands. Ingjaldr þakkaði honum vel ok var nú allgott vinfengi þeira í millum. Síðan um vetrinn segir Eyjólfr, at hann vill utan fara með Hreiðari um várit. Hann svaraði því óbrátt. Eyjólfr segir: „Hví viltu eigi flytja mik? líkar þér eigi vel við mik?" „Allvel", segir hann, „enn lítil munu föður þínum þykja vistarlaun mín — enn eigi mun ek honum illu launa — at flytja son hans á brott, er honum er hverr sómi at. Enn ef faðir þinn lofar, þá flyt ek þik gjarna á brott, ok kann ek þökk mikla at þú farir þá". Nú bjuggu kaupmenn ferð sína. Ok er þeir vóru búnir, leitar Eyjólfr eftir um utanferð sína við Hreiðar. Hann sagði honum sinn vilja, lézt ekki vilja gera í móti föður hans um hans utanferð. Síðan segir hann föður sínum farfýsi sína, ok svá hversu farit hefði með þeim Hreiðari. Ingjaldr segir, at fáir drengir munu slíkir sem Hreiðarr — „ok með þessi þinni meðferð ok at reyndum *hans* drengskap

1*

leyfi ek þér ferðina, ok þykja betr at þú farir með honum enn með öðrum".

2. Síðan fóru þeir utan ok kómu við Noreg. Hreiðarr bauð Eyjólfi marga kosti um vistartekjur, enn hann vildi eigi þiggja þat er hann bauð. Hreiðarr mælti: „Hvat viltu þá þinna ráða?" Hann svarar: „Eigi veit ek". Þá segir Hreiðarr: „Girnist þú ekki til konunga eða annarra höfðingja? er þér heimill várr tilbeini" — þá var Hákon Aðalsteinsfóstri *yfir Noregi.* — „sýnist mér slíkum höfðingjum gott at þjóna yður stórum mönnum ok líklegum til góðrar fylgdar". Hann svarar: „Vanfærr em ek at fylgja konungum, enn þó kann vera, at þat gangist eftir mínum vilja; enn þó neita ek því". Hann spyrr: „Hvat viltu þá?" „Hví dregr þú undan at bjóða mér til þín, því at þat vil ek?" „Lítill hugr er mér á því", segir Hreiðarr. Eyjólfr spyrr: „Hví sætir þat?" „Ek nenni eigi at veita þat, sem þér er eigi gott at þiggja, þar er mér þykir þú góðs eins verðr frá mér". „Forvitni er mér á, hví þat sætir". „Þat muntu nú vita verða—þó samir mér illa frá at segja. Bróður á ek mér, er Ívarr heitir. Vit eigum bú báðir saman ok allan fjárhlut ok unnumst vit mikit; enn vit erum þó eigi skaplíkir um þat, at honum þykja illir íslenzkir menn, svá at þeim er eigi vært þar; enn hann er í víkingu hvert sumar. Enn þá er hann kemr heim,

ferr hann með tíunda mann eða tólfta til mín, ok skulu allir þeim þjóna, þeir er fyrir eru, ok munu þeir allir til þín vera svá illa, at þar er þér at engum kosti vært". Hann svarar: „Forvitni er mér á, hversu þeir láta, ok ertu saklauss, ef þú lætr uppi vistina". Hreiðarr svarar: „Mér er vant við bróður minn, er mér færir gjafar þær, sem hann færir mér, ok hann fær beztar til, at eigi skyli okkr á um þik; enn mér mun þungt þykja, ef þeir gumsa þik ok spotta". „Mjök viltu þat undan draga", segir Eyjólfr, „at ek fara til þín, eða hvernig mun hann við mik vera? eigi mun hann berja á mér?" Hreiðarr svarar: „Bardaga verra mun þat; hann hefir marga vandamenn með sér; alt þat er þú mælir eða gerir munu þeir afleiðis færa fyrir þér" Eyjólfr segir: „Engi skapraun er þat, ef maðr veit nökkut af áðr; er þat óvizka at bera eigi slíkt, ok mun þat ekki við nema". Hreiðarr svarar: „Vandi er þá á báðar hendr; þú ert vinr minn, enn hann er bróðir minn, ok ann ek honum mikit". Þat varð, at hann fór heim með Hreiðari til vistar á *Vors*. Ok þá er Ívars var heim ván, þá tók Eyjólfr loðkápu ok hafði hvern dag; enn hann var mikill maðr ok sat hjá Hreiðari jamnan.

3. Nú kemr Ívarr heim, ok er gengit í mót honum veglega ok fagnat með blíðu. Þá spurði hvárr þeirra annan tíðenda, eða hvar Hreiðarr

hefði verit um vetrinn; enn hann lézt á Íslandi verit hafa. Enn þá spurði Ívarr engra tíðenda — „enn hvárt er“, kvað hann, „þar hjá þér maðr eða kvikendi? þat er hrúga eigi lítil“. Eyjólfr svarar: „Ek em íslenzkr maðr ok heiti ek Eyjólfr, ok ætla ek hér at vera í vetr“. „Þess get ek“, kvað Ívarr, „at eigi sé óhapplaust hér á bæ, ef íslenzkr maðr skal hér vera“. Hreiðarr svarar: „Ef þú ert illa við hann, svá at honum sé eigi við vært, þá mun okkur frændsemi eigi góð vera“. „Illu heilli hefir þú til Íslands farit, ef af þeim sökum skulu vér þjóna íslenzkum mönnum, eða láta ella frændr vára eða vini. Ok ek veit eigi, hví þér sýnist at fara til ennar verstu þjóðar, ok frelst hefir þú þik um tíðendasögu við mik“. „Annan veg er“, kvað Hreiðarr, „þar eru heldr margir góðir drengir“. Ívarr segir: „Eigi er sjá þó sæmilegr í öndveginu *tötrabassinn*“. Enn þá er Ívarr sá, at bróður hans þótti miklu varða um mann þenna, þá tók hann minna af enn áðr við Íslendinga.— „Enn hvat muna ek þá heldr, enn kalla hann hrúgu?“ Enn Eyjólfr lézt því nafni mundu vel kunna. Enn alt þat er hann gerði eða mælti, þá færðu þeir afleiðis. — Vigfúss hét maðr; hann var hersir ok réð fyrir á Vors. Hann var Sigurðar son, víkinga-Kára sonar; hann átti dóttur þá er Ástríðr hét. Vinátta var mikil í millum þeira bræðra ok Vigfúss, ok

höfðu sinn vetr hvárir jólaveizlu með öðrum, ok skulu þeir bræðr nú búast við jólaveizlu. Enn alt hafði Hreiðarr fyrir búit, ok skyldi hann þá bjóða mönnum ok bað Eyjólf fara með sér, — „ok er mér eigi forvitni á, hversu þeir láta at þér". „Mér er þangt", segir Eyjólfr, ok má ek eigi fyrir því fara". — Aftan þann sem hann var heiman farinn, ok þeir koma í sæti, þá mæltu förunautar Ívars: „Nú er Hrúga heima, enn Hreiðarr eigi; nú munu vér hafa gleði sem oss sýnist". „Vér skulum nú", segir Ívarr, „hyggja at nökkut, hvat oss hæfir. Hér erum vit bræðr ok eigum fé báðir saman, ok berr hann alla áhyggju fyrir, enn ek enga; enn sá er einn maðr, er hann vill veita, ok gerum vér svá at honum er varla við vært,— enn hann er við oss saklauss, ok skal engi maðr mæla í mein honum, meðan Hreiðarr er eigi heima". Þeir segja nú vel fallit til gamans at hafa nökkut. Þá mælti Ívarr: „Af litlum manndóm tali þér; hér þjóna oss allir ok höfum vér gaman af öllu sem oss lystir, enn aðrir hafa starfa ok áhyggju. Ok þótt sjá maðr hefði drepit bróður minn, þá ætti ek ekki at gera honum til meins fyrir Hreiðars sakir, ok engum skal hlýða at gabba hann — ok nú skal hann eigi Hrúga heita lengr". Ok um morgininn mælti Ívarr við Eyjólf: „Viltu fara í skóg með oss ok skemta þér?" Ok hann játti því, ok ferr

með þeim; ok höggva þeir sér tré ok flytja heim. Eyjólfr hefir sverð ok handexi. Ívarr mælti: „Þat ræð ek þér, Íslendingr, ef sér ferr hverr várr, at þú farir heim fyrir myrkr“. Síðan ferr sinn veg hverr um skóginn, ok fór Eyjólfr einn sér. Þá ferr hann af loðkápunni ok lagði á ofan sverð sitt, er hann hafði í hendi. Enn hann gekk í skóginn ok skemti sér, ok hafði exi ok hjó tréin, þau sem honum sýndist. Enn er á leið daginn, tók at drífa, ok vill hann þá heim, ok kom þar er loðkápan hafði legit ok var hon á brottu, enn sverðit var eftir. Hann sér sópat snjánum, sem kápan hefði dragnat. Enn híðbjörn hafði komit ok dregit kápuna; hafði varla aflit til haft upp at halda, er björninn var ungr ok nýkominn ór híðinu ok eigi mannsbani vorðinn. Síðan fór hann, ok sá at björninn sat fyrir honum; brá hann sverði ok hjó af trýnit við augun uppi af dýrinu, ok hafði þat í hendi sér heim. Enn Ívarr kom heim fyrri, ok saknar Eyjólfs ok mælti: „Ógegnlega höfum vér farit ok illa skilizt við várn förunaut; honum er ókunnigt á skóginum, enn þar ván margra skæðra dýra, ok mun margrætt um, ef hann kemr eigi heim, svá sem áðr vóru vér við hann — ok ræð ek at vér leitim hans, þar til er vér finnum hann“. Enn er þeir kómu út fyrir dyrr, þá kom Eyjólfr í mót þeim, ok fagnaði Ívarr honum vel ok spurði, hví hann

væri blóðugr; enn hann sýndi þeim þat er hann helt á. Þá mælti Ívarr: „Þat uggi ek, at þú sér sárr“. „Ver kátr fyrir því, ekki sakar mik“. Þá mælti Ívarr: „Óvitrlegt bragð at spotta ókunna menn; hann hefir sýnt vaskleik í þessum hlut, þar er ek veit eigi, hvárt nökkurr várr mundi til verða“. Ok annan aftan kom Hreiðarr heim. Ívarr mælti: „Hví ertu svá hljóðr, bróðir? ertu hugsjúkr um hann Hrúgu? hvat væntir þik, hversu ek mun við hann hafa búit?“ Hreiðarr svarar: „Þat mun nú okkr víst máli skifta, hversu þú hefir þat gert“. Hann segir: „Hvat muntu nú til vinna, at ek sé við hann sem þú? Hann svarar: „Ek mun gefa þér gullhring þann, er vit eigum báðir saman ok þér hefir góðr þótt lengi“. Hann segir: „Eigi mun ek ágirnast föðurarf þinn, enn við hann mun ok vera heðan af sem við þik sjálfan — ok skal hann nú sitja hjá mér, enn eigi hjá þér“. Síðan virðu þeir hann vel báðir, ok sá at þat rúm var vel skipat, er hann sat í. Ok leið nú svá fram.

**4.** Nú koma menn til jólaveizlu til þeira bræðra. Enn þá er tólfmenningr var skipaðr til at sitja, ok settir hlutir til, hverr næst skyldi sitja Ástríði dóttur Vigfúss hersis, ok hlaut Eyjólfr ávalt at sitja hjá henni; enn engi maðr sá þau fleira við talazt enn aðra menn. Enn þat ræddu margir, at því mundi þann veg í

móti berast at honum mundi þar konu auðit verða. Slítr veizlu þeiri, ok var hon veitt stórmannlega ok menn með gjöfum á brott leystir. Eyjólfr var fjögur sumur í víkingu ok þótti enn mesti garpr ok framgöngumaðr; fekk gott orð ok mikit fé. — Þat var einn vetr, at sá maðr kom þar á Vors, er Þorsteinn hét ok var frændi þeira bræðra, ok átti bú á Upplöndum. Hann sagði til vandræða sinna, at berserkr sá, er Ásgautr hét, hafði skorat á hann til hólmgöngu fyrir þá sǫk, at hann synjaði honum systur sinnar, ok bað þá fjölmenna sik til hólms, at eigi gengi sjá víkingr á efni hans; sagði hann þó felt hafa marga menn sína; sagði at hann mundi láta systur sína, ef þeir vildi hann eigi efla — „em ek ekki traustr til hólmgöngu, nema ek njóta yðvarrar gæfu við“. Þeir nentu eigi at synja honum fararinnar. Nú fóru þeir með honum á Upplönd ok höfðu þrjá tigu manna með sér, ok koma í þann stað, er þeir skulu finnast. Þá leita þeir við menn sína, hverr þat vildi vinna sér til konu, at ganga á hólm við Ásgaut. Enn þótt konan þætti fýsileg, þá varð þó engi búinn at vinna þetta til. Þá beiddu þeir bræðr, at Eyjólfr myndi halda skildi fyrir hann. Þá segir Eyjólfr, kvaðst þat við engan mann gert hafa ok eigi fyrir sik sjálfan, — „ok mun mér eigi gott þykja, ef hann er drepinn í höndum mér; þyki mér engi fremd í þessu.

Enn ef sveinn sjá verðr drepinn í höndum oss, skulum vér þá heim fara með svá gervu, eða skal þá til fá annan ok enn þriðja, ok vex þá svá vár óvirðing, svá sem margir falla fyrir oss? ok lítil virðing mun á för várri, ef vér förum við þat aftr, at hans sé óhefnt, ef hann fellr fyrir oss. Biði þér mik, at ek ganga heldr á hólm við berserkinn. Þat er veitanda vinum sínum, enn þetta vil ek eigi veita". Þeir þakka honum vel, ok þótti þeim þó mikit í ábyrgð, er hann var. Hann segir: „Svá sýnist mér, sem engum várum sé aftrkvæmt, ef hans er eigi hefnt, ok þyki mér þá verra at berjast við berserkinn, ef frændi yðvarr er áðr drepinn". Síðan gengr hann fram, enn Ívarr bauð at halda skildi fyrir honum. Eyjólfr svarar: „Vel er þat boðit, enn mér mun mest um hugat, ok er satt it fornkveðna, at sjálfs hönd er hollust". Gengr á hólm síðan. Berserkrinn mælti: „Skal sjá við mik berjast hrúnkinn"? Eyjólfr mælti: „Er eigi þat, at þér ægi við mik at berjast? kann þat vera at þér sé eigi vel farit, er þú æðrast mikinn mann, enn gambrar yfir litlum". „Ekki er mér þat eignat", segir hann, „enn lögin mun ek þér segja upp um hólmgöngu: fjórar merkr skal mik leysa af hólmi, ef ek verð sárr". Eyjólfr svarar: „Óskylt ætla ek vera at halda lögum við þik, er þú dæmir sjálfr, hvers þú ert verðr, fyrir

því at á váru landi mundi slíkt þykja þræls gjöld, er þú gerir um sjálfan þik". Eyjólfr átti fyrr at höggva, ok hjó þat it fyrsta, at sverðit kom á skjaldarsporðinn, ok gekk af sporðrinn ok fótrinn af berserknum. Eyjólfr fekk af þessu verki mikit ágæti, ok fór heim síðan með þeim bræðrum. Nú var honum boðit fé mikit at þiggja, enn hann lézt þetta ekki til fjár hafa gert né til konu, heldr af vinfengi við þá bræðr. Ásgautr leysti sik af hólmi ok lifði við örkuml. Síðan bað Eyjólfr Ástríðar Vigfúsdóttur. Nú er til at flytja málit Ívarr ok Hreiðarr; segja hann ættstóran mann ok eiga göfugt ráð á Íslandi ok mikinn frænda afla, ok kölluðu líklegt at mikit yrði hans forlag. Þá mælti Eyjólfr: „Vera kann at frændum Ástríðar þyki ofsi mikill í váru máli, — enn margir vitu á Íslandi at vér eigum göfugt foreldri ok mikit fé". Vigfúss segir: „Þetta mun vera forlög hennar, þótt til væri ætlat ekki óframar um frændkonu vára". — Hon var honum gefin, ok fór til Íslands með honum.

5. Böðvarr hét maðr. Hann var son víkinga-Kára ok bróðir Sigurðar, föður Vigfúss; hann var faðir Ástríðar, móður Eiríks, föður Ástríðar, móður Óláfs Tryggvasonar. Víkinga-Kári var son Eymundar akraspillis Þórissonar. Böðvarr var faðir Ólofar, móður Gizurar hins

hvíta. Þá er þau Eyjólfr ok Ástríðr kómu út til Íslands, var Ingjaldr andaðr. Þá tók Eyjólfr við búi ok goðorði. Úlfeiðr hét dóttir Ingjalds; hana átti Hríseyjar-Narfi. Börn þeira Eyjólfs og Ástríðar váru fjögur nefnd. Þorsteinn hét son þeira enn elzti, ok var hann leystr af arfi, þá er hann kvæntist — ok bjó hann at Hólum í Eyjafirði, meðan hann lifði; ok verðr hann lítt við söguna riðinn. Vigfúss hét annarr. Hann fekk Hallfríðar Þorkels dóttur ens háva frá Mývatni. Glúmr hét enn yngsti son þeira, enn Helga dóttir. Hon var gift Steingrími í Sigluvík. Þeira son var Þorvaldr tasaldi, er síðar kemr við málit. Enn Vigfúss andaðist litlu síðar enn hann kvángaðist, ok átti barn eitt, ok lifði þat litlu lengr enn hann; ok bar af því undir Hallfríði alt fé til helmings við þau Glúm ok Ástríði. — Enn Eyjólfr var andaðr, þá er hér var komit. Þá réðst Þorkell enn hávi til Þverár ok Sigmundr son hans; ok var hann mikill maðr fyrir sér ok ætlaði at hann mundi höfðingi gerast, ef hann fengi gott kvánfang ok mága stoð. — Þórir hét maðr ok bjó á Espihóli. Hann var son Hámundar heljarskinns ok Ingunnar Helga dóttur ens magra. Hann átti Þórdísi Kaðalsdóttur. Þeira börn váru Þórarinn ok Þorvaldr krókr, er bjó á Grund í Eyjafirði, ok Þorgrímr, er bjó í Möðrufelli, ok Ingunn, er átti Þórðr Freysgoði, ok

Vigdís, er átti Sigmundr. Síðan tóku þeir Þorkell ok Sigmundr at óhægja Ástríði bygðina; ok var skift landinu í helminga ok hlutu þau Glúmr ok Ástríðr þann hluta landsins, er ekki var húsaðr, ok gerðu þau bú á Borgarhóli. Enn Glúmr skifti sér ekki af um búsýslu; þótti heldr óbráðgerr í uppruna. Hann var fámálugr ok fálátr jafnan, hár maðr vexti ok nökkut skolbrúnn, hvítr á hár ok rétthárr, kraklegr ok þótti heldr seinlegr maðrinn; fór ekki til mannamóta. Nú eyðist fé fyrir þeim Ástríði, ok gerist ráðahagrinn óhægr. Enn Sigmundr ok Þorkell bægja þeim, ok höfðu þau it minna af öllu. Hof Freys var þar fyrir sunnan ána á Hripkelsstöðum. Þórarinn á Espihóli var vitr maðr ok vinsæll. Þorvaldr krókr var hólmgöngumaðr ok ódæll. Sigmundr Þorkelsson þóttist maðr mikill fyrir sér, er hann kom í mægðir við Esphælinga. Glúmr segir móður sinni at hann vill utan ráðast, — „sé ek at þroski minn vill engi verða, enn þat má vera at ek hljóta gæfu af göfgum frændum mínum, enn ek nenni eigi at þola ágang Sigmundi, enn ek sé mik enn vanfæran í mót honum. Enn lógaðu eigi landinu, þó at þröngt verði kosti þínum“. — Þá var Glúmr fimtán vetra, er hann fýstist utan.

6. Nú er at segja frá utanferð Glúms. Þegar er hann kom við land, fór hann upp á Vors

til Vigfúss. . Ok er hann kom at bænum, þá sá hann þar mikit fjölmenni ok margs konar skemtan ok leika; ok þat þóttist hann sjá, at þar mundi á öllum hlutum stórmenska vera. Enn þar sem hann sá marga menn merkilega, þá vissi hann eigi, hvar Vigfúss mundi vera frændi hans. Þat mark hafði hann til hans, at hann sá mann mikinn ok veglegan í öndvegi í skautfaldi blám, ok lék sér at spjóti gullreknu; gekk síðan at honum ok kvaddi hann; enn hann tók vel kveðju hans. Vigfúss spurði, hvat manna hann væri, enn hann kvaðst vera íslenzkr ok eyfirzkr. Þá spurði Vigfúss at Eyjólfi mági sínum ok Ástríði dóttur sinni; enn *hann* kvað hann andaðan, — „enn Ástríðr lifir". Vigfúss spurði, hvat barna þeira lifði, enn Glúmr sagði honum til systkina sinna. Enn síðan sagði hann honum, at þar var einn son þeira kominn fyrir hann. Enn er hann sagði þat, þá reitist ekki af um talið við hann. Glúmr bað hann vísa sér til sætis. Enn Vigfúss kvaðst eigi vita, hvat satt væri af því er hann sagði, ok vísaði honum til sætis á hinn óæðra bekk utarlega ok veitti honum litla virðing. Hann var fámálugr ok ósiðblendr. Þá er aðrir menn drukku, eða höfðu aðra gleði, þá lá hann ok hafði feld á höfði sér. Hann þótti þar fól eitt. Þar var veizla búin at vetrnóttum ok gert dísablót ok allir skulu þessa minning gera.

Glúmr sitr í rúmi sínu ok gengr eigi til. Ok er á leið kveldit, er menn váru komnir, þá var eigi svá mikil gleði, sem líklegt mundi þykja fyrir fagnaðar sakir ok vina fundar, er þar váru margir saman komnir. Ok þann dag er menn höfðu komit til boðsins, hafði Glúmr eigi út gengit í móti mönnum ok bauð engum at sitja hjá sér eða í hans rúmi. Ok er menn váru komnir undir borð, þá var sagt at sá maðr var kominn at bænum með tólfta mann, er Björn hét ok kallaðr járnhauss. Hann var berserkr mikill, ok var því vanr at koma til mannboða fjölmennra, ok leitaði þar orða við menn, ef nökkurr vildi þat mæla, er hann mætti á þiggja, ok skoraði á menn til hólmgöngu. Enn Vigfúss bað þess, at menn skyldu vel stilla orðum sínum, — „ok er þat minni læging, enn taka meira ilt af honum“ — ok hétu menn honum góðu um þat. Enn Björn gekk í skálann inn ok leitaði orðheilla við menn, ok spurði á enn æðra bekk enn yzta mann, hvárt hann væri jafnsnjallr honum, — enn *hann* kvað fjarri þat fara. Síðan spurði hann hvern at öðrum, þar til at hann kom fyrir öndvegit. Ýmissra orða leituðu menn sér, enn þar kom niðr, at engi kvaðst jafnsnjallr honum. Enn er hann kom fyrir Vigfús, þá spurði hann, hvar Vigfúss vissi slíkra garpa vánir; enn hann lézt eigi vita hans jafningja. Þá mælti hann: „Vel

er svarat ok hyggilega, sem ván var at. Þú ert virðingamaðr mikill ok gengit lengi at óskum líf þitt, ok engi hnekking komit vegs þíns ok sóma. Nú er þat vel, er ek þarf ekki við þik annat at mæla enn gott eitt, — enn spyrja vil ek þik, ef þú þykist jafn við mik"? Hann svarar: „Þá er ek var ungr ok í víkingu ok vann nökkut til frama, nú veit ek eigi hvárt ek mætta þá við þik jafnast, enn nú hálfu síðr at ek em gamall ok örvasi". Hann snýr á brott þaðan ok ferr utar með öðrum bekk, ok spyrr enn, ef þeir þykjast jafnsnjallir honum, enn þeir kváðust eigi jafnsnjallir honum. Þá kom hann at, þar er Glúmr lá í pallinum. „Hví liggr sjá maðr svá", kvað Björn, „enn sitr eigi"? Sessunautar hans svöruðu — veittu honum orða fullting — ok kváðu hann svá óvitran, at ekki mark mátti at þykja, hvat hann mælti. Björn spyrnir á honum fæti sínum ok mælti at hann skyldi sitja upp sem aðrir menn, ok spurði, ef hann væri jafnsnjallr honum. Enn Glúmr kvað hann ekki þurfa at eiga við sik ok kvaðst eigi vita um snilli hans, — „ok vil ek af því engu við þik jafnast, at út á Íslandi mundi sá maðr kallaðr fól, er þann veg léti sem þú lætr. — Enn hér hefi ek vitat alla bezt orðum stilla". Hleypr upp síðan ok at honum; þrífr af honum hjálminn; síðan hnykkir hann upp eldistokki ok keyrir á milli herða honum,

ok lýtr kappinn við, ok þegar annat ok hvert at öðru, svá at hann fell. Ok þá er hann vildi á fætr færast, þá laust hann í höfuð honum, ok lét svá, þar til at hann kom út fyrir dyrr. Enn þá er Glúmr vildi til sætis, er Vigfúss kominn á gólfit — ok allir þeir — ok fagnaði þá vel frænda sínum; kvað hann nú hafa raun til gert at hann var hans ættar — „skal ek nú virða þik sem okkr sómir“ — lézt þat til hafa gengit í fyrstu, at honum sýndist hann eigi bráðgervilegr — „vilda ek þess at bíða, at þú færðir þik með skörungsskap í þína ætt“. Leiðir hann nú til sætis hjá sér. Glúmr kvaðst þiggja mundu þat sæti, þótt fyrr væri. Annan dag eftir er sagt andlát Bjarnar. Vigfúss bauð Glúmi at taka ríki eftir sik ok virðing, enn Glúmr kvaðst þiggja vilja, enn fara þó út fyrst til Íslands, at eigi eignaðist þeir föðurleifð hans, er hann ann eigi at njóta; kvaðst aftr munu koma sem fyrst. Vigfúss kvaðst ætla þat forlög Glúms at auka sína ætt ok sóma á Íslandi. At sumri lætr Vigfúss búa skip til handa Glúmi, ok gefr honum farminn á ok mikit fé í gulli ok silfri, ok mælti: „Svá segir mér hugr um, at vit sjáimst eigi síðan, enn einka gripi vil ek þér gefa — feld ok spjót ok sverð, er vér höfum mikinn trúnað á haft frændr; ok meðan þú átt gripina, vænti ek at þú týnir eigi virðingu

— enn þá em ek hræddr um, ef þú lógar þeim". Síðan skiljast þeir.

7. Nú ferr Glúmr út til Íslands ok heim til Þverár. Ok móður sína hitti hann brátt ok fagnaði hon honum vel, ok sagði ójafnað þeira feðga, ok bað hann þó hafa við þolinmæði, enn kvaðst til lítils um fær at ganga þeim í móti. Síðan reið hann heim at garði. Þá sá hann, at færðr var garðrinn ok gengit á hans hlut, ok þá kvað hann vísu:

(1) Nær gengr mér ok mínum,
mendöll — hjúum öllum —
þverr við glaum — inn græni
garðr enn oss of varði.
Verðr hróðr skotað harða
— hér tinik þat — mínum
— munat enn of styr stála
starflauss — föðurarfi.

Enn þat hafði vorðit til tíðenda út hér meðan, (at) Sigmundr óhægði Ástríði ok vildi koma henni af staðfestu. — Um haustit varð vant kvígna tveggja, er Glúmr hafði utan verit, þeim Þorkatli ok Sigmundi, ok hugðu þat at stolit mundi vera, ok létu líklegsta til þræla, er Ástríðr átti, ok segja þá einætum etit hafa, ok stefndu þeim um várit um stuld. Enn þessir þrælar váru miklu hollastir Ástríði fyrir umsjá ok verknað. Hon þóttist varla mega búi sínu halda, ef þeir færi frá, ok ferr á fund Þorsteins sonar síns ok segir honum, hvern ágang þeir veita; biðr hann svara fyrir þrælana — „vil ek

heldr fé bæta fyrir þá, enn þeir verði sekir um álygi, ef eigi eru betri föng á — ok þætti mér þú nú eiga at vera brjóst fyrir oss ok segjast svá í góða ætt". Þorsteinn lézt þat ætla, at mál mundi svá upp borit af þeira hendi, at þeir munu ætla at fylgja með afla mága sinna, — „sýnist mér þat ráð, ef þessir menn halda upp ráði þínu, at vér eigim hlut í fébótum at þeim komi við". Hon svarar: „Svá segir mér hugr um, at þær einar fébætr verði, er oss mun meins í leitat, — enn fyrir því at þar er til lítillar liðsemdar at leita, er þú ert, mun verða at leggja á þeira vald". Enn þau gæði fylgdu mest Þverárlandi: — þat var akr, er kallaðr var Vitazgjafi, því at hann varð aldri ófrær; enn honum hafði svá skift verit með landinu, at sitt sumar höfðu hvárir. Nú segir Ástríðr þeim feðgum: „Mér lízt at þit vilit mjök fyrir koma mínu ráði, ok sjáið þat at hér þrýtr forystu; enn heldr enn þrælar sé upp gefnir, vil ek þetta mál leggja á ykkarn dóm". Þeir kváðu þat vitrlegra ráð. Gera þeir nú ráð sín. Enn sú var ráðagerð þeira, at hafa sjálfdæmi fyrir þrælana eða sekja þá. Enn Þorsteinn fylgdi eigi betr málinu, enn þeir höfðu sjálfdæmi ok gerðu til handa sér akrinn, at þeir skyldu hann einir eiga; ok ætla svá at komast at landinu öllu, at kippa undan þeiri stoð, er áðr helt mest upp ráði hennar. Ok þat sumar, er þá fór í hönd,

átti hon at hafa akrinn, ef at réttu færi. Enn um sumarit, er menn fóru til þings, er þessu máli var sett, þá fór nautamaðr um haga, ok fann kvígurnar í einu jarðfalli ok hafði fokit yfir öndverðan vetr; ok varð nú bert illmælit við þrælana. Ok er þeir feðgar spurðu, at kvígurnar váru fundnar, þá buðu þeir fé at gjalda fyrir akrinn; enn þeir vildu eigi láta handsöl sín af akrinum. Enn Ástríðr segir, at eigi muni þó of mikit koma fyrir illmælit, þó at hon hefði sitt — „ok vil ek annathvárt hafa þat er ek á eða missa. Þó vilja engir rétta málit, þá skal enn bíða, ok vænti ek, at Glúmr muni út koma ok leiðrétta várt mál". Sigmundr segir: „Seint til vánar sá man erja — sitr sá nú í hjá, er líklegri væri til þinna sona". Hon segir: „Illa sezt oft ofsinn, Sigmundr, ok rangendi, — kann ok vera at þat hendi þik". Ok litlu síðar sumars kom Glúmr út, ok er litla hríð við skip; ferr til bús síns með auð fjár. Enn it sama skaplyndi hafði hann sem fyrr; var fálátr ok lét sem hann heyrði eigi þat, er gerzt hafði út hér meðan. Hvern morgin svaf hann til dagmála ok annaðist ekki um bú. Þat sumar áttu þau Glúmr akrinn at hafa, ef at réttu færi. Fé Sigmundar gekk þeim at meini mjök, ok var hvern morgin í túni þeira. Einn morgin vakti Ástríðr Glúm, ok sagði at nautafjöldi Sigmundar var kominn í tún ok

vildi brjóta andvirki, — „enn ek hefi eigi frá-leik til at reka í brott, enn verkamenn at vinnu“. Hann svarar: „Lítt hefir þú mik til vinnu kvatt ok skal eigi illa við verða“, — sprettr upp ok tekr hest sinn, ok í hönd sér trélurk, ok keyrði nautin knálega ok barði þau mjök, þar til er þau kómu í tún Þorkels ok Sigmundar; lætr þau þar spilla sem þau vildu. Þorkell gætti heima andvirkis um morgna, enn Sigmundr fylgdi húskörlum. Þorkell mælti við Glúm: „Þess áttu ván, at menn munu þat eigi sitja þér, ef þú meiðir fé manna, þótt þú þykist hafa framit þik utanlendis“. Glúmr kvað ómeidd vera öll naut hans nú, — „enn ef þau koma oftar oss at meini, þá munu eigi öll ólamin, ok láttu þó vel yfir; þú kemr því einu við; munu vér ok eigi lengr hafa mein af fé yðru“. Þá mælti *Þorkell:* „Stórlega lætr þú nú, Glúmr; slíkr glópaldi þykir oss þú nú, sem þá er þú fórt utan, ok munu vér ekki várt ráð gera eftir geipun þinni“. Glúmr veik heim, ok setti at honum hlátr; ok brá honum svá við, at hann gerði fölvan í andliti ok hrutu ór augum honum tár þau, er því váru lík, sem hagl þat er stórt er. Ok þann veg brá honum oft við síðan, þá er víghugr var á honum.

8. Þat er sagt þá er á leið á haustit, at Ástríðr kom enn at máli við Glúm einn morgin, ok vakti hann ok bað hann skipa til verks

kvað nú heyverkum lokit verða í dag, ef svá væri til skipat sem hæfði — lokit höfðu þeir Sigmundr heyverkum fyrir stundu — „ok fóru þau Sigmundr ok Vigdís snemma í morgin til akrs Vitazgjafa, ok munu þau vel hyggja, er þau hafa akrinn, er vér ættim, ef at réttu færi". Þá stóð Glúmr upp, ok varð þó eigi fyrr búinn enn at dagmálum. Hann tók þá feldinn blá ok spjótið gullrekna, í hönd sér; lét söðla hest sinn. Enn Ástríðr sagði: „Mjök vandar þú nú, sonr minn, búning til heyverksins". Hann svarar: „Eigi ferr ek oft til at vinna, enn bæði skal þá gera mikit at ok búast vel til, ok kann ek þó ekki vel til verksins at skipa; mun ek ríða til Hóla upp, ok þiggja heimboð at Þorsteini bróður mínum". Síðan reið hann suðr yfir ána. Enn þá er hann kom til akrsins, þá tók hann dálkinn ór feldinum, enn þau váru í akri Vigdís ok Sigmundr. Ok er hon Vigdís sá hann, gekk hon í mót honum ok bað hann heilan koma, — „þykkir oss þat illa, er svá fátt er í frændsemi várri, ok viljum vér eiga í allan hlut at fleira sé um". Glúmr svarar: „Ekki er enn þat at orðit, at eigi megi vel verða í frændsemi várri; enn því veik ek hingat, at dálkrinn er ór feldi mínum, ok vil ek at þú saumir á nisting". Hon lézt þat gjarna vilja, ok gerði hon þat. Glúmr leit yfir akrinn ok mælti: „Eigi brást hann Vit-

azgjafi enn". Síðan fór hann í feldinn ok tók spjótið í hönd sér. Síðan snarar hann at honum Sigmundi ok brá spjótinu, enn hann spratt upp í móti; enn Glúmr hjó þegar í höfuð honum, ok þurfti Sigmundr eigi fleiri. Þá gekk hann at Vigdísi, ok sagði at hon skyldi heim fara, — „ok seg Þorkatli, at Sigmundr er eigi einfærr af akrinum". Enn Glúmr reið upp til Hóla, ok segir bróður sínum engi tíðendi. Enn er Þorsteinn sá gerðar hans, er hann hafði bæði feld ok spjót, þá fann hann blóð í málunum ok spyrr, ef hann hefði höggvit með því fyrir skömmu. Hann svarar: „Þat er satt — eigi hefir mér í hug komit at segja", kvað Glúmr, „at ek drap Sigmund Þorkelsson í dag". Þorsteinn segir: „Þat mun þeim tíðendi þykja Þorkatli eða Esphælingum mágum hans". Glúmr svarar: „Þat er fornt mál, at blóðnætr eru hverjum bráðastar, ok mun þeim þykja lítils vert um, er frá líðr". Glúmr var þar þrjár nætr at kynni sínu, enn þá býst hann heim. Þorsteinn býðr at fara með honum. Glúmr segir þess eigi þurfa, — „gættu bús þíns; ek mun ríða rétta leið mína til Þverár; munu þeir ekki svá mjök eftir þessu ganga". Ferr Glúmr heim til Þverár. Enn er tíðendi þessi spyrjast, ferr Þorkell á fund Þórarins ok leitar þangat ráða ok meðferðar. Hann segir: „Vera má nú þá, at hon segi, Ástríðr, at hann hafi eigi

til engis risit á legginn". Þorkell segir: „Þat ætla ek, at hann hafi á þann legg risit, er hann fær eigi á stigit". Þórarinn svarar: „Þat er nú sem gerist; hafi þér lengi sýnt þeim ójafnað ok ætlat at færa þau við útgarða, ok litið eigi á þat, hver ván væri á um afkvæmi slíkra manna, sem Eyjólfr var, er bæði var ættstórr ok enn mesti garpr. Enn oss er vandi á mjök mikill við Glúm fyrir frændsemis sökum, enn við yðr um mægðir; ok óhóglegt sýnist mér málit, ef Glúmr fylgir, sem ek get at vera muni". Þá fór Þorkell heim, ok váru þessi mál kyrr um vetrinn. Glúmr hafði nökkvi mannfleira, enn hann var vanr um vetrinn.

9. Þat er sagt at Glúm dreymdi eina nótt. Hann þóttist vera úti staddr á bæ sínum ok sjá út til fjarðarins. Hann þóttist sjá konu eina ganga utan eftir heraðinu ok stefndi þangat til Þverár; enn hon var svá mikil, at axlirnar tóku út fjöllin tveggja vegna. Enn hann þóttist ganga ór garði á mót henni, ok bauð henni til sín. Ok síðan vaknaði hann. Öllum þótti undarlegt, enn hann segir svá: „Draumr er mikill ok merkilegr, enn svá mun ek hann ráða, at Vigfúss móðurfaðir minn mun nú vera andaðr, ok mundi kona sjá hans hamingja vera, er fjöllum hærra gekk. Ok var hann um aðra menn fram um flesta hluti at virðingu, ok hans hamingja mun leita sér þangat staðfestu, sem

ek em“. Enn um sumarit, er skip kómu út, spurðist andlát Vigfúss. Þá kvað Glúmr vísu:

(2) Fara sák holms und hjalmi
hauks í miklum auka,
jörð, at Eyjafirði,
ísungs, fúradísi,
þá svát dóms í draumi
dals ótta mér þótti
felliguðr með fjöllum
folkvandar bjöð standa.

Um várit hitti Þorkell Þorvald krók ok aðra sonu Þóris, ok leitar eftir at þeir muni fylgja þessu máli. Enn hann taldi til skyldu við dóttur sína ok marga aðra vináttu, er hann hefir þeim gert ok Sigmundr son hans. Þorvaldr hittir Þórarin, segir at ámælissamt mun verða, nema þeir fylgi máli mágs síns; hann lézt vilja slíkt alt at veita, sem hann hefir föng á — „ok þat er nú auðsætt, at Glúmr ætlar at miklast af vígi Sigmundar, enn vér unnum oss eigi verr metorða í heraðinu“. Þórarinn segir: „Svá lízt mér sem vant muni svá málinu at fylgja, at örugt sé at vér vaxim af. Ok enn við uppgang Glúms er þat eigi örvænt, at honum kippi í kyn ok ætt sína; ferr ek því tregari at enn þér, at mér sýnist óvís virðingin at deila við Glúm, enn mér þykir ok eigi gott, ef aukast vill óvirðing vár“. Enn með áeggjan þá bjó Þórarinn Þórisson mál til alþingis á hendr Glúmi um víg Sigmundar. Enn Glúmr bjó mál

til á hendr Þorkatli enum háva um illmæli til þrælanna, ok annat bjó hann á hönd Sigmundi, ok stefndi honum um stuld, ok kvaðst hann drepit hafa á eign sinni; ok stefnir honum til óhelgi, er hann fell á hans eign, ok gróf Sigmund upp. Síðan fóru mál til alþingis við svá búit. Ok sótti Glúmr þá frændr sína at liðveizlu, Gizur hvíta ok Teit son Ketilbjarnar frá Mosfelli ok Ásgrím elliða-Grímsson, ok segir þeim allan málavöxt ok ágang þeira feðga ok ranglæti ok marga svívirðing. Kvaðst hann þar vætta eflingar til réttra laga sem þeir váru, enn hann væri sjálfr fyrir. Þeir kváðust allir þess skyldir, at hans hlutr lægi eigi í óvina hendi; kváðust fegnir því verða, ef hans uppreist yrði í þeiri ætt. Líðr þingit at dómum fram, ok hafa Esphælingar fram vígsmálit með áeggjun þeira, er harma sinna áttu at minnast — enn víst væri at eigi mundu spjöllin á vera. Glúmr hefr málit á hendr Þorkatli, ok kómu sakar í dóm; hafði Glúmr mikinn frænda afla ok vina. Ok er til varna var boðit, segir Glúmr: „Á þá leið er, at þat má mörgum kunnigt vera, at þér hafið málit meirr til búit með óskapi, enn eigi sé spjöllin á, því at Sigmund drap ek á mínu fé; ok áðr ek riða til þings, stefnda ek honum til óhelgi“. Hann nefndi sér at því vátta, ok verr svá sökina; ok veittu þeir frændr honum svá, at Sigmundr fell óheilagr. Síðan

hefr Glúmr mál fram á hendr Þorkatli um bekráð til fjár síns, ok horfir þar óvænt Þorkatli, því at vitni gengu at með Glúmi, ok finnast þar eigi lögvarnir í móti; ok horfði til þess at Þorkell mundi verða sekr. Var leitat um sættir við Glúm. Hann segir þá tvá kosti vera, at hann mundi sök fram hafa, eða Þorkell seldi honum Þverárland með slíku verði, sem hann vildi á kveða — ok var þat eigi betr enn hálfvirði — „má ok Þorkell þat ætla, ef hann verðr sekr, at vér skulim eigi báðir á þingi annat sumar“. Ok nú áttu hlut í vinir Þorkels, at hann sættist, ok tók Þorkell þat ráð, sem honum hæfði, sættist á mál ok seldi Glúmi landit; skyldi búa á þau missari, ok váru þá sáttir at kalla; ok undu Esphælingar illa við málalok. Ok heðan frá greri aldregi um heilt með þeim Glúmi ok Esphælingum. Ok áðr Þorkell fór á brott frá Þverá, þá gekk hann til hofs Freys, ok leiddi þangat uxa gamlan ok mælti svá: „Freyr“, sagði hann, „er lengi hefir fulltrúi minn verit, ok margar gjafar at mér þegit ok vel launat — nú gef ek þér uxa þenna til þess at Glúmr fari eigi ónauðgari af Þverárlandi, enn ek ferr nú. Ok láttu sjá nökkurar jartegnir, hvárt þú þiggr eða eigi“. Enn uxanum brá svá við, at hann kvað við ok fell niðr dauðr; ok þótti *Þorkatli* vel hafa við látit, ok var nú hughægra, er honum þótti sem þegit mundi heitit.

Hann fór síðan norðr til Mývatns ok bjó þar.— Ok er hann ór sögunni.

10. Glúmr tók nú virðing mikla í heraðinu. Sá maðr bjó at Lóni í Hörgárdal, er Gunnsteinn hét, mikilmenni ok auðigr, ok taldr með hinum stærrum mönnum. Hann átti konu þá er Hlíf hét. Þorgrímr hét son þeira, ok var kendr við móður sína ok var kallaðr Hlífar son, fyrir því at hon lifði lengr enn Gunnsteinn. Hon var skörungr mikill. Þorgrímr var mannaðr vel ok gerðist mikilmenni. Grímr hét annarr son þeira, er kallaðr var eyrarleggr. Halldóra hét dóttir þeira; hon var væn kona ok vel skapi farin. Sá kostr þótti vera einnhverr beztr fyrir sakar frænda ok mest kunnostu ok framkvæmdar hennar. Þessar konu bað Glúmr; lézt hann lítt þurfa mundu frænda at segja, ætt sína né svá fjárhluti eða atferð — „þat mun yðr kunnigt vera, enn ráðakost þenna hefi ek mér ætlat, með því at frændr hennar vilja". Honum var vel svarat þessu máli; er hon föstnuð Glúmi með miklu fé, ok gert brullaup þeira vel. Ok nú er hans ráð enn virðulegra enn áðr. — Þorvaldr hét maðr Refsson, er bjó at Barði í Fljótum. Hann átti Þuríði, dóttur Þórðar frá Höfða. Börn þeira váru Klaufi ok Þorgerðr, er átti Þórarinn á Espihóli. Þorvaldr krókr á Grund átti Þorkötlu ór Þjórsárdal. Hlenni enn gamli Örnólfs son töskubaks bjó í Víðinesi ok átti Odd-

Kötlu Oddkelsdóttur ór Þjórsárdal. Gizurr hét maðr ok var Kaðalsson. Hann bjó at Tjörnum í Eyjafjarðardal; hann átti konu þá er Saldís hét; hon var gild húsfreyja. Gizurr var ok í enu stærra bónda tali, vel fjár eigandi. Dætr þeira eru tvær nefndar, Þórdís ok Herþrúðr, konur vænar ok oflátar miklir; þóttu vera góðir kostir; óxu þar upp heima. Bróðir Gizurar hét Rúnólfr; hann var faðir Valgerðar, móður Eyjólfs á Möðruvöllum. Þórdís var dóttir Kaðals, er átti Þórir á Espihóli, ok þeira börn váru þau, sem sagt var fyrr. Þorgrímr Þórisson var eigi Þórdísar son, enn þó skilgetinn. Þorgrímr var mikilmenni ok vel at sér. Hann ríðr á fund Gizurar þess erendis at biðja Þórdísar dóttur hans sér til eiginkonu. Váru flytjendr þessa máls *bræðr* hans ok vinir, frændr konunnar — þóttust vera nær komnir at ráða fyrir kosti frændkonu sinnar, ok leizt þeim allvænlega stofnat. Enn Þorgrími var synjat konunnar, enn öllum þótti hann hafa mælt til jafnræðis — ok fyrir þótti bræðrum hans ok frændum.

11. Sá maðr er nefndr til sögunnar, er Arnórr hét ok var kallaðr rauðkinnr. Hann var Steinólfs son Ingjalds sonar ok bræðrungr Glúms at frændsemi. Hann hafði lengi í förum verit ok var vel metinn, ok var með Glúmi jamnan, er hann var út hér. Hann veik til við Glúm,

at hann biði konu til handa honum. Glúmr spyrr, hverrar konu hann vili biðja. Arnórr segir: „Þórdísar Gizurardóttur, er Þorgrími Þórissyni var synjat“. Glúmr svarar: „Óvænt þyki mér þat horfa, því at mér þykir ykkar engi munr. Enn Þorgrímr á bústað góðan ok auð fjár, frænda afla mikinn, enn þú átt engan bústað ok ógnóg fé. Enn ek vil eigi ójafnað bjóða Gizuri, svá at eigi ráði hann fyrir dóttur sinni sem hann vill, því at Gizurr er góðs verðr frá mér“. Arnórr segir: „Þá nýt ek góðra frænda, — ef ek get þá betra kost — at þú flytir mitt mál. Heittu honum vinfengi þínu, ok mun hann þá gefa konuna, því at þetta mundi jamræði kallat, ef eigi hefði svá friðum manni verit frá vísat áðr, sem Þorgrímr er“. Glúmr lét at eggjast, ok fór með honum á fund Gizurar, ok tjár málit fyrir honum. Gizurr svarar: „Vera kann þat, Glúmr“, segir hann, „at þat verði mælt, at mér mislítist, ef ek gef dóttur mína Arnóri frænda þínum, enn mér sýndist eigi at gefa Þorgrími“. Glúmr segir: „Rétt er mælt, enn þó er því at lýsa, ef þú vill várt mál virða, at þar í mót mun mitt vinfengi koma“. Gizurr svarar: „Þat þyki mér mikils vert, enn grunar mik at þá komi í mót óvinfengi annarra manna“. Glúmr segir: „Þú sér ok ráð þitt, enn miklu mun hér um skifta minn þótta, hvárt þú gerir“. Þá segir Gizurr: „Eigi skaltu erendislaust fara

þetta sinn" — ok rétti fram höndina ok festi Arnórr sér konu. Enn Glúmr segir, at hann vill þat til leggja, at brullaup skal vera at Þverá um haustit. Ok skilja þeir nú við svá búit. — Arnórr átti malt út at Gásum, ok skyldi hann sjálfr sækja ok húskarl einn með honum. Enn Þorgrímr Þórisson fór þann dag til laugar, er þeira var utan ván með maltit, ok váru at Hrafnagilslaugu ok sex húskarlar hans með honum. Enn er þeir kómu utan ok vildu ríða yfir ána, þá mælti Þorgrímr: „Mun eigi nú mjök vel fallit at hitta þá Arnór? Missum eigi maltanna, ef vér skulum þó missa konunnar". Gengu þeir Þorgrímr í móti þeim með brugðin sverð; ok er þeir Arnórr sá þat, hverr liðsmunr var, þá hleypti hann á kaf ok svá yfir ána, enn klyfjahestarnir váru fyrir vestan ána. Þá mælti Þorgrímr: „Eigi berum vér til alls ógiftu; ölit skulum vér drekka, enn þeir munu ráða kosti konunnar". Þorgrímr ríðr til Espihóls hins syðra. Þórir var þá sjónlauss. Enn þeir förunautar Þorgríms váru allkátir ok hlógu mjök, ok spyrr Þórir, hvat þeim þætti svá hlæglegt. Þeir sögðust eigi vita, hvárir fyrr mundu veizluna halda; sögðu þar föngin, enn þá frá elta er áttu — „enn brúðguminn á kafi". Ok er Þórir heyrir þetta, þá mælti hann: „Þykir yðr vel komit málinu yðru, er þér hlæit svá mjök, eða hvert mun nú órræði yðvart?

Ætli þér hér í nótt at sofa ok engis annars við þurfa? eigi kunni þér þá skaplyndi Glúms, ef honum þykir góð för frænda síns. Ek kalla ráð at safna mönnum. Meiri ván, at Glúmr hafi nú saman dregit marga menn". — Þar var þá vað á ánni er nú er ekki. — Þeir söfnuðu nú at sér átta tigum vígra manna um nóttina ok bjuggust við á hólinum framanverðum, því at þar var vaðit á ánni við hólinn sjálfan. Enn frá Arnóri er at segja, at hann finnr Glúm ok segir honum frá förum sínum. Hann segir: „Ekki kom mér þat at óvörum, at þeir léti eigi kyrt, ok er nú á vandi nökkur, svívirðing, ef kyrt er, enn allósýn virðing, ef við er leitat at rétta — enn þó skal nú safna mönnum". Ok er ljóst var um morgininn, þá kom Glúmr at ánni með sex tigu manna ok vildi ríða yfir ána. Enn þeir grýttu á þá Esphælingar ok gekk eigi fram reiðin, ok hvarf Glúmr aftr, ok börðust yfir ána með grjóti ok skotum; ok urðu þar margir sárir, enn engir eru nefndir. Ok er heraðsmenn urðu varir við, þá drifu þeir til um daginn ok gengu í milli, ok var á komit sættum ok leitat, hvat Esphælingar vilja bjóða fyrir ósæmdar hlut þann, er þeir höfðu gert Arnóri. Enn þau kómu svör í móti, at ekki mundu bætr fyrir þat koma, þó at Arnórr hleypti frá maltklyfjum sínum. Þá var leitat, at Glúmr mundi eiga hlut í at biðja Herþrúðar Gizurar-

dóttur til handa Þorgrími, ok skyldu því at eins ráð takast með þeim Arnóri ok Þórdísi, nema Glúmr geti konu þessa til handa Þorgrími — ok þótti sú betr gefin, er Þorgrímr ætti. Nú með því at margir áttu hlut í, þá heitr Glúmr sinni umsýslu; hittir Gizur ok vekr þetta mál, ok mælti: „Þat má virðast hlutgirni, ef ek bið bæði konu mínum frændum ok Esphælingum. Enn at óhöpp stöðvist í heraði, þá þykjumst ek skyldr at veita þér mína hollustu, ef þú gerir at mínum vilja“. Gizurr svarar: „Svá sýnist mér bezt at þú ráðir, því at mér sýnist vel boðit dóttur minni at þetta sé“. Takast nú ráðin hvárratveggju. Gerði Arnórr bú at Uppsölum, enn Þorgrímr bjó í Möðrufelli. Litlu síðarr andast Gizurr. Þá færði Saldís bygð sína á Uppsali. Arnórr gat son við Þórdísi, er Steinólfr hét. Annan son átti Þorgrímr, ok hét sá Arngrímr, ok var efnilegr maðr í uppvexti sínum öllum.

12. Saldís bauð heim dóttursyni sínum hvárumtveggja. Arngrímr var tveim vetrum ellri enn Steinólfr, ok óxu eigi vinsælli menn upp í Eyjafirði eða allbetr væri at sér gervir, ok unnust allmikit. Þá er annarr var fjogurra vetra, enn annarr sex vetra, léku þeir sér um dag, ok bað Steinólfr Arngrím ljá sér messingarhest. Arngrímr svaraði: „Ek mun gefa þér, því at þat er nú heldr þitt leika enn mitt, fyrir aldrs

sökum". Enn Steinólfr sagði fóstru sinni, hvé góða gjöf hann hefði þegit. Hon kvað þat vel vera, at hvárr þeira var svá vel til annars. — Kona sú fór þar um herað, at Oddbjörg hét, gleðimaðr, fróð ok framsýn. Þótti mikit undir, at húsfreyjur fagnaði henni vel um heraðit; sagði nökkut vilhalt, sem henni var beini veittr. Hon kom til Uppsala, ok tók Saldís vel við henni ok bað hana spá nökkut um þá sveinana, ok spá vel. Hon segir: „Vænlegir eru þessir sveinar, ef þeim vinst gæfan til — þat er mér vansét". Saldís mælti: „Eigi ætla ek þér nú allgóðan þykkja beinann fyrir skútu þessa". Hon svarar: „Ekki mun þetta ráða verðgetum þínum, ok þarftu eigi svá orðvönd at at vera". Saldís mælti: „Fámælt skaltu þar um vera, ef þér segir eigi vel hugr um". Hon segir: „Ekki hefi enn ofmælt hér um, enn eigi ætla ek lengi ástúðigt með þeim". Saldís mælti: „Annars þættumst ek maklegri fyrir góðan beina, ok muntu vera rekin í brott, ef þú ferr með illspár". Oddbjörg segir: „Ek ætla nú eigi þurfa at hlífast við, ef þú lætr svá um enga sök; mun ek þik ok eigi oftar heim sækja, enn þú uni við svá vel sem þú vill — enn þat kann ek þér at segja, at þeir munu banaspjót eftir berast, ok mun hvat öðru verra af hljótast hér í heraði". — Ok er Oddbjörg ór sögunni.

13. Þat gerist eitt sumar á alþingi, at í Fanga-

brekku gengust menn at sveitum, Norðlendingar ok Vestfirðingar; gekk Norðlendingum þyngra; var fyrir sveit þeira Már sonr Glúms; kemr þar at maðr einn er Ingólfr hét, son Þorvalds. Faðir hans bjó á Rangárvöllum. Már mælti: „Þú ert þreklegr maðr; muntu vera sterkr; veit mér atgang at fangs“. Hann svarar: „Þat mun ek gera fyrir þínar sakir“. Sá fell er í móti var; gengr til annarr ok enn þriði ok fór svá. Nú hugnaði Norðlendingum. Þá mælti Már: „Ef þú þarft míns formælis, skal ek þér at liði verða—eða hvat skal nú ráða þinna?“ Hann svarar: „Ekki hefi ek ráðit, ok vilda ek helzt norðr um ok taka verknað“. Már segir: „Þat vil ek at þú farir með mér, ok mun ek fá þér vist“. Ingólfr átti stóðhross góð ok kallaði hestinn Snækoll. Hann fór norðr af þingi til Þverár; var þar um stund. Einn dag spurði Már, hvat Ingólfr ætlaði fyrir sér — „hér þyrfti verkstjóra ok væri hagr nökkut. „Hér er sleði einn, er þú skalt gera, ok ertu bjarghagr, ef þú kant þetta“. Ingólfr svarar: „Til þessar vistar væra ek fúsastr, enn þat hefir orðið stundum, at mein hefir þótt at hrossum mínum í búfjárhögum“. Már segir: „Ekki mun hér at slíku talit“. Ingólfr gerir nú at sleðanum, ok kemr Glúmr, ok lítr á smíðit. „Þetta er vel gert“, segir Glúmr, „eðá hvat er ráða þinna?“ Ingólfr svarar: „Ek hefi ekki ráðit“. Glúmr segir: „Mik vantar

verkstjóra, eða ertu nökkut við þat brugðinn?" Hann svarar: „Lítt í slíkum stöðum, enn fúss væra ek með þér at vera". Glúmr segir: „Hví skal eigi þat? sé ek at þit Már leggið lag ykkart saman". Nú kemr Már heim, ok segir Ingólfr honum. Hann svarar: „Gott þyki mér ef þetta verðr vel, ok segja mun ek þér þrisvar sinnum, ef föður mínum mislíkar, enn ef þá gerir þú eigi at, mun ek hætta". Ingólfr tekr nú til umsýslu ok líkar Glúmi vel. Einn dag ferr Glúmr til hestaþings ok verkstjóri hans; ríðr hann meri, enn hestr hans rennr hjá. Er þar skemtan góð. Þar var Kálfr frá Stokkahlöðu. Hann átti hestklár einn gamlan — enn hann kom hverjum hesti fyrir. Hann mælti: „Hví skal eigi þann hér í móti leiða dýrkálkinn þeira Þveræinga?" Glúmr svarar: „Þat er ójamlegt, hestr sá ok klárr þinn". Hann segir: „Því munu þér eigi vilja, at engi hugr mun í vera — kann vera at sanni it fornkveðna, at fé sé drotni glíkt". Glúmr svarar: „Þat mun þér ókunnigt — mun ek ok eigi neita fyrir hans hönd, enn at mun vera eigi lengr enn hann vill". Kálfr segir: „Vánir má þess vita, at fátt mun í móti yðrum vilja". Váru hestar fram leiddir ok bitust vel, ok þótti öllum hestr Ingólfs betr ganga, ok vill Glúmr þá skilja. Ríða heim. Er Ingólfr þar þau missari ok hugnaði Glúmi vel við hann. Samkváma var við Djúpa-

dalsá. Þar kemr Glúmr, ok Ingólfr með hest sinn. Kálfr kemr þar — hann var vinr Esphælinga. Þar var hestr hans, ok býðr, at nú skulu þeir til þrautar leggja hesta-atit. Glúmr kveðr Ingólf ráða skulu. Hann lézt ófúss vera, enn nenti eigi undan at ganga. Eru hestar fram leiddir; keyrir Kálfr hest sinn; gengr hestr Ingólfs betr í öllum lotum. Þá keyrir Kálfr stafinn við eyra hesti Ingólfs, svá at hann svimrar, ok þegar eftir réð hann á. Glúmr gekk þá at ok náist jafnaðr, ok lýkr svá, at hestr Kálfs gekk út. Varð þá óp mikit. Ok at skilnaði laust Kálfr Ingólf með stafnum. Standa menn nú á milli. Glúmr mælti: „Gefum engan gaum at slíku — svá lýkr hér hverju hestaþingi“. Már mælti við Ingólf: „Svá mun faðir minn til ætla, at þér verði engi svívirðing at þessu höggi“.

14. Þorkell hét maðr, er bjó á Hamri. Þangat ferr Ingólfr ok hittir dóttur bónda. Hon var fríð kona. Faðir hennar hafði vel fé; ekki var hann mikilmenni. Þó geymir Ingólfr vel umsýslu heima, enn smíðar færa enn var. Már ræddi um við hann um sinn: „Nú finn ek at föður mínum mislíkar, er þú gengr frá húsi“. Ingólfr svarar vel, enn þó dregr til sama munar. Már talar tll öðru sinni ok it þriðja sinn, ok stoðar þó ekki. Þat var eitt kveld, er hann kom síð heim ok váru menn mettir, þá mælti

Glúmr: „Nú skulum vér taka oss fulltrúa ok skemtum oss; mun ek kjósa fyrst, ok eru þrír mínir fulltrúar — einn er fésjóðr minn, annarr ex mín, þriði stokkabúr“. Þá kaus annarr at öðrum. Þá mælti Glúmr: „Hvern kýs þú, Ingólfr?“ Hann svarar: „Þorkel at Hamri“. Hann Glúmr sprettr upp ok hefir sverðshjöltin fyrir sér, ok gekk at honum ok mælti: „Maklegan fulltrúa kauztu þér“. Allir sá at Glúmr var reiðr. Hann gekk út ok Ingóltr með honum. Þá mælti Glúmr við Ingólf: „Far þú nú til fulltrúa þíns, ok seg at þú hafir vegit hlöðu-Kálf“. Hann svarar: „Hví muna ek því ljúga á mik?“ „Svá skaltu gera sem ek vil“. Ok nú gengu þeir báðir saman, ok nú víkr hann Glúmr í hlöðu, ok sá þar kálf einn, ok höggr í höfuðit ok fær honum sverðit blóðugt. „Gakk nú suðr yfir ána, ok seg at þú væntir þar at eins trausts, ok sýn honum blóðugt sverðit, at jartegnir sé skýrar“. Hann gerir svá; finnr Þorkel ok sagði honum tíðendin, at hann mintist höggs þess, er Kálfr laust hann, ok kvaðst hafa drepit hann — „ok leita ek mér hegat til trausts, sem þú hefir mælt“. Hann svarar: „Þú ert glópr mikill, drepit góðan dreng — ok dragst út sem skjótast; eigi vil ek at þú sér drepinn í húsum mínum“. Hann ferr heim ok kemr á fund Glúms, ok spyrr hann: „Hversu gafst nú fulltrúinn?“ Ingólfr svarar: „Eigi

gafst vel". Glúmr segir: „Reyn þú nú minn fulltrúa þá" — ok fylgdi honum í stokkabúr út — „vandhæfr muntu verða, ef hann er drepinn hlöðu-Kálfr". Annan dag eftir er sagt víg hlöðu-Kálfs frá Stokkahlöðu. Ok nú segir Þorkell, at sá maðr hafði þar komit, er því óhappi lýsti á sik; hafa allir þat fyrir satt. Líðr nú vetr sá. Glúmr sendir Ingólf norðr til Einars Konálssonar, ok fekk honum níu hundruð vaðmála ok mælti: „Þú hefir ekki kaup haft með mér, ok við fégætni þína þá máttu þessu koma þér í gagn. Enn mál þetta, er þér er kent, mun ek annast, ok mun þik ekki saka; galt ek þér þat fyrir þrályndi þína. Ok ef þú kemr út, máttu mín vitja". Ingólfr mæltí: „Þess bið ek, at þú látir eigi gifta konu frá mér". „Því væni ek þér". Hross hans váru þar eftir. Einarr Konálsson kom Ingólfi utan. Enn Þorvaldr bjó mál eftir Kálf til Hegraness-þings, ok horfði til þess at Ingólfr mundi verða sekr. Glúmr var ok þar ok frændr Ingólfs nökkurir. Þeir hitta Glúm ok biðja hann ásjá, ok kváðust til mundu leggja ok bæta fyrir hann. Glúmr svarar: „Ek mun ásjá þetta mál fébótalaust". Þá er dómr fór út ok til varna var boðit, þá sagði Glúmr, at ónýtt var málit — „hafi þér öðrum manni á hendr búit málit enn vegit hefir— enn víginu veld ek". Síðan nefnir hann vátta, at ónýtt er málit — „enn þó at Ingólfr dræpi

hlöðu-kálf, gaf ek honum enga sök á því. Nú mun ek bjóða sætt, meir eftir því sem maðr var verðr, enn eftir ofsa yðrum Esphælinga". Fóru menn heim af þingi. — Ingólfr var utan þann vetr, ok undi því eigi lengr; verr fé sínu ok kaupir góða gripi, ok tjöld þau er góðir gripir váru. Glúmr hafði gefit honum feld góðan; þann skifti hann í skarlaz-kyrtil. Ok þat sumar er hann fór utan, kom út sá maðr, er Þjóðólfr hét. Móðir hans bjó á Æsustöðum. Hann ferr til Hamars ok hittir Helgu. Einn dag hafði Glúmr riðit upp til Hóla, ok er hann reið ofan til Saurbæjar, kom þar í móti honum Þjóðólfr. Þá sagði Glúmr: „Um kvámur þínar er mér ekki til Hamars, ok ætla ek mér at annast um ráð Helgu — enn ef þú lætr eigi af, mun ek bjóða þér hólmgöngu". Hann svarar, ok kveðst ekki mundu keppa við Glúm, ok lætr af kvámum.

15. Nú kemr út Ingólfr ok ferr til Þverár, ok tekr Glúmr við honum ok bauð með sér setugrið. Þat þiggr hann. Einn dag mælti Ingólfr: „Nú vil ek, Glúmr, at þú sjáir yfir varning minn". Hann gerir svá, ok sýnist honum vel varit vera. Þá mælti Ingólfr: „Þú fekt mér fararefni; nú kalla ek þik eiga þetta fé". Þá segir Glúmr: „Þat eitt fé hefir þú, at ek ætla ekki mér þat". „Hér eru þó tjöld, er ek hefi keypt til handa þér, þau skaltu þiggja

—hér er einn kyrtill". Glúmr svarar: „Þiggja skal ek gjafar þínar". Einn dag spurði Glúmr, hvárt Ingólfr vildi vera heima með honum. Ingólfr svarar: „Þat er í hugnum, at skiljast eigi við þik, ef þess er kostr — stóðhross mín vil ek þér gefa". Glúmr segir: „Ek mun þiggja hrossin, enn nú skulum vit finna Þorkel á Hamri í dag". Svá gera þeir. Þorkell fagnar vel Glúmi. Þá mælti Glúmr: „Þú hefir gert sakar við Ingólf, enn nú máttu bæta þat með þeim hætti, at gifta honum dóttur þína. Er hann þess ráðs maklegr, enn ek mun fé til leggja með honum, ok ek hefi hann reynt at góðum dreng — enn ef þú gerir eigi svá, muntu mis-smíði á sjá". Þessu játir hann, ok fær Ingólfr þessar konu, ok gerist búmaðr ok nýtr drengr.

16. Glúmr gifti Þorlaugu dóttur sína víga-Skútu at Mývatni norðr, ok fyrir sakir þeira sundrlyndis, þá lét hann hana fara heim til Þverár ok lét hana eina. Þat líkaði Glúmi þungt. Síðan bað hennar Arnórr kerlingarnef, ok átti hana. Frá þeim eru komnir göfgir menn. Síðan var með þeim Glúmi ok Skútu fæð mikil. — Eitt sumar kom einn einhleypingr á fund Skútu ok bað sér viðtöku. Hann spurði, hvat honum var á höndum. Hann lézt vera vígamaðr ok eiga óvært í sínum heruðum. Skúta segir: „Eigi vænti ek mér vanda á við

þik — eða hvat viltu til vinna ásjá minnar?“ Hann svarar: „Til hvers mælir þú?“ Skúta segir: „Þú skalt fara sendiför mína til Víga-Glúms ok mæla þessum orðum við hann — at þú þykist þurftugr, at hann sé forstjórnarmaðr þíns ráðs. Ek get at nú beri svá til um fund ykkarn, at hann sé í þingreið. Hann er þrautgóðr, ef menn þurfa hans, ok má vera at hann mæli, at þú farir til Þverár ok bíðir hans þar. Þú skalt segja, at meir sé þér þröngt, ok þú vildir heldr mega tala við hann einn saman; ok með því kann vera, at hann leggi nökkur ráð til. Þess skaltu beiðast, at hitta hann í Mjaðmárdal, er gengr upp frá bænum at Þverá, ok sel hans standa í; lát þér þar líka at finna hann at ákveðnum degi“. Þessu játir hann, ok gengr nú alt þetta eftir því, sem Skúta setr ráð til. Þessi flugumaðr kemr nú aftr til Skútu ok sagði honum. Hann segir: „Þá hefir þú vel leyst þitt erendi — ok ver nú með mér“. Nú líða stundir. Ok er þar kemr tíma, sem Glúmr hefir heitit sendimanni, at þeir mundi finnast, þá býst Skúta heiman með þrjá tigu manna. Hann ríðr norðan ok kemr vestr yfir Vöðlaheiði ok á hjalla þann, er heitir Rauðahjalli. Þar stíga þeir af baki. Þá mælti Skúta: „Hér munu þér eiga dvöl um hríð, enn ek mun ríða inn með hlíðinni, vita, ef nökkut verði til fengjar“. Hann sér, er hann sækir í

dalinn, at maðr reið upp frá Þverá, mikill ok í kápu grænni, ok kennir at þar ríðr Glúmr. Þá steig hann af hestinum. Hann hafði vesl yfir sér tvískift, svart ok hvítt. Hann lét hestinn í rjóðrit ok gengr síðan til selsins; ok var Glúmr þá kominn í selit. Skúta hafði sverð í hendi, þat er Fluga hét, ok hjálm á höfði; gengr at selsdyrrum ok laust á vegginn, ok víkr síðan hjá selinu. Glúmr gengr út, svá at hann hafði ekki í hendi; sér engan mann; snýr hjá selinu. Komst þá Skúta í milli hans ok selsdyranna. Þá kennir Glúmr manninn ok hopar undan, enn árgljúfrin váru nær selinu. Skúta biðr hann bíða. Hann telr þat jafnlegt, ef þeir væri jambúnir við. Glúmr hopar at gljúfrunum, enn Skúta sækir eftir. Glúmr steypist ofan fyrir gljúfrin, enn Skúta leitar þar ofan, er ganga mátti, ok sér í gljúfrunum, hvar kápuna rak, ok hleypr til ok leggr þegar til. Þá heyrir hann mál yfir sik — „lítil fremd at spilla klæðum manna“. Skúta sér upp ok kennir þar Glúm. — Hann hafði raunar vitat, at þar var tó undir, er hann fór ofan. — Þá mælti Skúta: „Á þat áttu at minnast, Glúmr, at nú hefir þú runnit, ok beitt eigi Skútu“. Glúmr segir: „Satt er þat, enn vilja munda ek þat, at þú rynnir eigi skemra áðr sól settist í kveld“. Þá kvað Glúmr þetta:

(3) Halfs eyris metk hverjan

hrísrunn fyr á sunnan,
vel hafa viðir skógar
vargfæðanda borgit.

Þar skilr með þeim því sinni. Ferr Glúmr heim ok samnar sér liði, ok segir hvert veilræði fyrir hann var sett; lézt ok vilja at brátt gyldist. Hann fær á skamri stundu sex tigu manna. Ríða upp í dalinn. Skúta gekk til hests síns, þá er þeir Glúmr skildu, ok reið með hlíðinni, ok sér nú manna-reiðina ok veit at þat má honum eigi endast at finna þá; leitar sér ráðs — brýtr spjótit af skafti ok hefir fyrir staf, tekr af söðulinn ok ríðr berbakt; snýr veslinu; ríðr at sauðum ok æpir hátt. Þeir koma eftir ok spyrja, ef hann sæi nökkurn mann ríða um leitit fram með vápnum, skörulegan. Hann kveðst sét hafa. Þeir spurðu: „Hvat heitir þú?“ Hann svarar: „Ek heiti Margr í Mývatnshverfi, enn Fár í Fiskilækjarhverfi“. Þeir segja: „Skætingu ok spotti viltu svara oss“. Hann lézt eigi sannara kunna at segja, ok skilr með þeim. Ok þegar er þeir váru skildir, tók hann vápn sín ok söðulreiði; reið hvatlega til manna sinna. Þeir finna Glúm ok sögðu at þeir fundu mann, er þeim svaraði spotti einu, ok sögðu hvat er hann nefndist. „Nú hefir orðið ráðfátt“, segir Glúmr, „þar hafi þér Skútu fundit, eða hvat mátti hann sannara segja, því at í Mývatnshverfi er margr hellis-

skúti, enn í Eyjafirði í Fiskilækjarhverfi hittir engi skúta, ok hefir nú nær haft með oss — ok eftir skulum vér enn ríða". Koma at hjallanum, ok eru þeir þar fyrir. Enn þar er einstigi at, ok er þar betra at verja með þrjá tigu manna, enn sækja at með sex tigu. Þá mælti Skúta: „Kostgæft hefir þú nú mjök at sækja eftir mér; má nú vera at þú þykist þess eiga í at hefnast fyrir undanhaldit, ok gott áræði bartu til at hlaupa í gilit; ekki vartu þá ófóthvatr". Glúmr segir: „Satt var þat, kunnir þú ok hræddr at verða, þá er þú lézt vera sauðreki þeira Eyfirðinga ok leyndir vápnum þínum, enn þú brauzt sum — ætla ek at eigi rynnir þú skemri leið enn ek". „Hversu sem hér til hefir farit, þá sæk nú með hálfu fleira lið". Glúmr svarar: „Ek ætla at nú munim vit skilja at sinni; verðr nú virt sem má í hvárn stað". — Skúta ríðr nú norðr, enn Glúmr heim til Þverár.

17. Þá er Þórir andaðist, gerði Þórarinn bú fyrir norðan Espihól ok bjó þar. Glúmr gat börn við konu sinni. Hét Már son hans, sem (fyrr) var getit; annarr Vigfúss. Váru báðir efnilegir ok all-ólíkir. Már var hljóðr ok spakr, enn Vigfúss hávaðamaðr mikill, ójafnaðarmaðr, rammr at afli ok fullhugi. Sá maðr var með Glúmi, er Hallvarðr hét, lausingi hans ok fóstri Vigfúss. Hann rakaði fé saman — refjusamr í fjár-

reiðum. Hann handsalaði Vigfúsi fé sitt. Ekki var hann orðsæll. Hann gerði bú á bæ þeim, er at Tjörn heitir, uppi í Eyjafjarðardal, ok batnuðu ekki vinsældir hans við þat; ok var svá mjök hendisamr í afréttum. Enn Vigfúss var farmaðr mikill. — Sá maðr bjó á Jórunnarstöðum er Halli hét, ok var kallaðr Halli enn hvíti; hann var Þorbjarnarson. Móðir hans hét Vigdís; hon var dóttir Auðunar rotins. Hann hafði fóstrat Einar Eyjólfsson, er þá var kominn bygðum í Saurbæ. Halli var sjónlauss. Hann var við öll sáttmál riðinn í heraði, því at hann var bæði vitr ok réttdæmr. Hans synir váru þeir Ormr ok Brúsi skáld, ok bjuggu þeir í Torfufelli, enn Bárðr bjó á Skáldstöðum. Hann var hávaðamaðr ok ójafnaðarmaðr mikill, ok vígr hverjum manni betr; örmálugr ok ákastasamr. Hann átti Unu Oddkelsdóttur ór Þjórsárdal. Haust eitt hurfu Halla enum hvíta ór afrétt tíu eða tólf geldingar, ok fundust eigi. Ok er þeir Bárðr feðgar fundust, spurði Halli, hvat hann ætlaði af geldingum hans orðit. Bárðr svarar: „Ekki undrumst ek þó at sauðir hverfi, er þjófar sitja í næsta húsi, síðan er Hallvarðr kom hingat í sveit“. Halli segir: „Þat vil ek, at þú búir mál til á hendr honum ok stefnir honum um stuld, ok get ek at Glúmr beri eigi af honum tólftarkviðinn, ef ek læt búa þjófsök á hendr honum“. Bárðr svarar: „Tor-

sótt mun at sækja tólftarkviðinn at þeim feðgum".

18. Nú býr Bárðr mál til. Ok er Vigfúss veit þat, segir hann föður sínum, at eigi mun honum hugna, at menn búa þjófsök á hendr fóstra hans. Glúmr svarar: „Veiztu at hann er ótrúr ok mun óvinsælt verða málit, at bera af honum kviðinn". Vigfúss segir: „Um stærra vilda ek at þá væri at mæla". Glúmr svarar: „Betra þyki mér at gjalda fyrir hann, ok fari hann hingat ok bregði búi, heldr enn leggja fyrir slíkan mann virðing mína". — Nú koma menn til þings ok málit í dóm, ok á Glúmr at bera tólftarkvið. Þá varð Vigfúss varr við, at hann ætlaði á at bera kviðinn, ok gekk at dóminum ok kveðst vilja mundu, ef fóstri hans yrði sekr, at Glúmi þætti þat alkeypt. Ok varð svá, at Glúmr ónýtti málit, ok berr af honum kviðinn — ok fekk af óvirðing. Enn er þaðan leið vetr eða tveir, þá hvarf Halla túngöltr svá feitr, at trautt mátti rísa. Þá kom Bárðr um dag ok spurði, ef galti væri drepinn. Halli sagði horfinn vera. Bárðr svarar: „Hann mun farinn at leita sauða þeira, er stolit var it fyrra haust". Hann segir: „Þess get ek at eina leið hafi farit — muntu stefna vilja Hallvarði?" Bárðr svarar: „Svá skal vera, því at nú mun Glúmr eigi af honum bera kviðinn, því at Vigfúss olli þá er af var borinn, enn nú er hann eigi hér á landi". Bárðr

tekr málit ok ferr í stefnuför. Ok er hann finnr Hallvarð, hefir hann skjót málalok, höggr af honum höfuð; sagði síðan föður sínum. Hann lét illa yfir, ok ferr þegar á fund Glúms ok sagði hônum atburðinn; ok býðr honum eindæmi. Glúmr þiggr þat, gerir lítit fé, enn lét gjalda fyrir göltinn ok sauðina; ok mælist þat vel fyrir. Enn er Vigfúss kom út, varð hann illa við dráp Hallvarðs. Glúmr segir: „Eigi skal hlýða at bregða þessi sætt, er nú er ger". Nú áttust þeir ekki við, þó at þeir fyndist, Bárðr ok Vigfúss. — Annat sumar var stofnat hestaþing þat er öllum hestum skal etja, þeim er til váru í heraðinu, ok skyldu þeir í mót ór enum efra hrepp ok enum neðra, ok skyldu sinn mann hvárir til taka, ok kveða at, hvárir betr hefði; ok skulu þeira atkvæði standa, er til váru kosnir. Ofan ór hrepp var Bárðr til kosinn, enn ór neðra hrepp Vigfúss Glúmsson. Var þar fjöldi hesta ok góð skemtan, ok mjök jamvígi; ok váru mörg hestavíg senn um daginn. Enn svá lauk, at jammargir höfðu vel bitizt ok jammargir runnit, ok urðu þeir á þat sáttir, at jamvígi væri. Enn þá lézt Vigfúss eiga hest, er eigi var att — „ok er sá beztr þeira, er hér hafa í dag komit; leiði þér þar í mót nökkurn". Bárðr svarar: „Vándr lízt oss sjá; munum vér engan þar mót láta, ok köllum þó jamvígi". Vigfúss segir: „Skortir yðr þá, ok muntu

eigi þat vilja, at mælt sé at þér hafið eigi við". „Vel hefir þú einurð haldit hér til, enn nú skýjar á heldr, ok finst nú þat á, at þú munt oftar hafa staðið nær búrhillum ok ráðit um matargerð með móður þinni, enn gengit at hestavígum; ok er þann veg litt skegg þitt eigi síðr". Vigfúss hló at ok margir aðrir. Kemr húskarl Halla heim, ok spurði hann at hestaþinginu. Húskarlinn svarar: „Jamvígi þótti þeim". Halli spurði: „Urðu þeir ásáttir, Bárðr ok Vigfúss?" Hann svarar: „Víst vel — þó mælti Bárðr eitt orð við Vigfús". Hann spurði: „Hvert var þat?" Hann segir. Halli mælti: „Þat er ills efni". Húskarlinn segir: „Hló Vigfúss at". Halli svarar: „Þat er vani þeira feðga at hlæja, þá er víghugr er á þeim". Finnast þeir feðgar Halli ok Bárðr, ok spyrr Halli, hví honum yrði þat fyrir at mæla svá ferlegt — „ok uggir mik at dragi til mikillar ógiftu. Mun þat eitt ráð, at þú farir utan ok sækir þér húsavið, ok ver utan þrjá vetr, ella muntu feigr". Bárðr segir: „Ekki lag væri at, ef þú værir eigi ragr; slíkt gerir ellin, at þú hræðist um sonu þína". Halli svarar: „Þótt þú sér hetja mikil, mun þér torsótt at halda þik í heraðinu". — Hann gerir eftir ráðum föður síns, ok ferr utan. — Síðan kaupir Halli at einum einhleypingi at fara í Skagafjörð, eða vestr þaðan, ok segja, at Bárðr færi af því utan, ok

treystist eigi öðru fyrir þeim feðgum, enn fara utan fyrir eitt orð — „ok engi þorir þeim í mót at gera í heraðinu“. Hann gerði sem Halli bað. Þetta bragð var til þess gert, at frændr Bárðar sæti í friði fyrir hans sakar. — Bárðr var einn vetr utan, ok kom þá út til bús síns.

19. Halli hafði varðveitt bú Bárðar, meðan hann var utan, ok hafði látit höggva í skógi timbr í Mjaðmárdal, er Bárðr átti. Hann hafði ok út mikla viðu. Hann var stundum at búi sínu, stundum með feðr sínum. Bárðr segir, at hann vill sækja timbr sitt. Halli svarar: „Þat vilda ek, at þú færir eigi sjálfr, ok mun þeim eigi gott at trúa feðgum“. Bárðr segir, at menn mundu ekki verða varir við ferð þeira. Hann fór ok húskarl með honum at sækja timbrit, ok höfðu fjölda hrossa. Enn Una kona hans hafði farit í Víðines til Oddkötlu systur sinnar, ok kom Bárðr þar, ok bauð Hlenni honum at fá mann annan í skóginn, enn hann biði þar — þótti þat meiri varúð. Hann kvað þat eigi þurfa. Þær systur leiða hann ór garði; enn er þær hurfu aftr, leit Una aftr um öxl eftir honum ok fell í óvit. Enn er hon vitkaðist, spurði systir hennar, hvat hon hefði sét. „Ek sá dauða menn ganga á mót honum Bárði, ok mun hann feigr vera, ok munu vit eigi sjást síðan“. Nú fara þeir Bárðr, ok leggr þoku yfir, er þeir koma á skóginn; ok binda þeir drögur ok hefta

hross. Um morgininn snemma var smalamaðr á fótum at Þverá. Þat var oft, at Vigfúss hitti smalamann ok spurði tíðenda— ok svá var þenna morgin — ok mælti: „Undarlegt er þat, at þú finnr jafnan fé í slíku myrkri; aldri munda ek fé finna í slíkum myrkva". Hann svarar: „Lítit varð mér fyrir at hitta féit; meira varð þeim fyrir at finna hrossin í morgin, er ek sá í skóginum, ok stóðu nær hjá þeim sjálfum, ok létu þeir þó vænt yfir sér, ok var annarr í grænum kyrtli ok hafði skjöld á hlið". Vigfúss spyrr, ef hann kendi manninn. Hann kveðst ætla, at Bárðr væri — „því at hann á skóginn, er þeir váru í". Vigfúss mælti: „Sæk þú hesta mína þrjá". Austmenn váru þar tveir á vist; þá bað Vigfúss ríða með sér, ok kveðst mundu ríða til laugar. Hann stefnir suðr ór garði um Laugardal. Þá mæltu austmenn: „Hvert viltu nú ríða?" Hann svarar: „Ríða at erendum mínum fyrst" — ok reið sýnu fyrr enn þeir; ok fóru fyrir ofan bæi suðr, þar til er þeir sá Bárð fara ór skóginum með dragna-hrossin. Húskarl Bárðar sá eftirreiðina ok mælti: „Hart ríða þessir eftir", segir hann. „Hver tíðendi eru þat?" segir Bárðr. Hann svarar: „Þar er Vigfúss, ok vilda ek at vit riðim undan, ok er nú svívirðingarlaust, meðan vit vitum eigi, hvat þeir vilja". Bárðr segir: „Eigi mun Vigfúss ráða á mik við þriðja mann, ef þú ert eigi með

mér“. Hann svarar: „Fúsari er ek at fara með hestana, enn þú ríðir í Víðines; er þat eigi ámælisvert, er þú ríðr þangat er þú átt erendi, enda veiztu eigi víst þeira erendi, er eftir ríða; enn Hlenni mælti, at þú skyldir eigi trúa þeim“. Bárðr segir: „Þú skalt ríða fyrir, ok gera menn vara við, ef för mín verðr seinni enn líkendi sé á, því at ekki mun skjótt um skifta með okkr Vigfúsi, ef vit skulum tveir ásjást, enn hann er betri drengr enn hann muni með þriðja mann at mér ganga. Enn ef vit erum tveir, enn þeir þrír, þá munu þeir njóta liðsmunar“. Nú gerði hann sem Bárðr mælti, enn Bárðr leysti skjöld sinn ok bjóst við sem honum þótti vænzt. Ok er þeir fundust, þá spyrr Bárðr, hvert erendi þeira væri. Vigfúss sagði, at þeir myndi eigi báðir af þeim fundi fara lífs. Enn Bárðr kveðst búinn þess, ef þeir skyldu tveir við leikast — „enn þat er engi vaskleikr, at þrír gangi at einum“. Þá mæltu austmenn, at þeir mundu heima hafa setit, ef þeir vissi erendit, enn létust þó ekki lið veita mega, ef menn kæmi eigi til fulltings við Bárð, er förunautr hans hleypti í brott. Vigfúss bað þá sjá fyrst, hversu færi. Síðan börðust þeir langa hríð, ok varð hvárrgi sárr; enn Vigfúsi horfði því óvænna, at hann varð at hopa í hverju sinni, áðr hann næði höggfæri. Bárðr hafði sverð ok varði sik ágæta vel, ok varð ekki sárr.

Austmönnunm sýnist ófarnaðr mikill, ef Vigfúss er at jörðu lagiðr, enn þeir standi hjá, enn menn komi til fulltings við Bárð. Þá hlaupa þeir at Bárði ok drepa hann, ok var hann örendr er þeir Hlenni kómu. Enn þeir Vigfúss riðu heim; ok lét Glúmr illa yfir verkinu ok kveðr mikinn vanda hafa aukizt í heraðinu. Halli ferr á fund fóstra síns Einars í Saurbæ, ok biðr hann taká við málinu. Hann lézt þess skyldr at mæla eftir frænda sinn ok fóstbróður sinn. Ríða síðan á fund Þórarins ok biðja hann liðveizlu. Þórarinn segir, at hann veit eigi vánir þess manns, at hann vili heldr við eiga, ok bundu sitt vinfengi með særum, þetta mál ok hvert annat. Fóru mál til þings, ok var leitat um sættir. Enn þar var svá þungt fyrir, at engi váru völ á því, því at í móti váru lögvitrir menn ok hugdjarfir, Möðrvellingar ok Esphælingar. Lauk þessu máli svá, at austmenn urðu sekir, ok var gefit fé til farningar Vigfúsi, ok skyldi þrjú sumur leita við utanför ok hafa þrjú heimili á hverjum missarum — ok var hann þá fjörbaugsmaðr. Enn hann mátti eigi heima vera fyrir helgi staðarins; ok var hann at Uppsölum löngum, ok ætlaðu at hann mundi vera í öðrum fjórðungum landsins, ok vildi hann eigi utan fara á því meli. Varð hann þá alsekr, ok helt Glúmr hann á laun. Enn því skyldu eigi sekir menn þar vera, at Freyr leyfði eigi, er

hof þat átti er þar var. — Fór því fram sex vetr.

20. Nú er þar til máls at taka, er þeir vaxa upp fóstbræðr, Arngrímr ok Steinólfr. Enn þá er Þorgrímr andaðist í Möðrufelli, fór Arngrímr til bús síns ok Steinólfr með honum, ok var þá svá ástúðigt með þeim, sem þá er bazt hafði verit. Arngrímr kvángaðist ok átti Þórdísi Bjarnardóttur, systur Arnórs kerlingarnefs. Steinólfr var í kaupförum, enn var með Arngrími, er hann var út hér. Þat var eitt sumar, er hann kom út í Eyjafirði, at Arngrímr bauð honum eigi til sín ok mælti ekki við hann, þótt þeir sæist, ok fann þat til saka, at hann hefði fleira talat við Þórdísi konu hans, enn skaplegt væri. Enn þat er flestra manna sögn, at lítit væri til haft eða ekki. Þá bauð Glúmr honum til sín; ok var svá nökkur missari, at hann var með honum, at hann var út hér, ok var ástúðigt í frændsemi þeira. Steinólfr var atgervimaðr mikill. Eitt sumar bauð Glúmr honum eigi til sín, ok kvaðst vilja at hann væri at Uppsölum með feðr sínum, — „enn því býð ek þér eigi, at mér þykja eigi góðar húsgöngur; enn ef þú ert með feðr þínum, þá muntu hingat ganga til Þverár, ok verð ek þá feginn er vit finnumst“. Nú ferr því fram nökkura vetr, at Vigfúss var at Uppsölum með Arnóri rauðkinn, þá er hann var í sekt, enda var

Steinólfr þar. — Eitt haust gifti dóttur sína búandi í Öxnafelli, ok bauð til öllum búendum þeim er mestháttar váru í Eyjafirði. Steinólfi var ok boðit. Hann kom til Þverár, ok vildi fara með Glúmi. Hann lézt eigi mundu fara. Steinólfr mælti: „Þat þyki mér at, er þú ert lausmáll“. Glúmr svarar: „Minna mein mun at lausmælgi minni enn at óvarleik þínum, ok kem ek þar eigi; — mikit ráð“, segir Glúmr, „einum búanda, at kalla til sín svá marga stóreflismenn, ok fylgi því engi slægð. Er mér á grunr, hvat undir býr þessu boði; eigi tekr búandi þetta af sjálfum sér, ok betr þyki mér at mínir vinir fari eigi“. Fór Steinólfr til boðsins ok þeir er boðit var, utan Glúmr. Þeim var tíðrætt Einari Eyjólfssyni ok Þorvaldi ok *Arngrími*. Þann dag er menn skyldu á brott ríða, þá talaði Einarr langt erendi um heraðsstjórn ok kvað hæfa jafnan, at fjölmenni kæmi saman, at nökkut væri þat mælt, er þá væri mest nauðsyn til, ok þá væri betr enn *áðr* — „hefir lengi ófriðr á legit með ofrkappsmönnum; enn mín orð koma þar til, er þeir frændr eru, Arngrímr ok Steinólfr. Fæð hefir verit á með þeim; enn vér hyggjum at lygi hafi verit ok óvina mál. Nú vill Arngrímr bjóða Steinólfi til sín ok gera för hans sæmilega, ef hann vill þiggja — ok leggit niðr óvingan“. Steinólfr kveðst þat vilja gjarna; lézt enga sök vita sér á hendr;

kveðst Arngrími mest manna unna. Síðan fór hverr til síns heimilis; enn Steinólfr fór með Arngrími, ok var hann þar nökkurar nætr við mikla sæmd.

21. Einn dag spurði Arngrímr Steinólf, ef hann vildi fara með honum á Grund ofan til skytnings ok vera þar nætr tvær eða þrjár. Hann svarar: „Ek mun heima vera meðan, enn fara í annat sinn, er þú ert heima“. Arngrímr lézt vilja, at hann biði hans heima, ef hann vill eigi með honum fara. Nú fór Arngrímr á Grund, enn Steínólfr var eftir í Möðrufelli um nótt. Enn um morgininn sat Steinólfr við eld ok hafði smíð nökkura fyrir hendi; var þat buðkr nökkurr, er húsfreyja átti. Í þat mund kom Arngrímr heim, ok Þorvaldr krókr með honum. Ok er þeir kómu í eldahúsit, laut Steinólfr niðr. Þá höggr Arngrímr til hans í höfuðit, svá at hann fekk bana þegar. Þá gekk húsfrúin hjá honum ok mælti: „Högg þú manna armastr; þetta eru ráð þér vitrari manna, — enn frá þessum degi skal ek aldri þín kona vera“. Ferr hon nú til Arnórs kerlingarnefs, ok kom aldri í sama sæng Arngrími, ok mælti, áðr hon reið á brott: „Þat mun til bóta, at þú munt, Arngrímr, fá lífdaga eiga, því at þeir munu verri, er síðar koma yfir þik“. — Ok átti hana síðan Ásgrímr elliða-Grímsson. — Þeir Arngrímr riðu til Espihóls, ok sögðu Þórarni

þessi tíðendi ok báðu hann ásjá; ok létust hvárki til hafa vitsmuni né vinsæld at sitja fyrir Glúmi. Enn Þórarinn var bæði vitr ok vinsæll. Hann svarar, kvaðst verkit lítast ilt, ok lézt ugga, at ilt mundi af standa. Þorvaldr lét ekki tjóa at sakast um verkit, ok lézt hyggja at brátt mundi hann eiga um meiri vandræði at fæta, ef hann veitti þeim enga ásjá; létu vera mega at fengist fulltingsmenn, ef hann legði sín orð til. Þórarinn svarar: „Þat er mitt ráð, at þit flytjið hingat búin bæði, af Grund ok Möðrufelli, ok söfnum at oss mönnum sem tíðast, ok komum saman búum várum, áðr Glúmr verði varr við“. Þeir gera svá, áðr Glúmr spyri þetta. Ok er hann fregnar, safnar hann liði; fara at þeim þegar; enn engi urðu föng á, því at Esphælingar urðu fjölmennri. Ok sátu um vetrinn um kyrt. Enn Glúmr varð aldri á þeim vetri *unninn.* Hann var svá varr um sik, at hann hittist aldri í þeiri rekkju, sem honum var búin. Oft svaf hann lítið um nætr, ok gengu þeir Már ok ræddu um málaferli. Eina nótt spurði Már, hversu hann hefði sofit. Glúmr kvað vísu:

(4) Eigi sofnak Ofnis
ysheims í bæ þeima —
munat eldviðum öldu
auðbœtt við mik — sœtan,
áðr grindlogi Göndlar
gellr í hattar felli —

oft vák mann of minna
meir nökkurum þeira.

„Nú skal segja þér draum minn. Ek hugðumst ganga hér ór garði einnsaman ok slyppr, enn mér þótti Þórarinn ganga at móti mér, ok hafa harðstein mikinn í hendi; ok þóttumst ek vanbúinn við fundi okkrum. Ok er ek hugðak at, sá ek annan harðstein hjá mér, ok réðumst ek í mót. Ok er við fundumst, þá vildi hvárr ljósta annan; enn steinarnir kómu saman, ok varð af brestr hár". Már spyrr: „Hvárt þótti þér heita mega híbýlabrestr"? Glúmr svarar: „Meiri var enn svá". „Þótti þér heita mega heraðsbrestr"? Glúmr svarar: „Vel er því til jafnat, því at ek þóttumst vita, at heyrði um alt heraðit. Ok er ek vaknaða, kvað ek vísu:

(5) Harðsteini lét húna
harðgeðr Limafjarðar
— þat sák dóms í draumi —
dyn-Njarðr mik of barðan,
enn ek þrádáttar þóttumk
þjósti keyrðr of ljósta
sævar-hrafns í svefni
snarr beinanda steini.

Már kvað þat líklegt, at sannast mundi fornkveðit mál, — „at hvárr ykkarr mun ljósta annan illum steini áðr létti". Glúmr svarar: „Eigi er óvænt at slíkt sé — berr nú mart fyrir — er enn annarr draumr at segja þér. Ek þóttumst úti staddr, ok sá ek konur tvær.

Þær höfðu trog í milli sín, ok námu þær staðar á Hrísateigi ok jósu blóði um heraðit alt. Ok vaknaða ek síðan, ok hygg ek fyrir tíðendum vera" — ok kvað vísu:

**(6) Menstiklir sá mikla —**
**mun sverðabrak verða —**
**komin es grára geira —**
**goðreið of tröð kveðja;**
**þars Ósynjur jósu**
**eggmóts of fjör seggja**
**vinir fagna því vegna**
**vígmóðar fram blóði.**

Þann morgin fór Már í Möðrufell með átján manna at stefna Arngrími um vígit, enn Glúmr var heima við sétta mann ok bað þá skjótt heim koma. Jöðurr var heima þá Glúmi ok Eyjólfr, son Þorleifs ens háva, Þorvaldr tasaldi, systurson Glúms, ok þrælar tveir.

**22.** Helga systir Glúms, er átt hafði Steingrímr í Sigluvík, var þá komin á Laugaland. Hon var móðir Þorvalds tasalda, ok var hann þá átján vetra. — Þor*varðr* hét maðr Örnólfs son ok son Yngvildar, er kölluð var allra-systir. Hann bjó í Kristnesi. Guðbrandr hét son hans, tólf vetra gamall. Þor*varðr* var vitr maðr ok var þá gamall; meðallagi góðgjarn. Hann var snemma á fótum þann morgin, ok bað sveininn taka hesta, ok ríða síðan til Þverár. Ok er þeir kómu þar, var Már nýfarinn á brott. Glúmr fagnar vel Þorvarði. Hann spyrr, hvárt

nökkut væri leitat um sáttir milli manna. Glúmr kvað ekki þat vera. Þorvarðr segir: „Er tilbúit málit“? Glúmr kvað þat eigi vera. „Slíkr dagr væri vel til fallinn; þoka er mikil, ok mun eigi verða vart við, ef menn fara hljóðlega“. Síðan segir Glúmr hvar þá var komit, ok segir at sex menn einir váru heima. Þorvarðr svarar: „Heldr ertu fámennr; enn þetta ráð mun þó duga, er þú hefir haft“. Nú ríðr Þorvarðr til Espihóls, ok váru menn eigi upp risnir, er þeir kómu þar. Hann hitti Þórarinn ok spyrr: „Hverja meðferð ætli þér at hafa, skulu þér nökkura sætt bjóða Glúmi um vígsmálit“? Þórarinn svarar: „Vant ætlu vér þat, at bjóða Glúmi sætt“. Þorvarðr segir: „Hvárt er tilbúit vígsmálit“. Þórarinn svarar: „Ekki hefi ek til spurt, eða hvat veiztu af“? Hann segir: „Már fór í morgin með átjánda mann í mála-tilbúnað, enn Glúmr sat við sétta mann heima, ok væri nú fullgóð föng á at rétta hlut sinn; ok því tékst yðr lítt, at þér gerið eigi slík hvatræði sem Glúmr“, Þórarinn svarar: „Ekki nenni ek at búa tyllisakir hér í móti“. Þorvarðr segir: „Á þat er at líta, hvárt nökkur var sökin eða engi, áðr Steinólfr var drepinn — hefir hann eigi fíflt konu hans? — víst ætla ek at slík mál þyki eigi engis verð“. Þórarinn svarar: „Ilt þyki mér með slíku máli at fara“. Hann segir: „Hvat er slíkt at tala?

kom Glúmi fyrir nökkut, er hann óhelgaði Sigmund mág yðvarn — ok er nú ok einsætt at láta eigi svá auvirðast". Þórarinn segir: „Eigi munda ek vita, nema þat væri ráð". Síðan stóðu menn upp, ok eggjar Þorvaldr krókr at ríða til Uppsala ok stefna Steinólfi til óhelgi. Þórarinn svarar: „Eigi er þat ráðlegt, enn þat munu vér þó gera". Þeir urðu saman fimtán; sjau eru nefndir, Þórarinn ok Þorvaldr krókr, Ketill son hans, Arngrímr ok *Eysteinn* berserkr, ok Þórðr Rafnsson, er bjó at Stokkahlöðu ok átti Vigdísi Þórisdóttur, er Sigmundr hafði átt fyrr, Ey*vindr* austmaðr; hann var vistum með Þórði. Nú fóru þeir til Uppsala, enn Þorvarðr fór á Öngulstaði — þar bjó góðr búandi, Halli enn digri — enn sendi son sinn til Þverár ok bað segja Glúmi fyriræltun þeira Esphælinga, — „enn ríð til móts við mik síðan hvatlega". Enn er Þorvarðr kom á Öngulstaði, þá spurði Halli, hvat hann segði tíðenda. „Ekki enn", sagði hann. Síðan sagði hann Halla, hvar þá var komit. Enn Halli þóttist sjá at glíkendum, at hann mundi þessu öllu á leið hafa komit; sagði, at slíkir menn væri til mikils ófarnaðar, at hann vildi at allir ætti ilt saman, — „ok væri þat maklegt at þú værir drepinn". Halli fór skyndilega með alla sína menn, þá er hann fekk, karla ok konur, ok vildi ganga milli manna, ef þyrfti. — Guðbrandr

kom til Þverár, ok sagði at faðir hans hafði hann þagat sent, sagði honum tíðendin, — „ok lézt hann vera þess skyldr at segja þér þat, er þik varðar, at Esphælingar ætla at stefna Steinólfi til óhelgi“. Glúmr segir: „Hví kom faðir þinn eigi sjálfr“? Hann svarar; „Ek kalla alt eitt, hvárr okkarr sem fór“. Glúmr segir: „Vel hefir faðir þinn gert, er hann sendi þik hingat, ef vér þyrftim manna við“. Hann tók sveininn af baki ok fjötraði hest hans. Þá mælti Guðbrandr: „Þat mælti faðir minn, at ek skylda skynda heim“. Glúmr svarar: „Ekki er þat, heldr vill faðir þinn at þú sýnir vaskleik þinn í dag“. — Nú tekr Þorvarðr til orða: „Seinn er Guðbrandr son minn“. Halli segir: „Hvert fór hann“? Þorvarðr svarar: „Ek senda hann til Þverár“. Halli segir: „Þat er vel at þú hittir fyrir nökkura brögðótta, ok er þetta hæfilegt“. Esphælingar riðu yfir ána; sá Glúmr för þeira, ok ætluðu yfir at Kvarnárvaði. Þá mælti Glúmr, at Már væri heldr til seinn. Síðan rann Glúmr ór garði eftir þeim, ok þeir með honum sem til váru: — sex karlar með Guðbrandi. Glúmr hafði skjöld sinn ok höggspjót, gyrðr sverði, rennr á leiðina fyrir þá ok menn hans eftir honum. Ok er Þórarinn sá ferð hans, biðr hann, at þeir ríði leið sína, ok hvárki skjótara né seinna, — „ok má oss eigi um þat hallmæla“. Þórðr Hrafnsson spurði

Þórarinn, hvárt þeir skyldi eltast láta með fimtánda mann undan Glúmi, — „þótt hann sé með sétta mann“. Þórarinn *svarar:* „Ríðum, því at Glúmr vill dvelja oss ok bíða svá sinna manna“. Þórðr segir: „Því er eigi kynlegt, at vér berim oft lágan hlut fyrir Glúmi, þá er hann stendr jafnt at vígi sem þér, þar sem þér þorið nú eigi at bíða hans, er hann hefir fá menn, enda skal hann eigi mik elta“ — ok steig af baki. Eysteinn berserkr segir, at hann vill eigi undan ríða, — „ok kalla þeir at þeir elti oss“. Þórarinn segir; „Þat sýnist mér óráðlegt“. Enn er Glúmr sá, at þeir fóru eigi, þá fór hann seinna, ok kastaði orðum á Þórarinn, ok spurði, hvert erendi þeira væri til Uppsala. Þórarinn segir, at þeir höfðu stefnt Steinólfi til óhelgi. Þá mælti Glúmr: „Er eigi því mjög til kapps haldit, skulu eigi boð koma fyrir, ok mættim vér ræða um nökkut at málit gengist“. Þórarinn sá, at Glúmr vildi dvelja þá, ok bað menn ríða, ok þeir gerðu svá. Glúmr spurði: „Við hokit þér“? Enn þeir fóru undan, ok því seinna sem þeir fóru, *því* seinna fór Glúmr ok beið manna sinna, ok mælti: „Eigi mun vinsælt verða málit, ef þér hafið lognar sakir uppi, — ok verðr þá svívirðing í“. „Ekki mun nú farit at því; erfitt verðr við þik at eiga“. Glúmr komst hjá þeim fram, ok talar svá við þá, enn þeir riðu, ok dvaldi

svá. Enn er hann sá at ekki mátti dvelja þá, enn veit ván sinna manna, þá skaut hann spjóti til Arngríms, ok kom í gegnum báða söðulbogana ok lærit, ok var Arngrímr illa vígr um daginn. Síðan hljóp Eysteinn fyrstr manna at Glúmi, enn Þorvaldr tasaldi í mót honum, ok lékust þeir tveir við ok þóttust þeir bezt hafa, er first váru þeirra samgangi, ok var hvárttveggi þeira fullhugi ok rammr at afli; veitti stór högg ok mörg hvárr þeira öðrum. Þorvaldr krókr sótti fast at Glúmi ok margir með honum, enn Glúmr hopaði undan ok þeir menn, er honum fylgdu, ok hlífðu sér. Enn Þórarinn steig eigi af baki, ok þótti honum þó ærit margir um einn.

23. Sá maðr kom at hlaupandi, þar er þeir börðust, er var í skinnkufli ok hafði sverð í hendi. Hann kom at þar er Þorvaldr tasaldi fell fyrir Eysteini, ok þegar hleypr hann at Eysteini ok höggr hann banahögg. Síðan fór hann í lið með Glúmi, ok þá mælti Glúmr þetta: „Kom heill þú, Þundarbenda; gott kaup var þat er ek keypta þik, þú munt nú vel gjalda verð þitt í dag“. Glúmr átti þræl þann, er svá hét, — því mælti hann þetta — enn þar var þó raunar Vigfúss son hans, ok kendu hann fáir eða engir nema Glúmr, því at hann hafði þá þrjá vetr verit í sekt ok í leyndum, ok ætluðu flestir, at hann væri utan farinn. Svá

bar at, er Glúmr hopaði, at hann lá fallinn, enn þrælar hans báðir lögðust á hann ofan, ok váru þar stangaðir spjótum til bana. Enn þá kom Már at í því með sína menn. Þá tór Þórarinn af baki, ok börðust þeir Már, svá at engir áttu hlut í með þeim. Enn Glúmr spratt upp ok barðist þá frýjulaust, ok var þá liðsmunr engi. Eiríkr hét húskarl Þórarins. Hann var at verki sínu um morgininn; hann hafði enga hlíf né vápn. Hann fær sér trélurk í hönd ok fór til fulltings við Þórarinn, ok varð Glúmi it mesta ólið at honum, því at menn ok hlífar meiddust fyrir því, er hann hafði at vega með. — Þess er getit, at Halldóra, kona Glúms, kvaddi konur með sér, — „ok skulum vér binda sár þeira manna, er lífvænir eru, ór hvárra liði sem er“. Enn er hon kom at, þá fell Þórarinn fyrir Mávi, ok var öxlin höggin frá, svá at lungun fellu út í sárit. Enn Halldóra batt um sár hans, ok sat yfir honum til þess er lokit var bardaganum. — Halli enn digri kom fyrstr til meðalgöngu ok mart manna með honum. Ok lauk svá bardaga, at fim menn váru fallnir af Esphælingum, Þorvaldr krókr ok Arngrímr, Eysteinn ok Eiríkr ok Eyvindr austmaðr. Enn af Glúmi var fallinn Þorvaldr tasaldi, ok Eyjólfr *Þor*leifsson ok Jöðurr ok þrælar tveir. Þórarinn fór heim með förunautum sínum. Glúmr fór ok heim með sína menn, ok lét færa

ena dauðu í úthýsi eitt, ok var búit um Þorvald virðulegast, því at klæði váru borin undir hann, ok var hann rifaðr í húð. Enn er menn váru heim komnir, þá mælti Glúmr við Halldóru: „För vár mundi hafa orðit góð í dag, ef þú hefðir heima verit, ok hefði Þórarinn eigi lífs brott komist“. Hon segir, at Þórarni væri lítil von lífs, — „enn þó muntu eiga skamma stund heraðvært, þótt hann lifi, enn ef hann deyr, muntu aldrei eiga landvært“. Síðan mælti Glúmr við Guðbrand: „Þú hefir mikillar frægðar aflat þér í dag, er þú lagðir at jörðu Þorvald krók, ok mikit lið veittir þú oss í dag“. Hann svarar ok kvað ekki á þá leið verit hafa — enda varit hendr sínar. Glúmr segir: „Sá ek glögt hvat títt var — barn at aldri, enn vegit slíka hetju sem Þorvaldr var, ok muntu verða frægr af þessu verki. Af því fekk ek sóma utanlendis, er ek vá berserkinn“. Hann svarar: „Ekki hefi ek Þorvald vegit“. Glúmr segir: „Eigi er at dylja þessa, vinr, þú veittir honum banasárit; firzt þú eigi gæfu þína“. Til þess þrætti hann við Guðbrand, at hann trúði ok gekk við, ok þótti virðing at. Hann mátti ok eigi dylja, at eigi væri þetta fyrir satt haft; ok þá var honum á hendr lýst víginu, ok þótti þá minni slægja í enn þeir ætluðu, er keyru Þorvald til eftirmáls. - Þat segja menn at Glúmr mælti: „Þat þyki mér illa, er Már lætr

binda um, þó at hnekkistikill sé gerr í höfði honum". — Þat kallaði hann svá, er í kross var sprungit. — Már svarar: „Ek munda þess minnr þurfa, ef ek legðumst niðr ok hefðak þræla mína at skildi". Þá mælti Glúmr: „Harðslægr var Hrísateigr nú í dag, sveinar", sagði hann. Már segir: „Fyrir þat mun þér ganga, sem harðslægr hafi verit, því at nú muntu Þverárland hafa slegit ór hendi þér". Glúmr svarar: „Þat ætla ek, at þú vitir ógerla". Már segir: „Vera má at vita eigi — fyrir þat mun þér ganga sem ek vita". — Enn er Helga spurði tíðendin, systir Glúms, þá fór hon til Þverár, ok spurði hversu sonr hennar hefði fram gengit. Glúmr svarar: „Eigi fekk hraustara mann". Þá mælti hon: „Sjá vilda ek hann dauðan, ef eigi eru önnur föng á". Þat var henni veitt, ok lét hon hefja hann í vagn ok búa hóglega um. Ok er hon kom heim, fægði hon sár hans ok batt síðan, ok kom svá ráði hans, at hann mælti við menn. — Þat váru lög þar, at menn fellu jafnmargir, at þat skyldi kalla jafnvegit, þótt mannamunr þætti vera; enn þeir er ávíga urðu, skyldu kjósa mann til, eftir hvern mæla skyldi. Enn þótt nökkut kynni þat í málum at gerast síðar, er betra þætti at hafa annan veg kosit, þá skyldi eigi skifta keyrinu. Enn er Þórarinn spurði, at Þorvaldr tasaldi var lífs, þá kaus hann Þor-

vald krók bróður sinn til eftirmáls. Enn litlu síðarr spurði hann þat, at Guðbrandi var eignat þat vígit, ok vildi hann þá heldr hafa annan til kosit, enn þó varð nú þessu fram at halda, sem fyrr var kosit. Þeir hitta nú Einar Eyjólfsson; lætr Þórarinn, at nú muni hann taka til þeira mála, er þeir höfðu með sér talat. Hann segir: „Slíkt er mér í hug þar sem fyrr, at Bárðr var veginn“. Tók nú Einarr málit til meðferðar á þingi um sumarit, ok sótti Glúm. Þórarinn lá í sárum alt sumarit ok svá Þorvaldr tasaldi, ok urðu báðir græddir. Glúmr hafði mikinn liðsafla á þinginu, ok svá hvárirtveggju. Var nú leitat um sættir af göfgum frændum hvárratveggju, ok varð þat at sættum, at bæta skyldi víg Steinólfs svá, at fram væri færð sýkna Vigfúss Glúmssonar. Enn Guðbrandr varð sekr um víg Þorvalds, ok kom Glúmr honum utan. Ok fóru við svá búit heim, ok undu þeir Þorvarðr ok Þórarinn illa við, ok þóttist Þórarinn enga sæmd hafa eftir víg Þorvalds bróður síns. Sat nú Glúmr í virðingu. — Um vetrinn eftir kom upp vísa, er Glúmr hafði þá nýort:

(7) Virkis spyrr at verkum
vins hirði-Sif mínum
*skal*at at manna máli
morð váru þau forðum.
Liggr þeims hrafn of huggar
hervíg talit gerva.

*Munum svá málin láta*
*myrk at sem fæst um yrkjum.*

24. Einn dag er menn váru at Hrafnagilslaugu, kom þar Þorvarðr. Hann var gleðimaðr mikill ok hendi at mörgu gaman. Hann mælti: „Hvat er komit þeira manna, er skemta kunni nýjum fræðum“? Þeir segja: Þar er skemtun öll ok gaman, er þú ert“. Hann segir: „Ekki þyki mér nú meira gaman enn kveða vísur Glúms, enn þar hygg ek at, hvat honum þykir vantalið í einni vísu, at hann mundi skorta á um vígin. Hvat skulum vér ætla, hvárt þat muni vera, eða hvárt er líkara, at Guðbrandr muni vegit hafa Þorvald, eða Glúmr“? Þetta þykir mörgum áræðilegt. Hann reið nú á fund Þórarins ok mælti: „Hugleitt hefi ek nökkut, ok sýnist mér sem ei*gi* muni it sanna uppi um víg Þorvalds króks, því at hittast mun í kveðskap Glúms, at nökkut þykir honum vantalit vera um vígin“. Þórarinn svarar: „Varla kann ek nú upp at taka málit öðru sinni, þótt þetta væri satt, — mun nú vera kyrt“. „Þat er óráðlegt, ok þó mætti kyrt vera, ef eigi hefði um verit grafit, enn nú mun ek bera upp fyrir menn ok munu þér svívirðing af fá, svá at engi mun önnur meiri orðit hafa“. Þórarinn svarar: „Óhóglegt lízt mér málit at flytja til alþingis við frænda-afla Glúms“. Þorvarðr segir: „Þar kann ek ráð til leggja, stefn honum til Hegra-

ness-þings — þar áttu frænda-afla — ok mun þar torsótt at verja málit". Þórarinn svarar: „Þat ráð mun haft verða". Skiljast at því. — Nú várar illa ok verðr torsótt alt at fá. Um várit bjó Þórarinn mál á hönd Glúmi til Hegraness-þings, því at allir samþingisgoðar, þeir er því þingi áttu at halda, váru bundnir í nauðleytum við Þórarinn; enn hestum mátti trautt koma yfir heiðar fyrir snjó. Glúmr tók þat til ráðs, at hann fekk byrðing einn mikinn í hönd Þorsteini bróður sínum, ok skal hann halda vestr fyrir, ok koma til þings með herklæði ok vistir. Enn er þeir koma fyrir Úlfsdali, þá brutu þeir skipit í spán, ok týndist þar alt saman, menn ok fjárhlutir. Glúmr gekk til þings með hundrað manna ok náði eigi nær at tjalda enn í fjörbaugsgarði. Þar var kominn Einarr Eyjólfsson með þeim Esphælingum. Váru Glúmi send orð, at hann skyldi til fara, ok færa fram lögvörn fyrir sik. Nú gengr Glúmr, enn eigi var meira rúm gefit, enn einn maðr mátti ganga; enn þar var fylkt liði tveim megin hjá, enn Glúmi var boðit at ganga í kvíarnar, ef hann vildi til dómsins. Enn þat sýndist honum óráðlegt, ok mælti til sinna manna: „Auðsætt er nú þat, at þeir þykjast í hendi hafa várt ráð; má ok vera at svá sé. Nú vil ek þó, at þér snúið aftr; mun ek ganga fyrstr, enn þá tveir næst mér jafnfram, enn þeim

fjórir jafnfram, ok skulum vér renna at ok hafa spjótin fyrir oss, ok mun klambrarveggrinn ganga, ef fast er fylgt". Þeir gerðu svá, ok runnu at í einu skeiði í dómhringinn, ok var lengi nætr áðr þeim varð bægt frá í brott, ok gerðist þar svá mikil þröng ok föst, ok varð þat um síðir, at dómrinn varð settr í annat sinn. Ok er þeir tóku at reifa málit, þá gengr Glúmr í þingbrekku ok nefnir vátta, at sól væri þá komin á þingvöll. Síðan varði hann mönnum í dóm lýriti at dæma um sakarnar, ok varð þar niðr at falla hvert mál, sem þá var komit. Ríða menn í brott, ok undu Esphælingar stórilla við; kallar Þórarinn hann hraklegt gert hafa fyrir þeim. Einarr segir: „Eigi lízt mér svá stórljótt sem þér, því at „þar *er* til máls at taka, sem frá var horfit". Síðan ríða þeir til alþingis Esphælingar með Einari ok margir vinir þeira, er þeim höfðu heitit liðveizlu í móti Glúmi. Frændr Glúms veita honum at málum til réttra laga; ok er þat af gert með vitra manna ráði, ef Glúmr vill vinna eið fyrir málit, at eigi vægi hann Þorvald krók. Ok er margir áttu hlut í, þá sættust þeir at því, at Glúmr skyldi vinna eið, at hann hefði eigi vegit Þorvald krók; ok var ákveðit nær eiðrinn skyldi unninn vera — um haustit at fim vikum. Ok er nú svá ríkt fylgt málinu, at þeir skyldi fram hafa málit, eða

hann vinni eiða í þremr hofum í Eyjafirði, ok eiðfall, ef þá kemr eigi fram. Margrætt var um þetta mál, hversu eiðar Glúms myndi vera eða fram fara.

25. Nú ríða menn heim af þingi, ok er Glúmr heima um sumarit; ok er kyrt alt í heraðinu. Líðr til leiðar ok ríða menn til leiðar; enn af leið hvarf Glúmr, svá at ekki spurðist til hans. Már sat heima í búinu. Enn um haustit at fim vikum, þá bauð Már mönnum, ok var þar stofnat brullaup; ok kómu þar eigi færi menn til boðs enn hundrað. Öllum þótti kynlegt boð þetta, því at þeir váru lítils verðir, er í hlut áttu. Þar sá menn þann aftan, at ór dölum öllum Eyjafjarðar riðu tveir menn saman eða fim, ok safnaðist saman liðit er ofan kom í heraðit. Ok var þar kominn Glúmr ok Ásgrímr ok Gizurr með þrjú hundruð manna, ok sátu þar at boði. Enn um morgininn eftir sendi Glúmr eftir Þórarni, ok bað hann koma í Djúpadal eigi síðar enn at miðjum morni at heyra eiðana. Þórarinn veikst við ok fekk hundrað manna. Enn er þeir kómu til hofsins, þá gengu sex menn í hofit; með Glúmi Gizurr ok Ásgrímr, með Þórarni Einarr ok Hlenni enn gamli. — Sá maðr er hofseið skyldi vinna, tók silfrbaug í hönd sér, þann er roðinn var í nauts blóði, þess er til blóta væri haft, ok skyldi eigi minna standa enn þrjá aura. — Þá kvað Glúmr svá

at orði, at — „ek nefni Ásgrím í vætti, annan Gizur í þat vætti, at ek vinn hofseið at baugi, ok segi ek þat Æsi, at ek vark at þar, ok vák at þar, ok rauðk at þar odd ok egg, er Þorvaldr krókr fekk bana. Líti nú á eið, þeir er spekimenn eru ok við eru staddir". Þeir Þórarinn urðu eigi búnir at lasta, enn kváðust eigi fyrri þann veg heyrt hafa at orði kveðit. Með slíku móti váru eiðar unnir í Gnúpafelli, ok svá at Þverá. Þeir Gizurr ok Ásgrímr váru nökkurar nætr at Þverá; ok at skilnaði gaf Glúmr Gizuri feldinn blá, enn Ásgrími spjótit gullrekna, ok skildust vinir. — Um vetrinn hittust þeir Þorvarðr ok Þórarinn, ok spurði Þorvarðr: „Vann Glúmr vel eiðinn?" Þórarinn svarar: „Ekki fundu vér at". Hann segir: „Undarlegt verðr slíkt um vitra menn, er svá missýnist. Þat hefi ek vitat, at menn hafa lýst vígum á hendr sér, enn hitt hefi ek eigi vitat eða heyrt, at menn hafi svarit um þat sjálfir, at þeir hafi vegit menn, sem Glúmr hefir gert, eða hversu mátti hann meir at kveða, enn segja at hann vægi þar at, ok væri þar at, ok ryði þar at odd ok egg, er Þorvaldr krókr fell á Hrísateigi, þótt hann leiddi eigi svá sem tíðast er — ok mun sjá sneypa jafnan uppi síðan". Þórarinn svarar: „Ekki hefi ek fundit þètta, enda mæðumst ek á at eiga við Glúm". Hann segir: „Ef þú þykist mæðast

sakir vanheilsu, þá láttu Einar taka enn málit. Hann er vitr ok kynstórr; munu honum margir fylgja — eigi sitr Guðmundr hjá bróðir hans— ok er sá hlutrinn at hann er gjarnastr til, ef hann kemst at Þverá". — Eftir þetta hittast þeir Einarr ok bera ráð sín saman, ok mælti Þórarinn: „Ef þú vill fyrir málinu vera, munu margir þér veita; munu vér þat ok til vinna, at kaupa þér landit eigi meira verði, enn Glúmr keypti at Þorkatli háva". Einarr svarar: „Glúmr hefir nú lógat þeim hlutum, feldi ok spjóti, er Vigfúss móðurfaðir hans gaf honum ok bað hann eiga, ef hann vildi halda virðingu sinni, enn kvað þaðan frá þverra mundu. Nú mun ek taka við málinu ok fylgja".

26. Nú býr Einarr til vígsmálit af nýju til alþingis, ok fjölmenna hvárirtveggju. Enn áðr Glúmr riði heiman, dreymdi hann at margir menn væri komnir þar til Þverár at hitta Frey, ok þóttist hann sjá mart manna á eyrunum við ána, enn Freyr sat á stóli. Hann þóttist spyrja, hverir þar væri komnir. Þeir segja: „Þetta eru frændr þínir framliðnir, ok biðjum vér nú Frey, at þú sér eigi á brott færðr af Þverár-landi, ok tjóar ekki, ok svarar Freyr stutt ok reiðulega, ok minnist nú á uxa-gjöf Þorkels ens háva". Hann vaknaði, ok lézt Glúmr verr vera við Frey alla tíma síðan. — Ríða menn til þings, ok verða þau málalok, at Glúmr gengr við víg-

inu. Enn í því áttu hlut vinir hans ok frændr, at heldr skyldi sættast, enn sekt kæmi á eða utanferð. Ok sættust þeir á þingi at því, at Glúmr galt Þverárland, hálft Katli, syni Þorvalds króks, í föðurbætr, enn seldi hálft við verði, ok skyldi þó búa á þau missari, ok varð heraðs-sekr, ok búa eigi nær enn í Hörgárdal. Fóru síðan af þingi. Síðan keypti Einarr landit, sem honum var heitit. Menn Einars kómu þangat um várit at vinna landit, ok mælti Einarr, at þeir skyldi segja honum hvert orð, þat er Glúmr mælti. Einn dag kom Glúmr at máli við þá ok segir svá: „Auðsætt er þat, at Einarr hefir vel sér fengit verkmenn, ok er vel unnit á landinu. Nú skiftir miklu, at smátt ok stórt sé tilhent; nú skulu þér hér reisa við ána váðmeið, ok er konum hægt til þváttar at hreinsa stórföt, enn heimabrunnar eru vándir“. Nú koma þeir heim, ok spyrr Einarr, hvat þeir Glúmr mæltist við. Þeir segja hvé hugkvæmr hann var at öllu at unnit væri. Hann segir: „Þótti yðr þat vera, at hann vildi vel búa í hendr mér?“ Þeir segja: „Svá þykir okkr“. Einarr segir: „Annan veg lízt mér. Þat hygg ek, at við þann meið festi hann ykkr upp, enn ætli at reisa mér níð — nú skulu þér eigi fara þó“. Einarr færði þangat bú sitt um várit, enn Glúmr sat þar til ens efsta fardags. Enn er menn váru í brott búnir, þá settist Glúmr í

öndvegi ok gerði eigi á brott ganga, þótt at honum væri kallat. Hann lætr tjalda skálann, ok vill eigi svá skiljast við landit sem kotkarlar. Hallbera, dóttir Þórodds Hjálmssonar, var móðir Guðmundar ok Einars. Hon bjó þá at Hanakambi. Hon kom til Þverár, ok kvaddi Glúm ok mælti: „Sittu heill, Glúmr, enn ekki er hér nú lengr at vera; komit hefi ek nú eldi á Þverár-land ok geri ek þik nú á brott með alt þitt, ok er landit helgat Einari syni mínum“. Glúmr reis þá upp, ok mælti at hon skyldi gleipa kerlinga örmust. Enn þó reið Glúmr þá í brott, ok varð litit um öxl til bæjarins, ok kvað vísu:

(8) Rudda ek *með oddi*
— orð lék á því forðum
með veðr-stöfum Viðris
vandar — mér til landa.
Nú hefr Valþögnir vegna
varrar skíðs um síðir
breiða jörð með börðum
bendis mér ór hendi.

Glúmr bjó á Möðruvöllum í Hörgárdal við Þorgrím fjúk, ok undi því eigi lengr enn einn vetr. Þá bjó hann tvá vetr í Myrkárdal. Þá hljóp þar skriða nær bænum, svá at tók sum húsin. Þá kvað Glúmr vísu:

(9) Mál*igr* munat sælu
menbrjótandi hljóta
— oss kom breiðr í búðir

bøggr af einu høggvi —
þás — fleinmarar — fjóra
fullkátir vér sátum
— nú á mógrennir minna
met sér — tegu vetra.

Þá keypti Glúmr land at Þverbrekku í Öxnadal, ok bjó þar meðan hann lifði, ok varð gamall ok sjónlauss.

27. Narfi hét maðr, er bjó í Hrísey. Hann hafði átt Úlfeiði, dóttur Ingjalds Helgasonar hins magra. Þeira synir váru þeir Eyjólfr ok Klængr, Þorbrandr ok Þorvaldr. Allir váru þeir mikilmenni frændr Glúms. Þeir Klængr ok Eyjólfr bjuggu eftir föður sinn í Hrísey. Sá maðr bjó í Haga, er Þorvaldr hét, ok var kallaðr menni, ok átti dóttur Þórðar Hrafnssonar frá Stokkahlöðu, er Helga hét. Eitt vár kom Þorvaldr ór Haga við Hrísey á byrðíngi, ok ætlaði at halda til fengjar; ok er Klængr varð varr við, réðst hann til ferðar með honum. Enn er þeir kómu út ór firðinum, fundu þeir reyði nýdauða; keyrðu í festar, ok sigldu með inn eftir firðinum um daginn. Vildi Klængr flytja til Hríseyjar, því at þat var skemra enn í Haga, enn Þorvaldr vildi til Haga flytja, ok lét þat jamrétt. Klængr segir, at eigi sé þat lög, at flytja eigi þangat, er næst eigu flutningarmenn land. Þorvaldr kveðst hafa rétt at mæla, ok lét þá frændr Glúms ekki þurfa at ganga á réttan

hlut við þá — „ok hvat sem lög eru, þá munu enir ríkari nú ráða“. Þorvaldr var fjölmennri því sinni, ok tóku þeir af Klængi rekaldit nauðgum, enn hvárrtveggi þeira var landeigandi. Klængr fór heim ok undi illa við. Þorvaldr ok þeir hlógu at þeim Klængi, ok töldu at þeir treysti eigi á at halda. — Einn morgin reis Klængr snemma upp ok fór við fjórða mann inn í Haga; kom þar snemma, svá er menn váru í svefni. Þá mælti Klængr: „Ráðs skulum vér nú leita; hér eru naut hjá garði, ok skulu vér þau reka á húsin, þar sem Þorvaldr hvílir undir, ok teygjum hann svá út“. Þeir gerðu svá, ok vaknar Þorvaldr ok hleypr út. Klængr hleypti at honum ok veitti honum banasár; fór brátt síðan ok treystist eigi þar at lýsa víginu, því at þar var fyrir mannmart; fór heim út í eyjar ok lýsti þar víginu. Nú eigu eftirmálit Þórarinn ok Þórðr. Þeir kölluðu morð verit hafa. Ok er þessi mál kómu til þings, sat Glúmr heima; enn um þingit fór hann út í Fljót ok í Svarfaðardal ok bað liðs til féránsdóms, ok þó bað hann leyna þessi fyrirætlan. Klaufi at Barði segir: „Víst viljum vér veita Glúmi lið“ — hann átti Halldóru, dóttur Arnórs rauðkinns — ok margir hétu aðrir Glúmi sínu liði. Nú fór Glúmr heim. — Mál fóru fram á þingi. Enn eftir þingit búast þeir til féránsdóms, ok höfðu fjogur skip ok þrjá

tigu manna á hverju, ok réðu þeir Einarr ok Þórarinn ok Þórðr fyrir skipunum, ok kómu innan at eyjunni í nætrelding, ok sá reyk yfir húsunum; ok spurði Einarr, hvárt þeim sýndist svá sem honum, at reykrinn væri eigi all-blár. Þeir sögðu at þeim sýndist svá. Einarr sagði: „Svá lízt mér á reykinn, sem fjölment muni vera í húsunum, ok mun af mönnum leggja reykinn. Enn ef þat er, þá munu vér gera raun til ok róa undan eyjunni þjóðsýnilega, ok munu vér þá vísir verða, ef fjölmenni er í eyjunni“. Ok svá gerðu þeir. Enn er eyjarmenn sá þetta, þá hljópu þeir út ok til skipanna, ok lögðu eftir þeim. Ok var Glúmr þar kominn með tvau hundruð manna, ok eltu þá inn alt at Oddaeyri, ok varð eigi háðr féránsdómrinn, ok fengu þeir af óvirðing Eyfirðingar. — Sitr Glúmr um sumarit í búi sínu. Hann átti ok at helga haustþing — enn þingstöðin er fyrir austan fjörðinn skamt frá Kaupangi — ok fjölmentu Eyfirðingar mjök, enn Glúmr hafði þrjá tigu eina manna. Margir töluðu við Glúm, at hann skyldi eigi fámennr fara. Hann segir: „Lifat mun nú it fegrsta, enn við þat uni ek, at ekki hafa þeir eltan mik svá, at eigi færa ek réttleiðis“. Glúmr fór á skipi inn eftir firði, ok gekk á land ok til búða. Enn þar eru melar brattir ok lausgrýttir á milli fjarðarins ok búðanna. Enn er Glúmr kom gagnvert búð

þeiri, er Einarr átti, þá hljópu menn frá búðunum ok báru skjöldu at þeim ok hrundu þeim af melunum; ok fell Glúmr ok veltist með skjöld sinn á eyrina ofan, ok varð ekki sárr, enn þrjú spjót hafði fest í skildi hans. Þorvaldr tasaldi var þá kominn at landi, ok sá at Glúmi horfði þá óvænt, ok hljóp svá á land, at hann tók ár í hönd sér, ok rann í melinn upp ok skaut árinni til Guðmundar ríka, ok kom á skjöldinn ok gekk hann í sundr, ok kom árar-hlutrinn fyrir brjóst honum, ok fell hann í óvit ok var borinn í fjórum skautum ti búðar Síðan eggjuðu hvárir aðra atgöngu, ok skutust á ok börðust grjóti; ok varð hörð hríð ok urðu margir sárir; ok allir sögðu á eina lund, at eigi mætti fáir menn vasklegar verjast, enn þeir Glúmr. Þeir Einarr sóttu at fast. Þá gengu menn í milli, ok lauk svá, at tveir menn fellu af Glúmi, Klængr Narfason ok Grímr eyrarleggr, bróðir Halldóru konu Glúms. Þá kvað Brúsi Hallason vísu þessa:

(10) *Eig*um vegs af vígum
— veitk orð á því — borða
stóðs við stýrimeiða,
stafn-Göndul, hlut jafnan.
Þó hykk fúrviðu fóru
fleygarðs, enn mik varði,
beiði-Hlökk — fyr brekku —
bliks — harðara miklu.

Einarr kvað vísu:

(11) Drengvir varð á þingi
þremjalinns at rinna
— varat í Ála éli
auðlattr — fyr mel brattan,
þás marstéttar máttit
Mæfils við þröm sævar
geira njótr á grjóti
Gestils klauf of festa.

Þá kvað Glúmr vísu í móti:

(12) Lattisk herr með höttu
Hangatýs at ganga —
þóttit þeim at hætta
þekkilegt fyr brekku,
þás dynfúsir dísar
dreyra svells á eyri
— bráð óx borginmóða
blóðs — skjaldaðir stóðum.

Svá var sett málum, at í faðma felst víg Klængs ok Þorvalds ór Haga. Þat var ok jafnt látit, víg Gríms eyrarleggs ok áverki við Guðmund, ok undi Glúmr illa við málalok, sem hann kvað í vísu þeiri, er hann orti síðan:

(13) Ilt es á jörð of orðit;
— aldr bölnar mjök skaldi —
liðit es mest it *móða*
mítt líf Heðins drífu,
es ofvegins eigi
eyrarleggs fyr seggjum
Gríms í Göndlar flaumi
Gefnar mák of hefna.

28. Þat var eitt sumar, er þeir riðu af þingi bræðr, Guðmundr ok Einarr, at Glúmr bauð mönnum til sín, ok sendi menn upp til Öxnadalsheiðar at bjóða þeim bræðrum heim, ok lézt vilja, at nú sættist þeir heilum sáttum — „því at ek em nú fyrir elli sökum til engis færr, ok mun ek þeim eigi til matar eins bjóða". Glúmr var þá sjónlauss. Hann lét vörð halda á um ferð þeira. Guðmundr vildi þiggja boðit, enn Einarr vildi eigi, ok reið sínum megin ár hvárr þeira. Var Glúmi sagt, at annarr flokkrinn reið þangat — „þá mun Einarr eigi vilja þiggja boðit; hann er svá tortryggr, at hann trúir engum manni". Þat er sagt, at Einarr kallaði á Guðmund ok mælti: „Þar mun ek koma á morgin, ef þú kemr í kveld". Enn Guðmundr hugsaði þat er hann mælti — „þá mun þat ætlan þín, at þú eigir at mæla eftir mik". Snýr hann nú eftir Einari. Þetta er sagt Glúmi, at hvárrgi snýr þangat. „Þat er illa þá", kvað Glúmr, „því at þat hafða ek ætlat, ef ek genga móti þeim, at ek skyldi eigi beggja missa". Hann hafði sax brugðit undir skikkju. Ok váru þau lok viðskifta þeira Glúms ok Eyfirðinga. — Enn er kristni kom út hingat, tók Glúmr skírn, ok lifði þrjá vetr síðan, ok var byskupaðr í banasótt af Kol byskupi, ok andaðist í hvítaváðum. Þá bjó Már Glúmsson í Fornhaga ok hafði þar látit kirkju gera,

ok var Glúmr þar jarðaðr, ok svá Már, þá er hann andaðist, ok mart annarra manna, því at langa hríð var engi kirkja í Hörgárdal, nema sú ein. Þat er mál manna, at Glúmr hafi verit tuttugu vetr mestr höfðingi í Eyjafirði, enn aðra tuttugu vetr engir meiri enn til jafns við hann. Þat er ok mál manna, at Glúmr hafi verit bezt um sik allra vígra manna hér á landi. — Ok lýkr þar sögu Glúms.



# Viðaukar

**úr Landnámu.**

---

1. Helgi enn magri gaf Ingjaldi syni sínum land út frá Arnarhváli til Þverár ennar ytri. Hann bjó at Þverá enni efri, ok reisti þar hof mikit; hann átti Salgerði Steinólfsdóttur. Þeira son var Eyjólfr, faðir víga-Glúms, ok Steinólfr, faðir Þórarins illa ok Arnórs góða Rauðæings. Víga-Glúmr var faðir Más, föður Þorkötlu, móður Þórðar, föður Sturlu *(Landn. 3. 16)*.

2. Helgi enn magri gaf Hámundi mági sínum land milli Merkigils ok Skjálgdalsár, ok bjó hann á Espihóli enum syðra. Hans son var Þórir, er þar bjó síðan; hann átti Þórdísi Kaðalsdóttur. Þeira son var Þórarinn á Espihóli enum nyrðra, ok Þorvaldr krókr á Grund, enn Þorgrímr í Möðrufelli var eigi hennar son. Vigdís var dóttir þeira. *(Ldn. 3. 16)*.

3 . . . . . . Annarr son hunda-Steinars ok Ólofar hét Eiríkr. Hann var faðir Sigurðar þjóða-skalla, föður víkinga-Kára, föður þeira Böðvars

ok Vigfúss ok Eiríks á Ofrustöðum, föður Ástríðar, móður Óláfs konungs Tryggvasonar. Dóttir Vigfúss var Ástríðr, móðir víga-Glúms, föður Vigfúss, föður Bergs, föður Steinunnar, móður Þorsteins rangláts, föður Guðrúnar, móður Höllu, móður Flosa, föður Valgerðar, móður herra Erlends lögmanns, föður herra Hauks lögmanns. *(Landn. í viðaukanum).*

4. Eysteinn, son Rauðólfs øxna-Þóris sonar, nam land niðr frá Bægisá til Kræklingahlíðar, ok bjó at Lóni. Hans son var Gunnsteinn, er átti Hlíf, dóttur Heðins ór Mjólu. Þeira börn váru þau Halldóra, er víga-Glúmr átti, ok Þorgrímr ok Grímr eyrarleggr. *(Ldn. 3. 14).*

5. Maðr hét Þórðr slítandi; hann nam Hörgárdal upp frá Myrká ok ofan til Dranga öðrum megin. Hans son var Örnólfr, er átti Ingvildi allra-systur; þeira synir váru þeir Þórðr ok Þorvarðr í Kristnesi ok Steingrímr at Kroppi. *(Landn. 3. 14).*

6. . . . . . Vigfúss víga-Glúmsson vá Bárð, son Halla ens hvíta, ok er um hann ort Bárðardrápa, er þetta er stefit í:

**Bároðr of rístr báru**
**braut land varar andra.**

Enn Brúsi, bróðir Bárðar ok Orms, orti vísu þessa, þá er Glúmr stökk af þinginu:

Höfum vér vágs ór vígum
váið herir þót lög þveri
stóðs við stýrimeiða
stafn fær hart jafnan
þó hygg ek fyr viðu
fleygarðs enn mik varði
beiði hlökk fyr brekku
bliks harðara miklu.

*Melabók (sbr. Landn. 3, 16).*

7. . . . . . Narfi var (ok) son Arnar, er átti Úlfeiði Ingjalds dóttur ór Gnúpafelli, Helga sonar ens magra; við hann eru kend Narfasker. Þeira synir váru Ásbrandr, faðir Hellu-Narfa, ok Eyjólfr, faðir Þorvalds í Haga, ok Helgi, faðir Gríms á Kálfskinni, er átti Helga Þórðar dóttir frá Stokkahlöðum, Rafns sonar. — Þorvaldr ór Haga myrði Grím, bræðrung sinn. Þá sök sótti Einarr Eyjólfsson á Vöðlaþingi, enn víga-Glúmr varði ok Már son hans, stjúpfaðir Þorvalds, er átti Halldóru spak-Böðvarsdóttur ok bjó þá í Hrísey. Í þeiri deild stökk Glúmr af þinginu fyrir mel ofan, alt at sjó. Um þat orti Einarr:

Þröngvir varð á þingi
þrema linns at rinna
varat í Ála éli
auðlattr fyr mel brattan
þá er mástéttar máttit
Mæfils við þröm sævar
geiranjótr á grjóti
Gestils klauf of festa.

Enn Einarr stóð eftir ok lið hans. Þá kvað Glúmr:

> Lattist herr með höttu
> Hangatýs at ganga
> þóttit þeim at hætta
> þekkilegt fyr brekku,
> þá er dynfúsar dísir
> dreyra más á eyri
> bráð óx borginmóða
> blóðskjaldaðir stóðum.

Glúmr skaut í hönd Einari, enn Einarr skaut til bana Grím, bróður Halldóru, er Glúmr átti. – Enn Þorvaldr varð sekr á þinginu. *Melabók*, sbr. *Landn.* 3, 13).

## Vísnaskýringar.

1 (Víga-Glúmr). Menþöll, inn grœni garðr gengr nær mér ok öllum minum hjúum enn oss of varði. — Þverr við glaum.

Síðari vísuhelmingrinn er eitthvað aflagaðr, enn þessi fyrri helmingr þarf engrar skýringar.

2 (Víga-Glúmr). Ek sá, ísungs jörð[1], hauks holms fúra dísi[2] fara í miklum auka und hjalmi at Eyjafirði.

1. *ísungr*, höfuðdúkr; ísungs *jörð* kvenkenning. — 2. *hauks-hólmr* hönd; *fúrr* eldr; handarelda-*dís* kvenkenning.

Síðari helmingrinn verðr ekki fullskýrðr að sinni.

Eg sá, kona, kvenmann fara með geisingi inn Eyjafjörð og hafði hjálm á höfði; þótti mér í drauminum hún taka við fjöllin.

3 (Víga-Glúmr). Þessi vísa er áðr skýrð í víga-Skútu sögu.

4 (Víga-Glúmr). Ek sofna eigi sœtan í þeima bœ ....[1] — munat eldviðum öldu[2] auðbœtt við mik — áðr grindlogi Göndlar[3] gellr meir í hattar felli[4] nökkurum þeira. — Oft vá ek mann of minna.

1. orðin, sem hér vanta (*ofnis ysheims*), geta ekki verið rétt, og verðr ekki komið saman við önnur orð í vís-

unni. — 2. *öldu-eldiviðr*, mannkenning. — 3. *Göndul*, valkyrja; Göndlar *grindlogi*, sverð. — 4. *hattar fell*, höfuð.

Eg sofna eigi sætt í þessum bæ .... — þeim verða eigi auðbættar sakir við mig — áðr enn sverð kveðr enn við í höfði nokkurum þeirra. Eg hefi oft vegið menn fyrir minni sakir.

5 (Víga-Glúmr). Harðgeðr Limafjarðar húna dyn-Njarðr[1] lét mik of barðan — ek sá þat í dóms draumi — enn ek þóttumk, keyrðr þjósti, snarr of ljósta sævar-hrafns beinanda[2] þrádráttar steini[3] í svefni.

1. *Limafjarðarhúnn* skip; skipa *dyn-Njarðr*, mannkenning. — 2. *sævar hrafn*, skip; skips beinandi, mannkenning. — 3. *þrádráttarsteinn*, harðsteinn, brýni.

Mér þótti í draumi Þórarinn berja mig með harðsteini, enn eg þóttist reiðast og ljósta hann þegar með brýni (eða öðrum harðsteini).

6 (Víga-Glúmr). Menstiklir[1] sá mikla goðreið[2] of tröð — sverðabrak mun verða; grára geira kveðja es komin, — þars vígmóðar eggmóts Ásynjur[3] jósu fram blóði of vegna seggja för[4]. Vinir fagna því.

1. *menstiklir*, mannkenning. — 2. *goðreið*, reið goða (hér eru það valkyrjur). — 3. *eggmót*, orrusta; eggmóts *Ásynjur*, valkyrjur. — 4. *för seggja*, flokkr manna. — För er tilgáta Jóns Þorkelssonar, og er svo líkleg, sem margar leiðréttingar hans í fornvísum, að naumast þarf að efa, að hér sé hitt á hið upphaflega orð, sem hæglega gat verið misritað fjör.

Eg sá goð (gyðjur) ríða í garð; það mun verða fyrir bardaga, — þar sem vígmóðar valkyrjur jósu blóði yfir fallinn val. Vinir fagna því.

7 (**Víga-Glúmr**). Vísa þessi virðist vera talsvert aflöguð. Dr. Jón Þorkelsson hefir getið til, að skalat ætti að standa í 3. vo. í staðinn fyrir erat, sem í handritunum stendr, og hervíg í 6. vo. í staðinn fyrir hörveig. 7.—8. vo. er tekið eftir Hóla útgáfunni, því að þessi vísufjórðungr finst ekki annarsstaðar, og hefir Jón Þorkelsson getið til að munat í 7. vo. ætti að vera munom, enn þá vantar þó enn skothendinguna í það vísuorð.

Víns virkis hirði-Sif[1] spyrr at verkum mínum — skalat at[2] manna máli — þau morð váru forðum. Þeims hrafn of huggar[3] liggr gerva[4] talið hervíg. Munum láta málin svá myrk, at sem fæst yrkjum um.

1. *Sif*, Ásynja; *víns virki* vínker; *víns virkis hirði-Sif*, kvenkenning. — 2. *at* = á: það skal ekki hafa orð á því. — 3. *þeims hrafn of huggar* = þeim sem hrafninn huggar, þeim sem hrafninn gleðr eða *þeims hrafn of hugga*, þeim sem gleðja hrafninn, bardagamönnum. — 4. *gerva* = gerla.

Kona spyr að verkum mínum, það skal ekki hafa orð á þeim. Þau morð vóru fyrir löngu. Alkunnugt víg liggr (óbætt) þeim er hrafn hugga(r). Vér munum láta þessi mál vera myrk, og sem fæst yrkja um þau.

8 (**Víga-Glúmr**). Ek rudda mér til landa *með oddi* — forðum lék orð á því — með veðrstöfum Viðris vandar[1]. Nú hefir varrar skíðs (bendis) Valþögnir[2] vegna sér úr hendi breiða jörð með börðum[3].

Í handritunum stendr: Rudda ek sem jarlar, og svo er það í Snorra-Eddu, þar sem þessi vísuhelmingr er. Enn með því að aðalhending vantar í vísuna, þá hefir J. Þ. getið til, að hér ætti að standa með oddi, enn Konráð Gíslason hefir getið til að lesa eigi: Rudda ek ár sem jarlar, og verðr þá einnig borgið hendingunni. Orðið bendis veit ég ekki hvað er; ég sé ekki að hægt sé að

láta *varrar skíðs bendis Valþögni* vera mannkenning; sér er tilgáta dr. J. Þ. fyrir mér.

1. *Viðrir*, Óðinn; *Viðris vöndr*, sverð; *Viðris vandar veðrstafir* mannkenning. — 2. *Valþögnir*, Óðinn; *varrar skíð*, skip; skips-Óðinn, mannkenning. — 3. *með börðum* = til yztu ummerkja.

Eg ruddi mér til landa (at Þverá) með vopnum (fyrrum); lék þá orð á því með mönnum. Nú hefir farmaðrinn (skáldið) um síðir vegið úr hendi sér stóra jörð til yztu ummerkja.

9 (Víga-Glúmr). Máligr menbrjótandi[1] munat hljóta þá sælu, es vér sátum fullkátir fjóra tegu vetra. Nú á fleinmarar mógrennir[2] sér minna met. Breiðr bøggr[3] kom oss í búðir af einu høggvi.

Máligr gæti líka verið málreifr, og svo hefir Jón Þorkelsson getið til í Tr. III, 123.

1. *menbrjótandi*, mannkenning. — 2. *fleinmarr*, blóð; *mór* = már; *grennir*, seðjandi; *fleinmarar mógrennir*, mannkenning. — 3. *bøggr*, líklega (skylt sagnorðinu bagga eða nafnorðinu baggi, byrði) skaði.

Hér er alveg fylgt skýringu Jóns Þorkelssonar í Tr. III, 123—124.

Hinn málreifi maðr (skáldið) mun eigi hljóta slíka sælu, sem þá er vér sátum glaðir fjörutíu vetr. Nú á hann sér minna met. Mikið tjón kom á heimili vort af einu höggi.

10 (Brúsi Hallason). Vér eigum, stafn-Göndul[1], jafnan vegs hlut af vígum við borða stóðs stýrimeiða[2] — ek veit orð á því. Þó hygg ek fleygarðs fúrviðu[3] fóru harðara miklu fyr brekku enn mik varði, bliks-beiði-Hlökk[4].

Eigum er tilgáta J. Þ. fyrir höfum.

1. *stafn*, ker (sbr. ölstafn), *stafn-Göndul*, kvenkenning. — 2. *borða-stóð* = borðahestar; borðahesta-stýrimeiðar, menn. — 3. *fleygarðr*, sjór; *fúrviðr*, eldviðr; sjávareldviðir, menn. — 4. *blik*, að blíkja léreft; *bliks beiði-Hlökk*, kvenkenning.

Vér eigum, kona, jafnan vegs (virðingar) hlut af vígum við hina — svo er sagt. Þó hygg eg, að þeir færi miklu harðari fyrir brekkuna en mig varði, kona.

11 (Einarr Þverœingr). Þrengvir Ála þremja linns[1] varð at rinna í éli fyr brattan mel — vas at auðlattr, þá es geira njótr[2] máttit[3] of festa klauf á Mæfils marstéttar grjóti[4] við sævar þröm.

1. *Áli*, sækonungr, Ála þrömr, sjór: sjávar *linnr* skip; *þrengvir Ála þremja linns*, mannkenning. — 2. mannkenning. — 3. *máttit* = mátti eigi. — 4. *Mæfill*, sækonungr; *Mæfils marr*, sækonungs hestr, skip; Mæfils *marstétt*, fjara?

5. vísuorðið er líklega aflagað.

Glúmr varð að renna úr bardaganum fyrir brattan mel. Var ekki hægt að letja hann, þá er hann gat ekki fest fætr á fjörugrjótinu við sjóinn.

12 (Víga-Glúmr). Herr lattisk at ganga með höttu Hangatýs[1]; þóttit þeim þekkilegt at hætta fyr brekku, þás stóðum skjaldaðir á eyri dynfúsir[2] dreyra svells dísar[3]. Blóðs bráð óx borginmóða[4].

1. *Hanga-Týr*, Óðinn; *Hanga-Týs höttr*, hjálmr. — 2. *dynfúsir* = fúsir í dyn. — 3. *dreyra svell*, orrustuvöllr; *dreyra svells dís* valkyrja; valkyrju *dynr*, bardagi. — 4. *borginmóði*, hrafn.

Herinn tók að letjast að ganga með hjálmana, þótti eigi fýsilegt að hætta sér fyrir brekkuna, þá er vér stóð-

um skjaldaðir á eyrinni fúsir að berjast. Hrafn fekk meiri bráð.

18 (Víga-Glúmr). Ilt es of orðit á jörð — aldr bölnar[1] skaldi mjök, — liðit er mest it móða líf mitt — es ek má eigi tyr seggjum hefna ofvegins Gríms eyrarleggs í Göndlar flaumi.

Orðin Heðins drífu og Gefnar, sem eru í vísunni, er ekki víst hvar eiga að vera í röðinni.

Um vísu þessa hefir dr. Jón Þorkelsson skrifað mér í þessari svipan:

„Það á að lesa bölna (= verða ógiftusamlegr) fyrir bölva. bölna er myndað af viðlagsorðinu bölr, illr, óhamingjusamlegr, á sama hátt sem fölna af fölr. Viðlagsorðið bölr finst í Lokasennu 49: ‚böl er beggja þrá' = vöntun hvorstveggja er óhamingjusamleg eða meinleg. böl er hér kvenkyn af bölr, eins og föl er kvenkyn af fölr. Í sömu vísu á að lesa ofvegins = drepins; *ofveginn* þýðir ef til vill því miðr drepinn; sömu merking hefir of í ofl átinn. Þetta of er eigi hið útfyllanda of (of expletivum)“.

Í staðinn fyrir meira, sem í handritunum stendr síðast í 3. vo., er hér sett móða, enn dr. J. Þ. hefir einnig getið til að þar ætti að vera: liðit er mér it mæra.

1. *Göndlar flaumr*, bardagi.

Ilt er orðið að lifa, — ellin verðr mér ógiftusöm, líf mitt er að mestu liðið — er eg má eigi fyrir öðrum mönnum hefna Gríms eyrarleggs, sem illu heilli hefir verið veginn.

## Athugasemd við vísnaskýringar.

---

Halldór Kr. Friðriksson hefir fengizt við að skýra tvær vísur í víga-Glúms sögu í Tr. Bmf. III. 189—206, og hefir gleymzt að geta skýringa hans hér að framan. Það eru 6. og 9. vísan.

6. vísuna hefir hann þannig:

Menstiklir sá mikla
— mun sverðabrak verða —
— komin er grára geira —
— goðreið of tröð — kveðja,
þars Ósynjur jósu
eggmóts of fjör seggja
— vitnir fagnar því — vegna
vígmóðar fram blóði.

Enn vísuna færir hann þannig til óbundins máls:

Menstiklir sá mikla goðreið of tröð, þars Ósynjur eggmóts jósu fram blóði vegna (veginna) seggja of fjör (*fjör* þolf. af fjörr, viðr; hér skógr = Hrísateigr).

Um skýringu þessa er það að segja, að hún er ólíklegri enn sú, sem hér er að framan, einkum orðið fjörr = viðr, og vegna = veginna. Í Hóla útgáfunni stendr för, og með því orði getr vegna staðizt. Hins vegar er alllíkleg tilg. H. Kr. Friðrikssonar um, að vinir fagna því eigi að vera — vitnir fagnar því, þ. e. úlfrinn fagnar því, og yrði þá síðari vísuhelmingrinn þannig (því er óþarft):

þars Ásynjur jósu
eggmóts of för seggja
— vitnir fagnar — vegna
vígmóðar fram blóði.

9. vísuna hefir H. Kr. Friðriksson þannig:

Málörr munat enn sælu
menbrjótandi hljóta
— oss kom breiðr í búðir
böggr af einu höggvi —,
þá es — fleymærar — fjóra —
fullkátir vér sátum
nú es — mógrennir — minna
mitt setr — tigu vetra.

Þ. e. Málörr menbrjótandi munat enn hljóta sælu þá es vér sátum fullkátir fjóra tigu vetra; nú er mitt setr minna, fleymærar mógrennir, o. s. frv. — *Fleymærar mógrennir* þýðir hann: *fley*, skip; mærr; land, fleyland, sjór; *mór*, hestr, og verðr þetta mannkenning.

Enn fremr hefir séra Janus Jónsson í Holti reynt að skýra síðari helming þessarar vísu í Tr. III. 111—122, og hefir hann hana þannig:

áðr — fleymærar — fjóra
fullkátr vér sátum,
nú er — mórennir — minna
mitt set — tigu vetra.

Þ. e. áðr sátum vér fullkátir fjóra tigu vetra, fleymærar mórennir; nú er mitt set minna. — Virðist sú skýring vel geta staðizt. — *Fleymærar mórennir* er þá = sjávar mórennir (sjávar-hest-rennir), mannkenning. — *Mó* er þolf. af mór hestr.

# Nöfn.

# Leiðréttingar.

*Bls.* $7_{6}$: þangt *les* þungt.
*Bls.* $59_{11}$: þrádáttar *les* þrádráttar.
*Bls* $60_{10}$: fjör *les* för *(í sumum eintökum).*

